fyrirhyggjan, hugvitssemi þeirra Úlfljóts og Þorleifs hins spaka, er ollu byltingunni. Þeim hefur þótt það fyrirsjáanlegt, að lögrjettan e i n mundi alls ekki geta annað öllu því lagastarfi og dómstarfi, er á henni hlaut að hvíla, á þeim fáu dögum, sem henni var ætlað að starfa.

Landið var svo stórt og íbúatalan þá þegar orðin svo mikil, að búast mátti við miklu fleiri málum en t. d. í þeim 3 fylkjum vestanfjalls í Norvegi, er áttu þing saman (sbr. Egilss.). Því var þetta snjallræði tekið, að greina dómsvaldið frá löggjöfinni þegar í upphafi. En eftir því verður að taka, að þessi breyting var ekki smáræði á þeim tímum; hún var hrein og bein bylting, eins og jeg kallaði það.

Dómstóll var því frá upphafi sjerstakur á alþingi, og eflaust í honum 36 menn, — sama talan og í lögrjettunni. Þessi dómur var víst nefndur eða gat verið nefndur Alþingisdómur (svo V. Finsen).

Svo sem öllum er kunnugt, var ærið róstusamt á 10. öld á Íslandi og lángt fram á 11. Vígaferli og barsmíðir og margar aðrar móðganir í orði og verki áttu sjer stað svo að segja daglega. Ótal mál risu af þessu og komu fyrir alþingisdóm. Því má nærri geta, að þeir 14 dagar, er þíngið stóð, hrukku ekki til allra þessara mála, enda voru það heldur ekki fullir 14 dagar, sem um var að tefla, því að tveir dagar gengu frá að minsta kosti. Hvað skyldi nú taka til bragðs, er tíminn hrökk ekki til?, hvað nema leita ráðs um umbætur? Lá þá ekki beint við að segja sem svo: vjer skulum skifta dóminum eftir landsfjórðúngum og láta hvern fjórða part dæma mál úr hverjum fjórðúngi? Það var líkt og þegar nú eru settar nefndir. Þetta hefði verið snjallræði, hafi það verið gert. Þar með mátti og segja sem svo: hjer koma svo mörg mál úr fjórðúngi hverjum, það er auðvitað, að þeir sem eiga heima í fjórðúnginum eru færastir til að dæma vegna kunnugleiks, hinir síður, er úr öðrum bygðum eru. Íslandi öllu mátti ekki líkja við Gulaþingsfylkin 3 saman.

Fyrst framan af hafa menn líklega skoðað hvern

fjórðúngsdóm sem part af hinum almenna alþíngisdómi, en þegar frá leið gleymdist þessi uppruni, en vaninn olli því, að enginn hneyxlaðist á því, að hjer varð og var um 4 alveg sjálfstæða fjórðúngsdóma að tala með 9 dómendum hvern. Dómarnir fengu eðlilega nafn eftir þeim fjórðúngi, sem þeir voru fyrir.

Hefðu nú dómarar verið 36 í hverjum dómi, þá hefðu þar verið 27 menn úr öðrum hlutum landsins en þeim hluta, sem dómurinn var fyrir. Hvernig var þá eðlilegt, að hver dómur væri nefndur eftir þeim 9 manna minnihluta, sem úr var þeim fjórðúngi? Um þetta hefur Vilhj. Finsen komist svo að orði, að ekki verður það betur gert: »Samkvæmt skoðun P. Melsteðs og K. Maurers hafa í hverjum fjórðúngsdómi verið 9 dómarar, er nefndir voru af goðunum í Austfirðíngafjórðúngi meðal þíngmanna hans, 9 nefndir á sama hátt af goðunum í Sunnlendíngafjórðúngi, 9 nefndir af goðunum í Vestfirðíngafjórðúngi og 9 af goðunum í Norðlendíngafjórðúngi. Í hverjum fjórðungsdómi voru þá jafnmargir dómarar úr hverjum fjórðúngi. Allir fjórðúngsdómar hefðu þá líkst hver öðrum sem einn vatnsdropi öðrum. Það er nú auðsjeð, að það hefði verið alveg óeiginlegt og ekki annað en valdboð (vilkårligt) að tákna nokkurn einstakan af þessum dómum, er svo voru til orðnir, sem dóm fyrir þann og þann ákveðna fjórðúng og nefna hann eftir fjórðúnginum. Eftir t. d. nafninu »Austfirðíngadómur« skyldu menn ætla, að í honum sætu Austfirðíngar [að minsta kosti meiri hlutinn, F. J.], en í honum var í raun og veru ekki nema fjórði hluti frá þessum landshluta, en hinir $^3/_4$ voru utanfjórðúngsmenn; það var ekkert sem einkendi þennan dóm fyrir þenna fjórðúng framar en fyrir hvern hinna fram«.

Það má nú segja sem svo, að það sem hjer hefur verið sagt sjeu tómar hugleiðíngar; það er það líka, að því viðbættu þó, að enginn getur neitað, að þær sjeu næsta sennilegar og eðlilegar.

Vjer viljum nú líta á, hvað lögin fornu (Grágás) segja. Hr. E. A. hefur tilfært flesta þá staði sem hjer er um að ræða. Þeir skulu hjer taldir:

1, a, skal goði hverr[1]) nefna mann í dóm.
b, skal goði hverr nefna sinn þriðjungsmann í dóm. Grágás I a 38.
2, goði skal ganga í hamraskarð ok setja niðr þar dómanda sinn. I a 39.
3, þá skal goði setja niðr dómanda sinn. I a 45.
Sbr. 4, þá eigu goðar ut ganga með dómendr sína. Sst.

Alla þessa staði tilfærir E. A. nema 3. Öll þessi orðatiltæki hefur V. F. skoðað sem ótvíræð vitni þess, að hver goði hafi ekki haft nema einn dómanda fyrir að sjá. Enda liggur það beinast við. Alstaðar er eintalan höfð; mætti það þykja fyrirmunun, ef goðinn hefði nefnt fleiri (en einn), að aldrei skuli vera höfð fleirtala. Ef goðinn hefði nefnt fleiri en einn, væri hjer ófyrirgefanleg ónákvæmni í orðanna hljóðan og ólík því sem annars á sjer stað. Rjett á undan 1a stendur: »vér skulum .iiij. eiga fjórðúngsdóma« — hjer á eftir hefði mátt búast við að staðið hefði (í 1 a) ekki »dóm« heldur »dóm hvern«. Hr. E. A. játar sjálfur (bls. LXVIII), að sú skýring liggi nær, »að hver goði skyldi aðeins nefna einn mann í einn dóm«. Þetta er mikilsverð játning, en brýtur þó undarlega bág við ályktun hans. Hann bendir til að annarstaðar sje slept »hverr«, þar sem líkt sje ástatt, »t. d. I a 51²«, en þessi staður er ekki gildur, því að þar merkir »dómr« (í »áðr dómr fari út«) ekki »hverr dómr«, heldur »sá dómur, sem í hvert skifti á i hlut«, en það er ekki sama. Um hinn staðinn ($39_3$ að neðan) er líkt að segja: þar stendur »(sakar . .) er til fjórðungsdóms skal« (lýsa eða stefna), hjer er »fjds« sama sem »þessa eða hins«. Það verður því að vísa til annara staða en þessara, ef duga skal.

Um 2. staðinn (sem er reyndar = 3. staðurinn) segir hr. E. A. sjálfur (s. LXIX): »Þessi staður bendir ótvírætt (gleiðletrað hér) á það, að hver goði hafi alls nefnt

---

[1]) Svo, ekki „hverr goði" (E. A.), sem þó er auðvitað sama. Eins skiftir E. A. orðunum „niðr þar" (í 2) um.

einn dómanda, því að annars hefði átt að standa »dómendr sína«. Þessu er jeg alveg samdóma, aukin heldur sem sama stendur tvisvar. En ef nú þetta er »ótvírætt« — þá skil jeg ekki betur en alt sé »klappað og klárt«. Mjer er ekki unt að skilja áframhaldið hjá hr. E. A. »En þó er hann eigi úrslitastaður« — segir hann. Hjer rekst hvað á annað. Ef staðurinn er »ótviræður« — og það hygg jeg, hann sje — þá er hann einmitt »úrslitastaður«.

Grágás ákveður, að »(goði skal) kveða á í hvern dóm hann nefnir«. Hjerum segir hr. E. A., að þetta ákvæði hafi verið óþarfi, því hafi um einn ákveðinn dóm verið að ræða, var það vitanlegt, hver hann var. En hjer gleymir hr. E. A., að þetta og þessu lík ákvæði koma þráfaldlega fyrir og þess krafist að dómur eða menn skyldu nefndir, þótt enginn vafi gæti verið um það, hver væri meintur. Sú viðbára er því með öllu marklaus. Það þarf ekki annað en t. d. benda á, að við griðamál og trygða skyldu málsaðilar nefndir á nafn, og þó vissu allir, hverjir þeir voru. Þessi nákvæma nafngreining og ákvæði heyra beinlínis til formi (formalismus) hinna fornu laga.

Hr. E. A. getur svo um »orðtök [svo í fleirt.] í Grágás«, er bendi á að goði hafi nefnt í fleiri dóma en einn, og vísar til eins staðar (eru til fleiri?, og hverjir eru þeir þá?); »at því vætti . . at ek spyr þik (ɔ: goðann, er kvaddur er tylftarkviðar) at því . . .[1]) ef þú hefir goðorð fult, at þú nefnir dóma fulla með«. Hjer þarf alls ekki að vera átt við fleiri fjórðúngs-dóma en einn; fleirt. hjer getur eins vel þýtt mörg mál í sama dómi eða dóma ár eftir ár (því sami goðinn var vitanlega goði mörg ár í senn, svo að segja ævilangt eða við því mátti búast að minsta kosti). Þetta er ekki annað en alment orðatiltæki. Það er víst, að þessi eini staður er ofveill grundvöllur.

---

[1]) Hjer stendur: „ok nefna goðann“ — en var eiginlega nokkur „þörf“ á því?

Svo er annað höfuðatriði, sem hr. E. A. svo að segja hleypir alveg úr. Hann getur að sönnu um (á bls. LXXI) að ákvæðið um, hve fáir skyldu ganga til vefangs (nfl. 6), sanni ekkert, »því að nákvæmlega sama regla var um vefang á Vorþingum, og er þó beint ákveðið, að þar skyldu 36 menn sitja í dómi«. Þetta er satt, og jeg skal ekki gera mikið úr því, að V. Finsen hefur álitið, að talan »6« væri hjer röng (bls. 22, 5. athgr.) og þó er athugasemd hans engan veginn að vettugi virðandi. Ákvæðið gæti verið hugsanlegt sem bein stæling á því sem átti sjer stað í alþíngisdómi, enda er og beinlínis vitnað til hans á þessum stað í Grágás, sem hjer er átt við. Þessi staður er því harðla ómerkilegur.

En önnur ákvæði um aðferð í alþingis- ɔ: fjórðúngs- dómi tel jeg miklu merkilegri. Það eru þessi:

1, upphafið á 29. grein um hlutföll: »Ef vi. dómendr eru út komnir eða fleiri, at þat er rétt« o. s. frv. (Grág. I a 53),

2, »ok sækja þat sumar í enn sama dóm þegar er vi; dómendr eru út komnir í setur sínar eða fleiri, enda verðr jafnfullr þá dómr þeira sem þeir dæmi allir«, (I a 75) sbr. (sst.): »verðr dómr þeira fullr þóat þeir dæmi eigi fleiri um þar en .vi.« o. s. frv. og (s. 75): »þá á jafnt dómr þeira at standask, er um vilja dæmt hafa, ef þeir eru .vi. menn eða fleiri, sem dómrinn sé fullr«.

Hjer er alstaðar ákveðið, að »minst 6« (það merkja orðin »vi. menn eða fleiri«) dómendur skuli geta felt löglegan dóm. Eru nú nokkur líkindi til, að menn, sem annars bjuggu svo trúlega um alt, hafi farið svo illa og ósæmilega að ráði sínu, að ekki nema 6 af 36 — einn sjötti hluti af fjórðúngsdómurum — hafi verið nógu margir til að leiða mál til lykta með dómi? Jeg get í öllu falli ekki ekki hugsað mjer slíkt. Hins vegar verður talan 6 að öllu leyti skiljanleg og skynsamleg, ef talan var 9; það þurfti þá $^2/_3$ til þess að dómur yrði dæmdur; þetta atriði er í mínum augum lángmerkast og áríðamest — og V. Finsen kallar það (bls. 21) »et slaaende argument«.

Asamt orðatiltækjunum sem áður voru nefnd finst mjer þetta atriði væri »ótvírætt« og fullkomið »úrslita«-atriði.

Einn er enn staður, sem hr. E. A. ræðir nokkuð rækilega um (s. LXVIII—IX) það eru orðin: »eða nefnir í annan dóm en hann hafi hlotit« (I a 39). Í snöggu áliti má þessi staður virðast lítt skiljanlegur og svo hefur sumum þótt hann, eins og hr. E. A. tekur og fram. Mjer hafa þessi orð aldrei sýnst svo óskiljanleg. Það er satt að maður skyldi ekki halda, að það hefði verið gert ráð fyrir því, að goði gæti ruglast um dómnefnuna. En hjer er með þetta, sem það er áður var um getið, að nákvæmni í öllu formi var svo að segja takmarkalaus og stránglega heimtuð. Hvað var ekki hugsanlegt að gæti komið fyrir? Þessi setning er eitt dæmi þess, sem nefnt hefir verið »casuistik« í Grágás. Oss finst þar oft freklega lángt farið og margt óþarflegt, en það má ekki fara eftir því, hvað oss finst nú. Frá þessu sjónarmiði verður setníngin mjer fullskiljanleg. Orðin »hann hafi hlotit« má ekki skilja svo, sem »hann hafi fengið með hlutkesti«; hjer er alls ekki um neitt hlutkesti að ræða. Orðin merkja blátt áfram: »honum hafi hlotnast«, annaðhvort af því að hann er fæddur goðorðsmaður eða hefur fengið goðorðið að gjöf eða á annan hátt. Setníngin merkir blátt áfram og ekkert annað en »eða nefnir mann í dóm, sem hann hefur engan rjett til að nefna í«. Ef nokkuð mætti leiða út af setníngunni, yrði það helst það, að goðarnir hefði aðeins nefnt menn í einn dóm hver. Og jeg er hr. E. A. alveg samþykkur er hann segir: »Ef hver goði nefndi aðeins einn mann í einn fjórðúngsdóm þá er ákvæðið mjög eðlilegt« (gleiðletrað hjer).

Þetta er jeg hef tekið hjer fram má að mestu leyti skoða sem útdrátt af orðum V. Finsens, og jeg vil skjóta því að öllum þeim, er hugsa vilja um málið, að lesa það, sem hann hefur ritað, í heild sinni og með athuga.

*Finnur Jónsson.*

---

# Jöklar á Íslandi í fornöld.

### Athugasemd.

---

Í Andvara 1916 er löng og fróðleg ritgerð eftir prófessor Þorv. Thoroddsen um veðráttu og landkosti á Íslandi í fornöld o. fl.

Prófessor Þorvaldur gerir, að því er eg hygg, of lítið úr breytingum þeim, sem orðið hafa hér á loftslagi síðan landið bygðist. Jöklarnir í fornöld — segir höf., bls. 76 — hafa að öllu verulegu haft sömu takmörk eins og nú. En þetta er óefað ekki rétt; jöklar virðast vera til muna stærri nú, en þeir voru á landnámstíð og fram á 13. öld.

Saga Markarfljóts virðist sýna þetta glögglega. Í fornöld virðist Þverá ekki hafa verið til, og nafnið á Affallinu bendir til þess, að sú kvísl hafi ekki fallið úr fljótinu, þegar menn sáu það fyrst. Af Egils sögu, 23. kap., má sjá, að Rangá (ytri) hefir á landnámstíð runnið alla leið til sjávar, og svo var enn þegar Egils saga var rituð, sennilega á fyrri hluta þrettándu aldar. Örnefnið Rangársandur, sem á ekki við nú, er sjálfsagt frá þeim tíma, er Rangá féll alt í sjó fram.

Það virðist augljóst, að Markarfljót hefir þurft að vaxa mjög mikið til þess að leggja Rangárnar undir sig. En hinn mikli vöxtur Markarfljóts stafar óefað af því, að jöklarnir, sem fljótið kemur úr, hafa vaxið til muna. Vatnanöfn austar benda í sömu átt; engum kæmi til hugar nú á dögum, að kalla Jökulsá á Sólheimasandi eða Hverfisfljót læki, eins og áður var gert. Að Skeiðará ræður nú nafninu á sandinum en ekki Lómagnúpur, eins og til forna, kemur sjálfsagt af því, að áin óx svo mjög

að sandsins varð ekki minst svo, að áin kæmi ekki í hugann miklu fremur en gnúpurinn, svo svipmikill sem hann er. Þegar farartálmi fór að verða að ánni, hafa menn farið að kenna sandinn við hana.

Þá má enn minna, ef til vill, á Þórsmörk, sem nú eru að eins litlar leifar eftir af, og á skóginn breiða, sem Breiðamerkurjökull tekur nafn af; er þar nú skóglaust með öllu. Prófessor Þorvaldur virðist ætla, að jökulsárnar séu vatnsmeiri þegar jöklarnir eru minni; kennir þar misskilnings nokkurs hjá hinum mikla lærdómsmanni; efnið er flóknara en í fyrstu sýnist.

Jökulsárnar voru minni í fornöld, samtímis því sem menn fengust við kornyrkju sumstaðar þar sem nú er fullerfitt að rækta kartöflur, en bygð var talsverð sumstaðar þar sem nú er afréttur. Loftslag var óefað þá ekki verra en það er nú, heldur að öllum líkindum betra. Fleira um þetta efni má lesa í greinum mínum um loftslag á Íslandi í fornöld, Morgunblaðið 15. júlí og 23. sept. Rvík 1915.

*Helgi Pjeturss.*

---

# Fáfnir og forn þýzka.

## I.

Frá því segir í fornri sögu, er Fáfnir fór upp á Gnitaheiði og varð þar að ormi yfir gulli því hinu mikla og hinu illa fengna. Kann vera, að í þeirri sögu sé fleira en varir til íhugunar fyrir þá, sem meta málm hinn glófagra meira en vert er.

En um það ræðir ekki hér, heldur nafnið Fáfnir, hvað þýða muni. Virðist það augljóst. Fáfnir er fyrir Váfnir, sá sem vefur (sig utan um eitthvað). Er það slönguheiti gott. Fáfnir er þá sama sem ófnir; kemur það höggormsheiti fyrir í Eddu, og væri gott nafn á því, sem menn nefna kyrkislöngu. Annað heiti á höggormi, sem nefnt er í Eddu, er Sváfnir; þýðir það sá sem dáleiðir, svefur eða svæfir; er nafn þetta auðsjáanlega sprottið af þeirri trú, að höggormar geti svafið eða dáleitt bráð sína. Sváfnir er líka eitt af nöfnum Óðins, og má hér minna á, hvernig Óðinn svefur Brynhildi á Hindarfjalli. Mjög eftirtektarvert er það, að þegar Sigurður hefir vakið valkyrjuna af þessum svefni, sem Óðinn veldur, biður hann hana að kenna sér speki (goðspeki, nokkurs konar þeósófí) og gerir ráð fyrir að hún viti tíðindi »ór öllum heimum«. Verður vísindamanninum, sem leitar skilnings með samanburði, hér að minnast sögu einnar, sem »goðmálugur« maður, Emanuel Swedenborg, segir gerst hafa í andaheiminum (mundus spirituum). »Andar« nokkrir tóku á sig stuttrar stundar svefn, og er þeir vöknuðu, kváðust þeir verið hafa í himnaríki og séð óumræðilega hluti. Líkt er sagt af hinni nafnfrægu völvu guðspekimanna (þeósófa) Helenu Blavatsky;

kvaðst hún stundum, er hún hafði sofið svefn mikinn, hafa verið í Tíbet og séð meistara sinn.

Hafi menn séð til sanns eðli drauma, þá eiga þeir hægt með að skilja, að slíkar sögur eru ekki á engu bygðar, jafnvel þó að þeir trúi hvorki á andaheim Swedenborgs né á meistarana í Tíbet.

II.

Víkur nú aftur að nafninu Fáfnir. Dæmi slíkrar herðingar stafsins v í f, sem orðið Fáfnir sýnir, mætti telja úr íslenzku máli; vil eg minna á orðið fálki, sem mun vera af stofninum va, eins og valur og þýðir sama, nefnilega sá sem flýgur eða fer hart; af sama stofni hygg eg sé orðið foli og leitt af flýti hestsins. Stofninn va eða gva er mjög merkilegur og býsna mörg orð af honum sprottin; hygg eg að hljóð þetta hafi í fyrstu verið undrunaróp mannnsins er hann sá eldinguna, og er þá skiljanlegt, að orð þau, sem af þessum stofni eru leidd, tákna bæði ljós eða skin, og hraða hreyfingu. Er g-ið mjög oft fallið framan af orðum af þeim stofni og eigi sjaldan v-ið líka, en stundum hefir það orðið að f-i. Sú herðing er mjög algeng í þýzku; mun þar mega nefna orðið Fichte, sem þýðir grenitré. Til forna hygg eg tréð hafi nefnt verið viti, sem þýðir fyrst ljós eða eldur, en síðan eitthvað sem gnæfir hátt upp; viddi, sem þýðir jötunn, er víst ekki annað en afbökun úr viti. Að tréð hafi fengið jötunsheiti, verður ennþá líklegra þegar vér gætum að því, hvað fura er á þýzku, nefnilega Kiefer; það mun vera íslenzka orðið gífur, sem þýðir tröll, einkum tröllkona. Að grenið fekk jötuns nafn en furan skessu, má ef til vill, setja í samband við það, að barrið, »hárið« á furunni er miklu lengra en á greninu. Kiefer vilja menn skýra svo sem það sé dregið saman úr Kienföhre; en mér þykir það ólíklegra. Kien, fura eða eik, hygg eg sé orðið eikin, ei-ið fallið framan af; eins mun kein, enginn vera orðið til úr ekki einn: ki einn kein; eldri mynd þýzk er dechein.

Nafnið grantré eða greni kynni að vera leitt af því, að barrið eða »nálarnar« á því tré minna á grön ekki mikið sprottna. Grantré er á þýzku líka Tanne; það er íslenzka orðið Tanni; grenibarrið minnir á tennur í kambi. Tanni var mannsnafn til forna hér á landi. Sumir hafa haldið, að trjáheitið Tanne sé keltneskt að uppruna, en það nær engri átt.

Í þessu sambandi má minna á ensku sögnina to tan, sem þýðir að súta; en þetta er íslenzka orðið að tanna; minnir þetta á hvernig grænlenzka kvenfólkið »sútar« skinnin með því að tanna þau (eg hefi minst á þetta í Grænlandsför minni) og bendir til þess, að einhverntíma hafi forfeður Engilsaxa beitt líkri aðferð við skinnin.

Orðið fura er til á þýzku, en dálítið aflagað, Föhre. Á þessari aflöguðu mynd orðsins er ekki auðvelt að sjá hvað það þýðir í raun réttri; en orðið fúra er auðskilið, leitt af fúrr, eldur; það logar svo vel á furuviðnum að hann varð eldiviðurinn fremur öðrum, þar sem til hans náðist.

Geta má þess til gamans, að norræna orðið fúrr er til í frönsku, mjög lítið breytt, skrifað foudre; láta Frakkar það þýða elding. Er það orð ekki komið úr latínu eins og málfræðingar ætla, heldur frá Normandí, eins og svo margt í frönsku máli, þó að mjög sé afbakað. Orðaröðin í hinu svonefnda rómanska máli, frönskunni, er miklu nær íslenzku heldur en latínu, og er ekki vandfundið hvernig á því muni standa. Hinn norræni andi skipaði eftir sínu eðli rústum þeirra tungumála, sem urðu fyrir honum á Frakklandi, lappnesku(?), keltnesku, grísku og latínu, og ekki fá norræn orð höfðu sig jafnvel fram í franskt ritmál, en skæld og bjöguð oftast nær, svo að erfitt er að þekkja þau.

## III.

Þegar eg taldi málin á Frakklandi, sem Norðmenn hittu þar fyrir, nefndi eg ekki þýzku og þó hafa Norðmenn fundið þar fyrir talsvert af þýzku máli. Karl mikli, sem var svo illur Söxum, var af þýzkum ættum eins og

menn vita, og talaði þýzku. Mun geta orðið erfitt, þegar rekja skal uppruna franskra orða, að greina altaf vel á milli þess, hver orð séu þýzk að uppruna og hver norræn. Verður þessi erfiðleiki ennþá meiri, þegar þess er gætt, að þýzka og norræna hafa verið í fyrndinni miklu líkari en menn virðast ætla. Skal hér fært fram sitthvað af því, sem styður það mál mitt.

Tacitus, söguritarinn rómverski, getur þess að Þjóðverjar hafi nefnst Tungri. Það hygg eg sé sama sem Tungrar, í eintölu Tungarr, dregið af tunga, tungumál. Hygg eg að hinum fornu Geirmönnum (Germani) hafi fundist svo mikið um tungumál sitt, að þjóðin hafi þaðan nafn tekið. Svipuð tilfinning kom Grikkjum til að nefna aðrar þjóðir eftir því hvað þeim þótti tungumál þeirra ljótt og ófullkomið (barbari, sbr. babla).

Tacitus segir að aðalvopn Geirmanna hafi verið spjót og heitið á þeirra máli framea. Hygg eg að þar sé skrifvilla forn eða lesvilla útgefanda fyrir framca; en framka er íslenzkt orð og þýðir spjót; varð í framburði frakka. Af spjótsheitinu framka eða frakka nefndist svo þjóðkvíslin Frankar, sem Frakklandi hefir nafn gefið, líkt og Saxar eftir öðru vopni. Þykir mér af þessum sökum líklegra, að Germani þýði einmitt Geirmenn eða spjótmenn, einsog orðið Frakkar, en ekki Germenn (gervimenn). Að orðið Germani sé úr keltnesku, þykir mér afar ólíklegt, þó að merkir fræðimenn þýzkir hafi hallast að þeirri skoðun.

Barditus segir Tacitus (Germ. c. 3) hafi nefnst hersöngur Þjóðverja; skyldi þetta ekki vera miskilningur hjá hinum ágæta söguritara? skyldi barðit ekki vera skjöldurinn, röndin sem galað var undir (»objectis ad os scutis«, sbr. »undir randir ek gel«), en ekki nafnið á söngnum sjálfum? Þó að þetta væri nú ekki rétt þá mætti margt nefna, sem sýnir að mál hinna fornu Geirmanna var miklu líkara norrænu en nútíðar þýzka og það hygg eg að Sigmarr þessi hinn mikli (ingens visu segir Tacitus) tengdafaðir Armnis Herskúahöfðingja, og Íslendingur, sem ekkert kynni í nútíðar þýzku, mundu geta skilið hvor

annan. En ekki mundi Sigmarr (Segimerus) geta gert sig skiljanlegan Þjóðverjum nú á tímum, öðrum en þeim sem íslenzku kunna. Ræðir hér um merkilegt efni, sem margt fleira verður um sagt í heimsfræði minni síðar.

## IV.

Höfðingja þann sem Tacitus nefnir Arminius, kalla þýzkir rithöfundar Hermann. En mér virðist afar ólíklegt að hann hafi svo heitið. Rómverjar áttu hægt með að bera fram orðið Hermann (í latínu er til bæði herus og mannus), og það var engin ástæða til þess fyrir þá, að aflaga svo mjög nafn Cherúska (Herskúa?) höfðingjans að gera Arminius úr Hermann. Hygg eg að Arminius hafi á Túngaramáli verið nefndur Armnir eða Armvini, þó að ekki séu þau nöfn kunn.

Margar erfidrápur voru ortar eftir Arminius segir Tacitus; en allar eru þær týndar; er þar ekki stafur eftir, fremur en af öllum hinum fornu fræðikviðum, sem Tacitus getur um. Klerkarnir voru það sem eyddu svona fornu máli og fornum fræðum. Svo ríkur var hjá Þjóðverjum sá andi, sem einnig hafði það af að eyðileggja íslenzka söguritun, eins og vel má skilja af Árna biskups sögu, þar sem »fornorður« er látið vera lastmæli. Væri það fallegt verkefni að sýna fram á hvernig dauðamörk íslenzkrar sagnaritunar koma fram í Árna sögu og Lárentius sögu, þar sem áhuginn er allur á kirkjunni og hennar mönnum, en lítill á fegurð norræns máls, eða þeirri manntegund sem á Íslandi náði mestum þroska á þrettándu öld, í Sturlungaættinni, en úti í Evrópu í Hróðgeiri Bákna (Roger Bacon) og Friðriki keisara öðrum. Þesskonar menn einkenna framfaraaldir mannkynsins, slíkar sem þrettánda öldin var, framan af, og sextánda öldin, og ósigur þeirra er byrjun og orsök að afturfaraöldum, slíkum sem voru 14. öldin og 17. öldin, þó að sitthvað gott og framtíðarvænlegt greri þar í rústunum, einkum þegar á leið.

*Helgi Pjeturss.*

---

## Þú —!

Þú hefir sagt það svanni
og svarið við drengskap og trú,
að einum skyldirðu unna mér,
en annað sýnist mér nú.

Þú hézt því svipfríði svanni,
og sólin hlýddi' á þann eið,
að engum skyldirðu' unna sem mér,
en alt fer á sömu leið.

Þú hefir nú svikið mig svanni
og sólin döknaði' um leið,
og ég er að hugsa um harminn þann
er hjarta mér biturst sveið.

Þú hefir svikið mig svanni,
ég sé það og veit fyrst nú,
að ég þáði aðeins Júdasarkoss,
við jöfnum það síðar — frú!

*Arni Ola.*

# Ritfregnir.

---

**Arne Magnusson: Embedsskrivelser og andre offentlige aktstykker.** På Carlsbergfondets bekostning udgivet af Kr. Kålund. Gyldendalske Boghandel, Nordisk Forlag. København — 1916 — Kristiania.

**Arne Magnusson: Brevveksling med Torfæus (Þormóður Torfason).** På Carlsbergfondets bekostning udgivet af Kr. Kålund. Gyldendalske Boghandel, Nordisk Forlag. København — 1916 — Kristiania.

Með óþreitandi elju og ræktarfullri alúð heldur Kr. Kålund áfram að draga saman og gefa út alt það, sem á einhvern hátt snertir Árna Magnússon og miðar til að varpa ljósi á æfi hans og persónu, enda er Kålund málið skilt, þar sem honum sem bókaverði Árnasafns er trúað firir að gæta hinna dírmætu gersema, sem Árni hefur eftir sig látið. Hið stærsta og merkasta af ritum Kålunds, þeim sem hjer að lúta, er hin ágæta skrá hans ifir Árnasafn, sem kom út á árunum 1889—1894 í 2 stórum bindum, og filgir síðara bindinu mjög fróðlegur formáli, sem meðal annars rekur allgreinilega æfi Árna. Þá gaf hann út árið 1909 handritaskrár þær, sem Árni hafði eftir sig látið og geimdar eru í Arnasafni nr. 435 A-B, 4°. Og nú koma frá honum 2 stór bindi um Arna; hefur annað að geima embættisbrjef frá Arna og til hans, enn hitt brjef sem fóru á milli hans og Þormóðar Torfasonar.

Bæði þessi bindi eru stórmerkileg, ekki síst hið firnefnda, því að út úr því má lesa eigi aðeins æfisögu og lindiseinkunnir Arna sjálfs, heldur og meginið af sögu lands vors á firstu árum 18. aldar. Arni var um það leiti manna mest riðinn við helstu málefni landsins, því að árið 1702 var hann ásamt Páli þá varalögmanni Vídalín skipaður af konungi í nefnd til að rannsaka ástandið hjer á landi, og var þeim nefndarmönnum gefið mjög víðtækt erindisbrjef,

dags. 22. maí 1902. Eitt hið helsta starf þeirra skildi vera að semja níja jarðbók, sem átti að ná ifir alt landið. Enn jafnframt áttu þeir að gefa gætur að öllu því, sem aflaga fór í stjórn landsins eða í versluninni, og vóru þannig að nokkru leiti settir til höfuðs bæði veraldlegum og andlegum valdsmönnum og kaupmönnum, og sjerstaklega var þeim boðið að taka á móti kærum frá alþíðumönnum, sem höfðu verið beittir ójöfnuði, og skíra konungi frá, ef þeim virtust kærurnar vera á rökum bigðar. Svo áttu þeir og að gera tillögur um, hvernig ráða mætti bót á því sem aflaga færi, og hvað gera skildi landinu til viðreisnar. Upphaflega var Páli Vídalín ekki ætlað sæti í nefndinni, heldur stóð til, að amtmaður, biskupar og lögmenn skipuðu hana með Árna, enn Páll Beyer skildi vera skrifari nefndarinnar. Enn Árni rjeð því, að Páll Vídalín var settur í nefndina. Mun hann hafa sjeð fram á það, að lítið gagn mundi verða að eftirlitsstarfi nefndarinnar með embættismönnum, ef æðstu embættismenn landsins sæti í nefndinni, enda vissi hann að þar var hver höndin uppi á móti annari og lítil von um, að nefndin mundi verða samtaka, ef hún irði svo skipuð Enn það, að Árni fjekk því framgengt, að Páll var valinn, sínir, að konungur og hin æðsta stjórn landsins í Kaupmannahöfn hafði um þessar mundir ótakmarkað traust á Árna Magnússini. Má af því ráða, að Árni hafi sjálfur átt mestan þáttinn í að semja erindisbrjef það, er nefndarmönnum var gefið. Páll Vídalín átti enga hlutdeild í þessum undirbúningi, vissi ekki einu sinni, að hann var skipaður í nefndina fir enn á alþingi 1702, þegar hann hitti Árna þar (sjá A. M.. Embedsskrivelser Nr. 16, bls. 22). Í nefnd þessari sátu þeir fjelagar í 10 ár. Flest af þeim brjefum, sem birt eru í embættisbrjefabindinu, snerta þessi nefndarstörf og varpa ifir þau björtu ljósi.

Tilefnið til þess, að nefndin var skipuð, vóru þær umkvartanir og bænaskrár, sem Gottrup lögmaður hafði flutt af landsmanna hálfu við konung í utanför sinni 1701. Má ætla, að það hafi verið mikil vonbrigði firir Gottrup, er hann sjálfur hlaut ekki sæti í nefndinni, heldur tveir menn, sem hann hlaut að telja í andstæðingaflokki sínum, því að Páll Vídalín hafði ásamt amtmanni Kristjáni Müller og Jóni biskupi Vídalín, frænda sínum, verið forsprakki þess flokks á alþingi 1701, sem lagðist á móti sendiferð Gottrups, og höfðu þeir frændur ásamt 3 prestum og 3 síslumönnum látið ágreiningsatkvæði sitt verða samferða Gotttup til dönsku stjórnarinnar og gefið Árna Magnússini umboð til að halda því fram firir

sína hönd (AM., Embedsskr. Nr. 7, bls. 8). Jafnframt mun amtmaður hafa afflutt Gottrup firir stjórninni. Mun hún ekki hafa treist Gottrup til að vera nógu óhlutdrægur til að veita nefndinni forstöðu eða eiga sæti í henni. Af öllum þeim mönnum, sem stjórnin átti kost á til þessa starfa var Árni sá, sem best var treistandi til óhlutdrægni, því að hann hafði alt til þessa tíma verið lítt riðinn við deilur manna heima á Íslandi, og síndi stjórnin með því að velja hann, að henni var alvara að reina að bæta sem best úr því, sem aflaga fór í stjórn landsins. Páll Vídalín var líka firir margra hluta sakir vel fallinn til nefndarstarfanna, ekki síst til jarðabókarstarfsins, því að hann var eflaust hinn lögfróðasti þeirra manna, sem þá vóru uppi á Íslandi, nákunnugur öllum búnaðarháttum, ötull starfsmaður og ósjerhlífinn, enn ekki mátti hann óhlutdrægan kalla fremur en Gottrup, því að hann hafði ekki sneitt hjá flokkadráttum þeim, sem þá vóru svo almennir hjer á landi, og var kappgjarn maður; orðtak hans var: »Það skal fram sem horfir, meðan rjett horfir«, segir Grunnavíkur-Jón. Má geta nærri, að þeir höfðingjar, sem vóru óvinir Páls, t. d. Gottrup, hugðu ekki gott til afskifta hans af nefndarstörfunum, og stafar þaðan að nokkru leiti mótspirna sú, sem nefndinni var sínd.

Þegar vjer lesum brjef þau, sem fóru á milli nefndarinnar og stjórnarinnar í Danmörku, sjáum vjer, að það er eitt atriði í erindisbrjefi þeirra, sem nefndarmenn láta sjer sjerstaklega ant um, og það er að halda uppi rjettindum lítilmagnanna gegn ifirgangi höfðingjanna, hvort sem höfðingjarnir vóru embættismenn eða kaupmenn. Svo berjast þeir t. d. móti hinum mörgu, sumpart ólögmætu, kvöðum, sem lagðar höfðu verið á konungs-landseta í Gullbringusíslu, svo sem mannslánum á báta, sem haldið var úti af þeim, sem höfðu tekið konungstekjur á leigu, hríshestum handa Bessastaðabóndanum, uppskrúfuðum gjaftollum o. fl.; þeir taka málstað landseta Þingeiraklausturs gegn ifirgangi Gottrups, sem var klausturhaldari; þeir tala máli Hólmfasts Guðmundssonar, sem hafði verið kaghíddur firir að selja fáeina fiska í Keflavík í staðinn firir í Hafnarfirði o. s. frv. Það gefur að skilja, að þessi afskiftasemi nefndarmanna jók ekki vinsældir þeirra hjá þeim, sem sakaðir vóru, og smátt og smátt kom svo, að flestir höfðingjar urðu þeim andvígir, og ekki batnaði, þegar konungur skipaði þeim illu heilli að dæma sum af þeim málum, sem þeir höfðu kært. Við þetta flæktust nefndarmenn í eilíft málavafstur, sem hindraði störf þeirra og varð þeim til hins mesta ógreiða. Æðsti embættismaður innanlands,

amtmaður Kristján Müller, sem um þessar mundir líka var umboðsmaður Gyldenløve's stiftamtmanns, var algjörlega á bandi kaupmanna og dró taum þeirra í öllu; var sagt, að hann ætti sjálfur hlut í versluninni. Hagaði hann vináttu sinni eða óvináttu mest eftir því, sem hann sá kaupmönnum best henta. Arið 1701 hafði hann lagt fæð á Gottrup, af því að honum þótti hann of nærgöngull við kaupmenn í sendiför sinni, að því er Arni Magnússon segir í brjefi til rentukammersins (AM., Embedsskr. nr. 70, bls. 214). Framan af, meðan nefndarmenn gengu ekki í berhögg við kaupmenn, virðist hann ekki hafa verið þeim óvinveittur. Enn árið 1705 komust nefndarmenn að því, að kaupmenn reru að því öllum árum við stjórnina með tilstirk amtmans, að öll verslun landsins irði seld í hendur einu alsherjar verslunarfjelagi í stað þess að áður vóru einstakar hafnir boðnar upp til einstakra kaupmanna. Töldu nefndarmenn þessa fjelagsverslun miklu óhagfeldari firir landsmenn enn það firirkomulag sem þá var, og ekki bætti það úr skák, að kaupmenn og Müller vildu láta banna öll verslunarviðskifti með mönnum innanlands. Rjeð Árni þá af að fara utan þegar í stað til að reina að sporna við þessu ráðabruggi amtmans og kaupmanna. Lagði Árni sig allan fram í þessu máli. Í bráðabirgðaálitsskjali til konungs, dags. 8. des. 1705, veitist hann beint að Müller amtmanni og ber honum á brín, að hann hafi lagt meiri stund á að hlinna að hagsmunum kaupmanna enn að velferð alþíðu. Og 5. janúar 1706 sendir hann konungi mjög ítarlegt og vel rökstutt álitsskjal gegn fjelagsversluninni (AM., Embedsskr. nr. 51 og 53, 132. og 133.—153. bls.). Tókst Árna að kveða niður þennan draug, svo að hann kom ekki upp aftur meðan hann lifði, og er þetta ljós vottur þess, að stjórnin hafði þá enn fult traust á Árna, einkum þegar þess er gætt, að verslunar-stjórnardeildin (commercecollegium) var fjelagsversluninni filgjandi (AM., Embedsskr. nr. 51, bls. 131). Enn upp frá þessu var Müller amtmaður svarinn óvinur Árna, og rægir hann hvar sem hann fær því við komið; er það t. d. ófagur vitnisburður, sem Müller gefur Árna í brjefi til Gyldenløve's 14. febr. 1708 (AM., Embedsskr. 237. bls.)[1]) út af Bræðratungumálinu svonefnda, sem reis af málaferlum Árna við Magnús Sigurðsson í Bræðratungu um það, að Magnús hafði brigslað Árna um að hann ætti vingott við konu Magnúsar Þórdísi. Óvinir

---

[1]) Þar er þetta brjef dags. 14. febr. 1707, enn það hlítur að vera rangt, því að það er umsögn um beiðni Árna, sem er dagsett 29. ág. 1707.

Árna notuðu sjer sem best þeir gátu þetta hneixlismál til að tortriggja Árna í augum stjórnarinnar. Hafði Árni unnið málið í hjeraði og firir lögþingisrjettinum og Magnús verið dæmdur í háar skaðabætur. Enn með tilstirk kaupmanna kom Magnús málinu firir hæstarjett, enn dó í þeim klíðum, áður enn málið var tekið firir; samt var málinu haldið áfram og dæmt í hæstarjetti 1709; varð niðurstaðan sú, að sakir vóru látnar falla niður og dómar þeir, er dæmdir höfðu verið, feldir úr gildi, enn illmælið til Árna dæmt dautt og ómerkt. Aftan við embættisbrjefabindið er prentaður útdráttur úr hæstarjettarskjölum þessa máls, þar á meðal atkvæði hæstarjettardómandanna, og sjest á þeim, að ágreiningur hefur verið mikill um málið, vilja sumir dæma Árna í vil, aðrir fella málið á hann, enn meiri hluti dómanda vill láta sakir falla niður á báða bóga. Úrslit þessi vóru að vísu ekki a l g j ö r ósigur firir Arna, þar sem hann hjelt óskertum heiðri sínum, enn eflaust hafa þau hnekt mjög áliti hans í Danmörku og spilt trausti hans hjá stjórninni. Um sömu mundir bárust og stjórninni ímsar kærur ifir aðförum nefndarmanna, t. d. frá Sigurði lögmanni Björnssini, sem þeir höfðu dæmt frá embætti og eigur hans fallnar í konungs garð; fjekk Sigurður einmitt um þetta leiti (1709) nokkra uppreisn mála sinna hjá konungi. Müller amtmaður hafði flutt sig til Kaupmannahafnar 1707, og má geta nærri, að hann hefur ekki bætt firir nefndarmönnum við stjórnina. Í stað hans gegndi Páll Beyer amtmannsstörfum sem »fullmektugur«, enn Oddur Sigurðsson tók við umboði því, sem Müller hafði haft firir Gyldenløve stiftamtmann, og fóru þessir tveir menn, sem kallaðir vóru »þeir fullmektugu«, með æðstu stjórn innanlands. Af þeim var Oddur hinn mesti óvinur Páls Vídalíns; sparði hann ekki að sverta nefndarmenn í augum Gyldenløve's og gerðist Gyldenløve þeim þungur í skautl upp frá þessu. Danska stjórnin fer nú að verða óþolinmóð og rekur eftir nefndarmönnum að lúka við jarðabókarstarfið (AM. Embedsskr. nr. 87, 100, 119 og 129). Og loksins skipar rentukammerið nefndinni í brjefi dags. 22. júlí 1712 að hætta starfinu og kveður Árna á sinn fund til að gera grein firir gjörðum nefndarinnar; er í því brjefi vitnað í skírslu frá Gyldenløve, sem ber nefndinni á brín, að hún æsi menn til ófriðar og málaferla. Var nefndarstörfunum þar með lokið, nema hvað Páll Vídalín tók að sjer síðar firir sjerstaka borgun að lúka við það sem ógert var að jarðabókinni.

Hinn helsti sínilegi árangur af nefndarstörfunum var jarða-

bókin, sem vanalega er kend við Arna. þó að Páll Vídalín eigi sinn fulla þátt í henni, og enn fremur manntalið og búpeningstalið, sem nefndarmenn ljetu taka. Með þessu þrennu, þó ekki væri öðru, hafa þeir reist sjer fagran minnisvarða, því að með því hafa þeir lagt hinn firsta áreiðanlega grundvöll undir hagskírslur landsins. Þeir eru þar langt á undan sínum tíma. Manntalið, sem þeir ljetu fram fara páskanóttina 1703, er 62 árum eldra enn firsta manntal á Norðurlöndum. Indriði Einarsson segir um jarðabókina (Manntal á Íslandi 1. des. 1910, Rvík 1913): »Hún er gullnáma firir hagfræði Íslands, sem hver menningarþjóð mundi öfunda okkur af, sem þekti hana til hlítar«.

Litlar þakkir fengu þeir eftir á firir þetta ágæta starf sitt hjá stjórninni. Krafðist hún, að Arni ljeti gera útdrátt úr jarðabókinni á dönsku og tregðaðist við að greiða honum talsvert fje sem eftir stóð af launum hans firir nefndarstörfin. Enn Arni þibbaðist við, og stóð í þessu þjarki, þangað til Arni dó. Því miður vantar í jarðabókina jarðamatið í Múlasíslu og Skaftafellssíslu. Hefur það að líkindum brunnið í hinum mikla bruna 1728.

Minni sínilegur árangur varð af viðleitni nefndarmanna að bæta hag smælingjanna og rjetta hluta þeirra gegn ifirgangi kaupmanna og valdsmanna, og má þó benda á ímislegt, sem þeir komu til leiðar í þessu efni, first og fremst tilskipun 15. maí 1705, sem miðar að því að vernda leiguliða firir ifirgangi landsdrottna; þá var það og nefndarmönnum að þakka, að fjelagsverslun komst ekki á fir enn árið 1732, þegar þeir vóru báðir komnir undir græna torfu. Arni dó árið 1730, Páll 1727. Góðan vilja þeirra á að bæta hag bændalíðsins getur enginn efað, sem les það bindi, sem hjer liggur firir. Það er rjett, sem þeir segja á einum stað í skírslu til rentukammersins (A. M., Embedsskr. nr. 85, bls. 289), þar sem þeir kvarta undan ójöfnuði ifirvaldanna við fátæklinga: »Við gætum víst aflað okkur meiri vinsælda hjá ímsum mönnum hjer á landi, enn við nú höfum, og, ef alt skal segja, að líkindum grætt fje, ef við vildum þegja ifir þessu og láta þá (höfðingjana) ráða meðferð sinni á bændum, enn það þorum við hvorki nje viljum«.

Mörg af brjefunum bera glæsilegan vott um fróðleik nefndarmanna í sögu landsins og um alt, sem snertir hag þess. T. d. má benda á varnarskjal þeirra firir dómi sínum í máli Ara Pálssonar, sem hafði verið brendur firir galdra eftir dómi lögrjettunnar árið 1681. Sína þeir þar með ljósum rökum, hve fávísleg galdratrúin sje og hve miklu illu hún hafi til leiðar komið á »brennuöldinni«,

sem þá var nílega um garð gengin, og rekja greinilega sögu galdramálanna frá 1656 Í sama brjefi er og mjög fróðleg greinagerð firir starfi og verksviði lögmanna frá elstu tímum. Kr. Kålund vill eigna þetta skjal Arna Magnússini einum, enn mjer finst sumt í því bera greinilegt mark Páls Vídalíns; líklega er það samið af þeim báðum í sameiningu.

Arni mun hafa haft meiri skaprann enn ánægju af þessum nefndarstörfum. Málaþrasið, sem þau leiddu hann út í, varð honum bæði kostnaðarsamt og hvumleitt. Og að lokum hafði hann lítið annað upp úr 10 ára starfi enn óþökk dönsku stjórnarinnar og óvild margra hinna helstu manna hjer á landi. Merkilegt er það, að stjórnin leitar þó síðar ráða hjá Arna um íslensk vandamál (A. M., Embedsskr. nr. 166, 168, 175, 177, 181) og sínir það, að hún enn sem fir taldi hann allra mann fróðastan í þeim efnum. Og árið 1723, þegar aftur kom til tals að innleiða fjelagsverslun á Íslandi, er Árni enn á verði, skrifar konungi beina leið, leggur fastlega á móti fjelagsversluninni og óskar að mega bera fram ástæður sínar gegn henni firir leindarráð konungs (A. M. Embedsskr. nr. 184). Á ímsum brjefum má sjá, að Arni hafði traust og hilli Friðriks konungs hins fjórða.

Kr. Kålund bendir rjettilega á það, að nefndarstörfin hafi dregið Arna frá vísindaiðkunum á þeim tíu árum æfinnar, sem einna best eru fallin til vísindastarfa. Má vera, að fleiri vísindarit hefði legið eftir hann, ef hann hefði ekki setið í nefndinni. Enn hins vegar gáfu nefndarstörfin og dvöl hans á Íslandi honum gott tækifæri til að safna íslenskum handritum og fornbrjefum og hann notaði það óspart. Samkvæmt 3. grein í erindisbrjefi nefndarinnar hafði nefndin rjett til að krefjast þess af jarðeigendum, að þeir ljetu nefndinni í tje máldaga sína og heimildir firir jörðunum eða afskriftir af þeim. Þetta var Arna mikill stuðningur til að ná í fornbrjef eða afskriftir af þeim og má ætla að hann hafi á þann hátt komist ifir meginið af hinu mikla fornbrjefasafni, sem nú er í safni hans — þar eru nú geimd 2065 íslensk fornbrjef á skinni, auk afskrifta, en af afskriftunum glataðist mjög mikið í brunanum 1728, eftir því sem Arni sjálfur segir.

Það var og vel gert af Kr. Kålund að gefa út brjefaskifti þeirra Arna Magnússonar og Þormóðar Torfasonar, því að þau lísa ágætlega báðum þessum merku mönnum. Skal jeg ekki fjölirða um það bindi, enn vísa aðeins til hins fróðlega formála útgefandans firir því. Eru þar rakin merkustu æfiatriði beggja þessara

manna og bent á það í brjefaskiftunum, sem helst einkennir þá báða. Þar er og stutt ifirlit ifir æfi Asgeirs Jónssonar, sem lengi var skrifari Þormóðar.

Ifir höfuð að tala er útgáfa beggja binda ágætlega af hendi leist, eins og við var að búast af útgefandanum. Prentvillur eru fátíðar, og þær sem eru er oftast hægt að lesa í málið. Meinlegust af þeim, sem jeg hef tekið eftir, er prentvillan í A.M., Embedsskr. bls. 1[19] »morfaderens« firir: morbroderens.

B. M. Ó.

**Íslenzk mannanöfn.** Lög, nefndarálit og nafnaskrár. Gefin út að tilhlutun Stjórnarráðs Íslands samkv. lögum nr. 41, 10. nóv. 1913. Rvík 1915.

Mér er ljúft að dæma um þetta litla rit. Kjarni þess er sprottinn upp af grein sem ég ritaði í Skírni fyrir 8 árum, þar sem fyrst komu fram rækilegar tillögur um íslenzk ættarnöfn. En annars hefir nefndin farið langt út yfir það svið; hún hefir fjölgað reglunum, svo að úrvalið yrði auðugra.

Stjórnarráð Íslands hefir verið heppið í valinu á þessari nefnd. Því að nefndin hefir afrekað tvent sem þurfti með: hún hefir valið smekklega og valið djarflega. Hún hefir tekið mjúkum og viðkvæmum höndum á málinu. Þennan litla hluta þess hefir hún farið með eins og siðaðan ungling, hún hefir ekki sært líkama hans, hún hefir skorið hár hans.

Það sem gerir þó þetta litla rit verðmætast, er rökfærsla nefndarinnar að nafnavalinu. Öll framför var í upphafi synd, og rökfærsla nefndarinnar er það sem gerir synd hennar að framför. Við hverja nýja reglu er hér svo berlega sýnt, að það nafna-lögmál sem nefndin vill skapa á alskylt við íslenzka tungu, á ekki skyldara við neitt annað mál, og lætur málinu í engu misboðið. Þetta þrent er nóg. En þetta þrent er ekki alt. Það sem fullkomnar kerfið er, að eftir hverri reglu þess má skapa smekkvís og fögur nöfn. Þess vegna er það kerfið, eins og það er rökstutt, og ekki nafnavalið sjálft, sem hefir orðið verðmætasti þáttur af starfi nefndarinnar. Hér tek ég tíu dæmi, hvert úr sinni reglu kerfisins:

| | |
|---|---|
| Agnars | Melnes |
| Báron | Mývaz |
| Borgum | Nafdal |
| Eyfer | Snæstar |
| Hvarfan | Vermann. |

Það er vandi að skapa fjölskrúðugt íslenzkt ættarnafnakerfi. Það er vandi að sveigja hinn stinna boga vors beygingaríka máls svo liðlega eins og hér hefir verið gert. Og því hægara er fyrir ötulan málfræðing, og hægast fyrir lélegan eða engan að ráðast á þetta kerfi. Hitt er vert að athuga, að sérhver árás mun koma frá mönnum sem eru algerlega mótfallnir ættarnöfnum yfirleitt. Þeir sem unna þeim, munu unna þessu kerfi.

Ég sé enn í íslenzkum blöðum haldið fram þeirri fásinnu, að föðurnöfnin séu dýrmætur íslenzkur þjóðsiður. Ég tek fram í dag það sem ég tók fram fyrir átta árum, að þetta er ekki íslenzkara í dag heldur en það var danskt fyrir hundrað árum eða þýzkt eða enskt fyrir þúsund. Annars viðurkenni ég ekki þessa þjóðernisástæðu. Eins og nokkur hlutur sé betri í sjálfu sér fyrir það að hann er íslenzkur eða amerískur eða spænskur. Hugsum oss að eftir þúsund ár séu allar þjóðir nema Íslendingar horfnar frá járnbrautum. Svo kemur upp barátta á Íslandi um það að afnema járnbrautir og láta þær þoka fyrir einhverju tízkusniðnara samgöngufæri. Þá vildu Íslendingar ekki sleppa þeim, af því að nú ætti engin þjóð járnbrautir nema þeir.

Það er leitt að sjá þessa þjóðernis-ástæðu á Íslandi lagða við hvern hégóma. Væri henni brugðið upp í því einu sem vér gætum verið hróðugir af, þá væri hún réttmæt. En hún er t. d. ekki helgari mönnum en það, að þeir bregða henni upp til varnar fyrir öðru eins smekkleysi og ímyndunar-fátækt í búnaði eins og kemur fram í því sem nefnt er íslenzk peysuföt. Föðurnöfnum og peysufötum er haldið enn á Íslandi, ekki af því að það sé viðurkent fallegt eða hagkvæmt, heldur bókstaflega af því að sú hugsun, sem einu sinni hefir skapað það tvent, er úrelt með öllum öðrum þjóðum.

Ekki gegnum vér heldur þeirri ástæðu, að ættarnöfn geri ættartölur ruglingslegri. Vér verðum fyrst að sannfærast um, að ættgreiningin rugli jurtafræðina eða gatnaskipun geri vandrataðra í borginni.

Hlægilegast er þó að gera þetta mál að kvenréttindaatriði. Hingað til hefir faðirinn einn, karlmaðurinn, ánafnað dætrum sínum þetta hnoss á Íslandi. Nú mundi dóttirin ekki vera kend við föðurinn einan, heldur við kynkvísl hans, eða ef hún kysi heldur, við kynkvísl móður sinnar, eða ef hún kysi helzt, við kynkvísl þeirra beggja, eins og hvorttveggja er ekki ótítt þar sem ættarnöfn ráða. En annars fáum vér ekki séð að eiginmaðurinn höggvi meira

skarð í »réttindi« konunnar, en faðirinn hefir gert. Með ættarnöfnum er konunni auk heldur gerður kostur á vali.

Þetta þrent eru hinar veigalitlu ástæður þeirra sem eru mótfallnir ættarnöfnum. Vér sem erum hlyntir þeim tökum þau aftur á móti upp af því tvennu aðallega, að þau eru fallegri og hagkvæmari. Orðhalinn »-dóttir« minnir mig á aldauða fornaldardýr. Og vér óskum að heita sama nafni á Íslandi eins og vér heitum þó vér förum út fyrir pollinn. Ættkenning er á svæði nafngreininganna það sem mynt er á svæði viðskiftanna. Það er alt og sumt.

Ég hefi engan ótta af þeirri mótspyrnu sem ættarnafnalögin hafa mætt á Íslandi. Það er auðsætt, að ekki tjáir lengur að spyrna á móti broddunum. Og undir eins og farið verður að kannast við áhrif þessara laga, þá mun líka þörf þeirra verða viðurkend. Málið var komið í það horf, að ef stjórnin hefði ekki tekið það að sér, þá hefði ekkert taumhald orðið haft á þeim nafnaskrípum sem var líklegt að rigndi niður. Nú hefir verið búið til vandað og fjölskrúðugt kerfi, sem ganga má að eins og skírnarfonti. Og það hlægir mig, að þegar frá líður munu ekki annarstaðar þykja fegri ættarnöfn en í Svíþjóð og á Íslandi.

New York 1916.

**Goðmundur Kamban.**

Ennfremur hafa Skírni verið send þessi rit, og verður sumra þeirra getið síðar:

Réttur. Fræðslurit um félagsmál og mannréttindi. Fyrsta ár. I. hefti. Aðalútg. og ábyrgðarm.: Þórólfur Sigurðsson. Ak. 1915.

Jónína Sigurðardóttir: Ný matreiðslubók fyrir fátæka og ríka. Með heilsufræðislegum inngangi eftir Steingrím Matthíasson. Ak. 1915.

Gunnar Gunnarsson: Ormarr Örlygsson. Úr ættarsögu Borgarfólksins. Bókav. Sigurðar Kristjánssonar. Rv. 1915.

Sami: Danska frúin á Hofi. Úr ættarsögu Borgarfólksins. Bókav. Sig. Kristjánssonar. Rv. 1915.

Sami: Smaahistorier. Gyldendal. Kbh. & Kria 1916.

Daniel Bruun: Erik den Röde og Nordbokolonierne i Grönland. Gyldendal. Kbh. 1915.

Islandica. Vol. VIII. An Icelandic satire written at the beginning of the eighteenth century. Edited by Halldór Hermannsson. Ithaca 1915.

Frímann B. Arngrímsson: Asters and violets. Some stray poems and verses. Ak. 1915.

Sami: Dugnaður Akureyrar og snilli. Prentsm. Odds Björnssonar.

Leiftur. Tímarit um dulskynjanir og þjóðsagnir. Ritstjóri Hermann Jónasson. 1. bindi. 1. hefti. Fjallkonuútg. Rv. 1915.

Tímarit íslenzkra samvinnufélaga. Ritstjóri: Sigurður Jónsson. X. ár. Ak. 1916.

Annie Besant: Lífstiginn. Þýtt hefir Sig. Kristófer Pétursson. Rv. 1916. Bókaútgáfa Guðspekisfélagsins.

Magnús Jónsson: Vestan um haf. Smávegis um Ameríku og landa vestra. Rv. 1916.

Hagskýrslur Íslands. (7. Verzlunarskýrslur fyrir árið 1913. 8. Fiskiskýrslur og hlunninda árið 1913. 9. Búnaðarskýrslur árið 1914. 10. Fiskiskýrslur og hlunninda árið 1914). Rv. 1916.

Hagtíðindi gefin út af Hagstofu Íslands. 1. árg. nr. 1.—5. Rv. 1916.

Þorleifur H. Bjarnason: Fornaldarsaga handa æðri skólum. Rv. Bókav. Sigf. Eymundssonar 1916.

Valur: Dagrúnir. Rv. kostnaðarm. Arinbj. Sveinbjarnarson 1915.

— Brot. Sögur úr íslenzku þjóðlífi. Rv. Kostnaðarm. Arinbj. Sveinbjarnarson 1916.

Hulda: Syngi syngi svanir mínir. Æfintýri í ljóðum. Rv. Bókav. Arinbj. Sveinbj. 1916.

Jón Laxdal: Sönglög I. (I. Helga in fagra. II. Gunnar á Hlíðarenda. Kvæðaflokkar eftir Guðm. Guðmundsson fyrir einsöng, tvísöng og kór). Rv. Aðalútsala: Bókav. Arinbj. Sveinbj. 1916.

Arsrit hins íslenzka Fræðafélags í Kaupmannahöfn. Með myndum. Fyrsta ár. Khöfn 1916.

Bogi Th. Melsteð: Handbók í Íslendingasögu. Gefin út af hinu íslenzka Fræðafélagi í Kaupmannahöfn. Fyrsta bindi. Khöfn 1916.

Arferði á Íslandi í þúsund ár. Þorvaldur Thoroddsen safnaði og samdi. I. hefti. Gefið út af hinu íslenzka Fræðafélagi í Kaupmannahöfn. Khöfn 1916.

Finnur Jónsson: Topografiske Beskrivelser i Sagaerne og deres Betydning. (Særtryk af Oversigt over det kgl. danske Vidensk. Selsk. Forh. 1915. No 6).

Finnur Jónsson: Opdagelsen af og Reiserne til Vinland. (Særtryk af Aarb. f. nord. Oldk. og Hist. 1915). Kbh. 1916.

---

og eru slegnar með slegli. Einkennileg er hin rússneska b a l a l æ k a með þrístrendri lögun. S í s t r a n (cister) er sambandsliður lútunnar og gítarsins og með flötum botni, en slegin með slegli. — Með flötum botni og hliðum er einnig g í t a r i n n, algengasta hljóðfærið af þessum flokki og alkunnur hér á Íslandi. Einkennileg er hin spormyndaða lögun hans með smábugðum inn á við í miðju. Er leikið á hann á líkan hátt og á lútuna (með fingrunum).

B. Strokhljóðfærin eru einn hinn mikilvægasti hljóðfæraflokkur, og með þeim teljast nokkur hin helztu og dýrlegustu hljóðfæri, sem til eru.

Þeim má skifta í tvo aðalflokka: g í g j u r n a r með mjög hvelfdum botni eins og lútan og mandól(ín)an og f i ð l ú n g a með flötum eða lítt hvelfdum botni.

G í g j a n var lítið fiðlulíkt hljóðfæri með hvelfdum botni, en það er nú úrelt. Á þýzku er orðið nú einnig haft um hina almennu fiðlu, og er ekkert við það að athuga. Gígjan er náskyld hinni núverandi fiðlu. Hins vegar er það vitleysa ein að nota þetta heiti um a l þ ý ð u h ö r p u n a, l ú t u n a og ef til vill fleiri hljóðfæri. Eins konar gígja var einnig v a s a g í g j a n (fr. pochette, da. stokfiol), er danskennarar notuðu mikið áður fyr (sbr. kvæði Bellmans og Tennemann í »Aprílsflónunum« eftir J. L. Heiberg). Þetta hljóðfæri var einnig með flötum botni. Mætti kalla það v a s a f i ð l u.

Fiðlungar voru áður tvenns konar: v i o l a d a b r a c c i o, a r m f i ð l u n g u r, og v i o l a d a g a m b a, h n é f i ð l u n g u r. Hvorir tveggja náðu yfir bæði stór (djúp) og smá (há) eintök. Þeir áttu oftast 5—6 strengi, stundum að eins fjóra, alloft marga. Af armfiðlungum var einkum viola d'amore uppáhaldshljóðfærið á 18. öld. Átti það 5—7 þarmstrengi, er boginn var dreginn yfir, og auk þess aðra 5—7 endurhljómandi strengi úr málmi, er gerðu hljóðfærið einkar hljómþýtt. Er það sjaldan notað á okkar dögum. Af hnéfiðlungum var t e n ó r g a m b a n mikið notuð sem »sóló«-hljóðfæri á 18. öld og þótti hún harla hljómþýð. Er hún enn stundum notuð á Frakklandi og taka sumir hana fram yfir v i o l o n c e l l o, er hefir bolað henni burt.

Þessir fiðlungar (it. viole) eru nú svo að segja úr sögunni, og skipa nú v i o l i n o, a l t o, v i o l o n c e l l o og v i o l o n e sæti þeirra. Eru þessi hljóðfæri einfaldari, spengilegri og hljómsterkari, en hin. Um uppruna þeirra vita menn fátt; þau virðast eins gömul

og hin; en það er þó ekki víst. Nafnið violino er bersýnilega dregið úr viola, og eins hin nöfnin: violoncello og violone.

Diskant-hljóðfærið er violino, er réttu nafni heitir á íslenzku fiðla. Sumir vilja ekki þetta nafn, af því að áður hefir verið annað strokhljóðfæri íslenzkt með þessu nafni, allfrábrugðið violino. En þetta hljóðfæri er nú úr sögunni, og nafnið fiðla ber með réttu hljóðfærinu violino. Er það dregið úr fidula, vitula, er var heiti nú úrelts hljóðfæris, er mjög svipaði til okkar núverandi fiðlu. Kemur nafn þetta fyrir í öllum germönskum málum (þý. fiedel, holl. vedel, veel, e. fiddle, da. fiddel, feddel, fejla, sæ. fela, no. fela eða fele, ísl. fiðla) og er alstaðar haft um violino. Hitt nafnið, it. violino, fr. violon, gr. βιολίον, þý. violine, da. violin (alþýðumálin líka fiolin, fiol, fjol)[1]) á ef til vill kyn sitt að rekja til fidula, en í germönskum málum er það óþjóðlegra en »fiðla«, er alstaðar hefir lagast eftir málreglunum. Fíólín er ekki nema þýzk afbökun úr »violino« komin inn í íslenzkuna gegnum dönsku. Í Danmörku er sú mynd nú álitin mjög dónaleg, og ekki er hún fallegri á íslenzku; enda er ekki hægt að búa til afleiðslur úr henni eins og úr myndinni »fiðla«. Þegar menn eru að tala um íslenzku fiðluna, verða menn þess vegna að hafa fyrir að nota heitið »íslenzka fiðlan« eða »Íslands fiðlan«.

Alta[2])-hljóðfærið heitir á ítölsku viola eða alto, á þýzku bratsche, á dönsku bratsch. Það er mjög líkt fiðlunni, en stærra, botn þess oftast miður hvelfdur en botn fiðlunnar og stilling þess er dýpri: c—g—$\bar{d}$—$\bar{a}$; eins og kunnugt er, er stilling fiðlunnar: g—$\bar{d}$—$\bar{a}$—$\bar{\bar{e}}$. Mætti kalla það á íslenzku »altafiðlu«.

Tenór-hljóðfærið vantar eiginlega, og violoncello, er upphaflega var aðeins bassahljóðfæri, er nú notað bæði fyrir tenór- og bassahljóðfæri. Það er hnéfiðla og mætti vel nota þetta heiti, en þar sem áður voru fleiri hnéfiðlur, og ein þeirra tenórgamban er stundum enn notuð, fer betur á því að kalla violoncelle »bassafiðlu« (smbr. basfiol á sænsku). Stilling: C-G-d-a. Eitt strokhljóðfæri er enn eftir, það er it. violone eða contrabasso, sem er ennþá tóndýpra en bassafiðlan. Það er líkara gömbunum í lögun en fiðlunum. Það er mjög hátt og verður leikarinn að standa upp, þegar hann er að leika á það. Strengir

[1]) Slafnesku málin eiga alt önnur heiti (rús. skripka, pól. skrzypce).
[2]) Sjá síðar.

fiðlunnar, altafiðlunnar og bassafiðlunnar eru stiltir í fimmundum, en strengir violone í ferundum: E-A-D-G. Mætti kalla það »djúpbassafiðlu«.

Af ýmsum alþýðu-hljóðfærum er heyra hér til má nefna lire (it. ghironda, fr, vielle). Á þetta hljóðfæri er ekki leikið með boga, heldur er tónninn knúður fram með tréhveli sem er snúið með sveif; tónhæðin er framleidd með töstum (nótum). Nú er lire úrelt hljóðfæri. Mætti kalla það »sveifarfiðlu« eða »tastafiðlu.« Annað alþýðu-hljóðfæri er »Harðangursfiðlan«, er á 4 þarmstrengi og 4 endurhljómandi málmstrengi (sambr. viola d'amore). Er þessi fiðla oft fallega greypt perlumóður. Ennfremur má nefna Íslands-fiðluna tvístrengjuðu og íslenzka langspilið, bæði úrelt nú.

Einhver Frakki hefir búið til strengjaorgan eða strokorgan. Þegar maður þrýstir á tastana (nóturnar) koma þeir smáhjólum af stað, snúast þau og strjúka um leið strengina sem eru eins margir og í pianó. Hljóðin eru einkar þýð og falleg, en heldur veik.

C. Piano eða pianoforte.

Piano er stórt strengjahljóðfæri í kassa, þar sem tónarnir eru framleiddir með hömrum, sem eru settir í hreyfingu af töstum (nótum). Fyrirrennarar píanósins eru m. a. clavicordio, þar sem tónarnir voru ekki framleiddir með hömrum, heldur með málmtittum, (da. tangenter) og clavicemboal, þar sem strengirnir voru smeltir með fjöðurstöfum. Hljóð þeirra voru lík tónum lútunnar eða gítarsins. Konráð Gíslason kallar piano í orðabók sinni hljóðborð, »Ný dö. orðabók« notar myndina hljómborð, en ekki er það orð vel valið, einkum á það ekki við nú á tímum, þar sem flest piano eru »uppreist« og »borðmynduð«. Það er ekki hægt að finna gott íslenzkt heiti handa þessu hljóðfæri. Eg sting upp á »hamraharpa«.[1]) Þykir mér reyndar þetta heiti ekki sérlega gott, en það er þó betra en hljómborð. Ómbotni pianósins með strengjunum svipar nokkuð til hörpunnar, og þar sem hamrakerfið er helzta einkenni pianósins, þykir rétt að kenna það við það.

Flygel, stóru borðmynduðu hamrahörpuna, mætti kalla »flýgil.«

---

[1]) Í „Ljóð og sögur“ eftir Axel Thorsteinsson er notað heitið slagharpa; naumast gott heiti, þar sem venjulega harpan er einmitt „slegin“.

Eg kann ekki við orðið »nóta« um »tasto« (tangent er rangnefni). Nóta merkir annars tóntákn eins og í öðrum málum, og er þess vegna óheppilegt og óhentugt að hafa það um alt annað. Eg sting upp á »tasti,« sem getur orðið alíslenzkt orð. Nóta er líka af útlendum uppruna. »Tastiera« (klaviatur) væri þá rétt að kalla »tastaborð.«

Eftir er mannsröddin, sem eiginlega er einskonar blásturhljóðfæri. Henni er alment skift í basso (primo basso og secundo basso), baritono (basbariton og tenorbariton), tenore (primo tenore og secundotenore), alto (þegar þessi rödd er mjög djúp er hún kölluð contralto) og soprano (primo soprano og secundo soprano eða mezzo soprano).

Heiti þau sem notuð eru í »Ný dönsk orðabók« eru ekki góð. Að kalla tenore og alto milliraddir er miður hentugt, þar sem tenore er hæzta röddin í karlakór, alto dýpsta röddin í kvennakór. Aðeins í »ósamkynja kór« eru þær milliraddir. Betra að viðhafa ítölsku heitin, en að íslenzka þau sem framast má verða. Á ítölsku eru þau öll karlkend, og færi bezt á því að karlkenna þau líka á íslenzku; enda eru orðin bassi og tenór þegar karlkend. Heitin myndu þá verða þessi: Bassi (undirb. og yfirb.) — hábassi (basbariton), djúptenór (tenorbariton) — tenór — alti (djúpalti = contralto) — sóprani (djúpsóprani).

Það að einn syngur, má kalla »einsöng« og lagið »einsöngslag«. Sé hinsvegar leikið á eitt hljóðfæri má kalla það »einslátt« og »einsláttarlag«. Manninn, er syngur má kalla »einsöngvara« (solist), hljóðfærið »einsláttar-hljóðfæri«. Duetto verður þá »tvísöngur«, »tvísöngslag«, »tvísláttur« o. s. frv. Terzetto »þrísöngur«, trio »þrísláttur« o. s. frv. Quartetto »fersöngur« og »fersláttur« o. s. frv., quintetto »fimsöngur«, sextetto »sexsöngur«, septetto »sjösöngur, octetto »áttasöngur«. Mennirnir, er syngja tvísöng, eru tvísöngvarar; menn, er syngja þrísöng, mynda þrísöngsflokk, menn, er syngja fersöng, mynda fersöngsflokk o. s. frv.[1]) og líkt má segja um hljóðfærin: þrísláttarflokk o. s. frv. Þegar fleiri eru söngvarar en 8, eru þeir kór, þegar fleiri eru hljóðfæri, mynda þau or-

[1]) E. t. v. eru heitin söngþrímenningur, söngfjórmenningur o. s. frv. enn betra.

kestur. Þá má tala um kórsöng, um kórsönglag, kórhljómleik eða samsöng, orkesturlag, orkesturhljómleik, ennfremur fersláttar-(hljóm)leik, strokfer-sláttar-leik o. s. frv.

Þau eru vitaskuld miklu fleiri hljóðfærin og hljómfræðisorðin en eg skal láta staðar numið hér.

Fjarri fer því, að eg álíti öll þessi heiti fullgóð, sem eg hefi stungið upp á. En eg held eg hafi bent á réttu leiðina: að kynna sér einkenni og skyldleika hljóðfæra og að taka upp útlend heiti, þar sem erfitt er eða ómögulegt að búa til al-íslenzk orð. Enda mætti fylgja þeirri reglu víðar. Mér þykir t. d. orðið ofursti miklu betra en herfylkishöfðingi eða hersir, sem »Ný dönsk orðabók« notar. Það er langt frá því, að herfylki hafi fest rætur í merkingunni »bataillon«, og hersir merkti alt annað í fornmálinu, og er því gerræði að láta það merkja einmitt oberst og ekki general eða kaptajn.

Nú vil eg að eins biðja menn að athuga þessar uppástungur, þá mun það varla bregðast, að sumir muni geta fundið ennþá betri heiti, þau heiti, sem ein eiga við.

Þeim, sem óska að kynna sér enn betur sögu og ásigkomulag hljóðfæra, get eg bent á skrá »Musikhistorisk Museum« (í Khöfn) eftir Angul Hammerich (1909). Er þetta rit með mörgum fallegum myndum.

**Holger Wiehe.**

---

# Ísland 1916.

Árið 1916 hefir verið gróðaár fyrir landið í heild sinni, en vorharðindi kreptu mjög að norðan lands og austan og óþurkar að sumrinu spiltu heyja-afla manna alment sunnan lands. Veturinn var einmuna góður sunnan lands og frostalítill. Norðan lands var hann einnig góður fram í febrúar, en úr því gerði snjókomur miklar, og kvað þó einkum að þeim í marz og frameftir apríl. Lá þá óvenjulegur gaddur yfir Norðurlandi og Austurlandi, sem eigi hvarf fyr en kom fram í júní. Um miðjan júní var jafnvel sagt að fé mætti ekki vera gjaflaust sumstaðar. Er þetta talið harðasta vor, sem menn muna, á norðausturhluta landsins. Hafís kom þó ekki að landinu til neinna muna, að eins hröngl, sem ekki hamlaði skipaferðum. Fénaðinum bjorguðu menn með kornmatarkaupum, svo að óvíða varð fellir, þótt heyin hrykkju ekki. Mikið tjón varð samt víða af lambadauða, sem stafaði af vorharðindunum. Sunnan lands var vorið allgott, en þurviðrasamt, og greri jörð því seint. Um og eftir miðjan júlí byrjaði sláttur á Suðurlandi. Í Reykjavík voru þó tún slegin nokkru fyr. En þá kom sex vikna óþurkakafli og stórskemdust töður manna um alt Suðurland og Borgarfjarðarhérað og úthey sömuleiðis. Norðan lands, austan og vestan, var sumarið betra, sumstaðar gott, og grasspretta sæmileg. Var heyfengur manna þó yfirleitt talinn í lakara meðallagi. Grasmaðkur gerði mikið tjón í Skaftafellssýslum. Haustið var gott um alt land; unnið að jarðabótum í Reykjavík fram í byrjun nóvembermánaðar, og aftur síðari hluta þess mánaðar. Fyrir árslokin snjóaði töluvert sunnan lands, svo að jarðlaust varð í uppsveitum Árnessýslu og Rangárvallasýslu í byrjun jólaföstu og hélzt svo fram til áramóta. Er því sagt, að útlit sé til þess að heybirgðir manna þar um slóðir endist skamt. Á Austfjörðum og norðausturhluta landsins hafði og komið mikill snjór í lok ársins.

Á vetrarvertíð var ágætur afli í veiðistöðvunum sunnan lands, þar sem vélbata-útgerð er stunduð, og eins á botnvörpuskipin og

þilskipin. En róðrarbátar, sem haldið var út frá Þorlákshöfn, öfluðu lítið. Tíð var einmuna góð til sjávarins fram til 24. marz. Þá kom aftakaveður á norðan og stóð í fjóra daga. Urðu mikil slys af því veðri bæði við Faxaflóa og vestan lands. Eftir þetta var tíð óstöðug um hríð og gátu vélbátar ekki sótt sjó vegna ógæfta, en botnvörpungarnir öfluðu stöðugt. Voraflinn var rýr, en síldarafli mikill við Norðurland og Vestfirði um sumarið. Þó varð hlé á veiðinni um tíma vegna þess, að tunnur vantaði, er kom af því að Englendingar heftu þá um stund skipaferðir til landsins. Ef það hefði ekki komið fyrir, þá mundi síldaraflinn hafa orðið þetta sumar miklu meiri en nokkru sinni áður. Síldveiði var byrjuð frá Vestfjörðum sumarið 1915 með nokkrum bátum, en þetta sumar óx hún þar mjög. Voru nú settar þar á stofn síldveiðastöðvar á ýmsum stöðum, svo sem við Ísafjarðarkaupstað, á Langeyri, á Dvergasteini og í Önundarfirði. Menn ætla, að síldveiðarnar á Vestfjörðum eigi mikla framtíð, því reynsla þykir vera fengin fyrir því, að aðalstöðvar síldarinnar í hafinu færist vestur með landinu að norðan. Hafa síldveiðaskipin frá Siglufirði og Eyjafirði orðið að sækja síldina lengra og lengra vestur á bóginn. Botnvörpungarnir margir hættu alveg veiðum þegar síldartíminn var úti, enda varð þá leiðin til Englands með aflann hættuleg vegna þýzkra kafbáta, sem þar voru á ferð til þess að hindra flutning matvæla til Englands. Þeir af botnvörpungunum, sem héldu áfram veiðum, öfluðu ekki vel, fyr en undir áramótin. Þá fengu þeir góðan afla við Vesturland. Vélbátar hafa aflað nokkuð þar vestra í haust, en þó hafa ógæftir mjög hamlað. Um 20 þilskipum hefir verið haldið út frá suðvestur landinu þetta ár, og öfluðu þau á vetrarvertíðinni í bezta lagi, eins og áður segir, en voraflinn og sumaraflinn var fremur lítill. Yfirleitt er þó afli þeirra meiri en í meðallagi. Á Austfjörðum hefir afli verið lítill þetta ár, en þar eru veiðar enn stundaðar með róðrarbátum jafnframt vélbátunum.

Landbúnaðarmenn kvarta meira og meira um, að þeir geti ekki fengið fólk til sumarvinnu vegna þess að síldveiðarnar, sem einmitt eru reknar um heyskapartímann, drægi til sín allan vinnukraftinn, en kaup er svo hátt við síldarvinnuna, að landbúnaðurinn getur ekki kept um vinnukraftinn við útgerðarmennina. Kaupafólki í sveitum var í sumar borgað þetta: karlmönnum 30—35 kr. um vikuna, en kvenmönnum 15—18 kr.

Framan af árinu var verzlunarástandið hið sama og næsta ár á undan, og er frá því sagt í fréttum frá því ári. Þó var verð-

lag á nauðsynjavörum, bæði innlendum og útlendum, altaf að hækka vegna skorts á þeim hjá hernaðarþjóðunum og kepni um þær þeirra í milli. Englendingar höfðu þegar 1915 lagt ýmsar hömlur á vöruflutninga til landsins og frá því. En er fram leið á árið 1916 tóku þeir mjög að herða á þeim böndum. Var þess þá m. a. krafist af kaupmönnum, sem fengu kola- eða saltfarma frá Bretlandi, eða í skipum, sem urðu að koma þar við á leið sinni til Íslands, að þeir skuldbyndu sig til þess, að flytja ekki vörur þessar, eða aðrar vörur, sem kolin og saltið yrðu notuð til að framleiða, til þeirra þjóða, sem í ófriði eiga við Bretland, og eigi til Norðurlanda né Hollands, því þaðan mætti ætla að þær gætu síðan komist til Þýzkalands. Ennfremur var það uppi látið af Bretum, að það væri ásetningur þeirra að stöðva allan flutning á íslenzkum afurðum til Norðurlanda, og auk þess sóttist erfitt að fá útflutningsleyfi frá Bretlandi á ýmsum nauðsynjavörum hingað til lands, auk kola og salts, t. d. á veiðarfærum. Þessa grein gerði landsstjórnin hér fyrir því, að hún gerði samning við Breta um alla verzlun landsins, samkv. bráðabirgðalögum, sem konungur staðfesti 24. maí. Samningurinn var síðan sendur öllum lögreglustjórum landsins, en ekki birtur opinberlega, og jafnframt gaf landsstjórnin út reglugerð, dags. 24. júní, um útflutning vara frá landinu. Í samningnum var ákveðið, að skipað yrði svo fyrir, að skip, sem flyttu farma héðan til útlanda, yrðu ekki afgreidd héðan nema þau áður væru skuldbundin til að koma við í brezkri höfn. Undanskilin voru þó skip, sem héðan færu til Ameríku, ef brezki ræðismaðurinn hér væri því samþykkur. Með þessu vildu Bretar létta sér eftirlitið með því og tryggja sér það, að afurðir landsins lentu ekki til óvinaþjóðanna, né til Norðurlanda eða Hollands og svo þaðan aftur til Þýzkalands. Þó skyldi ekki hindrað, að fluttar yrðu til Danmerkur þær íslenzkar afurðir, sem notaðar yrðu þar í landi samkv. neyzluþörfinni. Gegn þessari skuldbindingu var svo sett það ákvæði, að ef ekki fengist markaður fyrir allar afurðir landsins utan þess svæðis, sem bannað var að flytja þær til, þá skyldi brezka stjórnin kaupa afurðirnar af framleiðendum og kaupmönnum hér fyrir verð, sem ákveðið var í samningnum fyrst og fremst til ársloka 1916. Brezka stjórnin skyldi svo sjá um að hingað fengist flutt frá Bretlandi það, sem þyrfti af kolum, salti, veiðarfærum, síldartunnum, steinolíu, kornvöru, sykri, kaffi, lyfjum og öðrum nauðsynjavörum, sem annað hvort eru ófáanlegar annars staðar, eða hagfeldast þykir að fá frá Bretlandi. Þannig gerði

landsstjórnin grein fyrir þessum samningi í skýrslu, sem birt var hér í blöðunum, og maður var sendur til Lundúna, er dvelja skyldi þar og vera umboðsmaður fyrir Ísland í verzlunarmálunum.

Skömmu eftir að samningurinn var gerður, kom það í ljós, að hann var ekki skilinn á sama hátt af báðum málsaðilum, og varð það til þess, að Bretar stöðvuðu í bili vöruflutningaskip, sem voru á leið þaðan hingað til lands, þar á meðal skip með síldartunnur til Norðurlands, og olli þetta töfum við veiðarnar þar, eins og áður er getið. Bráðlega greiddist þó úr þessu. En nokkuð hefir verið deilt í blöðum um verðlagið á íslenzku vörunum í samningnum, og hafa sumir talið það of lágt. Mikið af afurðum héðan hefir einnig selst fyrir hærra verð en þar er ákveðið, og nokkrar undanþágur hafa fengist um vöruflutning til Norðurlanda, bæði fyrir síld og kjöt. Landsstjórnin hefir þetta ár, eins og árin á undan, keypt mikið af vörum í New York, og eins hafa einstakir kaupmenn gert. Bæri skip Eimskipafélags Íslands hafa farið ferðir vestur um haf, og svo hefir landsstjórnin haft flutningaskip á leigu, sem einnig hefir verið í förum milli New York og Reykjavíkur.

Þótt þeir samningar kæmust á við Breta um verzlunina, sem frá hefir verið sagt, og öll farmskip héðan ættu samkvæmt honum að koma við í enskri höfn, höfðu Bretar samt sam áður strangt eftirlit með öllum skipaferðum að landinu og frá því. Herskip þeirra voru á verði hringinn í kring um land, tóku skipin í hafi, rannsökuðu farm þeirra og sendu þau til enskrar hafnar, ef nokkuð þótti athugavert, hvernig sem á stóð, þótt þau væru komin upp undir land hér á leið frá útlöndum, og olli þetta oft miklum töfum og ruglingi á skipaferðunum, því eftirlitið náði einnig til þess, að ekki væru fluttar til landsins þýzkar vörur, og hefir öllum böglapósti hingað frá útlöndum verið haldið eftir í Englandi til skoðunar og hann tafist þannig um eina skipsferð. Við hefir það borið, að skipstjórar, sem farma hafa flutt héðan, hafa reynt að fara í bág við brezka samninginn og koma vörunum beint til Norðurlanda; mun það hafa tekist stundum, en oftar þó farið svo, að þeir lentu í höndum Englendinga og voru þá fluttir til enskrar hafnar. Verst kom enska eftirlitið niður á Björgvinjarskipinu »Flóru«, sem er póstskip og hér í ferðum eftir föstum áætlunum. »Flóra« fór frá Reykjavík 7. júlí suður um land og með henni fjöldi farþega, mest verkafólk til Austfjarða og Siglufjarðar og margt af því kvenfólk. Spurðist ekki til skipsins frá því er það fór frá Vestmannaeyjum, 8. júlí, fyr en 14. s. m. Þá kom fregn um, að enskt herskip hefði tekið það í hafi og flutt til Lerwick, og eftir nokkurra daga dvöl þar var það flutt suður til Leith. Þaðan voru svo farþegarnir sendir með öðru skipi, »Goðafossi«, til Seyðisfjarðar og komu þangað í lok mánaðarins, en »Flóra« hélt frá Leith til Noregs. Kostaði enska stjórnin ferð og fæði farþeganna til Seyðisfjarðar, en vildi ekki aðrar bætur greiða. En verkafólkið hafði við þessa hrakninga orðið fyrir miklu atvinnutjóni og samþykti alþingi, sem saman kom í árslokin, að það tjón yrði bætt úr landsjóði, en síðan gengið eftir endurgreiðslu á þeim kostnaði hjá ensku stjórninni.

Um haustið komu aðrar hindranir í veginn fyrir skipaferðir til útlanda, en þær stöfuðu frá þýzkum kafbátum, sem um tíma voru á sveimi um hafið milli Íslands og Englands og áttu að varna matvælainnflutningi til Englands jafnframt því sem þeir herjuðu á ensk skip. Við þýzka hernaðarkafbáta varð hér fyrst vart í lok októbermánaðar. Þá sökti einn þeirra ensku fiskiskipi úti fyrir Berunesi eystra, en skipverjar björguðust til lands. Sögur hafa gengið um, að fleiri enskum skipum hafi verið sökt hér í grendinni og skipshafnirnar sendar til Englands, en óljósar eru fregnir um það. Um sama leyti voru tveir af botnvörpungunum héðan, sem voru á leið til Englands með fiskfarma, stöðvaðir suður í hafi af þýzkum kafbátum. Öðrum þeirra, »Rán«, var slept gegn loforði um, að snúið yrði aftur með farminn hingað til lands og skipið ekki framar notað til vöruflutninga til Englands meðan á ófriðnum stæði, en hinn, »Bragi«, var sendur til Santander á Spáni með skipshafnir af nokkrum enskum botnvörpungum, sem kafbátar höfðu sökt. Þetta varð til þess að draga mikið úr ferðum botnvörpuskipanna héðan með fisk til Englands um hríð, og varð lítið um þær úr þessu, þangað til kom fram um áramótin.

Alþingiskosningar fóru fram þetta ár, og voru nú í fyrsta sinn kosnir með hlutfallskosningum til efri deildar sex menn í stað hinna fyrverandi konungkjörnu þingmanna, samkvæmt hinni nýju stjórnarskrá. Landskosningarnar fóru fram 5. ágúst, en atkvæðin voru talin 11. september. Kosið var um sex lista og urðu úrslitin þessi: A., listi Heimastjórnarmanna, fékk 1950 atkv., B., listi Þversum-manna, 1337 atkv., C., listi verkamanna, 393 atkv., D., listi óháðra bænda, 1290 atkv., E., listi Langsum-manna, 419 atkv. og F., listi Þingbændaflokksins, 435 atkv. Hlaut A-listinn 3 þingmenn, B-listinn 2 og D-listinn 1. Voru kosningarnar yfir höfuð illa sóttar. Við þessar kosningar kusu konur hér í fyrsta sinn alþingismenn, en þó var atkvæðisréttur þeirra og annara kjósenda, sem fengið höfðu hann með nýju stjórnarskránni, í þetta sinn bundinn við 40 ára aldur. Auk eldri stjórnmálaflokkanna, sem voru fjórir á síðasta þingi, komu fram við þessar kosningar tveir nýir flokkar: verkmannaflokkurinn, sem nefnir sig Alþýðuflokk, og hinir svokölluðu »óháðu bændur«. Hafa verkamenn ekki komið fram sem sérstakur flokkur við alþingiskosningar fyr en nú. Hinn nýi flokkurinn nefndi sig flokk óháðra bænda til aðgreiningar frá bændaflokki þingsins. Átti hreyfingin til flokksmyndunarinnar rót sína í ágreiningi þeim, sem reis upp síðari hluta ársins 1915, eftir þing, milli sjávarmanna og kaupstaðarbúa öðru megin og sveitamanna hinu megin, en á þetta er drepið í fréttum frá því ári. Allfjölmennur bændafundur var haldinn við Þjórsárbrú 19. janúar og þar saminn landskjörlisti hinna »óháðu bænda«, eða uppkast að honum. Síðan voru bændafundir haldnir víða í héruðum til þess að koma á samtökum um fylgi við listann. En þegar í stað mættu þó þessi samtök nokkrum mótblæstri, einnig frá landbúnaðarmanna hálfu, er töldu það óráð, að menn færu að fylkja sér til þingkosninga eingöngu eftir stéttum og egna atvinnurekendur landsins hverja

gegn öðrum. Fór svo á Þjórsárbrúarfundinum, að sjávarútvegsmenn voru teknir á listann jafnframt landbændunum, og hét þá svo sem hér væri um að ræða lista frá framleiðendum landsins í heild, en ekki landbúnaðarmönnum eingöngu.

Allir sex flokkarnir, sem borið höfðu fram lista við landskosningarnar, höfðu og þingmannaefni í boði við kjördæmakosningarnar á eftir, verkmannaflokkurinn þó aðeins í 2 kjördæmum: Reykjavík, Akureyri. Kjördæmakosningarnar fóru fram 21. október. Flokkaskifting var í þetta sinn miklu óákveðnari en verið hefir hér við alþingiskosningar að undanförnu, vegna þess, að í fæstum kjördæmunum komu fram nema 2 eða 3 af þeim 6 flokkum, sem um var að ræða, og urðu því kosningabandalögin á ýmsa vegu. Ýms af þingmannaefnunum buðu sig líka fram utan flokka. Af þessu leiddi, að það var engan veginn ljóst að kosningunum afstöðnum, hvernig flokka-afstaðan mundi verða, þegar á þing kæmi. Það eitt virtist sýnilegt, að Heimastjórnarflokkurinn mundi verða fjölmennastur, en þó ekki hafa meiri hluta í þinginu einn sér, og þar næst flokkur Þversum-manna. Stjórnarflokkurinn (Langsum) hafði lítið fylgi fengið. Það varð þá úr, eftir að kosninga-úrslitin urðu kunn, að aukaþing var kvatt saman 11. desember. Færði stjórnin þær ástæður fyrir því, að í fyrsta lagi væri afstaða sín til þingins óviss, í öðru lagi yrði að endurskoða verðlagsákvæði brezka samningsins um áramótin, og í þriðja lagi yrði að sjá landinu fyrir strandferðum næsta ár, en Eimskipafélag Íslands hafði tjáð stjórninni, að það treysti sér ekki til að hafa skip sín í strandferðum næsta ár, eins og verið hafði þetta ár, nema þá fyrir margfalt hærra gjald. Þegar þingið kom saman, fór þar svo um flokkaskipunina, að Heimastj.-menn urðu 15 og Þversum-menn 12, en nýr flokkur myndaðist, sem nefndi sig Framsóknarflokk, og urðu 11 í honum, eða í bandalagi við hann. Þangað fóru þeir, sem kosnir voru undir merkjum Þingbændaflokksins gamla og hinna óháðu bænda, einnig þeir, sem boðið höfðu sig fram utan flokka, og fulltrúi verkmannaflokksins, sem komið hafði einum manni að við kosningarnar, í Reykjavík, gekk í bandalag við þann flokk. Utan þessara flokka voru þá aðeins tveir þingmenn, ráðherrann við annan mann, og urðu þeir í kosningabandalagi við Heimastjórnarflokkinn.

Ráðherra lýsti því yfir þegar í byrjun þings, að hann ætlaði að biðjast lausnar. Varð það svo að samkomulagi milli þeirra þriggja flokka, sem nefndir hafa verið, að mynduð yrði þriggja manna stjórn og legðu flokkarnir til í hana sinn manninn hver. Skyldi það gert til þess að forðast sem mest deilur og flokkadrætti innan lands meðan á þeim vandræðum stæði, sem styrjöldin veldur, og farið að dæmi annara þjóða, er myndað hafa hjá sér slík samsteypuráðuneyti, eða friðarstjórnir, nú á styrjaldartímunum. Lög voru samþykt af alþingi og staðfest af konungi, sem mæla svo fyrir, að ráðherrar skuli framvegis vera þrír og ákveði konungur starfsvið þeirra, en landritaraembættið skuli niður leggjast. Eftir samkomulagi við þingið fól konungur Jóni Magnússyni bæjarfógeta að mynda hið nýja ráðuneyti. Einar Arnórsson fekk svo lausn frá ráðherraembættinu 4. jan. 1917 og jafnframt var

Klemenz Jónssyni veitt lausn frá landritaraembættinu með biðlaunum samkv. lögum. Sama dag voru skipaðir ráðherrar: Jón Magnússon bæjarfógeti, úr Heimastjórnarflokknum, Björn Kristjánsson bankastjóri, úr Sjálfstæðisflokknum (Þversum) og Sigurður Jónsson bóndi á Ystafelli, úr Framsóknarflokknum. Jóni Magnússyni var falið forsæti ráðuneytisins. Annað, sem tíðindum sætir, var ekki fullgert á þinginu við áraskiftin, og bíða því nánari fregnir af gerðum þessa þings næsta árs frétta.

Verkmannafélagsskapurinn, sem getið er að nokkru hér á undan, hefir mikið magnast á þessu ári í ýmsum kaupstöðum landsins, einkum í Reykjavík. Við bæjarstjórnarkosningar þar í janúar kom listi verkmanna að 3 fulltrúum af 5, en listi Heimastjórnarmanna 2. Þrír listar aðrir, sem fram komu, fengu engan. Þessi hreyfing kom á stað verkfalli meðal háseta á botnvörpuskipum Reykvíkinga í byrjun maí og var einkum um það deilt, hvort lifur sú, sem á skip kæmi, væri eign útgerðarmanna eða háseta. Höfðu hásetar haft hana sem verðlaun að undanförnu og nú var hún í háu verði. Verkfallið stóð nálægt hálfum mánuði og endaði með því, að samtök háseta riðluðust, enda þótti verkfallið byrjað af lítilli fyrirhyggju. Í febrúar var og gert verkfall um tíma í Hafnarfirði út af kröfum um hækkun vinnukaups, og var deilan einkum við enskt útgerðarfélag, sem þar starfar.

Jafnframt alþingiskosningunum fór fram almenn atkv.greiðsla um það, hvort lögleiða skyldi þegnskylduvinnu, eins og um hafði verið talað á alþingi 1915, og fékk það mál lítið fylgi. Unnið hefir verið að kolanámum vestan lands á árinu og hefir félag myndast í Kaupmannahöfn til þess að hrinda því verki áfram. Í Reykjavík hefir félag myndast til að taka upp að nýju kalkvinslu í Esjunni. Fyrir árslokin var byrjað að reisa loftskeytastöð rétt við Reykjavík. Brýr hafa verið gerðar á Breiðumýrará í Suður-Þingeyjarsýslu og Miðfjarðará á Langanesströndum, en unnið að brautagerðum á Húnvetningabraut, Skagfirðingabraut, Reykjadals- og Grímsnesbraut. Borgarfjarðarbraut hefir verið afhent hlutaðeigandi sýslufél. og Reykjadalsbraut er lokið. Að þjóðvegum hefir verið unnið á Stykkishólmsvegi, Laugadalsvegi og Hróarstunguvegi. Stórir flutningabílar voru þetta vor fengnir á vegina frá Reykjavík til Suðurláglendisins og fóru eftir áætlunum, en urðu að hætta á miðju sumri vegna ýmislegra óhappa.

Mörg slys hafa orðið á sjónum þetta ár, eins og fyrri. Hið stærsta varð 30. nóv., er annað af skipum Eimskipafélags Íslands, »Goðafoss«, strandaði við Straumnes, norðan Aðalvíkur. Varð öllu bjargað úr skipinu, en það náðist ekki út. Eitt af botnvörpuskipum Reykvíkinga, »Marz«, strandaði 27. okt. á Gerðahólma við Reykjanes og fórst, en menn komust af. Annað, »Skallagrímur«, sökk um haustið rétt utan við Reykjavík, en náðist upp aftur að mestu óskemt. Gufuskipið »Patría«, eign Friðriksens kaupm. í Rvík, fórst á leið hingað með timburfarm frá Noregi í nóv., en skipshöfninni var bjargað af ensku herskipi. 2 vélbátar fórust frá Vestmannaeyjum, annar í janúar með 4 mönnum, hinn í apríl með 3 mönnum. Í norðanveðrinu seint í marz urðu mannskaðar á sjó við Faxaflóa. 6. apríl strandaði færeysk fiskiskúta við Mýrdalssand. 17. sept

strandaði danskt flutningaskip, »Elín«, á Blönduósi. 19. okt. strandaði íslenzkt flutningaskip, »Resolut«, í Grindavík og í október annað, »Steini«, við Héraðssand. Í nóv. fórst bátur með 3 mönnum frá Grindavík og 1. des. bátur frá Höskuldsey á Breiðafirði með 4 mönnum. Og fleiri slík slys hafa orðið.

Sæsíminn slitnaði norðan við Færeyjar 7. febrúar og náðist ekki samband aftur fyr en 9. marz. Um líkt leyti urðu miklar bilanir á landsímanum sunnan Holtavörðuheiðar af ísing.

Brunaslys eru þessi hin helztu: 27. jan. brann íbúðarhús læknisins á Eyrarbakka og í sama mánuði bærinn Melar í Víkursveit. 27. marz brann svo nefnt Waageshús í Reykjavík, 23. júlí bærinn Skógargerði í Norður-Múlasýslu, 4. ág. hús á Akureyri, 1. sept. bærinn Ketilvellir í Laugardal, 17. s. m. bærinn Krókur í Grafningi og einnig í þeim mánuði bærinn Forsæti í Landeyjum, en 16. okt. brunnu útihús og gripahús á Borg á Mýrum.

Helztu mannalát á árinu eru þessi: Magnús Stephensen umboðskaupm. druknaði á leið frá Rvík til Khafnar 13. jan.; Guðm. Bárðarson bóndi, frá Bæ í Strandas., andaðist 16. jan.; Árni Jónsson prófastur á Hólmum í Reyðarfirði 27. jan.; Stefán bóndi í Möðrudal á Fjöllum 3. febr.; Jon Jónsson kaupm. frá Borgarnesi 11. febr.; Björn Pálsson ljósm. á Ísafirði 14. febr.; Guðrún Pétursdóttir, ekkja síra Guðm. Johnsens í Arnarbæli, 8. marz; Símon Dalaskáld 12. marz; Andrés Björnsson cand. phil. varð úti, fanst 19. marz; Sigríður Eiríksdóttur, ekkja Jóns Þórðarsonar prests á Auðkúlu, andaðist 23. marz; Anton Bjarnasen kaupm. í Vestmannaeyjum 27. marz; Jónas Guðlaugsson skáld andaðist á Jótlandi 18. apríl; Þorst. Thorarensen bóndi á Móeiðarhvoli í Rangárv.s. 29. apríl, Sig. Jónsson bóndi á Hofstöðum í Skagafirði í apríl; Ingibj. Guðnadóttir, kona síra Bjarna Pálssonar í Steinnesi 1. maí; Vilborg Sigurðard., ekkja síra Magn. Jónss. í Laufási, 9. maí; Jósef Einarsson bóndi á Hjallalandi í Húnav.s. 21. maí; Skúli Thoroddsen alþm. í Rvík 21. maí; Andrés Andrésson verzlunarm. í Rvik 30. maí; Magnús Vigfússon á Miðseli í Rvík 14. júní; Guðrún Sveinbjarnardóttir Egilsens, ekkja Þórðar prests í Otrardal 19. júní; Jón Hallsson hreppstj. á Smiðjuhóli á Mýrum 4. júlí, Eugenia Nielsen á Eyrarbakka 8. júlí; Jón Ólafsson rithöfundur í Rvík 11. júlí; Björn Þórhallsson frá Laufási í Rvik andaðist í Noregi 13. júlí; Þorv. Jónsson læknir á Ísafirði 24. júlí; Einar Guðjónsson veitingamaður í Rvík druknaði seint í júlí; Sigurður Sigurfinnsson hreppstj. í Vestmannaeyjum snemma í sept.; Ásgeir Torfason efnafræðingur í Rvík 16. sept.; Kristinn Stefánsson skáld í Winnipeg seint í sept.; Vigfús Sigfússon veitingam. á Akureyri 5. okt.; Rannveig Jónasson í Winnipeg, kona Sigtr. Jónassonar kapteins, 5. okt.; Sig. Þórðarson útvegsbóndi í Rvík 8. okt.; Símon Bjarnason verzlunarm. í Rvík 31. okt.; Jörgen Hansen kaupm í Hafnarfirði snemma í nóv.; Þorst. Jónsson hreppstj. í Vík 20. nóv.; Einar Thorlacius fyrv. sýslum. dó í Khöfn 21. nóv.; Ólafur Johnsen yfirkennari frá Odense dó í Khöfn 14. des.; Þórhallur Bjarnarson biskup 15. des.

Þ. G.

---

113



# Þórhallur biskup Bjarnarson.

Sá bölþrungni hljómur, sem berst yfir fold,
er bergmál af útfarar lögum;
það lögmál, sem gerir að heyviskum hold,
er hraðvirkt á síðustu dögum.

Hve valurinn dyngist um öræfi og ál!
hver akurstöng logandi kveikur!
Um kirkjurnar snarkar hið blóðuga bál
og brenna um skrauthýsin leikur.

Til dóma og morða hin drotnandi hönd
sig dúðar í herneskju týgjum.
Og feigðin með símanum fer yfir lönd
og farmur af tundri í skýjum.

* * *

En biskupinn okkar, hann leitaði lags
að leiðbeina ráfandi sálum,
er umsýslu helgaði eyktina dags
og aftaninn djúpvizku málum.

Hinn gullrauði þráður í orðum hans æ
var eggjun til starfa og dygða —
á farkosti sjálfs sín að fljóta um sæ
að furðuströnd ókendra bygða.

Á friðstóli ríkt' 'ann í hógværðar hjúp,
með handlægni rýmkaði klafa,
og bar því úr kirkjunni blóðfórn á djúp
og bálreiði Abrahams Jahva.

Við skinhelgi forna í látbragði laus,
og lögstirfni, er guðsríki smækkar,
í orðum og gjörðum hann kirkjunni kaus
þann kærleik, er deilunum fækkar.

Frá Mekka til Róms og um Móisesfjall
hans mannúð sá, fram og til baka —
um Laótze goðorð og Kristninnar kall
og kóngsríki Búddha hins spaka.

Hann vildi á gjörvalla sök væri sæzt,
að sól skini mannúð um vanga.
Á hátypta fjallinu menn geta mæzt,
er margskonar einstígi ganga.

Þó mennirnir eigi sér margháttað kall,
og mörg virðist sinnin og týgin,
í allsherjardepli hið uppdregna fjall
að endingu sameinar stígin.

Að endaðri þrætu um hismi og hjóm
þeim hugnast nú takmarkið sama
hjá Einum, sem skiftist við orðmynda hljóm
í Alföður, Drottin og Brahma.

Og þeirra er dýrðin, sem hugsa svo hátt:
að hlýju og glódöggum viðri —
að vegirnir mætist í eilífðarátt,
þó einstígin deilist hér niðri.

Og hugmyndin persneska honum ei hvarf
þó hann væri biskup og prestur —

að Alföður kærara er akurmanns starf,
en útþyntur trúmála lestur.

Og þar að 'ins burtfarna höfðingja hneig
hver hugsun um nætur og daga
að gera úr melunum gróanda teig,
að guðsríki íslenzkan haga.

Hve geislana hæna að griðastað manns
þær gyðjur, sem kransana binda.
Og þess vegna leggur að leiðinu hans
þann ljóma, sem náttmálin kynda.

*Guðmundur Friðjónsson.*

---

# Svipir í skuggsjá haustsins.

---

Seztu í hornið hjá mér
Haust-stund þessa, góði!
En eg ætla að ljá þér
Augun mín, í ljóði.
Og ef augun duga,
Út um þröngva skjáinn
Oft má horfa úr huga
Harma sína í bláinn.

Ekkert áttu að heyra
Úti af rakka gjammi,
Lát ei inn um eyra
Eldhúss-skvaldrið frammi.
Hugann, heima-fjærri,
— Hvað sem annað varðar —
Gerðu að skemti-skærri
Skuggsjá lofts og jarðar.

Út í breiða-blikið
Blámóðunnar fljóttu.
Sé í víðsýn vikið
Veru þinni, og njóttu.
Sjáðu í haustsins hljóði
Hvernig aftni miðar,
Sem með lita-ljóði
Laðar alt til friðar.

Er sem haustið uni
Öllu er hefir bjargast,
Þó að mót-tækt muni
Margt sem hlaut að fargast.
Rótt sem þýðar þakkir
Þreytumanns í augum.
Skruggu-byljir blakkir
Byltast hvergi á taugum.

Gleymir flissi gjöllu
Grózku ofsahlátur.
Bros er yfir öllu
Eins og þerður grátur.
Fjalla hlíðar húmar,
Hillir skörðin tinda,
Hvíta-roði um rúmar
Rekkjur þýðu-vinda.

Breiðar suður-sveitir
Silfri og gulli stafar.
Skógi í bláfell breytir.
Blika Vitaðsgjafar,
Akrar, á upsir settir
Aftanhillinganna,
Sólskins svitablettir
Sumars landnemanna.

Skín við skógarbekki
Skini fextur glampi,
Lýsan af er ekki
Akra stýfðum kampi.
Enn er ei ekran tóma
Yrkt, né þessi heiði
Hverfð í blaðs og blóma
Breiða moldarleiði.

Sem á haugum hljóðum
Hrókar gullsins bleika
Trén að gulum glóðum
Gyltra blaða leika.
Þegar í stráum stynja
Stopul-vinda hviður
Haust-fölvingar hrynja
Herðar þeirra niður.

Lægri lyngsins gróður
Laufum utast þrengir,
Fram um raða rjóður
Rauðar luktir hengir.
Eins og yzt í borgum,
Undir birtu-hallið
Lýð frá turn og torgum
Týrur benda í svallið.

Inni er ömurlegra.
Eggtíð löngu búin,
Hreiðrin þrasta og hegra
Hanga tóm og flúin.
Glapin ró í runnum,
Roggar ugla á meiðum.
Úlfar átu-munnum
Ýlfra á héra-veiðum.

Upp úr runna rönum
— Rúst af berum krúnum —
Glottir bleikum grönum
Grein í móum brúnum,
Glæjum laufum gægist
Gegnum kræklur visnar,
Sem í hrauni sæist
Svarðar-tætlur gisnar.

Stöku víði-viður
Viðrar holta-glæður.
Hrynja af höfði niður
Hvítar silkislæður,
— Brúðarlín úr bari
Borið undir vetur —
Og í vinda vari
Veizlu að hausti setur.

Grænt í vindhá vetrar
Vefa engin slegin.
Sinu-brekku betrar
Borið hádags-megin
Blóm, sem lágt við ljómar
Litla sólskins-vöku.
Sumars eftir-ómar,
Ellikvæðin stöku.

Svo hefir ársins elli
Ennþá fingur mjúka,
Sem hún fríðast felli
Friðar-liti á sjúka,
Mjalla-hvítu kransins
Krónur þistla skrýðir.
Eins og lýður landsins
Líkin bezt hún prýðir.

Létt á logni fljóta,
Lágt við grund og hæðir,
Spunnir um hnjósk og hnjóta
Huldu-silfurs þræðir,
Hengdir, hvern sem noti
Hæl í niður-tjóður,
Húsvilt fræ á floti
Fyrir næsta gróður.

Áin, lygn með löndum,
Læðist dalinn út um,
Fjara á flúð og söndum.
Fossarnir í mútum
Raula í hálfum hljóðum
Hikult gömlu lögin.
Hjaðnað hafa úr ljóðum
Hamra-bassa slögin.

Skyggir nótt. En nær gljá
Njósnaraugu stjarna.
Bjartast blika þær frá
Bládimmustu þarna!
Ljós og ljóða-kliðinn
Lúr og blundur slökkva —
Eitt sinn út í friðinn
Allir strengir hrökkva.

8.—10.—'16.

*Stephan G. Stephansson.*

---

# ARBEITERDORF BOURNVILLE
## BEI BIRMINGHAM.



1. SCHULE
2. GEMEINDEHAUS
3. RUSKIN HALL
4. GYMNASIUM
5. BOURNVILLE HALL
6. FABRIK
7. POST
8. RESTAURANT
9. ALMSHOUSES
10. PARK
11. SPIELPLÄTZE
    a. FÜR MÄNNL. PERS.
    b. FÜR WEIBL. PERS.
    c. FÜR KINDER
12. TEICHE
13. BAHNHOF

NACH BIRMINGHAM

100 0 100 200 300 400 500 600 700 800 900 1000 ENGL. FUSS

# Nýtízkuborgir.

---

Frh.

*Þýzk fyrirmyndarþorp*

Eins og fyr er sagt, var það enskur auðmaður og verksmiðjueigandi, sem fyrstur reið á vaðið og stofnaði fyrirmyndarþorp. Engum lá þetta nær en ríkum iðnaðarforkólfum. Með þeirri geysiframför, sem var í iðnaði á síðari helming liðinnar aldar, bygðu margir þeirra stóreflis verksmiðjur og þurftu á verkamönnum að halda í þúsundatali. Í stórbæjunum var landið dýrt og oft erfitt að fá hentugt svæði fyrir stórbyggingar, en væri bygt í sveit eða smáþorpum skorti vinnulýð, nema honum væri jafnframt séð fyrir húsum og helztu nauðsynjum. Nú var það að sjálfsögðu mikilsvarðandi mál fyrir verksmiðjueigendur, að verkamenn þeirra væru hraustir og heilsugóðir og lifðu við sæmilegan hag. Næst því að gjalda þeim viðunandi kaup var það mest um vert, að sjá þeim fyrir góðum húsakynnum. Það var því bæði eigin hagur og umhyggja fyrir velferð almennings, sem kom verksmiðjueigendum til þess að byggja ógrynni húsa handa verkamönnum sínum eða lána þeim fé til bygginga, og jafnframt hlutu þeir eða byggingameistarar þeirra að hugsa um, hversu alt skipulag þessara nýju þorpa gæti orðið bezt og hentugast. Á þennan hátt

spratt upp fjöldi smáþorpa Cité ouvrière[1]) við Mülhausen í Elsass, bygðu 12 verksmiðjueigendur húsin nokkru eftir 1840 með ríkisstyrk og seldu verkamönnum þau. 1884 voru þau rúmt þúsund að tölu en salan hefir haft þau áhrif, að öll húsin hafa gengið úr eigu verkamanna!

Þó verksmiðjueigendur og félög einstakra manna bygðu heil þorp og borgahluta víðsvegar um lönd, þá voru Þjóðverjar hvað fyrstir til þess, eftir T. Salt, að setja fyrirmyndarsnið á þorp sín. Árið 1873 bygðist námubærinn Hannover III., 1875 námubærinn Hannover II., 1875 Zeeacker hjá Höchst og úr því fjöldi annara. Áður hafði það verið venjan, að verksmiðjueigendur reistu vinnuskála sína í stórbæjunum þar sem nóg var af verkalýð, létu hann sjá um sig og hola sér niður hvar sem hann gat í fátæklingahíbýlum þar. Sumir verksmiðjueigendur tóku nú að sjá verkamönnum sínum fyrir góðum húsum, byggja verkamannahverfi í borgunum eða útjöðrum þeirra, en síðan komst það lag á, að verksmiðjurnar voru reistar u t a n bæjanna og verklýðurinn bjó í litlum bæ, út af fyrir sig, fékk góð húsakynni fyrir tiltölulega lágt verð, nokkurt land til garðræktar (200—600 □ st.) sem fylgdi húsinu. Auk þess var séð fyrir ýmsum öðrum þægindum og nauðsynjum, góðum skólum, leikvöllum og þvílíku. Húsin og landið voru eign verksmiðjueigendanna, en leigan svo lág, að rétt svaraði kostnaði eða varla það, og fór ekki hækkandi. Þá var og vandað til alls skipulags margra bæjanna, séð um að allt liti smekklega út, að hvorki yrði of þéttbýlt né híbýlaþrengsli inni í húsunum. Alkunnugt er hollenzka þorpið Agnetapark hjá Deelft fyrir fagurt skipulag. Aftur mun það ekki hafa um þessar mundir vakað fyrir neinum, að gera aðra endurbót með bæjum þessum en að tryggja góð húsakynni fyrir sanngjarnt verð, l j ó s  o g  l o f t í ríkulegum mæli, en vinnuveitendum að sjálfsögðu jafnframt nægilegan vinnukraft. Svo mikið

---

[1]) Conrad: Handw. Wohnungsfrage bls. 905.

var að þessu starfað í Þýzkalandi, að árið 1898 höfðu þýzkir verksmiðjueigendur bygt 140.000 íbúðir fyrir verkamenn sína.

Þó sum af þorpum þessum væru að mörgu leyti fyrirmyndarbæir geta þau tæpast jafnast við þrjú fyrirmyndar þorp ensk, sem enskir auðmenn bygðu skömmu fyrir aldamótin: Bournville, Port Sunlight og Earswick. Þorp þessi áttu mikinn þátt í því að vekja athygli fjölda manna á hverskonar endurbótum í skipulagi bæja.

*Bournville* bygði verksmiðjueigandinn George Cadbury í Birmingham, sem bjó til hið alþekta Cadburys cacao (súkkulaði). Hann flutti verksmiðjur sínar 1879 3 rastir út fyrir Birmingham, og varð því að sjá verkamönnum sínum fyrir húsnæði. Hann var mannvinur mikill, hafði ætíð látið sér ant um hag verkamanna sinna, eins og sjá má á því, að hann hafði mikinn hluta æfinnar kent börnunum sjálfur í sunnudagaskólanum, þó hann væri maður vellauðugur. Nú þótti honum miklu máli skifta, að verkamenn sínir fengju sem bezt húsakynni og að svo yrði vandað til verksmiðjuþorpsins, sem frekast væri kostur á. Fékk hann Alex Harway, ágætan byggingarmeistara, til þess að gera skipulag bæjarins. Réð hann og mestu um byggingarsnið húsanna. Harvay lauk þessu starfi af svo mikilli snild, að ekki hefir öðrum tekist öllu betur. Er því viðbrugðið hve Bournville sé fagur bær, hentugur og heilnæmur. Götur í Bournville eru 12,5 st. breiðar en skrautgarðar framan húsanna, svo að hvergi er skemra milli húsahliða en 25 st. og eru þó húsin lág, fæst hærri en 8 st., svo götubreiddin er fyllilega þreföld húshæðin. Breidd byggingareita (spildnanna milli samhliða gatna) er um 200 ensk fet og verða því breiðir

garðar að húsbaki. Hús verkamanna eru einlyft eða tvílyft, tvö og tvö bygð saman. Lengd þeirra flestra, er að götu veit, er um 5,5 st. (tæpar 9 álnir) en breiddin oftast nokkru meiri, 7-8 st. Á neðsta gólfi er venjulega 1) íbúðareldhús, 2) stofa, 3) þvotta- og baðklefi, en á lofti uppi þrjú svefnherbergi¹). Kjallari er enginn. Húsin eru af einfaldri ódýrri gerð, prjállaus en sérlega smekkleg og svo breytileg að ytra útliti, að götur eru mjög tilbreytilegar á að sjá, þó húsin séu mjög lík að stærð og herbergjaskipun. Millibilin milli húsagafla (húsasundin) eru 5 st. Lóðin, sem húsi hverju fylgir, er löng ræma um 12--15 st. á breidd en fullar 30 st. á lengd, að meðaltali 500 □ st. ($^1/_6$ úr dagsl.). Nokkur hluti hennar gengur í blómgarðinn framan hússins, en mestur hlutinn liggur að húsabaki og er notaður til matjurta og ávaxtaræktunar. Garðstærðin var aðallega miðuð við það, að hver húseigandi hefði svo mikið land, sem líklegt væri að hann kæmist yfir að rækta í frístundum sínum svo að vel væri, en auk þess gera garðarnir að sjálfsögðu bygðina dreifðari og loftið betra. Þá er það og mikilsvirði að verkamenn, sem eiga að vinna allan daginn við tilbreytingarlaust verksmiðjustarf geti haft eitthvert annað frábrugðið útistarf að dunda við í frístundum. Það er svo sem sjálfsagt að með svo ríflegu milli-




3. mynd.
**Hagnýting 2. húslóða í Bournville.**
R blómrunnar, G grasblettir, B skrautblóm, S stígur, H hlað fram undan útidyrum, L leikvöllur barna, M matjurtagarður. A aldingarður.

¹) Herbergjaskipun er svipuð þeirri sem sýnd er á 6 mynd af vinnumannahúsum í Port Sunlight.

bili milli húshliða njóta húsin ágætlega sólar. Sum húsin eru þó mun stærri en hér er lýst og lóðir að sama skapi.

Fyrir öllum almenningsþörfum sá Cadbury vandlega. Í þorpinu var bygður ágætur skóli, bókasafn, samkomuhús, sem einnig er notað til guðsþjónustu, miklir leikvellir, skrautgarðar o. fl., jafnvel dálítil rannsóknarstöð fyrir athugun á stjörnum. Gamalmennahæli lét hann hann byggja og fá verkamenn hans þar ókeypis íbúð í elli sinni. Öllu þessu var skipað með tilliti til þess, að þorpið liti sem prýðilegast út.

Í fyrstu seldi Cadbury landið. Hann sá mönnum sínum fyrir $2^1/_2$—$3^0/_0$ byggingarlánum með vægum afborgunum. Síðar hefir hann afhent félagi miklu þorp og land. Það hætti að selja landið, svo nú fæst það aðeins til leigu en með sanngjörnum föstum kjörum. Fjöldi annara manna hefir sezt þar að en verkamenn Cadburys, svo þeir eru nú ekki fullur helmingur þorpsbúa. Landareign þorpsins er nú 248 ha eða 7—800 dagsláttur. Íbúar voru 1911 um 4000.

*Árangurinn.* Hver varð svo árangurinn af allri þessari nýbreytni? Allur búskapurinn bar sig vel og Cadbury fékk fé sitt skilvíslega aftur. Verkamennirnir lifðu að sjálfsögðu við miklu betri kjör en fyr og urðu þó smámsaman húseigendur. Fjármunalega var því ekkert út á þetta að setja. Aftur höfðu þessi góðu híbýli og allur umbúnaður mikil og góð áhrif á verkalýðinn. Drykkjuskapur hvarf, efnahagur batnaði stórum, verkamenn keptust hver við annan um að þrífa hús sín og rækta garða sína. Þeir reyndust ekki lítil búbót og gefur garður hver að meðaltali fjölskyldunni kartöflur allar og grænmeti sem hún þarf með, en auk þess afurðir til sölu sem nema að meðaltali um 100 kr. virði á ári hverju. Svo vel rækta þorpsbúar bletti sína, að þrátt fyrir að mikill hluti landsins er óræktaður (hússtæðin, götur, o. fl.), gefur það nú á t t f a l t af sér í samanburði við fyr, meðan það lá undir sveitajarðir.

Ekki skiftir það hvað minstu máli hver áhrif alt þetta hafði á heilbrigði bæjarbúa. Á 5 ára tímabili dóu af hverjum 1000 íbúum 5.5 í Bournville en 10,2 í Birmingham, sem er þó óvenjulega lítill manndauði. — Af hverjum 1000 börnum, sem fæddust lifandi, dóu á 1. ári í Bournville 68, í Birmingham 92. En það var eigi aðeins að heilbrigði batnaði að miklum mun og færri dæju. Börnunum fór miklu betur fram en í verkafólksgötunum í Birmingham (Floodgate Street):

Þyngd drengja (ensk pund).

| | 6 ára | 8 ára | 10 ára | 12 ára |
|---|---|---|---|---|
| Í Bournville | 45.0 | 52.9 | 61.6 | 71.8 |
| Í Birmingham | 39.0 | 47.8 | 56.1 | 63.2 |

Þegar litið er yfir það sem hér hefir verið drepið á, verður ekki annað sagt, en að hin mikla tilraun Cadburys hafi tekist ótrúlega vel. Glæsilega fagur varð bærinn hans, heilnæmur og hentugur. Þó var húsaleigan tiltölulega miklu lægri en í borgunum. Fólkinu leið á allan hátt betur, ekki sízt uppvaxandi kynslóðinni. Alt bar sig vel og sveitaakrarnir gáfu áttfalt meira af sér þar sem bærinn var bygður en þeir höfðu áður gert!

*Port Sunlight.* Einn af mestu sápugerðarmönnum heimsins er Sir William Lever. Hann stofnaði sápugerð í Liverpool um 1886, rak hana með dæmafáum dugnaði og framsýni svo sápa hans seldist bráðlega víðsvegar um heim (»Sunlight« sápa).[1] Um sama leyti og Cadbury flutti hann verksmiðjur sínar út fyrir borgina, keypti þar 142 ha. af landi og bygði verksmiðjuþorp í líku sniði og Bournville fyrir 4—5000 íbúa, sem hann nefndi Port Sunlight. Um bæ þennan er flest hið sama að segja og fyr er sagt um Bournville. Húsin eru álíka stór, fyrirkomulag þeirra svipað og skipulag bæjarins áþekt, þó sumt sé frábrugðið. Húsin eru flest sambygð, 4—8 saman, forgarðar við framhlið húsanna og litlir umgirtir garðar að húsabaki en bak við leigugarðar, sem leigðir eru með vægu verði til matjurta og blómaræktar. Það

[1]) Síðar varð verksmiðjan hlutafél.: *Lever Bros. Lmt.*

var eins og þetta skipulag með smáhýsum og ræktuðum görðum við hvert hús lægi í loftinu um þær mundir, sem þeir bygðu Sir Lever og Cadbury. Helzti munurinn á Port Sunlight og Bournville er sá, að meira var að ýmsu leyti í flest borið hjá Sir Lever. Hann lét sér ekki nægja að útvega vinnumönnum sínum ódýrt fé með góðum kjörum til þess að byggja sjálfir fyrir, heldur lagði hann ótæpt til úr sjálfs sín vasa. Hann bygði alt sjálfur, mjög vandað og allskrautlegt, en leigði verkamönnum sínum húsin miklu ódýrar en svo að þau gætu borgað sig. Aftur gátu þeir ekki eignast þau. Það sem ávantar til þess að þorpið beri sig borgar hann árlega sjálfur. Mjög er vandað til allra opinberra bygginga. Tveir unglingaskólar eru þar ágætlega búnir að öllum kensluáhöldum og



6. mynd.

**Herbergjaskipun í húsum vinnumanna í Port Sunlight.**

Efri myndin er af loftherb.. neðri af neðri hæð. *Porch*, forstofa. *Parlour*, stofa. *Kitchen*, eldhús. *Scullery*, þvottahús. *Bathroom*, baðklefi. *Bedroom*, svefnherbergi. *Ashes*, öskuskúr. *Coals* kolaskúr. *W c* salerni. *Yard* umgirtur bakgarður.

ríkmannlega úr garði gerðir (meðal annars er þar kend garðyrkja), kvennaskóli, iðnskóli, leikfimishús, bókasafn, samkomuhús (Gladstone Hall), matsöluhús mikið en vínfangalaust fyrir ógifta o. fl., og að lokum fögur kirkja og

stjórnina, eða öllu heldur enska ríkið, endurbæta og auka fiskiveiðarnar að miklum mun og gerast meðeigandi þeirra. Er þetta bæði gert í þeim tilgangi að afla landinu ódýrara fæðis en kjöt er og til þess að fiskurinn geti orðið verzlunarvara, er gefi ríkinu tekjur, sem geti stuðlað að því að grynna á skuldasúpunni eftir ófriðinn.

Uppástunga þessi fer fram á að mynduð sé ný stjórnardeild — fiskideild — er einvörðungu fjalli um fiskimál. En hingað til hafa þau mál legið undir landbúnaðarráðuneytið. Á þessi nýja stjórnardeild svo fyrst og fremst að sjá um að koma á fót fiskistöðvum í grend við strendur landsins (scientific fertilation). Hefir talsvert verið gert af slíku í Bandaríkjunum og gefist einkar vel, álítur höf. að á þann hátt megi margfalda fiskframleiðsluna á mjög ódýran hátt. — Í öðru lagi ætti ráðuneytið að sjá um endurnýjun fiskiflotans. Mætti sumpart skila aftur skipum þeim, sem flotaráðuneytið hefir gripið til, og sumpart gera smáskip, sem það hefir látið byggja nú síðustu árin, að fiskiskipum; auk þess mætti byggja botnvörpunga og fiskiskip eftir þörfum. Í þriðja lagi ætti þetta nýja ráðuneyti að sjá um að nægilega stór íshús væru bygð í öllum helztu hafnarbæjum og borgum um landið, og í fjórða lagi ætti ráðuneytið að hafa umsjón með flutningsgjaldi því, er járnbrautarfélögin tækju fyrir að flytja fiskinn. — Allflestar enskar járnbrautir eru sem sé eign einstakra manna eða einstakra félaga og ræður hver sínu verðlagi

Af þessu má sjá að nóg verkefni eru fyrir hendi fyrir hið fyrirhugaða nýja fiskiráðuneyti. En til þess að koma öllu þessu í framkvæmd bæði fljótt og vel og koma öllu í eina heild, er nauðsynlegt að ríkið taki málið að sér. Það leiðir af sjálfu sér, að ef ríkið tæki að sér fiskfrjófgun í hafinu, hlyti það að mega ráða nokkru um, hvar fiskað væri — annars væri ef til vill fyrirhöfninni á glæ kastað.

Á Englandi mun það venja, að skipshöfnin á hlut í sameiningu eftir vissum reglum. Því sem fæst fyrir afla hvers skips er skift í hluti — fær skipið (eða eigandi þess) vissan hlut, formaður, vélmeistari og hásetar fá hver sinn hlut eftir áður ákveðnu hlutfalli. Þetta fyrirkomulag hefir reynst vel og er fyrirhugað að halda því, enda þótt ríkið yrði meðeigandi. En þá kæmist sama hlutfallið á alstaðar eftir niðurjöfnuði, og ætti ríkið svo að bæta einhverju ofanálagi á til hvers eins, til þess að hvetja menn til að stunda fiskiveiðarnar.

Þá ætti það og ekki að letja Englendinga, að auðvelt er fyrir

þá að hagnýta sér þau ógrynni af fiski sem eru í hafinu í grend við Canada, segir sá er stingur upp á þessu fyrirkomulagi. Og hann bendir á, að engin fæða sé í rauninni jafnauðtekin og fiskurinn. Hvorki þurfi að sá til hans, né ala hann á stalli, hann geti svo að segja stokkið beina leið úr sjónum upp í svangan skoltinn.

Fyrirkomulag það, sem hér er stungið upp á, er að mörgu leyti markvert; og ekki þætti mér ótrúlegt að Íslendingar gætu eitthvað lært af því. — Merkur skipstjóri sagði mér í fyrra, að fiskimergðin í hafinu umhverfis Ísland væri óðum að þverra. — Væri þá ekki ráð að stjórnin okkar gerði eitthvað til að taka í taumana, ef svo er, að það megi verða án mikils kostnaðar?

III. Iðnaður. Það er kunnugra en frá þurfi að segja, að í ýmsum iðnaðargreinum standa Englendingar flestum þjóðum framar. Eigi að síður er ýmsu ábótavant hjá þeim í ýmsum greinum er að iðnaði lúta, má þar helzt nefna fyrirkomulagið milli verksmiðjueigenda og verkamanna. Hefir það löngum verið undirrót megnrar óánægju, og það meira að segja nú, meðan ófriðurinn krepti að á margan hátt og þörf var á sem beztu samkomulagi. Þessi síðasta misklíð varð til þess, að skipaðar voru nefndir manna í flestum iðnaðargreinum til þess að rannsaka ástandið frá rótum og gera tillögur um það, er til bóta mætti verða. Hafa rannsóknir þessar í raun og sannleika verið á breiðum grundvelli bygðar, því þær áttu ekki einungis að taka tillit til þess, er til þrifnaðar mætti verða hverri einstakri iðnaðargrein. En þær áttu líka — og fyrst og fremst — að taka tillit til þess, hvort iðnskilyrði þau, sem nú eru fyrir hendi, veita næga möguleika fyrir siðferðislegum og efnalegum þroska þjóðarinnar í heild sinni — hvort þau stuðli að því, að framleiða eins góða borgara og unt er. Ófriðurinn hefir vakið Englendinga til umhugsunar um þjóðina í heild sinni, og sýnt þeim fram á, hve skaðvænleg hin rígbundna stéttaskifting er allri velferð ríkisins.

Hætt er þó við, að verulegar umbreytingar eigi við ramman reip að draga. Stjórnin enska virðist ganga á undan, enn sem komið er, í því að borga sultarlaun. Og það á víðast við, að »hvað höfðingjarnir hafast að, hinir ætla sér leyfist það«. Til dæmis um verkalaun stjórnarinnar má nefna, að hún hefir skorað á enskar konur að gefa kost á sér til alls konar starfa, sem karlmenn hafa á hendi ella, til þess þeir geti losnað til herþjónustu. Konur hafa fúslega orðið við áskorun þessari og boðið fram vinnu sína þúsundum saman. Enda er nú varla hægt að nefna eina einustu iðnaðar-

grein á Bretlandi, sem konur starfi ekki í jöfnum höndum við karla — og stundum einar saman — að undanteknum siglingum og fiskiveiðum. Stjórnin hefir leitað sér upplýsinga um starf þessara kvenna, og er því hælt í hvívetna. Og nýlega hefir hermálastjórnin brezka gefið út hefti með fjölda mynda af starfsemi kvennanna og með nákvæmum skýrslum um alt þar að lútandi. En hvernig er þeim launað? Jú, þar sem stjórnin ræður laununum — á vopnaverksmiðjum og stjórnarskrifstofum — fá þær 8 shillings að meðaltali á viku fyrir 8 stunda vinnu á dag! Sjálfar verða þær að sjá sér fyrir fæði og húsnæði. Það er því engin furða, þó margar af konum þessum smámsaman gangi úr skaftinu.

Eins og eðlilegt er, verða allar verulegar umbætur að bíða friðartíma. Og tillögur nefnda þeirra, sem um málið hafa fjallað, virðast svo viturlegar og sanngjarnar á báða bóga, að ástæða er til að vænta sér mikils góðs af þeim, ef þær komast í framkvæmd. Skal eg nú stuttlega drepa á helztu atriðin.

Í fyrsta lagi verða iðnir og vísindi að taka höndum saman miklu meir en áður. Og verður ríkið að koma á fót vísindastofnunum, er taki að sér almennar rannsóknir á öllum þeim sviðum, sem um er að ræða. En þar að auki verður hver iðngrein út af fyrir sig að standa í nánu sambandi og vera í samvinnu við efnafræðislegar vísindastofnanir í sínum sérgreinum. Auk þess þarf að auka sem mest notkun vinnusparandi véla og ryðja burt ýmsum höftum, sem nú eru til hindrunar skynsamlegu fyrirkomulagi í ýmsum greinum. Þá er og einsætt að hagnýta sér sem bezt allar uppgötvanir hinna svonefndu vinnuvísinda, »scientific management«. Sá hefir orðið hængur á hingað til, að flestar þannig lagaðar breytingar hafa mætt meiri eða minni mótspyrnu hjá verkamönnum, enda oft orðið sú reyndin á, að verksmiðjueigandi hefir haft aðalhagnaðinn af þeim. Til þess að sigla fyrir þessi sker, er nú stungið upp á því, að verkamenn sjálfir fái að jafnaði að hafa hönd í bagga með um tilhögun og framleiðslu í iðngrein hverri. Er réttilega bent á, að a u ð m a g n og v i n n a eru hér tveir aðilar, er hvorugur geta án annars verið. Og báðir þessir aðilar verði að læra listina þá, að skoða sérhverja iðngrein sem nauðsynlegt líffæri í þjóðarlíkamanum, og hafa það hugfast, að þeir bera báðir að jöfnu ábyrgð á því, að líffæri þetta þroskist og starfi sem bezt. — Er auðsætt að þetta er talsverð breyting frá þeim hugsunarhætti, er aðeins lítur á eigin hagsmuni — sem flestum því miður mun tamastur um víða veröld.

Til þess nú að koma á verulegri samvinnu, er geti miðað í þessa átt, meðal beggja aðila — auðs og vinnu — ɔ: vinnuveitenda og vinnuþiggjenda, leggur nefndin til, að skipaðar séu nefndir í hverri iðngrein, og eigi umboðsmenn beggja aðila sæti í nefndunum. Eiga svo nefndir þessar að halda jafnaðarlega fundi og ræða um alt það, er að iðninni lýtur. Skulu þá báðir aðilar gera hver öðrum fulla skilagrein fyrir ástæðum sínum, kröfum sínum og öllu því, er að rekstri iðnaðarins lýtur: framleiðslukostnaði, markaðsverði vörunnar, ágóða o. s. frv. Og ætti þá fullkomin samvinna að geta átt sér stað milli beggja aðila. Þá er og ráðið til að stofna tvær stjórnardeildir. Ætti önnur að hafa með höndum mál vinnuveitenda og hin mál vinnuþiggjenda, og ætti svo hvor deildin um sig að bera hag skjólstæðinga sinna fyrir brjósti. Þessar tvær stjórnardeildir ættu svo að eiga sér yfirstjórnardeild (Supreme Board of Control) sem kæmi samræmi á störf beggja hinna deildanna. Í sambandi við þessar stjórnardeildir ættu svo að vera héraðsdeildir og landsdeildir, sem gætu tekið höndum saman á ýmsum sviðum, er að atvinnumálum lúta, bæði viðvíkjandi löggjöf, er snerti atvinnumál, og viðvíkjandi sérfræðslu iðnaðarmanna. En henni er í mörgu stórum ábótavant.

Það yrði oflangt mál að skýra hér frá þessu fyrirhugaða skipulagi út í æsar. En aðalatriðin eru þau, sem nú hafa talin verið.

Er það auðsætt, að markmið breytinga þeirra, sem hér er stungið upp á, er það, að auka og efla samúð þjóðfélagsins í heild sinni, og brjóta á bak aftur stéttaríg þann, er nú er einvaldur í landi og að meira eða minna leyti þröskuldur í vegi fyrir hverskonar framförum.

IV. Skólafræðsla og iðnnám unglinga. Eitt af þeim mörgu sviðum, sem Englendingar eru nú að ræða um að endurbóta þurfi, er barna- og unglingafræðsla. Svo er um þá grein, að alt er þar í góðu lagi hvað æðri stéttunum viðvíkur, en þær stéttir manna, sem ekki hafa efni á að kosta börn sín til neins náms, eru fjölmennar, og ríkið hefir að svo komnu einungis séð börnum þeirrra stétta fyrir fræðslu í barnaskólum til 14 ára aldurs.

Þegar börnin hafa lokið námi í barnaskólanum, er þeim svo að segja hleypt út á gaddinn. Ríkið sér þeim ekki fyrir neinni áframhaldandi kenslu, hvorki bóklegri né verklegri, og algengast er sagt að það sé, að börnin eigi þá sjálf að sjá sér fyrir atvinnu, og má nærri geta hvílíkt ráðlag muni vera á slíku. Fer oftast svo, að þau læra enga vinnu og gleyma því litla, sem þau hafa lært í

barnaskólunum á fáeinum árum. Og liggur þá við að svo megi að orði kveða, að þeim 20 miljónum sterlingspunda, sem ríkið árlega ver til barnafræðslu, sé að meira eða minna leyti fleygt í sjóinn.

Til samanburðar má geta þess, að í München fara 80% af drengjum þeim, er ljúka barnaskólanámi, þegar í læri í einhverri iðngrein, og ganga jafnframt á iðnskóla eða framhaldsskóla, þangað til þeir eru 18 ára. Verður þetta bæði til þess, að drengirnir gleyma ekki því sem þeir hafa lært í barnaskólanum er þeir fá tækifæri til að bæta við það, og þeim eykst andlegur þroski og virðing fyrir sjálfum sér. Þar á ofan eru þeir, að þessum fjórum árum liðnum, orðnir nýtir menn í þjóðfélaginu og búnir að tryggja sér von um góða framtíð.

Þetta fyrirkomulag þykir Englendingum nú að réttu lagi eftirbreytnisvert, en hér er við ramman reip að draga, bæði rótgrónar venjur og kostnað mikinn, er það mundi hafa í för með sér fyrir ríkið að koma á fót iðnskólum og framhaldsskólum fyrir fátæku stéttirnar og börn þeirra. En nokkurra umbóta mun þó mega vænta að loknum ófriði, því margir kannast nú við, að börnin séu framtíð þjóðarinnar — og það eigi síður börn fátæku stéttanna en efnuðu flokkanna.

Fræðslunefnd í Lundúnum hefir nú og komið fram með tillögur, er til bóta horfa; þær eru að vísu eigi jafnmerkar og tillögur þær til umbóta, er fram hafa komið á ýmsum öðrum sviðum, en þó spor í áttina.

Nefndin kannast við að brýn þörf sé á framhaldsskólum og iðnnámi fyrir unglinga en fer þó aðeins fram á að menn og konur — einkum konur — af efnaðri stéttunum taki að sér umsjón með fátækum börnum á aldrinum frá 14 til 18 ára, gerist nokkurskonar fósturforeldrar þeirra (superparents), og reyni að sjá um, að þau fái sæmilega staði, þar sem þeim sé ekki ofboðið með vinnu og þau fái að læra eitthvað. Þá telur og nefndin æskilegt að skólatími væri lengdur til 15 ára aldurs í stað 14, en býst við að erfitt verði að fá því framgengt. Þá hefir og verið talað um að gera unglingum að skyldu að sækja einhvern framhaldsskóla fáeina tíma á dag (og ættu þeir þá að borga þá kenslu) en vinnuveitendur og foreldrar í sameiningu ættu að ábyrgjast að unglingarnir ræktu skólann.

Þetta er sem sagt aðeins lauslegar uppástungur, en vænta má, að þetta markverða atriði verði tekið til rækilegrar meðferðar að loknum ófriði, því eins og Englendingur einn nýlega komst að

orði, er það lífsskilyrði fyrir þjóðina að uppala sem bezt anda, huga og hendur alþýðunnar.

Kaupmannahöfn í apríl 1917

**Björg Blöndal.**

(Heimildir: The Fortnightly Review, The Quarterly Review, 19. Century, Gertrud Bäumer: Weit hinter den Schützengräben, Þorv. Thoroddsen: Lýsing Íslands, blaðagreinir.)

---

# Þingstaðurinn undir Valfelli.

Í Gunnlaugssögu ormstungu 2. kapítula segir svo frá: »Um vorið einn dag ræddi Þorsteinn um við Bergfinn, ef hann vildi ríða með honum upp undir Valfell. Þar var þá þingstöð þeirra Borgfirðinga. En Þorsteini var sagt að fallnir væru búðarveggir hans. Austmaðurinn kveðst það víst vilja, og riðu þeir heiman of daginn þrír saman og húskarlar Þorsteins, þar til er þeir koma upp undir Valfell til bæjar þess er að Grenjum heitir. Þar bjó þá einn maður félítill er Atli hét hann var landseti Þorsteins, og beiddi Þorsteinn Atla að hann færi til starfs með þeim og hefði pál og reku. Hann gjörði svo. Og er þeir koma til búðartóftanna, þá tóku þeir til starfs allir og færðu út veggina. Veðrið var heitt af sólu, og varð þeim Þorsteini og austmanni erfitt«. — — —

Menn hafa yfirleitt álitið, að þingstaður sá undir Valfelli, sem nefndur er í frásögu þessari (c. 983) sé sama sem þingstaðurinn á Þinghól við Gljúfrá, efst í Borgarhreppi. Kr. Kålund o. fl. hafa reynt að samþýða frásagnir Eglu og Gunnlaugssögu um þingstað Borgfirðinga, en ekki tekist. Frásögn Gunnlaugssögu er mjög skýr, svo ekki verður um vilst að hún á við þingstað undir »Múlunum«, vestan Langár. — Valfell þekkist enn, það eru Múlarnir fyrir vestan Langá, eru þeir nú oftast kendir við bæina Grímsstaði og Grenjar, sem standa undir þeim og eiga land í þessu felli (Grímsstaðamúli og Grenjamúli). Fellið liggur á milli Grenjadals, sem Langá rennur eftir, og Hraundals, sem Skarðsheiðarvegurinn liggur um. Sú hlið Valfells (Múlanna), sem niður að sveitinni veit, er snarbrött og klettótt. Verpa þar enn árlega valir (fálkar) svo fellið ber nafn með rentu. Urriðaá heitir smá á, sem kemur úr litlum dal í fellinu. Hann er nefndur Urriðaárdalur, og skiftir löndum milli Grímsstaða og Grenja. Á vestri bakka Urriðaár, í hlíðarrótunum, þar sem áin kemur niður úr brattanum hefir mér verið bent á mjög fornlegar rústir, er þau munnmæli

fylgdu að vera mundi þingstaðurinn forni undir Valfelli. Eg hefi komið á þennan stað, skoðað hann vendilega og alla afstöðu hans, og jafnframt borið saman þá staði í Eglu og Gunnlaugssögu, sem snerta þingstað Borgfirðinga. Mér virðist það efalaust mál að Gunnlaugssaga á við þennan stað. En hvernig stendur þá á því, að Egilssaga segir (í 83. kap.) frá þingdeilum Þorsteins Egilssonar og Steinars á Ánabrekku á vorþingi 978 við Þinghól? Að vísu nefnir sagan ekki beinlínis hvar þingstaðurinn hafi verið; en hún segir að sést hafi af þinginu, að flokkur manna reið neðan með Gljúfrá, og blikuðu þar skildir við. Þar var kominn Egill Skallagrímsson með 80 manna sunnan af Nesjum. Frá Þinghól blasir við vegurinn neðan með Gljúfrá, en sést alls ekki frá neinum stað undir Valfelli, — og engin munnmæli né menjar eru til, sem heimili að hugsa sér að hér sé um einhvern þriðja stað að ræða. — Hér virðist því næst að halda, að þingstaðurinn hafi verið fluttur og sögurnar segi báðar rétt frá; en þá er það að athuga að Egla virðist beinlínis mótmæla sjálfri sér hvað þingstöðina snertir. Vorið 978 eftir fardaga (sama vorið og Steinarsdeilan átti sér stað) kom Þorsteinn Egilsson innan af Grísartungu afrétti, frá því að líta eftir verki húskarla sinna, sem unnu þar að girðingu. Er sýnilegt af frásögninni að hann ríður niður með Langá, svo kallaðan Grenjadal; enda lá það lang beinast við frá girðingunni á Grísartungu. Það veit Steinar, því gerir hann fyrirsátina í skóginum við Einkunnir. — Þorsteinn virðist hafa riðið austur yfir Langá á Koteyrum neðan til á Grenjadal eða Sveðjuvaði, og vera staddur neðan við Múlana austan ár, þegar Íri þræll hans kemur á móti honum og varar hann við fyrirsátinni í Einkunnum. —

Sagan kemst þá svo að orði: »Þegar hann (ɔ: Þorsteinn) kom gegnt þingstöð«, þá kom Íri á móti honum o. s. frv. — Þessi orð: »gegnt þingstöð« eiga mjög vel við ef um þingstöð undir Valfelli er að ræða, en alls ekki ef átt hefði verið við þingstöð hjá Þinghól. — »Síðan riðu þeir Þorsteinn suður um Mýrar fyrir ofan Stangarholt og svo suður til Gufár, og ofan með ánni reiðgötur«. — Þetta er einmitt sá vegur, sem þeir menn er komu sunnan um Mýrar á leið til þings undir Valfelli mundu ríða og einnig Egill með flokk sinn, ef Steinarsdeilan hefði verið útkljáð þar. — Þá hefði sést af þinginu er flokkurinn reið neðan með Langá (ekki Gljúfrá). Egill hefði sennilega riðið með flokk sinn yfir Hvítá við Gufárósa og svo reiðgötur upp með þeirri á, svo þvert yfir Mýrar fyrir ofan Stangarholt til Langár, yfir hana á Lækjarósvaði og svo

vestur með Múlum. Þá væri bezta samræmi orðið milli alls sem báðar sögurnar segja um þingstaðinn.

Þingdeilan sem Egla segir frá, gerðist 5 árum fyr en búðabyggingin sem Gunnlaugssaga getur um. Og Gunnlaugssaga vill fyrirbyggja misskilning, sem leiða kunni af flutning þingstaðarins, með orðunum: »Þar (þ. e. undir Valfelli) var þ á (c. 983) þingstöð þeirra Borgfirðinganna«. — En hvort var þá þingstöðin fyr undir Valfelli eða við Þinghól? — Sé frásögn beggja sagnanna rétt eins og hún liggur nú fyrir, þá ætti Þinghólsstöðin að vera eldri, og þá ættu vel við orð söguritarans um að Þorsteinn hafi ráðið þ a r mest þingsköpum, »því að svo hafði verið meðan Egill fór með goðorð og mannaforráð«. Slíkt hefði auðvitað mátt segja á hverjum staðnum sem þingið var háð, en fremur virðast mér orðin benda til þess, að um hinn upprunalega (eldra) þingstað sé að ræða. Hefði þá þingstaðurinn átt að vera færður vestur undir Valfell þegar eftir þingið 978. — En móti því mæla orð Eglu: »gegnt þingstöð«, sem áður eru tilfærð; — fallnir búðarveggir eftir örfá ár, — en einkum það, að ef þingstaðurinn hefði einu sinni verið fluttur frá Þinghól og vestur undir Múla, er ósennilegt að hann hefði verið fluttur aftur að Þinghól. En rústir allar á Þinghól voru miklu unglegri en við Urriðaá, og meiri alþýðusagnir fylgdu þeim stað fram á 19. öldina; en þá var þingstöðin undir Valfelli næstum gleymd. Mín hugmynd er sú, að Egill og Þorsteinn hafi háð þing undir Valfelli meðan þeir höfðu mannaforráð, og virðist sá staður mjög vel valinn, meðal annars með hliðsjón af því, að Borgarfeðgar áttu mesta og bezta liðsvon vestan og neðan af Mýrum. Að landskostum var stöðin undir Valfelli vel úr garði gerð. — Þurlend, en þó gnógt og gott vatn í uppsprettulindum og ánni. Skjól hið bezta. Góðir hagar og nógur skógur í nánd. Mjög heppileg þingbrekka í fjallsrótunum, örskamt frá búðartóftunum, er þangað u p p að ganga.

Með línum þessum er það tilgangur minn að minna á þingstöðina undir Valfelli. Er vonandi að staðurinn verði rannsakaður af fornfræðingum. Benda vildi eg einnig á, að ef til vill er þingstaðurinn eldri, þótt Egla virðist telja Þinghól eldri, ef alt er látið velta á orðunum »neðan með G l j ú f r á «, — en þar hygg eg að standa eigi orðin: »neðan með Langá«, og sé hér um ritvillu að ræða, eða leiðrétting afritara gerða af misskilningi.

E. F.

---

# Sumar.

Uppi á hálsi. Heitt, hvítgullið sumarsólskin. Lágir hálsar í nærsýn, en lengra í burtu hvíthærð, tindótt fjöll. Dökkblár sjórinn glampar í fjarska, en tjarnirnar undir Þyrli lýsa hvítblikandi í grænum mýragróðrinum. Óg Þyril sjálfan, ljósrauðan eins og glóandi ofn, ber við bláhvíta himinröndina.

Eg geng yfir um þveran hálsinn, yfir lág holt og mógrænt fjalldrapakjarr, fram hjá hálfföllnum móhraukum. Lyngilmurinn læsist inn í mig, gegnum hverja taug, eins og eg væri sjálfur orðinn blað á þessum bækluðu kvistum.

Eg hugsa ekki um fegurð náttúrunnar, en hver rák í fjöllunum, hvert litbrigði í grasinu, holtunum og himninum, mótast inn í mig, eins og signetstafir í vax. Hugsun mín er bundin, en það er eins og eitthvert dulið afl starfi í mér. Afl, sem fjötrar mig inn í náttúruheildina, þá náttúru, sem eg sé nú fyrir augum mér.

Það er unun að taka eingöngu á móti, gera ekkert sjálfur, hverfa sem geisli í ljóshafinu ómælanlega.

Ein óljós löngun bærist í mér, þráin til þess að vera hér altaf. Mega altaf vera dropinn í fossinum og sjá náttúruna um eilífð jafnfagra sem nú. Sú þrá líður upp úr eðli mínu, eins og eimurinn upp af tjörnunum á kvöldin, eftir heitan sumardag.

Eg nem staðar undir Þyrli, í aflangri, brattri lægð. Urð er til beggja hliða, en í botninum er hrís og reyrilmandi heiðagras, innan um staka steina, vaxna æfagömlum, ljósgráum mosa, handarþykkum eða meir. Kongulærnar móka svefnlegar á brennheitu grjótinu. Innan af hálsinum heyrist langdregið, veikt og mjúkt lóukvak — stundum gleðititrandi dírrindí, eins og hálsinn sé að syngja út alla sína löngu þrá og allan sinn heita fögnuð. Það glampar í vatnið fyrir neðan mig, slétt eins og fægðan spegil. Hér og þar eru langar, dökkar tungur á hvítskygðum vatnsfletinum. Á móti líðast tún ofan að örmjórri, grárri fjörunni. En undan sól bryddir áin, fagurblá, rauðbrúnan, steinóttan móatanga með strjálum eyrarrósablettum. Í fjallshlíðinni fyrir ofan skína fannirnar í ljósglitrandi regnbogalitum. Jörð og himinn vefjast saman í geislafaðmi sumarsins.

En yfir öllu ómar vellið í spóanum, fjallanna skæri klukknahljómur.

Græna brekkan — svo mjúk og há og fagurgræn, rétt hjá mér. Eg horfi — horfi og hugsa ekkert. Finn að eins litinn, sterkan og hlýjan, renna um mig í öldum, eins og voldugt, sigurþjótandi lag. Mér finst eg lyftist upp, út yfir sjálfan mig, inn í heiðgrænt, sólglóandi land. Og alt verður svo undursamlega bjart.

Mig fer að dreyma, í einhverri skærri leiðslu. Ótal mynda líður fyrir í huganum eins og breytileg ljósblik, er tunglið veður í skýjum á kyrru, vörmu kveldi.

— Eg er dáinn . . . og lifi þó. Er orðinn hluti af jörðunni. Fjalldrapakjarrið er hár mitt. Augu mín eru orðin að djúpum, leiftrandi vötnum, og ókomnar kynslóðir elska og deyja á ströndum þeirra. Andardráttur minn er orðinn blærinn, vindurinn — og þegar stormurinn þýtur í skörðóttum klettaborgum í haustnættinu, og skuggaöldur líða eftir lágu og visnuðu mýrgresinu — þá er það sigursöngur minn og herlag, lag ins eilífa afls. Líf mitt iðar í hverju skjálfandi blómi og sloknar í hverjum visnandi kvisti . . .

Einhver værð færist yfir mig, og alt flýtur út í bleika móðu. Enn þá heyri eg tístið í steindeplunum sem í gegn um þunt þil, en það óskýrist smátt og smatt. Náttúran hverfur augum mínum. Eg hvílist eins og barnið, sem vakir með lokuðum augum við brjóst móður sinnar. Og eg finn sólskinið brotna í glitrandi stjörnumóðu gegnum augnalokin.

Þögn í huganum sem á skýdökkum, nátthljóðum heiðum, þegar seinasta hófatak lestarhestanna er horfið í fjarska, marrið í böggunum og hávært tal ferðamannanna. Alt verður kyrt — litlaus þögn eilífðarinnar.

Konguló skríður yfir höndina á mér. Eg færi mig ofurlítið til og fer aftur að hugsa. Dagurinn verður svalari og örsmáir blágráir gárar skoppa eftir vatninu. Hitamók hádagsins rennur af jörðunni.

Minningar ber fyrir — alla leið framan úr bernsku.

Þegar eg var fjögra ára hnokki, fór pabbi einusinni með mig upp á neðri hálsbrúnina. Dagsbirtan var dauf, og lyngbreiðurnar teygðu sig, móbrúnar, svo langt sem eg sá. Eg hafði aldrei fyr séð svo vítt um veröld. Og eg hélt, að þetta væri allur heimurinn. Einmanalegu móaflákarnir tóku mig herfangi. Síðar komst eg að því, að þeir voru aðeins lítill partur af heiminum — undralítill og óþektur af flestum. En sá staður er mér nú kærastur allra, og þar vil eg helzt vera, ef eitthvað amar að.

Hér hefi eg teygað lyngilmandi morgunsvala háfjallanna og látið storminn feykja burt öllu visnu og veslu — beðið sólskinið að græða allar undir og drukkið ódáinsveigar alverunnar . . . .

---

Sólin lækkar á lofti, dagurinn fölnar og skuggarnir liggja við fætur klettanna. Það kvöldar og smalarnir hóa fénu heim úr hjásetunni. Klukkuhringlið í forustuánum deyr hægt út fyrir handan Þyril, í svefnrórri kvöldkyrðinni.

Kaldur vindgustur andar framan úr dalbotni, og þokuhnoðrar tylla sér á fjallakambana, ósköp létt, en hugsa sér auðsælega til hreyfings. Nóttin er í nánd, eyðileg og þokuhvít.

En á morgun verður aftur heitur, sólskínandi sumardagur.

**Jakob Jóh. Smári.**

---

# Ritfregnir.

---

**Bogi Th. Melsted: Handbók í Íslendinga sögu.** Gefin út af hinu íslenzka Fræðafélagi. Kaupmannahöfn 1916. Fyrsta bindi 1—223 bls.

Af handbók þessari, sem gert er ráð fyrir, að verði alls 6 bindi, nær hið fyrsta frá fundi Íslands og til viðskifta Íslendinga og Ólafs konungs Haraldssonar. Höfundurinn hefir í bindi þessu verið heppinn í efnisvali sínu og skýrt frá flestu því, er máli skiftir. Hann hefir og gert sér far um að benda á sambandið milli markverðustu viðburða sögu vorrar og andlegra strauma þeirra og hreyfinga í nágrannalöndum vorum, sem þeir eiga rót sína að rekja til. En við það verður hinn sögulegi sjóndeildarhringur manna víðari og skilningurinn að mörgu leyti gleggri og staðbetri. Frásögn höf. virðist í flestum aðalatriðunum fara sönnu nær, enda leggur hann auðsjáanlega stund á að skýra svo rétt og satt frá því, er gerst hefir, sem unt er. Í annan stað er það ekki nema lofsvert, að höfundurinn víkur að ýmsum misfellum og agnúum á þjóðfélagsskipun og þjóðlífi forfeðra vorra, er mörgum sagnariturum vorum hefir hingað til hætt við að gera lítið úr eða láta liggja í þagnargildi. Í ýmsum auka-atriðum munu menn ekki geta verið höf. samdóma og hafa ýmislegt að athuga við framsetning hans og orðfæri, enda er eðlilegt að manni, sem hefir alið aldur sinn erlendis svo tugum ára skiftir, verði ósýnna um að rita íslenzkt mál en þeim sem eiga hér heima. Sumstaðar bregður fyrir orðagjálfri og mærð og endurtekningum hjá höf., sem sjaldan fer vel á.

Til þess að finna þessum aðfinningum mínum stað, skulu hér tilgreind nokkur dæmi. Á 8. bls. kemst höf. svo að orði: »Víkingaferðirnar eru eitthvert hið skýrasta vitni og hið mikilfengasta um hugsunarhátt manna ...«. Er það bæði óíslenzkulega og klaufalega orðað. Á 13. bls. er sagt um Færeyjar að »þær væru fullar af fjöldamörgum sauðum og ýmsum tegundum margra sjófugla ...«

en væru nú »auðar einsetumanna sökum norrænna víkinga«. Að vísu er þetta tekið eftir Dicuilus, en samt hefði mátt takast að koma því í íslenzkulegri búning. Á 27. bls. stendur: »En jafnframt þessu sameinaði Haraldur konungur allan Noreg í eitt konungsríki eða landsveldi, þótt sú sameining festi eigi djúpar rætur að sinni og stæði eigi lengi«. Í málsgrein þessari mætti bæði »landsveldi« og »stæði eigi lengi« vel missa sig. Og mætti tilgreina svipuð dæmi endurtekninga og málalenginga svo tugum skiftir sbr. 75. bls. efsta málsgr., 87. bls. neðsta málsgrein, 88. bls. miðgreinin, 108. bls. neðarl. o. s. frv. Í aths. á 97. bls. stendur þessi klaufalega málsgrein: »Orðið óðalsbóndi hefur að vísu stundum verið notað á síðari tímum um bændur á Íslandi í sömu merkingu sem sjálfseignarbóndi, en venjulega að eins af sömu tilfinningu sem orðið »proprietær« áður« (sic). Kaflinn um mannhefndir á 117. bls. er víða mjög óeðlilega orðaður. Þar og á 120 bls. mun eiga að lesa hermdarverk f. hefndarverk. Á 141. bls. er hætt við, að sumum komi þessi málsgrein kynlega fyrir sjónir: »Vorið eftir lentu Íslendingar í ófriði við landsmenn, en þeim tókst að verjast þeim, þótt þeir væru ofurliði bornir...« Á 177. bls. nefnir höf. vald alþingis »allandsvald«, sem virðist vera nýyrði í mesta máta óviðkunnanlegt. Sama máli gegnir um orðið þrettán-þingskipunin á 178. bls.

Skal nú hér staðar numið, þótt mörg önnur dæmi óliðlegra orðaðra málsgreina mætti tilgreina. Það var ekki ætlun mín að fara í neinn sparðatíning, en eg vildi óska þess vegna ritsins sjálfs, að höf. gerði sér framvegis meira far um að vanda búning og orðfæri. **Þorleifur H. Bjarnason.**

**Vinnan**, eftir **Guðm. Finnbogason dr. phil.**, 8blbr, 170 bls. Bókaverzlun Sigfúsar Eymundssonar, Reykjavík 1917.

Eg veit það vel, að mörgum þykir ótrúlegt að rétt sé orð Jónasar Hallgrímssonar, er hann kveður svo:

»Vísindin efla alla dáð,  
orkuna styrkja, viljann hvessa,  
vonina glæða hugann hressa,  
farsældum vefja lýð og láð«.

Þó er það sannast sagt, að hér er fullkomlega rétt frá sagt, mátti þess og þaðan vænta, því að Jónas hefir verið djúpvitrari flestum mönnum. Eg þykist þess og fullviss, að alþýða manna muni fallast á það, hvað sem hinum líður, ef rakið er málið. Til

þess er þó eigi staður í stuttum ritdómi, en svo stendur þó á þessari bók, að eg kemst eigi hjá stuttum formála.

Oss mönnum er svo háttað sem öðrum liföndum, að vér verðum að afla oss lífsviðurværis af jörðu þeirri, er vér byggjum. Vér erum sem önnur dýr þeim mun betur settir en jurtir, að þær eru vanalega staðbundnar, og fá þá næringu eina, er þær geta náð þar úr jörðu og lofti, en vér megum leita fleiri staða og hafa margháttaðri viðleitni sem dýrin, einkum þó hinar þroskaðri tegundir. Nú er hverjum manni auðsætt að maðurinn er öðrum dýrum langtum snjallari. En í hverju liggur þá það? Þetta liggur nú einmitt í þekking þeirra.

Hvert dýr hefir sín vinnutæki og maðurinn sín. Og fyrir ómunatíð var hönd hans orðin ærið vinnusnjöll. En svo voru og hendur frænda hans. Þá kom manninum það snjallræði í hug að nota áhöld hendinni til hjálpar, spýtur og steinflísar og því um líkt. Og þá er byrjað var, lærði hann skjótt að gera sér verkfæri, haganlegri en þau, er hann fann af hendingu. Á þessu hófst þekking hans á því, hversu yfirvinna skal hlutheiminn með hans eigin lögmálum. Nú eru menn orðnir lærðir á þá hluti, enda hafa þeir verið lengi að læra, hundruð milliona af árum.

Þess mun eigi þörf að rita langt mál um það, hversu þekking á eðlislögum hlutanna eða hlutheimi sé nauðsynleg hverjum þeim manni, sem eitthvað vill framkvæma, t. d. þekking á lifnaðarháttum og þróunarskilyrðum húsdýra kvikfjárræktinni, grasafræði og gróðrarskilyrðum jarðræktinni, aflfræði vélasmíðinni o. s. frv. Menn munu alment vita að hinar ýmsu greinar náttúrufræðinnar eru öllum mönnum lífsnauðsyn til daglegs lífs. Sú þekking er og margháttuð orðin og auðug eftir allan þann langa tíma, sem fyr var getið, en hún lýtur öll að efninu, hlutheiminum og lögmálum þeim, er þar ráða.

En fleira er nú til milli himins og jarðar, sem þörf er að þekkja. Í því sambandi mun eg minna menn á frumvarp eitt, sem borið var fram á Alþingi 1915. (Flutningsmenn: Matthías Ólafsson, Jón Jónsson, Sveinn Björnsson). Það hét: Frumvarp til laga um stofnun kennaraembættis í hagnýtri sálarfræði við háskóla Íslands. Ætlast var til að Guðmundur Finnbogason fengi þetta embætti. Meðmæli komu frá heimspekisdeild háskólans, landbúnaðarfélaginu, Jóni Þorlákssyni landsverkfræðingi og búnaðarþinginu (Alþt. 1915, B III 1456). Eg get þessa hér fltm. og meðmælöndum til maklegs lofs. Í umræðunum um þetta frv. reyndi eg að skýra fyrir mönnum, hvað

væri þetta, sem eg nefndi hér að framan að eigi væri síður þörf að þekkja, en fræðina um lögmál hlutheimsins: »Hér liggur fyrir frv. um háskólakenslu í hagnýtri sálarfræði. Þá er fyrst að rifja það upp, hvað sálarfræði er. Verð eg þá fyrst að geta þess, að nú horfir alt öðruvís við en áður, meðan Hegel og fylgifiskar hans vildu láta allar gagnstæður og mótsagnir sameinast í »hærri einingu«, meðan engin nefndi s á l, nema hann ætti við ódauðlegan, andlegan hluta mannsins, sem ætlaður væri til þess, að erfa sáluhjálpina, eða þá færi í þann eld, sem sloknar ekki. Nú fæst s á l a r f r æ ð i að eins við rannsókn á vitundarlífi manna í þessu lífi eða með öðrum orðum meðvitund þeirri, sem er samfara lífi og starfi líkamans. Hitt er ekki verk sálarfræðinnar að rannsaka, hvort sú vitund, sálin, deyi um leið og líkaminn eða ekki. Það er verk heimspekinnar, en heimspeki kallast sú fræðigrein, sem reynir að finna rökstudda lífs- og heims-skoðun. Hún byggir á öllum greinum mannlegrar þekkingar, þar á meðal sálarfræðinni. Margir munu ef til vill halda að mér hafi orðið mismæli, er eg greindi svo skarpt heimspekina frá sálarfræðinni, en það er þó ekki. Því að sálarfræðin er nú ekki lengur leikvöllur ímyndunarafls og hugarburðar, draumkendar vonir og spádómar um annað líf. Nei, nú hefir hún fengið þá eðlilegu stefnu, að rannsaka eðli og uppruna vitundarinnar og samband hennar við þann lifanda líkama, sem hún býr í. Hún er því orðin ein grein náttúrufræðinnar, enda reyna menn nú að haga rannsóknum sínum um þau efni svo, að farið sé eftir sömu rannsóknarlögum, sem tryggileg eru talin í öðrum greinum náttúrufræðinnar«. — Eg gat þess þá og að rétt væri að skifta allri náttúrufræði í tvær höfuðgreinar, fræðina um alt það, sem er fyrir utan vitundina, umheiminn, og fræðina um vitundina sjálfa, en tengiliður þar á milli væri líkaminn. Taldi eg þá og fyrir þingmönnum, hverjum sálarfræði væri einkum nauðsynleg: læknum, kennurum, listamönnum og skáldum, vísindamönnum, dómurum, löggjöfum og — öllum atvinnugreinum. Eg áréttaði þá mál mitt með þessum orðum: ». . . tel eg það víst að svo ágætir fulltrúar sem íslenzkir kjósendur senda á þing, sé svo vel að sér, að þeir viti að þekkingin er veldi. Þeir hafa líka ljóst dæmi fyrir augunum, þar sem Þjóðverjar eru. Það er öllum mönnum auðsætt að þeir væru fyrir löngu orðnir fjandmönnum sínum að bráð, ef þeir hefðu eigi haft veldi þekkingarinnar og vísindanna við að styðjast«. (Alþt. 1915 B III 1470). En alt bar að sama brunni, heimskan sigraði og frumvarpið náði eigi fram að ganga. Þó var sú björg í

máli að þingið 1915 hafði þann sið að káka við bragarbætur á lökustu afrekum sínum, sbr. kenslu í lífffærameinfræði. Sama gerði það í þessu máli, veitti Guðmundi Finnbogasyni styrk til sálarfræðisrannsókna. Þeir vildu eigi trúa þeim mönnum til þess, sem vit höfðu á, að hér væri um gott mál að ræða og áreiðanlegan mann. Vildu þeir að maðurinn yrði framvegis á valdi »sláturfélagsþingsins« (þ. e. fjárlaganefndar) og ætti alt á hættu.

Guðmundur Finnbogason var þá svo fífldjarfur að leggjast niður við trogið. En nú kemur bezti þáttur þessa máls og hann er sá, að árangurinn af starfi hans er þegar orðinn svo góður, að jafnvel blindir menn mega sjá hann, og meira að segja mótstöðumenn málsins á Alþingi 1915 getur farið að gruna að þeir hafi eigi valið sér vel kjósandabeituna að því sinni. Það hefir komið fram er eg sagði þá að starf hans mundi borga sig bæði beinlínis og óbeinlínis. Hann hefir þegar gert tillögur um svo miklar umbætur á vinnubrögðum við fiskverkun hér, að tímasparnaðurinn gæti margborgað kostnað landssjóðs til Guðmundar. Það fé rennur raunar eigi beint í landssjóð, og kemur því hér fyrir menn sú skilningsraun, sem hefir oft orðið þingmönnum ofraun, að það er þjóðgróði er landssjóður kostar litlu til, en almenningur fær stórgróða af. Þótt nú þessi beini gróði gæti þegar á fyrsta fjárhagstímabili orðið miklu meiri en tilkostnaður landssjóðs, þá er sá óbeini þó meiri. Því að það kemur fljótt í ljós, þá er Guðmundur sýnir fólkinu að rannsóknir hans leiða til áþreifanlegrar niðurstöðu, að það fer þá og að hugsa sjálfstætt um málið og gera áframhald á umbótunum. Og því er von um margfaldan árangur.

En Guðmundur Finnbogason hefir og reynt með öðrum hætti að vekja þennan almenna áhuga og sýnt í því mikinn dugnað. Hefir hann gert það bæði með alþýðufyrirlestrum og með fyrirlestrum í háskólanum. Þeir menn sem vit hafa á, munu skjótt sjá á fyrirlestrum þessum að þinginu 1915 varð mjög á, er það stofnaði eigi embætti það í hagnýtri sálarfræði, sem farið var fram á. Mun nú næsta þing verða að bæta úr því.

Fyrirlestrar Guðmundar í háskólanum eru nú komnir út, og kallast bókin »Vinnan«. Þeir eru 10: I. Erfiði, II. Þreyta, III. Vinnuhugur, IV. Eftirlíking. Kapp, V. Vinnulaun, VI. Tímabrigði, VII. Aðstæður, VIII. Vinnugleði, IX. Vinnunám, X. Andleg vinna.

Fyrsti fyrirlesturinn er fullur af nauðsynlegum fróðleik, sem fæstir vita hér á landi, því að almenningur hefir eigi átt þess neinn kost að kynnast þeim fræðum. Framsetning höf. er einkarljós og

hverjum manni auðskilin. Eg get eigi kent höf. um orðskrípið »kílogrammetri«, því að Alþingi hefir sjálft illu heilli sett þann blett á íslenzka tungu. Prentvilla er á bls. $7_5$ þurfa fyrir þarf. Annars er mál alt vandað og gott hjá þessum höf. Sérstaklega ber að viðurkenna það, er hann ritar rétt það, sem tíðkast og tíðkast hefir að rita rangt. Menn rita alment t. d. stefndi fyrir stefndur, reyndi fyrir reyndur, (bls. 12[1]), en höf. ritar hér rétt, og skyldi menn læra af því. — Annar fyrirlesturinn er og fullur af nytsömum og sjaldfengnum fróðleik og má segja um hann hið sama sem hér að ofan um hinn fyrsta. Geta verður þó þess, að á bls. 20[15] er prentvilla, sem allir verða þegar að leiðrétta, tíu sekundur fyrir tvær sekundur. — Þótt eg hafi nefnt sérstaklega fróðleik í tveim fyrstu fyrirlestrunum, þá er það þó eigi svo að skilja, að hinir sé eigi fróðlegir. Heldur er almenningi sá fróðleikur torfengnari, en í III—IX er talað meir um hluti, sem menn þekkja af eiginni reynslu og gerir höf. þar einkum að leysa bundnar hugsanir manna og aðskipa í samfast kerfi einstökum athugunum og þekkingaratriðum almennings. Fer eigi hjá því, ef menn lesa bókina, að þeir fái miklu ljósari hugmynd um eðli daglegrar vinnu sinnar, fái virðing fyrir henni og læri að viðurkenna vald þekkingarinnar á þessu sviði sem öðrum. Er vonandi, að héðanaf hafi almenningur gleggri hugmynd um vinnu og vinnuvísindi, en ýmsir fræðingar og ráðunautar höfðu á þinginu 1915. Mun það og verða drýgst málinu til framgangs. Er nú við þeirri hættu að sjá, að heimska og barlómur drepi niður vel byrjuðu verki. Eg gerist jafnvel svo djarfur að vænta þess, að menn komist að skynsamlegri niðurstöðu í málinu, sjái að Guðmundur er velgerðamaður landsins, en það ekki hans, og sjái að úr því lærdómur þarf að koma brjóstviti manna til hjálpar, þá er þeir eiga að stýra vél í bát eða vagni, þá muni eigi síður þurfa þekkingar til þess að fara skynsamlega með heimsins margbreyttustu vél, mannslíkamann.

Skora vil eg á alla þá menn, sem þetta lesa, að fá sér »Vinnu« Guðmundar Finnbogasonar og segja mér svo á eftir, ef þeir treystast til að vera á öðru máli en eg um þetta.

Reykjavík í júní 1917.

Bjarni Jónsson frá Vogi.

**Sigfús Blöndal: Katalogisering og Opstilling af Böger.** Anden Udgave. København, 1916. 8vo, (2+) 49 bls.

Ritlingur þessi, sem er sérprentun úr Haandbog i Biblio-

tekskundskab, udgivet af Svend Dahl, hefir að geyma leiðbeining um skrásetning bóka og niðurskipun þeirra í bókasöfnum. Fyrri útgáfa ritsins var 1912 og var kverið þá 33 bls., en nú hefir höf. aukið það um eina örk. Á íslenzku hefir fátt verið um þetta efni ritað, ekki annað, að eg æ'.la, en grein eftir Jón Ólafsson, er út kom í Tímariti hins íslenzka Bókmentafélags, 23. árg. Rv. 1902, en sú grein nær stutt, lýsir að eins einu kerfi, því er kent er við Dewey bókavörð. Þessi ritlingur lýsir aftur á móti öllum hinum helztu flokkunarkerfum í höfuðþáttunum, skýrt og ljóst, að mér virðist, enda »kló sá, er kunni«, því að höf. hefir um langt skeið verið höfuðskrásetjari við eitt hið stærsta bókasafn í Norðurálfu, bókhlöðu konungs í Kaupmannahöfn. »Það skal vel vanda, sem lengi á að standa«, segir málshátturinn, og á það ekki sízt við um bókasöfn. Á engu ríður eins mikið við bókasöfn og því, að skrásetning sé í lagi, og er þá mikið undir því komið, að góður og traustur grundvöllur sé lagður frá upphafi. Fyrir því vil eg mæla fastlega með þessum ritlingi við þá, sem hafa á hendi gæzlu amtsbókasafna, sýslubókasafna og annarra safna; hann veitir ágæta leiðbeining um þessi efni, og heppilegast að leggja grundvöllinn að skrásetningunni, meðan söfnin eru smá. Ráðlegast mundi þá líklega, að landstjórnin beinlínis gæfi út reglugerð um skrásetningarreglur fyrir almanna-bókasöfn, svo að hérlend söfn yrðu öll skrásett eftir sama kerfi, hvert sem það yrði. — Um verð ritlingsins veit eg ekki, en sjálfsagt geta allir bóksalar hér útvegað hann.

Páll Eggert Ólason.

**Börn, foreldrar og kennarar** eftir D. C. Murphy. Jón Þórarinsson þýddi. Reykjavík. Bókaverzlun Sigfúsar Eymundssonar. 1917.

Hér birtist á íslenzku bók eftir amerískan höfund um efni, sem lítið er um ritað á voru máli. Í það má ráða af titlinum.

Efnið er boðorð, heilræði, vísbendingar til kennara um störf þeirra, hugleiðingar og athugasemdir um eigindir góðs kennara, mikilvægi kenslustarfa og samvinnu foreldra og kennara.

Eg mæli hiklaust með því, að kennarar vorir fái sér bók þessa og lesi hana vandlega. Reyndar dáist eg ekki að ritsnild hennar, eins og hinn mæti og mjögvirti þýðandi í formálanum. Höf. prédikar óþarflega, hugsar oft hversdagslega og ritar fullalþýðlega. Sumar hugsanir hans eru gráhærðir öldungar í gömlum fötum. Hann segir kynstur sagna og dæma, kenningum sínum og ráðum

til skýringar. En sumar sögurnar eru svo langar og reka hver aðra svo þétt, að hugsanaþráðurinn slitnar. Lesendum hafa næstum því gleymst skoðanir höfundar og íhugunarefni, er þeim er lokið. Hitt er þó lakara, að stundum sést samband þeirra við umræðuefnið ekki eins ljóslega og skyldi, nokkrar þeirra virðast að eins sagðar af því, að höf. hefir haft mætur á þeim. Það sem létta á lestur bókarinnar, sögurnar, er skýra eiga betur hugsanir hennar, snýst því í ókost, veldur ruglingi. Er þessi ameríski ritháttur alls ekki eftirbreytni verður. Það sætir furðu, hve lítt höf. trúir lesendum sínum til skilnings. Það er stundum því líkara, sem hann sé að segja til krökkum en kennurum og foreldrum. Vera má og, að einhverir finni honum það til foráttu, að hann kunni ekki ráð við nógu mörgu mótlæti, er bíði hvers kennara í starfi hans og stöðu. Stundum er hann þotinn frá okkur með ýmsar spurningar á vörunum, áður en oss varir. Hann fræðir oss meir um, hvað við eigum ekki að gera en gera. Hann játar, að hjá refsingum verði ekki komist, en hikar að leggja ráð um, hversu þeim skuli beitt. Hann á ekkert kynjalyf, sem læknar alla sjúkdóma, og er það sagt honum til lofs, enda mun þykja mál til komið, að eg rökstyðji meðmæli mín á annan hátt, en eg hefi gert hér á undan.

Ekki efa eg, að barnakennarar vorir geti ýmislegt á henni grætt, ef þeir kynna sér hana með kostgæfni. Hún geymir ráð og leiðbeiningar, er að gagni geta komið, ef eftir er farið. Höf. er heilbrigður, kenningar hans heilsusamlegar. Hann varar skýrt og rækilega við ofmiklum hátíðleik og alvörugefni í kenslustundum. Hann kennir, að mjög ríði á góðum aga í skólum og við skólanám. En »þeim skóla er bezt stjórnað, sem stjórnað er með minstri fyrirhöfn til að aga«. Og hann fer óvægum orðum um þá kennara, sem þykir sú skólastofa fyrirmynd, »þar sem heyra má títuprjón detta, og þar sem börnin sitja bein eins og kerti, með andlitið að kennaraborðinu«. Og glaðlyndi í kenslustofu telur hann holt og gott. Og hann bendir á góð tök á ýmsum brekum og brellum, og segir dæmi þess, hvernig þeim hafi verið eytt. Ágæt er þessi saga: Eitt sinn var ritað á skólatöflu, er kenslukonan kom inn: »Kenslukonan okkar er asna«. Hún hafði ekki orð um þetta, heldur tók þegjandi krítina og bætti við: »hirðir«. »Eftir það var ekkert skrifað á töfluna«. Einhver bezti kaflinn í bókinni er um ýmsar tegundir kennara, þar sem hann flokkar þá eftir einkennum þeirra og aðferðum við starf sitt og líkir þeim við ýmsa

fuglaflokka. Sönn er lýsingin á þeim kennurum, er taldir eru til ránfugla, og kannast íslenzkir lesendur víst við þá tegund.

Þýðingin virðist hafa vel tekist, málið gott og smekklegt, liðlegt og látlaust, alþýðlegt í góðri merkingu þess orðs.

Kennarasveit vor má þakka þýðanda starf hans.

**Sigurður Guðmundsson.**

**Sig. Heiðdal: Stiklur.** Sögur. Reykjavík. Bókaverzlun Ársæls Árnasonar 1917.

Ungur og efnilegur bóksali, hr. Ársæll Árnason, hefir gefið út nokkrar sögur, er »Stiklur« kallast, eftir Sigurð Heiðdal, barnakennara Seltirninga. Þar rennur upp ný stjarna á íslenzkum bókmentahimni. Gera má ráð fyrir, að marga fýsi að sjá hana og skoða, og að þeir velti því fyrir sér um leið, hvort gera má sér von þess, að hún leiftri lengi um nætur, eða hvort búast verður við hinu, að hún hrapi innan skamms niður fyrir brún sjóndeildarhringsins.

Margar spurningar ryðjast fram, er nýr höfundur sezt á þularstól: Um hvaða bygðir og bæi mannlífsins hefir hann farið, og hvaða tíðindi hefir hann þaðan að segja? Segir hann frá héruðum, er vér höfum eigi áður heyrt sögur úr, eða lýsir hann sveitum, kunnum úr leikum og frásögnum? Og ber þá sögn hans að nokkru af eldri sögum? Talar hann með meira fjöri og andagift en þeir, er áður sögðu sömu sögu, svo að vér tökum betur eftir, eða mælir hann skýrara en þeim tókst, svo að vér sjáum betur greitt úr örlögþáttum og æfikjörum en í gömlu ferðasögunum og öðlumst um leið nýjan skilning. Betri skilningur er í einhverju nýr skilningur. Og hvernig segir hann frá? Með hæðnihlátri eða raunarómi? Er lífið honum meira en yrkisefni? Má heyra á rödd hans aðalsblæinn, er auðkennir mál þess manns, sem gagntekinn er af alvöru lífs og dauða og einum er veittur máttur til að innræta mannlegum hjörtum, ofurlítið svipað og stórri reynslu eða sorg tekst það, mun á heimshégóma og verðmætum þeim, sem vér höfum hitann úr, vöxum af og göfgumst?

Söguefnin eru hvorki ný né víðtæk. Höf. er ástaskáld — sögurnar ástasögur. Og tamast virðist honum að lýsa útjöðrum í skuggahverfi ástarinnar — inn í dimmustu göturnar þar hættir hann sér lítt. Hann lýsir villum og villigötum í samdrætti og sambúð karla og kvenna, afleiðingum stundarléttúðar (»Kossinn«) og samvizkulausrar svölunar holdlegra fýsna (»Rándýrin«), og örðugleikum hjónabandsins, sem stafa af vöntun á nærgætni og vilja til samstillingar

skapi og þörfum. Hann hefir gaman af að lýsa aðdraganda að fyrstu kossum, faðmlögum og ástarjátningum, ímyndunarafl hans er allmjög ástum drifið. En ef sögurnar eru lesnar með örlítilli aðgætni, einkum lok þeirra, sést, að hugsun býr að baki þeim, að þær eru sagðar í alvarlegu skyni. Höf. virðist alvörumaður, og sögur hans skortir ekki alvarlegt efni, þótt það sé ekki stórfenglegt. Hann sýnir líka, hversu lítilfjörlegustu atburðir og ólíklegustu tilviljanir hafa áhrif á örlög vor í ástamálum. Slíkt er líka umhugsunarefni, ekki sízt á þessum ógagnrýnu trúartímum, er vér lifum á.

Það leiðir af afmörkun efnisins, að vér kynnumst köppum skáldsins flestum ekki annarstaðar en á launþingum ástarinnar eða af öðru en því, er þeir eru við hana riðnir. En ef það sópar ekki meira að þeim í öðrum efnum en þar, sakar það lítið. Persónur hans eru smávaxnar. Ein söguhetjan áræðir ekki með nokkru móti að biðja sér konu, sem hann unni hugástum og hún elskaði aftur ekki minna, af því að hún færðist ofurlítið undan, er kempan kom við hana. Svo lítilfjörleg hreyfing réð örlögum þessara elskanda, líkt og skáldið segir. Og hér er engin kona, er vér fáum mætur á, en það auðkennir íslenzk skáld, bæði í fornöld og nútíð, að þeim tekst betur við kvenþjóðina en karlmennina. Vér minnumst hér helzt kaupmannsdótturinnar í fyrstu sögunni, sem hugkvæmist smellið úrræði til að ná samþykki föður síns, furðulega grunnhyggins, til lofunar sinnar, er honum var þvert um skap. Og hér er enginn heilabrotamaður með sjálfstæðar skoðanir, andlegan óróa eða djarfmannlega dóma. Sálargróður er hér ófjölskrúðugur.

En alt fyrir þetta er margt vel um höf. og sögur hans, er spáir góðu um framtíð hans. Tveimur persónum hans er veigur í. Önnur er »heiðarskáldið«. Í honum býr vilji og harðneskja, sem stafar meðfram af því, að hann varð að yrkja í framkvæmdum og fésýslu í stað þess að skapa mannssálir og lyndiseinkunnir, sem honum lék hugur á ungum. Þykir mér sú saga hafa einna bezt hepnast. Það er að vísu heldur ósennilegt, að sá, sem söguna segir, hafi ekki vitað um svo nafnkunnan fjáraflamann, sem Heiðmann hlaut að vera, að hann var »heiðarskáldið« og bernskuvinur hans, þar sem hann var Möðruvellingur, mjög riðinn við almannamál, þingmaður og virðist greindarmaður. En slíkt er smávægilegt Hitt er höfuðatriðið, að persónunni er lýst með litum, bæði í máli lundu og fasi, og að alt er það eðlilega samstilt.

Hin söguhetjan, sem vér veitum eftirtekt og oss þykir vænt

þeirri og ræðusnild, sem höfundinum er lagin, og geta menn þar séð, hvers eðlis kenning hans er. Og eg vil spyrja alla þá, sem »kristnir« vilja vera, að því, hvort þeim finnist ekki þar vera að ræða um lifandi, sannan kristindóm, og hvort sá kristindómur sé ekki full-boðlegur, þótt hann vanti ef til vill eitthvað af löghelguðum kredduflíkum. Spyrja þá, hvort þeim finnist hann ekki vera í nokkurn veginn samræmi við nýja-testamentið, sem »lúterskir« menn ætti helzt að binda sig við — og meta jafnvel meira en játningarritin, að þeim ólöstuðum.

Bókin á brýnt erindi til allra presta landsins og trúhneigðra manna, flestum bókum fremur. Hún er eins og lækur af lifandi vatni yfir akur kirkjunnar, sem ekki hefir altaf verið í sem beztri rækt. Og víst má telja, að margir fagni henni.

Ef sannleiksleitin á sér ennþá nokkurn griðastað í kirkju vorri.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Guðm. Guðmundsson: Ljóð og kvæði.** Nýtt safn. Reykjavík. Bókaverzlun Sigf. Eymundssonar. MCMXVII.

Í inngangskvæði að þessu nýja safni afneitar skáldið ýmsu því, sem hann ætlast ekki til að komist inn í ljóð sín. Og ljóðagerð sína einkennir hann meðal annars með þessari vísu:

En lægsta lóukvakið,
laufþyt og sævarnið,
hlæjandi' og grátandi' í hljóði
hörpuna stilli eg við.

Bendingin er góð um það, hvernig líta beri á ljóð hans, og hvar skáldið finnur sjálft styrkleik sinn vera.

Sízt ber því að neita, að margt er snjalt og fallegt í ádeilu- og hvatningarljóðunum í bókinni — og þau eru nokkuð mörg. Eg veit, til dæmis að taka, ekki, hver Íslendingur hefði átt að geta ort betur en G. G. um það efni, að kirkjan eigi að hleypa inn kærleikanum, nýjum hugsunum og frjálsri rannsókn, en reka kreddurnar út.

Þá streymir fólkið þar aftur inn,
sem úti var neytt að standa,
og huga laugar og líkama sinn
í ljósbaði heilags anda. . . .

Sé rekin úr kirkjunni rannsókn frjáls
á rökseemdum trúarinnar,

er guði með ofbeldi meinað máls
í musteri dýrðar sinnar.

Eins er margt vel um þau kvæði, þar sem einkum kennir ættjarðarástarinnar og sjálfstæðisþrárinnar — þó að fyrir komi það þar, að flokkadeilanna — gargsins liggur mér við að segja — kenni helzti mikið.

En ekki er eg í neinum vafa um það, að þá nær hann til langframa beztum tökum á hugum lesenda sinna, er hann stillir hörpuna »hlæjandi og grátandi í hljóði«. Þá fær hann oft þann blæ á ljóðin, að slíkt er ekki annara meðfæri en snillinganna. Ekki sízt þegar hann fer að leika sér

að því að byggja brú
til bjarmalands minninganna.

Og það gerir hann oft. Á bifröst hugsjónaaflsins verður hann konungur. Þar rænir hann enginn ríkinu. En þegar endurminningarnar fara að verða of nærgöngular,

þá verður mér tignin torbær þraut.
— mig tekur í gömlu meinin,
sem forðum, þegar eg bát minn braut
við brimsorfinn unnarsteininn.

Þá verður mér ljóst, hve viðsjált er
að vera hið liðna að kanna:
Að ósekju leikur enginn sér
að eldinum minninganna.

Dálítill samstæður ljóðabálkur í bókinni — 15 smákvæði — er með fyrirsögninni »Andante religioso«. Sú fyrirsögn gæti átt við mikinn hlut þessara ljóða. Það er bersýnilega svo mikið í G. G. af því, sem á öðrum tungum er nefnt »religión« og við neyðumst til að nefna »trú«, þó að það orð sé mjög villandi, að þau eru fá sálmaskáldin okkar, sem jafnast hafa við hann að því leyti. Alt, sem hann ann, vekur hjá honum hugarhræringar, sem eru náskyldar tilbeiðslunni. Kvæðið um heimilið hans er í raun og veru sálmur. Í yndislega fallegu kvæði um grafreit frönsku sjómannanna hér í kirkjugarðinum er kveðið svo orði:

Þar er svo hljótt og heilagt,
að helgispjöll virðist mér
á skóm þar að ganga um garðinn,
sem gestunum vígður er.

Það á fráleitt eingöngu við þann garð í huga G. G. Hann er bersýnilega oft í því skapi, að lífið alt, tilveran öll er honum heilög.

Og innan um þunglyndið og »eld minninganna«, sem viðsjált er að leika sér að, innan um hugsanirnar um það, er hann varð fyrir töfrum, heyrði fagran söng fyrir söndum og lærði að skilja það, að »vandi er að sleppa heill úr tröllahöndum«, er bjartsýnið takmarkalaust. Eg bendi að eins til dæmis á kvæðið, sem nefnt er »Gesturinn«, og er eitt af fallegustu og tígulegustu kvæðum, sem til eru á íslenzku:

Eg sá hvar hann kom neðan Djúpadal
úr dimmunni' að handan — á bleikum,
með síðhött, í síðólpu', á bleikum.
Hann bar þar dökkvan við dvergasal. —
Og dísirnar gengu frá leikum.

Allir geislar og allir fuglar lögðu á flótta. Drangarnir stóðu eins og draugar á gægjum. Lyngið og grasið var sviðið, þar sem leið hans lá um. Gesturinn var kominn til þess að finna skáldið. Horfurnar voru hinar ískyggilegustu. En þegar sólin brauzt fram,

þá var sem úr álögum alt væri laust
í eilífðar dýrðar-ljóma.

Og alt ummyndaðist — bæði gesturinn og alt annað.

Langt mál mætti auðvitað rita um þessa bók og verður sjálfsagt gert af einhverjum. Eg hefi ekki ætlað mér að gagnrýna ljóð Guðm. Guðmundssonar — heldur að eins að vekja athygli manna á fallegri og elskulegri bók, sem vafalaust verður íslenzkum ljóðavinum til ánægju.

E. H. K.

**Starfskrá Íslands.** Handbók um opinberar stofnanir og starfsmenn árið 1917. Gefin út af hagstofu Íslands. Rvík 1917. VIII + 160 bls. (Verð 2. kr.).

Þetta er í fyrsta sinn, að hagstofan gefur út rit um þetta efni, en áður hafa skrár yfir embættis- og sýslunarmenn komið út 10 sinnum. Reið Sigurður Hansen fyrstur á vaðið og ritaði embættismannatal á Íslandi 1861, 1866 og 1870 í Skýrslur um landshagi á Íslandi (III, 1—44; IV, 1—50; V, 1—50). Síðan liðu 20 ár, að engin skýrsla kom út um þetta efni, nema yfirlit yfir skipun geistlegra embætta 1. nóv. 1879 eftir Magnús Andrésson (í Kirkjutíð-

indum II, 92—107) og yfirlit yfir skipun verðslegra embætta við nýár 1881 eftir Jón Borgfirðing (Tímar. Bókm.fél. II, 55—60), þar til að Janus Jónsson ritaði embættismannatal á Íslandi 1. jan. 1890 (Stjt. 1890, C. 1—9), síðan Halldór Kr. Friðriksson 1. jan. 1896 og 1901 (Stjt. 1896, C. 1—16; Lhsk. 1901, 1—15) og síðast Kl. Jónsson landritari 1. jan. 1906, 1910, 1912 og 1914 (Lhsk. 1905, 1—12; 1909, 1—35; 1911, 1—50; 1912, 304—356). Voru hinar fyrri skrár mjög ófullkomnar, og í skýrslum Janusar Jónssonar og Halldórs Kr. Friðrikssonar voru að eins taldir embættismenn og fáeinir sýslunarmenn og ekkert getið um opinberar stofnanir, en í skýrslum Sig. Hansens var þeirra að nokkru getið. Hinar síðari skýrslur Kl. Jónssonar voru miklu fullkomnari og margfalt fleiri stofnana og starfsmanna getið, en áður hafði verið.

Starfskrá Íslands er miklu fullkomnari en öll eldri ritin, og hefir afarmikil alúð og vinna verið lögð á að gera hana sem fullkomnasta og áreiðanlegasta, enda vildi hagstofan gera þetta rit »svo úr garði, að það gæfi sem fylstar upplýsingar í stuttu máli um allar opinberar stofnanir og starfsmenn og stæði ekki mjög að baki samskonar ritum erlendum«, segir hagstofustjórinn í formála bókarinnar, og verður ekki annað sagt, en að það hafi tekist ágætlega.

Í ritinu er skýrt frá, hver lagaákvæði eru um stofnanirnar, hvert starfssvið þeirra sé og hver laun fylgja starfinu. Er og getið þeirra stofnana, félaga og einstakra manna, sem njóta styrks af opinberu fé, svo og þeirra sjóða, sem stofnaðir hafa verið samkvæmt lögum. Fæðingardaga og skipunardaga alls þorra þeirra manna, sem nefndir eru, er getið, og þar sem margar slíkar upplýsingar hafa eigi fengist nema með rannsókn í Þjóðskjalasafninu, þá hefir það aukið starfið að mjög miklum mun, en gefur hins vegar bókinni margfalt meira gildi. Enn er og getið um embættispróf og heiðursmerki, og yfirhöfuð hefir engin fyrirhöfn verið spöruð til að hafa alt sem fullkomnast, og að síðustu er fullkomin mannanafnaskrá og efnisskrá, er eykur gildi hennar mjög mikið og gerir hana enn handhægari handbók.

Hinn ytri frágangur bókarinnar er og hinn prýðilegasti eins og er á öllum þeim ritum, er hagstofan hefir gefið út.

**Jóhann Kristjánsson.**

**Daniel Bruun: Erik den Röde og Nordbokolonierne i Grönland.** Kbh. 1915. IV + II + 238 bls.

Ýmsar þjóðir Norðurálfunnar hafa gert mikla gangskör að því að rannsaka höf og lönd við norðurheimskautið og varið of fjár til slíkra ferða. Á fyrri öldum voru heimskautsfarir yfirleitt mjög hættulegar, því að kunnáttu vantaði bæði til að gera skipin nokkurn veginn ísfær, og svo vantaði mikið á, að útbúnaður og viðurgerningur skipshafna væri svo ríkulegur, góður og hollur sem þörf krafði, enda varð þá eigi heimkomu auðið mörgum þeirra, er til slíkra ferða réðust, þótt hraustir væri. Þá voru það einkum Hollendingar, er tókust slíkar langferðir á hendur norður í höf til hvalveiða, og Englendingar til að finna nýjar verzlunarleiðir norðan við meginlönd Asíu og Ameríku, og fleiri þjóða menn mætti nefna. En nú á síðustu tímum hafa frændþjóðir vorar á Norðurlöndum: Danir, Norðmenn og Svíar, gert út leiðangra til að rannsaka óbygðir umhverfis norðurheimskautið, og munu flestir kannast við norðurfara slíka sem Hovgaard (1882), Nansen (1893) og Nordenskjöld (1872, 1878—80) og marga fleiri. Hafa allar þær ferðir einkum verið gerðar til að auka þekking manna á löndum og höfum, dýrum, jurtum og jarðefnum þar norður frá, enda vita menn nú miklu meira um alla eðlisháttu þessa hluta heimsins en fyrir einum mannsaldri. Danir hafa sérstaklega lagt mikið kapp á að rannsaka landslag og náttúru Grænlands í jörðu og á, mæla lönd og firði, hafstrauma og ísrek með ströndum fram, svo að nú þekkja menn þar nálega hvern krók og kima. Skýrslur um vísindalegan árangur þessara rannsókna má finna í miklu ritsafni, er einu nafni nefnist »Meddelelser om Grönland«.

Höfundur bókar þeirrar, er getur hér að ofan, var á Grænlandi árin 1894 og 1903 og leitaði þá uppi og kannaði bygðir og býli og aðrar minjar norrænna landnámsmanna á Grænlandi og afkomenda þeirra. Svo sem kunnugt er, fann Eiríkur hinn rauði Þorvaldsson fyrstur Grænland um 981 og fjórum árum síðar tóku Íslendingar að nema þar land og bygðist landið á fám árum, en þjóðfélagsskipun landsmanna var að mestu sniðin eftir því, sem hér gerðist, enda voru samgöngur tíðar milli landanna fyrst framan af. Í fyrsta kafla bókarinnar er sagt frá æsku og uppvexti Eiríks að Dröngum, kvonfangi hans og dvöl við Breiðafjörð, unz hann var sekur ger og fór vestur um haf á leit nýs bústaðar. Í öðrum kaflanum er frásögn um landnámið sjálft og nákvæm og fögur lýsing á landkostum þar í bygðunum, alt eftir beztu heimildum, fornum og nýjum.

Þá koma í 3.—9. kaflanum langir útdrættir úr sögunum: Eiríkssögu rauða (Þorfinns s. Karlsefnis), Flóamannasögu (um Þorgils örrabeinsstjúp), Fóstbræðrasögu (um Þormóð Kolbrúnarskáld), Skáld-Helga rímum, Auðunar þætti vestfirzka, Einars þætti Sokkasonar, Noregskonungasögum, annálum og ýmsum öðrum heimildum með vönduðum athugasemdum og fróðlegum skýringum höfundarins um endalok bygðar norrænna manna á Grænlandi, fyrst í vestri bygð (í lok 14. aldar) og löngu síðar í eystri bygð (í lok 15. aldar). Mun Björn Jórsalafari Einarsson hafa verið einna síðastur íslenzkra manna, er á þeim tímum dvaldist þar í landi, en það var á árunum 1385—87, og hlaut Íslendingum því að vera vel kunnugt um, að frændur þeirra á Grænlandi voru þá þegar orðnir lamaðir af samgönguleysi við önnur lönd og skorti á þeim efnum (járni, timbri o. s. frv.), er nauðsynleg voru til að geta lifað þar siðaðra manna lífi, og af kúgun klerkdómsins, er sölsað hafði undir sig flestallar jarðeignir landsmanna; þar á ofan áttu þeir, er hér var komið, í vök að verjast fyrir Skrælingjum, er þegar á öndverðri 14. öld tóku að nálgast bygðirnar og gera þeim skráveifur á ýmsa lund, svo að þar af reis fullur fjandskapur milli þjóðflokkanna, en Skrælingjar stóðu betur að vígi að því leyti, að þeir höfðu algerlega samið sig eftir landsins háttum og kunnu því betur að bjargast af eignum ramleik. Er hörmulegt til þess að vita, að Íslendingum var þá þegar svo þorrin dáð og drengskapur, að þeir hirtu eigi um að veita frændum sínum þá hjálp, er þeir þörfnuðust, og Noregskonungar gleymdu skyldum sínum, en sintu því að eins að ná sköttunum, er færi gafst. Þá er í 10. kaflanum lýsing á hinum fornu bygðum á Grænlandi, bæjarústum þeim, er rannsakaðar hafa verið, og minjum þeim, er þar hafa fundist, svo og atvinnuvegum landsmanna, háttum og kjörum. Í 11. kaflanum er að síðustu skýr og skilmerkileg staðlýsing Grænlands að fornu og nýju eftir fornum ritum (þar á meðal Grænlandslýsing Ívars Bárðarsonar frá síðari hluta 14. aldar) og nýjum rannsóknum.

Í bókinni er fjöldi mynda af stöðum og mannvirkjum, svo og vönduð kort, er sýna meðal annars öll forn bæjastæði, þau er til þessa hafa fundist, og að náttúrufegurð er þar mikilfengleg og afar breytileg.

Vér höfum að vísu áður átt kost góðra rita um Grænland, svo sem eru hin merkilegu ritsöfn »Antiquitates Americanae« (Kh. 1845) og »Grönl. hist. Mindesmærker« (Kh. 1838—45), enn fremur stuttorð saga og lýsing landsins eftir þá F. Jónsson og Helga Pétursson (Kh. 1899), en bók sú, er hér hefir verið getið að nokkuru, á skilið að vera lesin og hlýtur að verða vel þegin af öllum þeim, er um þetta fagurnefnda land við norðurhjarra heims vilja fræðast, sérstaklega þeim, er hyggja á landnám þar að nýju, svo sem til orða hefir komið.

**Pálmi Pálsson.**

**Réttur**. Tímarit um félagsmál og mannréttindi. Þrjú fyrstu heftin.

Vilji menn spá um framtíð einhverrar þjóðar, athuga menn fyrst ungu kynslóðina, áttavita ókomna tímans. Gildir þetta ekki sízt um Íslendinga. Ungir menn hófu viðreisnarbaráttuna gegn erlenda pólitiska valdinu, ungir menn útrýmdu helvítistrúnni og leystu þjóðina úr verstu andlegu ánauðinni. Nú á tímum er oft talað um áhugaleysi ungu kynslóðarinnar, og er þar aðallega átt við mentamenn. — »Réttur« sýnir, að þetta tal á ekki við um alþýðuna, heldur er hér í aðsigi ný og öflug hreyfing meðal yngri manna. »Réttur« er ekkert skemtirit, hann er ætlaður til að vekja menn til umhugsunar um landshagi, benda á gallana og sýna nýjar leiðir, sem fara verði í framtíðinni í stjórnmálum innanlands. Eftirtektaverð er breytingin frá fyrsta heftinu til þriðja heftisins. Fyrst er eins og verið sé að þreifa sig áfram í rökkri, sérstaklega með hliðsjón af reynslu erlendra þjóða í stjórnmálum, en í síðasta heftinu er hreyfingin komin í fastara form, á betur við hér á landi; »samvinnumenn« eru að reisa merkið og fylkja liði.

Ritgerðirnar eru ærið misjafnar, þó að flestar séu þær vekjandi. Í fyrsta heftinu er grein eftir Jónas Jónsson frá Hriflu um markaðsverð, sem orðið hefir að ádeiluefni, og heldur Jónas því þar fram, að vinnumagnið sé grundvöllurinn undir verðlagi öllu. Hagfræðingar nútímans taka varla þá kenningu gilda, fremur en hina einföldu gömlu kenningu um að verðlag fari eftir tilboði og eftirspurn án nánari skýringa. »Sannvirðið« er misjafnt eftir því í hve stórum stíl framleiðslan er o. s. frv. Verða menn því ætíð að leggja til grundvallar fyrir verðlagi notagildi og kostnað síðustu einingarinnar. Meðal annara ritgerða í fyrsta heftinu má nefna: »stríðið« eftir Benedikt Jónsson, »jarðvegurinn« eftir Benedikt Bjarnason og »auðsjafnaðarkenningin« eftir Þórólf Sigurðsson, allar fjörlega ritaðar, en fremur ætlaðar til að hreyfa nýjum stefnum heldur en rökræða einstök mál til fullnustu.

Í öðru heftinu kemur fyrst grein um bankamál eftir Þórólf Sigurðsson, þar sem því er haldið fram, að landsbankinn eigi að verða að öflugum veðlánabanka í sambandi við héraðssjóði í öllum héruðum landsins, en Íslandsbanki, sem landið eigi að kaupa, eigi aðallega að vera útvegsbanki. Ýmislegt í þessari ritgerð mun orka tvímælis, en hugmyndin um landsbankann í sambandi við héraðsbanka eða sparisjóði mun sjálfsagt festa rætur. Jónas Jónsson frá Hriflu ritar aðra grein í sama hefti um strandferðir og póstgöngur,

og er tillaga hans, að landið kaupi 4 strandferðaskip sem fari hringferðir kringum landið, en á stærstu flóum og fjörðum séu látnir ganga stórir vélbátar. Landpóstar gangi svo frá helztu höfnum upp í sveitir, en hringferðir pósta séu lagðar niður. Yfirleitt séu samgöngur á sjó efldar á allan hátt, en ekki lagt út í járnbrautarlagningu fyrst um sinn. Kemur þetta vel heim við skoðanir margra um að gera öllum héruðum landsins jafnhátt undir höfði. Enn má nefna í þessu hefti ritgerð Sigurgeirs Friðrikssonar um póstsamband, þar sem komið er með tillögur um fyrirkomulag póstferða til sveita með hafnapóstum og sveitapóstum.

Í þriðja heftinu eru ýmsar veigamiklar greinar. Benedikt Bjarnason ritar um trygging búfjár með heyfyrningasjóðum um land alt, Páll Zóphóníasson skýrir frá jarðarleigu og leiguliðakjörum fyr og nú, Benedikt Bjarnason ritar um ábúð og leiguliðarétt og sýnir fram á hin erfiðu kjör leiguliða, Jón Gauti Pétursson ritar um þjóðjarðasölu og landleigu, óvenju vel ritaða grein, þar sem hann kemst að þeirri niðurstöðu að afhenda eigi þjóðjarðir til lögfullrar eignar og umráða, útborganalaust, en með leigutökurétti á þáverandi verði jarðarinnar og jafnframt þeirri verðhækkun, sem í ljós kæmi í framtíðinni og væri fyrir tilverknað þjóðfélagsins. Hér við mætti bæta að leggja skyldi leiguna í sjóð og nota hann — ef tilraunin tækist vel — til að kaupa upp jarðir fyrir landssjóð og koma á þær samskonar ábúð. Auk þess stingur sami höf. upp á landskatti í samræmi við Henry George. Slíkur skattur mun þó varla vera framkvæmanlegur hér á landi fyrst um sinn nema þá í kauptúnum eða þar sem landið eða héruðin leggja fram fé til atvinnubóta. Síðast en ekki sízt má geta ritgerðar eftir Jón Sigurðsson, »nýir straumar«, sem virðist vera einskonar heildaryfirlit yfir kenningar þær, sem »Réttur« hefir haldið fram.

»Réttur« er ádeilurit. Engin von er um, að kenningar þær, sem hann flytur, sigri baráttulaust. En þeir, sem að honum standa, munu vilja taka undir með Björnsson:

. . . fred er ej det bedste
men at man noget vil.

**Héðinn Valdimarsson.**

---

# Skýrslur og reikningar

## Bókmentafélagsins 1916.

---

### Bókaútgáfa

Félagið hefir árið 1916 gefið út þessar bækur og félagsmenn fengið þær fyrir árstillagið, 6 krónur:

| | | |
|---|---|---|
| Skírnir, 90. ár . . . . . . . . . . . . | kr. | 4.00 |
| Fornbréfasafn XI. b. 2. h. . . . . . . . | — | 2 25 |
| Safn til söga Íslands V. b. 2. h.. . . . . | — | 2 50 |
| Íslendinga saga III b. 1. h. . . . . . . | — | 1.75 |
| Minningarrit aldarafmælis félagsins . . . | — | 8.00 |
| Samtals | kr. | 18.50 |

Reykjavík 18. júní 1917.

*Matthías Þórðarson*
bókav. félagsins.

---

### Aðalfundur.

Ár 1917, mánudaginn 18. júní, kl. 9 að kveldi var aðalfundur Bókmentafélagsins haldinn í Iðnaðarmannahúsinu. Fundarstjóri var kosinn prófessor Lárus H. Bjarnason.

I. Forseti gat látinna félaga (Magnúsar Stephensens fv. landshöfðingja, Axel Olriks prófessors, J. E. Sars prófessors, Þorvalds Jónssonar læknis, Ólafs Johnsens yfirkennara, Jóns Ólafssonar rithöfundar, Þórhalls Bjarnarsonar biskups, Rögnvalds Ólafssonar húsameistara, Ásgeirs Torfasonar efnafræðings og J. Sephtons prests) og mintust félagsmenn þeirra með því að standa upp. Félagsmenn voru alls orðnir 1285, en á árinu höfðu bæzt við 134 nýir félagar.

Því næst skýrði forseti frá bókaútgáfu félagsins á þessu ári, sem orðið hefði mjög dýr, og næsta ár gæti félagið ekki haldið í horfinu, nema styrkur til þess úr landssjóði yrði aukinn að mun.

Þá las forseti upp ársreikning og efnahagsreikning félagsins og bar þá saman við reikninga frá f. á. Höfðu endurskoðendur eigi haft neitt við þá að athuga, en á fundinum var hreyft nokkrum munnlegum athugasemdum um ritlaun og bókaútgáfu af endurskoðendum og öðrum. Reikningarnir samþyktir í einu hljóði. Ennfremur las forseti upp reikninga sjóðs Lehmanns-Filhés og afmælissjóðs hins íslenzka Bókmentafélags.

II. Endurskoðendur endurkosnir: Klemens Jónsson landritari og Hannes Þorsteinsson skjalavörður.

III. Eftir tillögu stjórnarinnar voru kjörnir heiðursfélagar: Hannes Hafstein og Stephan G. Stephansson.

Að lokum þökkuðu félagsmenn stjórninni með því að standa upp.

Fundarbók samþykt.

Fundi slitið.

*Lárus H. Bjarnason.*

Jón Aðils.

---

# Reikningur

## yfir tekjur og gjöld Hins íslenzka Bókmentafélags fyrir árið 1916.

Tekjur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Eftirstöðvar frá 1915: | | | | |
| a. Veðdeildarbréf Landsbankans . . | kr. | 21000 00 | | |
| b. Dönsk verðbréf . . . . . . . . | — | 8000 00 | | |
| c. Peningar í sparisjóði . . . . . | — | 7115 78 | | |
| | | | kr. | 36115 78 |
| 2. Styrkur úr landssjóði . . . . . . . . . . . . . | | | — | 2000 00 |
| 3. Sextánda greiðsla fyrir handritasafnið . . . . . . | | | — | 1000 00 |
| 4. Greidd tillög meðlima . . . . . . . . . . . . . | | | — | 6639 91 |
| 5. Fyrir Skírni og seldar bækur í lausasölu . . . . . | | | — | 1657 68 |
| 6. Fyrir auglýsingar á kápu Skírnis 1916 . . . . . | | | — | 98 00 |
| 7. Gjöf frá ónefndum, afhent af forseta . . . . . . | | | — | 17 00 |
| 8. Áunnið við útdregið veðdeildarbréf Landsb. . . . . | | | — | 30 00 |
| 9. Ársvextir af: | | | | |
| a. 21000 kr. í veðdeildarbréfum Landsbankans . . . . . . . . . . . | kr. | 945 00 | | |
| Flyt | kr. | 945 00 | kr. | 47558 37 |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Fluttar | kr. | 945 00 | kr. | 47558 37 |
| b. 4000 kr. í kreditkassaskuldabréfum landeigna | — | 140 00 | | |
| c. 2200 kr. í húskreditkassaskuldabréfum | — | 88 00 | | |
| d. 1600 kr. í þjóðbankahlutabréfum | — | 128 00 | | |
| e. 200 kr. í kreditbankaskuldabréfum jóskra landeigna | — | 7 00 | | |
| f. peningum í sparisjóði | — | 51 20 | | |
| | | | — | 1359 20 |
| | | | kr. | 48917 57 |

Gjöld:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Bókagerðarkostnaður: | | | | |
| a. Skírnir: | | | | |
| 1. Laun ritstjóra | kr. | 500 00 | | |
| 2. Ritlaun og prófarkalestur | — | 1160 00 | | |
| 3. Prentun, pappír, hefting o. fl. | — | 2785 58 | | |
| | | | kr. | 4445 58 |
| b. Minningarrit aldarafmælis félagsins | | | | |
| 1. Ritlaun og prófarkalestur | kr. | 848 50 | | |
| 2. Prentun, pappír, myndir og hefting | — | 3169 42 | | |
| | | | — | 4017 92 |
| c. Aðrar bækur | | | | |
| 1. Ritlaun og prófarkalestur | kr. | 522 37 | | |
| 2. Prentun, pappír, hefting o. fl. | — | 3125 05 | | |
| | | | — | 3647 42 |
| 2. Kostnaður við aldarafmæli félagsins | | | — | 426 15 |
| 3. Afgreiðslukostnaður | | | | |
| a. Laun bókavarðar | kr. | 680 00 | | |
| b. Innheimtuuppbót til sama fyrir árið 1915 | — | 58 48 | | |
| c. Burðargjald o. fl. | — | 818 46 | | |
| | | | — | 1556 94 |
| 4. Brunabótagjald og ýms gjöld | | | — | 222 68 |
| 5. Eftirstöðvar 31. desbr 1916: | | | | |
| a. Veðdeildarbréf Landsbankans | kr. | 21000 00 | | |
| b. Kreditkassaskuldabréf landeigna | — | 4000 00 | | |
| c. Húskreditkassaskuldabréf | — | 2200 00 | | |
| d. Þjóðbankahlutabréf | — | 1600 00 | | |
| e. Kreditbankaskuldabréf jóskra landeigna | — | 200 00 | | |
| Flyt | kr. | 29000 00 | kr. | 14316 59 |

| | | | |
|---|---|---|---|
| | Fluttar | kr. 29000 00 | kr. 14316 59 |
| f. Peningar í sparisjóði . . . . . | — | 5600 98 | |
| | | | — 34600 98 |
| | | | Kr. 48917 57 |

Reykjavík 28. apríl 1917.

*Sigurður Kristjánsson*
p.t. gjaldkeri.

Reikning þennan ásamt fylgiskjölum höfum við nákvæmlega yfirfarið, og ekki fundið neitt við hann að athuga.

Reykjavík 31. maí 1917.

*Kl. Jónsson. Hannes Þorsteinsson.*

---

## Efnahagsreikningur

**Hins íslenzka Bókmentafélags 1. janúar 1917.**

Eignir:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. Samkvæmt ársreikningi 1916: | | | |
| a. Í verðbréfum . . . . . . . . . | kr. | 29000 00 | |
| b. Í peningum í sparisjóði . . . . | — | 5600 98 | |
| | | | kr. 34600 98 |
| 2. Forlagsbækur, samkvæmt skrá, virtar . . . . . . . | | | — 20000 00 |
| 3. Ýmsir munir, samkvæmt skrá, virtir . . . . . . . | | | — 716 00 |
| 4. Útistandandi skuldir . . . . . . . . . . . . . . | | | — 2581 30 |
| | | | Kr. 57898 28 |

Skuldir:

| | |
|---|---|
| Skuldlaus eign . . . . . . . . . . . . . . . . . . | kr. 57898 28 |
| | Kr. 57898 28 |

Reykjavík 12. maí 1917.

*Sigurður Kristjánsson*

p.t. gjaldkeri.

Reikning þennan höfum við yfirfarið, og ekki fundið neitt við hann að athuga.

Reykjavík 31. maí 1917.

*Kl. Jónsson. Hannes Þorsteinsson.*

## Reikningur

**Afmælissjóðs hins íslenzka Bókmentafélags fyrir árið 1916.**

Tekjur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Gjöf próf. dr. Björns M. Ólsens | | | kr. | 1000 00 |
| 2. Vextir 1916: | | | | |
| a. Í sparisjóði | kr. | 0 75 | | |
| b. Í Söfnunarsjóði | — | 13 31 | | |
| | | | — | 14 06 |
| | | | Kr. | 1014 06 |

Gjöld:

| | | |
|---|---|---|
| Innstæða í Söfnunarsjóði | kr. | 1014 06 |
| | kr. | 1014 06 |

Reykjavík, 12. maí 1917.

*Sigurður Kristjánsson*
p.t. gjaldkeri.

Reikning þennan höfum við yfirfarið, og ekki fundið neitt við hann að athuga.

Reykjavík, 31. maí 1917.

*Kl. Jónsson. Hannes Þorsteinsson.*

---

## Reikningur

**sjóðs Margrétar Lehmanns-Filhés fyrir árið 1916.**

Tekjur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Eftirstöðvar við árslok 1915: | | | | |
| a. Stofnfé: | | | | |
| 1. Í Söfnunarsjóði | kr. | 5200 89 | | |
| 2. Í innlánsbók Íslandsbanka | — | 16 20 | | |
| | | | kr. | 5217 09 |
| b. Starfsfé: | | | | |
| Í innlánsbók Íslandsbanka | | | kr. | 358 34 |
| 2. Vextir 1916: | | | | |
| a. Í Söfnunarsjóði | kr. | 243 40 | | |
| b. Í innlánsbókum Íslandsbanka | — | 12 63 | | |
| | | | — | 256 03 |
| | | | Kr. | 5831 46 |

Gjöld:

Eftirstöðvar við árslok 1916:

a. Stofnfé:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Söfnunarsjóði . . . . . . . . . | kr. | 5261 74 | | |
| 2. Í innlánsbók Íslandsbanka . . . | — | 19 36 | | |
| | | | kr. | 5281 10 |
| b. Starfsfé: | | | | |
| Í innlánsbók Íslandsbanka . . . . . . . . . . . | | | — | 550 36 |
| | | | Kr. | 5831 46 |

Reykjavík, 12. maí 1917.

*Sigurður Kristjánsson*
p.t. gjaldkeri.

Reikning þennan höfum við endurskoðað, og ekki fundið neitt við hann að athuga.

Reykjavík, 31. maí 1917.
*Kl. Jónsson. Hannes Þorsteinsson.*

---

## Hið íslenzka Bókmentafélag.

VERNDARI:
**Kristján konungur hinn tíundi.**

STJÓRN:

**Forseti:** Björn M. Ólsen, próf., dr. phil., r. af dbr. og dbrm.
**Varaforseti:** Jón Þorkelsson, þjóðskjalavörður, dr. phil.

**Fulltrúaráð:**

Guðmundur Finnbogason, bókavörður, dr. phil.
Matthías Þórðarson, fornmenjavörður, bókavörður félagsins.
Einar Arnórsson, prófessor, kjörstjóri félagsins.
Jón Aðils, docent, skrifari félagsins.
Björn Bjarnason, kennari, dr. phil.
Sigurður Kristjánsson, bóksali, r. af dbr., gjaldkeri félagsins.

---

## HEIÐURSFÉLAGAR:

Anderson, R. B., prófessor, Madison, U. S. A.
Boer, R. C., prófessor, dr. phil., Amsterdam.
Briem, Eiríkur, prófessor, comm. af dbr. m. m., Reykjavík.
Briem, Valdimar, vígslubiskup, r. af dbr., Stóra-Núpi.
Bryce, James, Right Hon., sendiherra Breta í Washington.
Brögger, W. C, próf., dr. phil., jur. & sc., stkr. af st. Ól. o. m. m., Kristjaníu.
Cederschiöld, Gustaf, prófessor, dr. phil., Lundi.
Craigie, W. A, prófessor, dr. phil., Oxford.
Falk, Hjalmar, prófessor, dr. phil., r. af st. Ól. o. m. m., Kristjaníu.
Finnur Jónsson, prófessor, dr. phil., r. af dbr., r. af st. Ól. o., Khöfn.
Gering, Hugo, dr. phil., leyndarráð, prófessor í Kiel.
Hafstein, Hannes, fv. ráðherra, comm. af dbr. m. m., Reykjavík.
Hermann, Paul, prófessor, dr. phil., Torgau.
Heusler, Andreas, prófessor, dr. phil., Berlín.
Jón Jónsson, prófastur, Stafafelli.
Jón Þorkelsson, þjóðskjalavörður, Reykjavík.
Kålund, Kr., bókavörður., dr. phil., r. af dbr., Khöfn.
Ker, W. P., prófessor við háskólann í Lundúnum.
Kock, Axel, prófessor, dr. phil., Lundi.
Kristján Jónsson, háyfirdómari, comm. af dbr. m. m., Reykjavík.
Läffler, L. Fr., fv. prófessor, dr. phil., Djursholm.
Matthías Jochumsson, fv. sóknarprestur, r. af dbr. og dbrm., Akureyri.
Mogk, E, dr. phil., prófessor í Leipzig.
Noreen, Adolf, prófessor, dr. phil., Uppsölum.
Ólafur Halldórsson, konferenzráð, r. af dbr. dbrm., Khöfn.
Ólsen, Björn M., prófessor, dr. phil, r. af dbr. og dbrm., Reykjavík.
Olsen, Magnus, prófessor við háskólann í Kristjaníu.
Pipping H., prófessor, dr. phil., Helsingfors.
Poestion, J. C., ríkisbókavörður, hirðráð, comm. af dbr. m. m., Vín.
Stephan G. Stephansson, skáld, Markerville, Alb., Canada.
Thomsen, Vilh., próf., dr. phil., r. af fo., stkr. af dbr., dbrm. m. m., Kh
Thoroddsen, Þorvaldur, prófessor, dr. phil., r. af dbr., Khöfn.
Wimmer, L. F. A., prófessor, dr. phil. & litt., stkr. af dbr. dbrm., Khöfn.

---

## FÉLAGAR.
### A. Á Íslandi.

**Reykjavík.**

Aðils, Jón, docent '16.[1])
Alexander Jóhannesson, dr. phil.' 16.
Alexander Jóhannesson '16.
Andersen, Ludvig, klæðsk. '16.
Arinbjörn Sveinbjarnarson, bókbindari '16.
Arnar, Otto B., símritari '16.
Árni Jóhannsson, bankaritari '16.
Árni Jónsson kaupm. '16.
Ársæll Árnason, bókbindari '16.
Ásgeir Sigurðsson konsúll '16.
Bartels, Martin, bankaritari '16.
Beck, Símon, trésmiður '15.
Benedikt Sveinsson, alþm. '16.
Benedikt Þórarinsson, kaupm. '16.
Bergur Rósinkransson, kaupm.
Bjarnason, Ágúst, próf, dr. '16.
Bjarnason, Brynj. H, kaupm. '16.
Bjarnason, Ingibjörg H., forstöðukona kvennaskólans '16.
Bjarnason, Lárus H., próf. juris '16.
Bjarnason, Nicolai, afgrm. '17.
Bjarnason, Þorleifur H., adjunkt '16.
Bjarni Bjarnason, klæðskeri '16.
Bjarni Jensson, læknir '16.
Bjarni Jónsson, dómkirkjupr. '16.
Björn Bjarnason, dr. phil. '12.
Björn Björnsson, bókbindari '16.
Björn Kristjánsson, ráðherra '16.
Björn Ólafsson, bókari '17.
Björnson, Guðm., landlæknir '16.
Björn Sigurðsson, bankastj. '16.
Björn Þórðarson, aðstm. í stjr. '16.
Blöndahl, Magnús, kaupm. '16.
Blöndal, Ragnh., ungfrú '16.
Bogi Ólafsson, kennari '16.
Bókasafn K. F. U. M. '16.
Borgþór Jósefsson, bæjargjaldk. '16.
Breiðfjörð, Guðm. '16.
Briem, Eggert, yfirdómari '16.
Briem, Sigurður, póstmeistari '16.
Bynjólfur Björnsson, tannl. '16.
Brynleifur Tobíasson, námsm. '16.
Böðvar Kristjánsson, adjunkt '15.
Claessen, Eggert, yfirréttarmálaflutningsmaður '16
Copland, G., stórkaupm. '16.
Courmont, André, ræðism. '16.
Eggerz, Sig., s. bæjarfógeti.
Einar Arnórsson, prófessor '16.
Einar Finnsson, múrari '16.
Einar Gunnarsson, útgef. '16.
Einar Helgason, garðyrkjufr. '16.
Einar Magnússon, bókh. '16.
Erlendur M. Guðmundsson, bréfberi '16.
Eyjólfur Jónsson, rakari '16.
Eyþór Guðjónsson, bókbindari '16.
Fjeldsted, Andrés, augnlæknir '16.
Fjeldsted, Lárus, cand. jur. '16.
Friðrik Benónýsson '15.
Friðrik Klemensson, póstafgrm. '16.
Geir Sigurðsson, skipstjóri '16.
Georg Ólafsson, cand polit. '16.
Gísli Guðmundsson, gerlafr. '16.
Gísli Ísleifsson, fv. sýslum. '16.
Gísli Sveinsson, cand. jur. alþm. '16.
Grímúlfur Ólafsson, ritari '16.
Gröndal, Ben. Þ., cand. phil. 16.
Guðbr. Magnússon, prentari '15.
Guðjón Jónsson, verzlm. '16.
Guðjón Sigurðsson, Hvg. 71 '17.
Guðm. Ásbjarnarson, kaupm. '16.
Guðm. Bjarnason, klæðskeri '16.
Guðm. Böðvarsson, kaupm. '16.
Guðm. Finnbogason, dr. phil. '16.
Guðm. Gamalíelsson, bóksali '16.

[1]) Ártölin aftan við nöfnin merkja að tillag sé afhent bókaverði fyrir það ár síðast.

Guðm. Guðmundsson, skáld '16.
Guðm. Hannesson, prófessor '16.
Guðm. Helgason, præp. hon. '16.
Guðm. Kr. Guðmundsson '16.
Guðm. Loftsson, bankaritari '16.
Guðm. Magnússon, prófessor '16.
Guðm. Magnússon, rithöf. '16.
Guðm. Ólafsson, málflm. '16.
Gunnar Sigurðsson, cand. jur. '16.
Halldór Daníelsson, yfirdómari '16.
Halldór Kr. Þorsteinsson, skipstj.'16.
Halldór Þórðarson '16.
Hallgrímur Benediktsson, heildsali '16.
Hallgrímur Jónsson, kennari '16.
Hannes Þorsteinsson, skjalav. '16.
Hansen, Jörgen, verzlm. '16.
Hansen, Morten, skólastjóri '16.
Haraldur Gunnarsson, prentari '16.
Haraldur Níelsson, prófessor '16.
Haraldur Sigurðsson, verzlm. '16
Helgi Helgason verzlunarstj. '16.
Helgi Jónasson verzlunarm. '16.
Helgi Jónsson, dr. phil. '16.
Helgi Jónsson verzlunarm '16.
Hlíðdal, Guðm, verkfræð. 16
Hólmfríður Árnadóttir, kensluk. '16.
Ísleifur Jónsson, kennari '16.
Jacobson, Jón, landsbókav. '16.
Jakob Jónsson, verzlunarstj. '16.
Jensen, Thor, stórkaupm. '16.
Jensson, Sigríður H., frú '16.
Jóhannes Sigfússon, adjunkt '16.
Jóhann Kristjánsson, ættfræð. '16.
Jóhann Þorsteinsson, præp. hon. '16.
Johnson, Ólafur, konsúll '16,
Johnson Ág. J., bankaritari '16.
Jóna Sigurjónsdóttir '16.
Jónas Jónsson kennari '16.
Jón Helgason, biskup '16.
Jón Hermannsson, skrifstofustj. '16.
Jón Hj. Sigurðsson, héraðsl. 15.
Jón Ívarsson, kennari '17.
Jón Kristjánsson, prófessor '16.
Jón Magnússon, ráðherra '16.
Jón Ólafsson, skipstjóri '16.
Jón Sigurðsson, ritari '16.
Jón Þórarinsson, fræðslumstj. '16.
Jón Þorláksson, verkfr. '16.
Jörundur Brynjólfsson kennari '16.
Kaaber, Ludvig, konsúll '16.
Kennarafélag Barnaskólans '16.
Klemens Jónsson, fv. landritari '16.
Kolbeinn Þorsteinsson, skipstj. '16.
Konráð Konráðsson, læknir '16
Krabbe, Th., landsverkfr. '16.
Kristinn Daníelsson, præp. hon. '16.
Kristinn Jónsson, lyfjafr. '16.
Kristján Kristjánsson, skipstj. '16.
Kvaran, Einar, rithöf. '16.
Laxdal, Jón, stórkaupm. '16.
Laugarnesspítali '16.
Lestrarfélagið „Íþaka“ '16.
Lestrarfélag kvenna '16.
Leví, R. P., kaupm. '16.
Magnús Arnbjarnarson, cand.jur '16.
Magnús Benjamínsson, úrsm. '16.
Magnús Einarson, dýralæknir '16.
Magnús Helgason, skólastj. '16.
Magnús, M., læknir '16.
Magnús Magnússon, kennari '16.
Magnús Sigurðsson, bankastj. '16.
Magnús Vigfússon, verzlm.
Matthías Einarsson, læknir '16.
Matth. Matthíasson, kaupm. '16.
Matth. Þórðarson, fornm.v. '17.
Nordal, Jóhannes, íshússtjóri '16.
Oddur Gíslason, yfirréttarmálaflutningsmaður '16.
Oddur Hermannsson, cand. jur. '16.
Ólafson, Gísli J., símastjóri '16.
Ólafur Björnsson, ritstjóri '16.
Ólafur G. Eyjólfsson, heilds '16.
Ólafur Lárusson, cand. jur. '16.
Ólafur Ólafsson, umsjónarm. '16.
Ólafur Runólfsson, bókhaldari '16.

Ólafur Þorsteinsson, læknir '16.
Olgeir Friðgeirsson, samgöngumálastjóri '16.
Óskar Halldórsson, búfræð. '15.
Páll Einarsson, bókhaldari '16.
Páll E. Ólason, ritari '16.
Páll Halldórsson, skólastj. '16.
Páll H. Gíslason, kaupm. '16.
Páll Jónsson, verzlunarm. '16.
Páll Ólafsson, kaupm.
Páll Stefánsson, heildsali '16.
Pálmi Pálsson, yfirkennari '16.
Pétur Halldórsson, bóksali '16.
Pétur Lárusson, prentari '16.
Péturss, Helgi, dr. phil '16.
Proppé, Carl, verzlunarstj. '16.
Richard Torfason, bankabókari '16.
Rósenkranz, Ólafur, kennari '16.
Samúel Eggertsson, skrautrit. '16.
Sighv. Bjarnason, bankastj. '16.
Sigríður Björnsdóttir '16.
S. Á. Gíslason, cand. theol. '16.
Sigurður Guðmundsson frá Hofdölum '14.
Sig. Gunnarsson, præp. hon. '16.
Sigurður Jónsson, bókbindari '16.
Sigurður Kristjánsson, bóksali '17.
Sigurður Sigurðsson, alþingism. '16.
Sigurður Þórðarson, fv. sýslum. '16.
Sivertsen, Sigurður, próf. '16.
Smith, Paul, símaverkfr. '16.
Snorri Jóhannsson, bókhaldari '16.
Steingrímur Arason, kennari '16.
Steinunn Bjartmarsd., kensluk. '16.
Sveinn Björnsson, málflm. '16.
Sveinn Jónsson, kaupm. '16.
Sæmundsen, Karl, stórkaupm. '16.
Sæm. Bjarnhéðinsson, prófes or '16.
Thomsen, Ditlev, ræðism. '16.
Thoroddsen, Sigurður, adj. '16.
Thors, Haukur, verzlm. '16.
Thorsteinsson, Hannes, cand. jur. '16.
Thorsteinsson, Th., kaupm. '16.
Tómas Tómasson, ölg.m. '16.
Tr. Gunnarsson, fv. bankastj. '16.
Tryggvi Magnússon, verzlm. '16.
Tryggvi Þórhallsson, s. docent '16.
Tulinius, Axel, málafl.m. '16.
Ungmennafél. Reykjavíkur '16.
Vigfús Einarsson, cand. jur. '16.
Vigfús Guðmundsson '16.
Wiehe, Holger, háskólakennari '16.
Zimsen, Knud, borgarstjóri '16.
Zoëga, Geir, landsverkfr. '16.
Zoëga, Geir, rektor, '16.
Zoëga, Geir, kaupm. '16.
Þórarinn Arnórsson '17.
Þórður Erlendss., Rauðarárst. '16.
Þórður Sveinsson, læknir, Kleppi '16.
Þorfinnur Kristjánsson, prent. '15.
Þorkell Þorláksson, ritari '16.
Þorlákur Arnórsson '17.
Þorlákur Vilhjálmsson, búfr. '16.
Þorleifur Jónsson, póstafgr.m. '16.
Þorsteinn Finnbogason, kaupm. '16.
Þorsteinn Gíslason, ritstj. '16.
Þorsteinn Jónsson, bankarit. '16.
Þorst. Sigurgeirsson verzl.m. '16.
Þorst Þorsteinsson, cand. jur. '16.
Þorst. Þorsteinsson, hagstofustj. '16.
Þorv. Guðmundsson, afgr.m. '16.
Þorvarður Þorvarðarson, prentsm.-stjóri '16.

### Gullbringu- og Kjósarsýsla.

Árni Þorsteinsson, prestur á Kálfatjörn '16.
Bræðrafélag Kjósarhrepps '16.
Einar Magnússon, kennari, Gerðum í Garði '15.
Guðm. Ragnar Ólafsson, Móakoti í Grindavík '15.
Heiðdal, Sig. Þ., kennari, Seltjarnarnesi '16.
Heilsuhælið á Vífilsstöðum '16.

Jóhann Eyólfsson, Brautarholti '16.
Jónas Björnsson, búfr., Kálfatjörn '16.
Jón Jónsson, kennari, Hvammi '15.
Jón Þorbergsson, Bessastöðum '16.
Klemens Egilsson, óðalsb., Minni-Vogum '16.
Kolbeinn Högnason, kennari, Kollafirði '16.
Lestrarfélag Keflavíkur '16.
Lestrarfélag Kjalnesinga '16.
Lestrarfélag Lágafellssóknar '16.
Lestrarfélag Seltirninga '16.
Magnús Bergmann Jónsson, Fuglavík, Miðnesi '16.
Sigurður Magnússon, læknir, Vífilsstöðum '16.
Stefán Sigurfinnsson, Auðnum '16.
Tómas Snorrason, kennari, Keflavík '16.
Þorgrímur Þórðarson, læknir Keflavík '16.

Hafnarfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Salómon Runólfsson, bókari í Hafnarfirði).[1])

Andrés Runólfsson, verzlunarm.
Árni Sighvatsson, kaupm.
Auðunn Níelsson, kaupm.
Bergmann, Daníel, kaupm.
Bjarni Bjarnason, kennari.
Bjarni Erlendsson, verkstj.
Einar Þorgilsson, kaupm.
Flygenring, Aug., kaupm.
Guðm. Eyjólfsson, verzlunarm.
Guðm. Magnússon, skipstj.
Gunnlaugur Kristmundsson, kennari.
Hannes Jóhannesson, verzl.m.
Ingvar Jóelsson, verkstjóri.
Janus Jónsson, præp. hon.
Jón Gestur Vigfússon, verzl.m.
Kristínus Finnbogason, verzlm.
Lárus Bjarnason, kennari.
Lestrarfél. „Framför".
Magnús Jóhannesson, verkstj.
Magnús Jónsson, sýslum.
Magnús Þorsteinsson, verzlm.
Oddur Ívarsson, póstafgr.m.
Ólafur Böðvarsson, kaupm.
Ólafur Sigurðsson, trésm.
Ólafur V. Davíðsson, framkv.stj.
Salómon Runólfsson, bókari
Sigfús Bergmann, kaupm.
Sig. Kristjánsson, sýsluskrifari.
Sig. Sigurðsson, verzlunarm.
Símon Jónsson, kaupm.
Skinfaxi, bókas. skólapilta í Flensb.
Stefán Jóelsson, verzlm.
Steingr. Torfason, bryggjuv.
Sveinn Jónasson, sjóm.
Valdimar Sigmundsson.
Þórður Edilonsson, læknir.
Þórður Einarsson, verzlunarm.
Þórður Guðnason, skólastjóri.
Ögmundur Sigurðsson, skólastj.

**Borgarfjarðar- og Mýrasýsla.**

Eiríkur Albertsson, prestur, Hesti '16.
Hjörtur Snorrason, bóndi, Arnarholti '16.
Magnús Andrésson, prófastur, Gilsbakka '17.
Stefán Guðmundsson, bóndi, Fitjum '15.

Akraness-umboð.
(Umboðsm. Oddur Sveinsson, kennari á Akranesi.)[1])

Axel Böðvarsson, cand. phil.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Björn Lárusson, bóndi á Ósi.
Finsen, Ólafur, læknir.
Hervaldur Björnsson, kennari.
Jón Sigmundsson, sjóm.
Jón Sveinsson, prófastur.
Lestrarfélag Akraness.
Magnús Guðmundsson, kaupm.
Níels Kristmannsson, sjóm.
Oddur Sveinsson, kennari.
Ottesen, Oddgeir P., kaupm.
Ólafur B. Björnsson, kaupm.
Sigurður Símonarson.
Skafti Jónsson, sjóm.
Sumarliði Halldórsson, skógfr.
Thorlacius, Einar, prestur í Saurbæ.
Ungm fél. „Haukur“, Leirársveit.
Þórður Ásmundsson, kaupm.

Borgarness-umboð.
(Umboðsm. Jón Björnsson, kaupm. Borgarnesi).[1]

Árni Þorsteinsson, bóndi, Brennistöðum.
Bjarni Bjarnason, bóndi, Skáney.
Björn Ólafsson, steinsmiður, Kaðalstöðum.
Brynjólfur Bjarnason, búfræðingur, Deildartungu.
Bændaskólinn á Hvanneyri.
Davíð Þorsteinsson, Arnbjargarlæk.
Einar Sigurðsson, Stóra-Fjalli.
Einvarður Hallvarðsson, Fáskrúðarbakka.
Enok Helgason, Heggsstöðum.
Fjeldsted, Sigurður, bóndi, Ferjukoti.
Geir Pétursson, Geirshlíð.
Grönfeldt, H. skólastj. Hvítárvöllum.
Guðm. Árnason, bóndi, Álftártungu.
Guðm. Daníelsson, bóndi, Svignaskarði.
Guðm. Jónsson, bóndi, Skeljabrekku.
Guðm. Sigurðsson, Landbrotum.
Jóhannes Jónsson, gagnfræð., Efranesi.
Jóhann Magnússon, bóndi, Hamri.
Jón Björnsson, bóndi, Ölvaldsstöðum.
Jón Björnsson, kaupm., Borgarnesi.
Jósef Björnsson, Svarfhóli.
Kristján Fr. Björnsson, bóndi, Steinum.
Kristján Sigurðsson, Bakkakoti.
Lestrarfélag Álftaneshrepps.
Lestrarfélag Borgarness.
Lestrarfélag Hraunhrepps.
Magnús Einarsson, Munaðarnesi.
Magnús Jónsson, kennari, Borgarnesi.
Ólafur Guðnason, Signýjarstöðum.
Páll Jónsson, kennari, Einarsnesi.
Páll Zóphóníasson, kennari, Hvanneyri.
Runólfur Runólfsson, bóndi, Norðtungu.
Sigurður Þórólfsson, skólastj., Hvítárbakka.
Stefán Jónsson, prestur, Staðarhrauni.
Tómas Jónasson, Sólheimatungu.
Ungmennafél. „Dagrenning“, Lundarreykjadal.
Þorgeir Bjarnason, búfræð., Hvanneyri.

**Hnappadals-, Snæfellsness- og Dalasýslur.**

Benedikt Magnússon, kaupfélagsstjóri, Tjaldanesi '15.
Benedikt S. Benediktsson, verzlm., Grundarf. '15.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Finnbogi Lárusson, kaupm., Búðum '16.
Gestur Guðmundsson, bóndi á Rauðamel '17.
Guðm. Guðjónsson, kennari, Saurum '16.
Gunnar Sigurðsson, Hausthúsum, '17.
Jóhann Hjörleifsson, búfr, Hofstöðum í Miklaholtshr. '16.
Jón Guðnason, prestur, Staðarhóli, '16.
Kristján Eggertsson, oddviti, Dalsmynni '17.
Kristján Kristjánsson, kennari, Rauðkollsstöðum '16.
Lestrarfél. Sandara '16.
Lestrarfél. Saurbæjarhr. '16.
Magnús Guðlaugsson, læknir, Bjarnastöðum '15.

Stykkishólms-umboð.

(Umboðsm. Hjálmar Sigurðsson, kaupmaður í Stykkishólmi)[1].

Ágúst Þórarinsson, bókh., Stykkishólmi.
Árni P. Jónsson, Stykkishólmi.
Ásmundur Guðmundsson, prestur, Stykkishólmi.
Ásmundur Sigurðsson, bóndi, Bár í Eyrarsveit.
Blöndal, Magnús, kennari, Stykkishólmi.
Bókasafn Vesturamtsins, Stykkishólmi.
Einar Vigfússon, Stykkishólmi.
Elías Kristjánsson, Lágafelli.
Gestur Þórðarson, Dal.
Gísli Sigurðsson, Langadal
Helgi Guðmundsson, Ketilsstöðum.
Helgi Guðmundsson, Skógarnesi.
Hjálmar Sigurðsson, kaupmaður, Stykkishólmi.
Jón G. Sigurðsson, Hofgörðum.
Lestrarfélag Fellsstrandar.
Lestrarfélag Hvammssveitar.
Sigurður Daðason, Setbergi.
Sæm. Halldórsson, kaupm., Stykkishólmi.

Búðardals-umboð.

(Umboðsm. Bogi Sigurðsson, kaupmaður í Búðardal)[1].

Björn Bjarnason, sýslum., Sauðafelli.
Bogi Sigurðsson, kaupm., Búðardal.
Jóhannes L. L. Jóhannsson, prestur, Kvennabrekku.
Johnson, Bjarni Þ., sýslum., Búðardal.
Jón Guðmundsson, bóndi, Ljárskógum.
Lestrarfélag Miðdæla.
Sigurður Sigurðsson, læknir, Búðardal.

**Barðastrandarsýsla.**

Bókasafn Flateyjar á Breiðafirði '16.
Guðm. Bergsteinsson, kaupm., Flatey á Breiðafirði '16.
Jón Einarsson, trésmiður, Kletti í Geiradal '16
Jón Jóhannsson, Mýrartungu í Reykhólasveit '16.
Jón Ólafsson, Króksfjarðarnesi '16.
Lestrarfélag Bílddælinga '16.
Lestrarfélag Geiradalshrepps '16.
Magnús Sæbjörnsson, læknir, Flatey '15.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Steinþór Oddsson, Miðhúsum '16.
Þorbj. Þórðarson, læknir, Bíldudal '16.
Þorv. Gíslason, Hóli í Arnarf. '17.
Þorvaldur Jakobsson, prestur, Sauðlauksdal '17.

### Patreksfjarðar-umboð.

(Umboðsm. Jón Kristófersson, kennari, Sveinseyri í Tálknafirði)[1].

Bjarni Símonarson, prófastur, Brjánslæk.
Bókasafn V.-Barðastrandarsýslu.
Einar Magnússon, stýrim., Patreksfirði.
Eiríkur Kristófersson, Brekkuvelli.
Hallgrímur Jónsson, Bakka.
Jón B. Ólafsson, Hvanneyri.
Jón Hallgrímsson, Bakka.
Jón Kristófersson, kennari, Brekkuvelli á Barðaströnd.
Kristján Kristófersson, Haga.
Lestrarfélag Breiðuvíkursóknar.
Lestrarfélag Rauðsendinga.
Lestrarfélag Tálknafjarðar.
Magnús Þorsteinsson, prestur, Patreksfirði.
Ólafur Magnússon, Kaldabakka.
Svafa Þorleifsdóttir, Bíldudal.

### Ísafjarðarsýsla.

Bókasafn Hólshrepps, Bolungavík, '15.
Halldór Stefánsson, læknir, Flateyri '16.
Hjálmar Jónsson, bóndi, Hrafnfj.-eyri í Grunnavíkurhreppi '16.
Lestrarfélag Dalmanna, Önundarfirði '15.
Lestrarfélag Flateyrar '16.
Sighvatur Grímsson Borgfirðingur, Höfða. Gjaldfrí.
Sveinn Halldórsson, kennari, Bolungavík '15.
Sæm. Einarsson, kenn., Hnífsdal '16.

### Dýrafjarðar-umboð.

(Umboðsm. Jóh. Proppé, kaupmaður á Þingeyri)[1].

Andrés Kristjánsson, Meðaldal.
Björn Guðmundsson, kennari, Næfranesi.
Blaðafélagið „Dagvarður“, Keldudal.
Böðvar Bjarnason, prestur, Rafnseyri.
Friðrik Bjarnason, hreppstjóri, Mýrum.
Guðbrandur Guðmundsson, Þingeyri.
Guðm. Á. Guðmundsson, skipstjóri, Alviðru.
Guðmundur Jónsson, Granda.
Guðni Bjarnason, verzlunarmaður, Þingeyri.
Guðrún Benjamínsdóttir, kenslukona, Þingeyri.
Gunnlaugur Þorsteinsson, læknir, Þingeyri.
Hjaltlína Guðjónsdóttir, kenslukona, Þingeyri.
Jóhannes Davíðsson, Neðra-Hjarðardal.
Kristinn Guðlaugsson, búfræðingur, Núpi.
Lestrarfélag Þingeyrarhrepps, Þingeyri.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Ólafur Hjartarson, járnsmiður, Þingeyri.
Ólafur Ólafsson, kennari, Þingeyri.
Proppé, Ólafur, kaupm., Þingeyri.
Sigríður Guðmundsdóttir, kenslukona, Haukadal.
Sigtryggur Guðlaugsson, prestur, Núpi.
Sóphónías Jónsson, gagnfræðingur, Læk.
Torfi Hermannsson, trésmiður, Þingeyri.

### Ísafjarðar-umboð.

(Umboðsm. Guðmundur Bergsson, bóksali, Ísafirði)[1]).

Aðalbjörg Jónsdóttir, húsfrú, Arngerðareyri.
Arngrímur Fr. Bjarnason, prentari, Ísafirði.
Árni E. Árnason, verzlunarmaður, Bolungavík.
Ásgeir Guðmundsson, Æðey.
Baldur Sveinsson, kennari, Ísafirði.
Bárður Guðmundsson, bókbindari, Ísafirði.
Benedikt Bjarnason, húsmaður, Góustöðum.
Björn Guðmundsson, kaupmaður, Ísafirði.
Einarsson, Þóra E., sjúkrah.st.
Engilbert Kolbeinsson, bóndi, Lónseyri.
Finnbjörn Hermannsson, verzlunarmaður, Ísafirði.
Friðbert Friðbertsson, kennari, Suðureyri í Súgandafirði.
Friðbert Guðmundsson, Suðureyri.
Friðrik Hjartarson, kennari, Suðureyri.
Gísli R. Bjarnason, kennari, Hesteyri.
Grímur Jónsson, cand. theol, Ísafirði.
Guðlaugur Kristjánsson, búfræðingur, Ísafirði.
Guðmundur Bergsson, bóksali, Ísafirði.
Guðmundur Hannesson, konsúll, málaflutningsm., Ísafirði.
Guðmundur H. Finnbjörnsson, kaupmaður, Sæbóli í Aðalvík.
Guðmundur Sveinsson, kaupmaður, Hnífsdal.
Guðrún Tómasdóttir, ljósmóðir, Ísafirði.
Hálfdan Örnólfsson, hreppstjóri, Hóli í Bolungavík.
Halldór Bjarnason, verkstjóri, Ísafirði.
Halldór Jónsson, búfræðingur, Laugabóli.
Halldór Jónsson, búfræðingur, Rauðamýri.
Halldór Ólafsson, kaupm, Ísafirði.
Halldór Pálsson, útvegsbóndi, Hnífsdal.
Hannes Halldórsson, verzlunarm., Ísafirði.
Helgi Ketilsson, sjómaður, Ísafirði.
Helgi Sveinsson, bankastjóri, Ísafirði.
Ingólfur Árnason, verzlunarmaður, Bolungavík.
Jens Níelsson, kennari, Bolungavík.
Jóhann Kristjánsson, verzlunarm., Bolungavík.
Jóhann Þorsteinsson, kaupmaður, Ísafirði.
Jóhanna Eiríksdóttir, Kleifum í Seyðisfirði.
Jónas Halldórsson, Búð, Hnífsdal.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Jónas Þorvarðsson, kaupmaður og oddviti, Hnífsdal.
Jón Grímsson, verzlstj., Suðureyri,
Jón Jónsson, verzlm., Bolungavík.
Jón Maríasson, verzlunarm, Ísafirði.
Jón Sn. Árnason, kaupmaður, Ísafirði.
Júlíus Hjaltason, Bolungavík.
Karl Olgeirsson, verzlunarstjóri, Ísafirði.
Kolbeinn Jakobsson, hreppstjóri, Unaðsdal.
Kristján A. Kristjánsson, kaupm., Suðureyri í Súgandafirði.
Lestrarfélag Bjarndæla og Fjarðarmanna, Önundarfirði.
Lestrarfélag Hnífsdælinga, Hnífsdal.
Lestrarsalur Ísafjarðar.
Lestrarfélag Seyðfirðinga.
Lestrarfélag Sléttuhrepps.
Lestrarfélag Súðavíkurhrepps, Álftafirði.
Magnús Bárðarson, útvegsbóndi,
Magnús Jónsson, prestur, Ísafirði.
Magnús Torfason, sýslumaður og bæjarfógeti, Ísafirði.
Oddur Guðmundsson, póstafgr.m. Bolungavík.
Ólafur Árnason, bóndi, Bolungavík.
Ólafur Jónsson, Elliðaey.
Ólafur Pálsson, verzlstj., Arngerðareyri.
Páll Pálsson, útvegsbóndi, Heimabæ, Hnífsdal.
Páll Þórarinsson, sjómaður, Hnífsdal.
Pétur Oddsson, kaupm., Tröð í Bolungavík.
Sigfús Daníelsson, verzlunarstjóri, Ísafirði.
Sigurbjörn Ármannsson.
Sigurður Kristjánsson, kennari, Ísafirði.
Sigurður Pálsson, verzlunarstjóri, Hesteyri.
Sig. Sigurðsson, kennari.
Sig. Sigurðsson, málaflutningsm., Ísafirði.
Sigurður Þorvaldsson, kennari, Ísafirði.
Stefán Sigurðsson, verzlm.
Stephensen, Páll, prestur, Holti í Önundarfirði.
Thordarson, Finnur, konsúll, Ísafirði.
Thorsteinsson, Davíð Scheving, læknir, Ísafirði.
Valdemar Valdemarsson, formaður, Hnífsdal.
Þorvaldur Jónsson, prófastur, Ísafirði.
Þorvarður Brynjólfsson, prestur, Stað í Súgandafirði.

### Vigur-umboð.

(Umboðsm. Sigurður Stefánsson, prestur, Vigur)[1].

Bjarni Sigurðsson, ráðsm., Vigur.
Finnbogi Pétursson, Hvítanesi.
Jón Guðmundsson, kaupm, Eyrardal.
Sigurður Stefánsson, prestur, Vigur

### Strandasýsla.

Bárðarson, Guðm. G, Kjörseyri '16.
Björn Magnússon, Borðeyri '15.
Guðjón Guðlaugsson, kaupfélagsstj., Hólmavík '16.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Halldór Kr. Júlíusson, sýslumaður, Borðeyri '16.
Lestrarfélag Árneshrepps '15.
Lestrarfélag Bjarnarfj. og Bala '17.
Lestrarfélag Kirkjubólshrepps '15.
Lestrarfélag Kollafjarðar '16.
Lestrarfélag Selstrandar '16.
Þórarinn G. Árnason, Þiðriksvöllum '16.

### Húnavatnssýsla.

Eggert Ól. Eiríksson, bóndi, Sveðjustöðum '17.
Guðm. Arason, búfræð., Illugastöðum '15.
Jón Jónsson, bóndi, Stóradal '16.
Kristján H. Sigurðsson, kennari, Brúsastöðum '16.
Líndal, Jakob, Lækjamóti '16.
Þóroddur Lýðsson, Oddsstöðum, Hrútaf. '16.
Þorvaldur Kristmundsson, búfræð., Bálkastöðum. '16.

Hvammstanga-umboð.
(Umboðsm. Björn P. Blöndal verzlanarm. á Hvammstanga)[1]).

Ásgeir Magnússon, skólastjóri, Hvammstanga.
Ásta Gísladóttir, Geithól.
Blöndal, Björn P., verzlunarmaður, Hvammstanga.
Bókasafn Vestur-Húnvetninga Hvammstanga.
Briem, Jóh. Kr., prestur á Melstað.
Guðm. B. Jóhannesson, Þorgrímsstöðum.
Guðm. Sigfússon, Krókastöðum.
Gunnar Kristófersson, hreppstjóri, Valdarási.
Gunnl. Gunnlaugsson, búfræðingur, Syðri-Völlum.
Halldór Magnússon, bóndi, Vatnshól.
Ingvar Jakobsson, Harastöðum.
Jón D. Guðmundsson, Barði.
Jón Eiríksson, bóndi, Svertingsstöðum.
Magnús Þorleifsson, Krossanesi.
Ólafur Gunnarsson, læknir, Hvammstanga.
Pétur Gunnarsson, Hvoli.
Sigurður Jónsson, Stöpum.
Sigurður Pálmason, Hvammstanga.
Stefán Björnsson, bóndi, Sporði.
Stefán Díomedesson, Ánastöðum.
Valdemar Baldvinsson, búfræð., Helguhvammi.
Þorbjörn Teitsson, Víðidalstungu.

Blönduóss-umboð.
(Umboðsm. Friðfinnur Jónsson, trésmiður, Blönduósi)[1]).

Andrés Guðjónsson, kaupmaður., Harastöðum.
Anna R. Þorvaldsdóttir, Blönduósi.
Arnalds, Ari Jónsson, sýslumaður.
Árni Þorkelsson, hreppstj., Geitaskarði.
Bjarni Jónasson, barnak., Blönduósi.
Bjarni Pálsson, prófastur, Steinnesi.
Björn Stefánsson, prestur, Bergsstöðum.
Daði Davíðsson, Gilá.
Friðfinnur Jónsson, trésm., Blönduósi.
Hafsteinn Pétursson, bóndi, Gunnsteinsstöðum.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Jakob Bjarnason, vinnum., Holtastaðakoti.
Jónas Illugason, bóndi, Bröttuhlíð.
Klemens Guðmundsson, Bólstaðarhlíð.
Lárus Ólafsson, trésm., Blönduósi.
Lestrarfélag Áshrepps.
Lestrarfélag Langdælinga.
Lestrarfélag Svínavatnshrepps.
Lestrarfélag Torfalækjarhrepps.
Levy, Eggert, hreppstj., Ósum.
Magnús Björnsson, Syðra-Hóli.
Magnús Jónsson, bóndi, Sveinsstöðum.
Málfundafélagið „Fjölnir“ í Svínavatnshreppi.
Páll Sigurðsson, búfr., Brúsastöðum.
Pétur Theodorsson, sölustj., Blönduósi.
Runeberg Ólafsson, Þórormstungu.
Sigurgeir Björnsson, búfr., Orrastöðum.
Sigvaldi Sveinsson, bóndi, Höskuldsstöðum
Sýslubókasafn Austur-Húnavatnssýslu.
Sæmundsen, Edwalds, verzlunarstj., Blönduósi.
Þórarinn Jónsson, alþm., Hjaltabakka.
Þorsteinn Bjarnason, kaupmaður, Blönduósi.

### Skagafjarðarsýsla.

Björn Jónsson, prófastur, Miklabæ '17.
Guðm. Davíðsson, Hraunum '16.
Hartmann Ásgrímsson, kaupmaður, Kolbeinsárósi '16.
Jóhannes Friðbjarnarson, Stóra-Holti '16.
Jón Árnason, gagnfræð., Stóra-Vatnsskarði '16.

### Sauðárkróks-umboð.

(Umboðsm. Margeir Jónsson, kennari, Ögmundarstöðum)[1]).
Anna Kr. Jósefsdóttir, Hofi.
Axel Kristjánsson, verzlunarmaður, Sauðárkróki.
Björn L. Jónsson, bóndi, Stóru-Seylu.
Blöndal, Kr., póstafgr.m., Sauðárkróki.
Bókasafn Skagafjarðar.
Briem, Ólafur, alþm., Álfgeirsvöllum.
Guðm. St. Jósafatsson, búfr., Brandsstöðum.
Hafstað, Árni J., Vík.
Hálfdan Guðjónsson, prestur á Sauðárkróki.
Hálfdan Jónasson, Þorljótsstöðum.
Halldór Stefánsson, Glaumbæ.
Hjörtur Benediktsson, Stóru-Seylu.
Jóhann Örn Jónsson, Árnesi.
Jón Guðmann Gíslason, verzlm., Sauðárkróki.
Jón Kr. Ólafsson, Dúki.
Jón Sigurðsson, Reynistað.
Jón Þ. Björnsson, kennari, Sauðárkróki.
Jónas Kristjánsson, læknir, Sauðárkróki.
Lestrarfélag Flugumýrarsóknar.
Lestrarfélag Miklabæjarsóknar.
Magnús Guðmundsson, sýslum., Sauðárkróki.
Magnús Sigmundsson, Vindheimum.
Margeir Jónsson, kennari, Ögmundarstöðum.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Ólafur Sigurðsson, Hellulandi.
Pétur Jónsson, búfr., Eyhildarholti.
Sigurður Björnsson, bóndi, Veðramóti.
Sigurður Jósafatsson, Krossanesi.
Tobías Magnússon, Geldingaholti.
Þorbjörn Björnsson, bóndi, Heiði.

Hóla-umboð.

(Umboðsm. Sigurður Sigurðsson, skólastjóri, Hólum)[1].

Árni Guðmundsson, Efra-Ási, Hjaltadal.
Bændaskólinn á Hólum.
Einar Jósefsson, Vatnsleysu.
Jón Sigtryggsson, Framnesi.
Lestrarfélag Hofshrepps.
Lestrarfélag Hólahrepps.
Ólafur Jónsson, Litlahóli.
Sigurður Sigurðsson, kenn., Hólum.
Theodor Arnbjarnarson, Hólum.

## Eyjafjarðarsýsla.

Siglufjarðar-umboð.

(Umboðsmaður Helgi Hafliðason, Siglufirði)[1].

Ásgeir Blöndal Bjarnason.
Bjarni Þorsteinsson, prestur.
Blöndal, Sophus, verzlstj.
Guðmundur Bjarnason, Bakka.
Guðm. Skarphéðinsson, kennari, Siglufirði.
Hafliði Guðmundsson, hreppstj.
Hallgrímsson, Guðm. T., læknir.
Helgi Guðmundsson, læknir.
Matthías Hallgrímsson, kaupm.
Þórður Þórðarson, Siglunesi.

Eyjafjarðar-umboð.

(Umboðsm. Kristján Guðmundsson, bóksali, Oddeyri)[1].

Árni Jóhannesson, Þverá.
Árni Jóhannsson, prestur, Grenivík.
Árni Þorvaldsson, kennari, Akureyri.
Ásmundur Gíslason, próf., Hálsi.
Axel V. Wilhelmsson, verzlstj., Akureyri.
Benjamín Kristjánsson, Tjörnum.
Bjarni Arason, Grýtubakka.
Bjarni Jónsson, útbússtj., Akureyri.
Björn Árnason, bóndi, Pálsgerði.
Björn Jóhannss., Syðra-Laugalandi.
Bókasafn Gagnfræðaskól., Akureyri.
Bókasafn Norðuramtsins, Akureyri.
Briem, Þorsteinn, prestur, Hrafnagili.
Einar Guttormsson, prentari, Ósi við Eyjafjörð.
Elimar Tómasson, Skógum.
Eydal, Ingimar, kennari, Akureyri.
Finnur Sigmundsson, Ytra-Hóli.
Framfarafélag Grýtubakkahrepps.
Friðbjörn Steinsson, dbrm., Akureyri. Gjaldfrí.
Friðjón Jensson, læknir, Akureyri.
Garðar Arngrímsson, Geirbjarnarstöðum.
Garðar Halldórsson, Rifkelsstöðum.
Gestur Jóhannesson, Akureyri.
Gísli Jónsson, hreppstj., Hofi.
Gísli R. Magnússon, Akureyri.
Grímur Grímsson, kenn., Ólafsfirði.
Guðmundur Benediktsson, Ásláksstöðum.
Guðm. Guðmundsson, hreppstjóri, Þúfnavöllum.
Guðm. Ólafsson, kennari, Skógum.
Hallgrímur Davíðsson, verzlunarstjóri, Akureyri.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Hallgrímur Kristinsson, kaupfélagsstjóri, Akureyri.
Hallgrímur Pétursson, bókbindari, Akureyri.
Hannes Ó. Magnússon, Akureyri.
Haraldur Le'sson, kennari, Holtseli.
Havsteen, Jakob, konsúll, etazráð, Oddeyri.
Helgi Árnason, prestur, Ólafsfirði.
Helgi Daníelsson, Björk.
Hólmgeir Þorsteinsson, verzlunarmaður, Grund.
Hólm, Magnús Á., Saurbæ.
Ingibjörg Jóhannesdóttir, Árnesi.
Ingimar Hallgrímsson, bóndi, Litla-Hóli.
Ingólfur Bjarnason, bóndi, Fjósatungu.
Jón Jóhannsson, Skarði, Dalsmynni.
Jón Ól. Jónsson, Möðrufelli.
Jón Rögnvaldsson, Fífilgerði.
Jón Stefánsson, ritstj., Akureyri.
Jónas Jónasson, præp. hon., Akureyri.
Júlíus Kr. Valdemarsson, Kambi.
Karl Nikulásson, verzl.stj., Akureyri.
Kristján Benediktsson, Möðruvöllum.
Kristján Guðmundsson, bóksali, Oddeyri.
Laxdal, Eggert, kaupm., Akureyri.
Lestrarfélag Árskógsstrandar.
Lestrarfélag Glæsibæjarhrepps.
Lestrarfélag Hríseyinga.
Lestrarfélag Kaupangssóknar.
Lestrarfélag Munkaþverár.
Lestrarfélag Möðruvallasóknar.
Lestrarfélag Svalbarðsstrandar, Svalbarði.
Lestrarfélag Öxndæla.
Líndal, Björn, cand. jur., Akureyri.
Loftur Baldvinsson, Böggvisstöðum.
Ólafur Tryggvason, bóndi, Dagverðartungu.
Páll Einarsson, bæjarfógeti.
Pétur Einarsson, Grenivík.
Ragnar Ólafsson, kaupm., Oddeyri.
Rist, L. J., kennari, Akureyri.
Sigtryggur Jónatansson, bóndi, Tungu.
Sigurður Einarsson, dýralæknir, Akureyri.
Sigurður Jónsson, Brún.
Sigurður Sigurðsson, bókbindari, Akureyri.
Skúli Kristjánsson, búfræðingur, Sigríðarstöðum.
Stefán Jónsson, bóndi, Munkaþverá.
Stefán Kristjánsson, skógræktarstjóri, Vöglum.
Stefán Stefánsson, skólastj., Akureyri.
Steffensen, Valdemar, læknir, Akureyri.
Steingrímur Matthíasson, læknir, Akureyri.
Sveinn Þórðarson, verzlunarmaður, Höfða.
Vigfús G. Pálmason, Samkomugerði.
Vilhjálmur Jóhannesson, kennari, Espihóli.
Þórður Jónatansson, Öngulsstöðum.
Þórður Sigurjónsson, Dagverðartungu.
Þorkell Þorkelsson, kennari, Akureyri.
Þormóður Sveinsson, verzlm., Akureyri.
Þorsteinn Grímsson, gagnfræðingur, Krossanesi.

**Þingeyjarsýsla.**

Guðmundur Vilhjálmsson, bóksali, Syðra-Lóni '16.
Jónas Helgason, Grænavatni.
Sigfús Hallgrímsson, Vogum við Mývatn '16.

Snæbjörn Arnljótsson, kaupmaður, Þórshöfn '17.
Steinn Emilsson, verzlunarmaður, Þórshöfn '17.
Þorsteinn Arnljótsson, kaupmaður, Þórshöfn '17.

Húsavíkur-umboð.
(Umboðsm. Stefán Guðjohnsen, verzlunarstjóri)[1].

Aðalgeir Davíðsson, bóndi, Stóru-Laugum.
Aðalsteinn Kristjánsson, kaupm., Húsavík.
Ari Jónsson, Húsavík.
Árni Jakobsson, bóndi, Hólum.
Árni Jónsson, bóndi, Þverá.
Benedikt Bjarnason, kenn., Húsavík.
Benedikt Guðnason, Grænavatni.
Benedikt Jónsson, sýsluskrifari, Húsavík.
Benjamín Sigvaldason, Gilsbakka í Axarf.
Björn Guðmundsson, bóndi, Grj'tnesi.
Björn Guðmundsson, bóndi, Lóni.
Bókasafn Grímseyinga.
Egill Sigurðsson, Máná.
Egill Sigurjónsson, bóndi, Laxamýri.
Friðrika Jónsdóttir frá Hriflu.
Guðjohnsen, Stefán, verzlunarstj., Húsavík.
Guðm. Stefánsson, gagnfr., Hriflu.
Guðm. Stefánsson, Hafralæk í Aðaldal.
Halldóra Björnsdóttir, Presthólum.
Hallgrímur Þorbergsson Halldórsstöðum.
Hallsteinn Karlsson, yngispiltur, Húsavík.
Haukur Ingjaldsson, Garðshorni.
Helgi Jónsson, yngispiltur. Húsavík.
Hólmgeir Þorsteinsson, bóndi, Vallakoti.
Indriði Þorkelsson, bóndi, Ytra-Fjalli.
Jakob Hálfdanarson, dbrm., Húsavík.
Jóhannes Þorkelsson, hreppstjóri, Syðra-Fjalli.
Jón Björnsson, Skógum, Axarfirði.
Jón Jónasson, Húsavík.
Jón Jónsson Gauti, bóndi, Héðinshöfða.
Jón Sigurðsson, gagnfr., Ytza-Felli.
Jónas Jónsson, verzlunarstj., Flatey.
Karl Arngrímsson, Landamóti.
Kristján Sigtryggsson, bókbindari, Húsavík.
Konráð Vilhjálmsson, bóndi, Hafralæk.
Lestrarfélag Keldhverfinga.
Lestrarfélag Kinnunga, Köldukinn.
Lestrarfélag Mývetninga.
Lestrarfélag Sléttunga.
Lestrarfélag Svalbarðshr., Þistilf.
Matth. Eggertsson, prestur, Grímsey.
Páll Kristjánsson, kaupm., Húsavík.
Pétur Jónsson, alþm., Gautlöndum.
Sigtryggur Helgason, bóndi, Hallbjarnarstöðum.
Sigurður Gunnarsson, yngispiltur, Skógum.
Sig. Sigfússon, sölustj., Húsavík.
Sigurður Sigurðsson, hreppstjóri, Halldórsstöðum.
Sigurgeir Friðriksson, bóksali, Skógarseli.
Sigmundur Sigurðsson, læknir, Breiðumýri.
Snorri Jónsson, hreppstj., Þverá.
Stefán Pétursson, Húsavík.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Steingrímur Jónsson, sýslumaður, Húsavík.
Sýslubókasafn Suður-Þingeyinga.
Þorbergur Þórarinsson, hreppstj., Sandhólum.
Þórarinn Jónsson, bóndi, Halldórsstöðum.
Þórólfur Sigurðsson, gagnfræðingur, Baldursheimi.
Örn Sigtryggsson, búfræðingur, Hallbjarnarstöðum.

## Norður-Múlasýsla.

Gunnlaugur A. Jónsson, verzlunarm., Höfn, Bakkafirði '16.
Halldór Stefánsson, Hamborg í Fljótsdal '16.
Haraldur Þórarinsson, prestur, Hofteigi '16.
Jón Sigfússon, búfræðingur, Svínafelli, Hjaltastaðaþinghá '16.
Kristján Jónsson, Hrjót '16.
Lestrarfélag Fljótsdalshrepps '16.
Lestrarfélag Hjaltastaðahrepps '15.
Magnús Eiríksson, bóndi, Eyjaseli '17.
Ólafur Ó. Lárusson, læknir, Brekku '16.
Stefán Benediktsson, Merki á Jökuldal '17.
Svanhildur Jóhannsdóttir, Brekku '16.

## Vopnafjarðar-umboð.

(Umboðsm. Þór. B. Stefánsson verzlunarstjóri)[1]).

Árni Jónatansson, Skálanesi.
Björn Jónasson, bóndi, Hámundarstöðum.
Einar Jónsson, prófastur, Hofi.
Einar Runólfsson, kaupm., Vopnafirði.
Guðm. Guðmundsson, Krossavík.
Hallgrímur Gíslason, Egilsstöðum.
Ingólfur Eyjólfsson, Þorbrandsstöðum.
Ingólfur Gíslason, læknir, Vopnafirði.
Ingólfur Hrólfsson, Vakursstöðum.
Ingvar Nikulásson, prestur, Skeggjastöðum.
Jón Halldórsson, præp. hon., Sauðanesi.
Jón Sigurjónsson, bóndi, Hólmum.
Ólafur Metúsalemsson, Bustarfelli.
Sigurður Benediktsson, Hofteigi.
Stefán Friðriksson, Eyvindarstöðum.
Víglundur Helgason, bóndi, Hauksstöðum.
Þór. B. Stefánsson, verzlunarstjóri, Vopnafirði.
Þorleifur Helgason, kennari, Vopnafirði.
Þorsteinn Sigurðsson, Vopnafirði.

## Rangár-umboð.

(Umboðsm. Björn Hallsson)[1]).

Björn Hallsson, Rangá.
Emil J. Árnason, Blöndugerði.
Gísli Helgason, bóndi, Skógargarði.
Guðmundur Ólason, búfr., Höfða.
Gunnar Sigurðsson, Hleinagarði.
Sigfús Eiríksson, Rangá.
Sigurður Antóníusson, búfræðingur, Sleðbrjót.
Sveinn Bjarnason, bóndi, Heykollsstöðum.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Borgarfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Þorst M. Jónsson, alþm., Borgarfirði)[1]).

Anna Guðný Guðmundsdóttir, Hóli.
Björn Ólafur Gíslason, verzl.stjóri, Borgarfirði.
Halldór Ásgrímsson, Grund.
Jón Björnsson, Steinholti.
Lestrarfélag Borgfirðinga.
Sigurður Hannesson, trésm., Bjargi.
Steinn Magnússon, Odda.
Þorst. M. Jónsson, alþm., Borgarfirði.

Seyðisfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Pétur Jóhannsson, bóksali, Seyðisfirði)[2]).

Benedikt Jónasson, verzlunarstjóri, Seyðisfirði.
Björn Þorláksson, prestur, Dvergasteini.
Guðmundur Guðmundsson, bókhaldari, Seyðisfirði.
Guðmundur V. Kristjánsson, úrsmiður, Seyðisfirði.
Hallur Hallsson, tannlæknir, Seyðisfirði.
Hermann Þorsteinsson, skósmiður, Seyðisfirði.
Jóhannes Jóhannesson, sýslumaður, Seyðisfirði.
Jón Jónsson, bóndi, Firði.
Karl Finnbogason, skólastjóri, Seyðisfirði.
Kristján Kristjánsson, læknir, Seyðisfirði.
Lestrarfélagið „Dagsbrún“, Seyðisfirði.
Lestrarfélag Seyðisfjarðarhrepps.
Pétur Jóhannsson, bóksali, Seyðisfirði.
Sigurður Björgúlfsson, Seyðisfirði.
Sigurður Jónsson, bóndi, Seyðisfirði.
Sigurður Jónsson, kaupm., Seyðisfirði.
Sigurjón Jóhannesson, kaupm., Seyðisfirði.
Stefán Th. Jónsson, konsúll, Seyðisfirði.
Sveinn Árnason, yfirfiskimatsmaður, Seyðisfirði.
Þórarinn Guðmundsson, kaupm., Seyðisfirði.

**Suður-Múlasýsla.**

Benedikt Sveinsson, bóksali, Borgareyri við Mjóafjörð '15.
Blöndal, Benedikt, búfr., Eiðum '17.
Búnaðarskólinn á Eiðum '15.
Eiríkur Sigurðsson, kennari, Hjartarstöðum '15.
Guttormur Pálsson, skógfræðingur, Hallormsstað '16.
Guttormur Vigfússon, præp. hon., Stöð í Stöðvarfirði '16.
Hákon Finnsson, bóndi, Arnaldsstöðum '15.
Jón Sigurðsson, Hjartarstöðum '16.
Klemensína Klemensdóttir, Norðfirði. 16.
Lestrarfélag Mjófirðinga '16.
Lestrarfélag Stöðfirðinga '17.
Magnús Blöndal Jónsson, prestur, Vallanesi '17.
Magnús Stefánsson, búfræðingur, Eiðum '15.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.
[2]) Skilagrein komin fyrir 1915 og ófullnægjandi fyrir 1916 (frá fyrv. umboðsm.).

Olafur B. Jónsson, Egilsstöðum '17.
Sigrún Pálsdóttir, Hallormsstað '17.
Sveinn Jónsson, Egilsstöðum '16.

Norðfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Þorbergur Guðmundsson, búfræðingur)[1]).

Bergur Eiríksson, trésmiður.
Hjálmar Ólafsson, verzlunarmaður.
Ingvar Pálmason, útvegsbóndi.
Jónas Andrésson, kaupfélagsstjóri.
Lúðvíg Sigurðsson, kaupmaður.
Páll Guttormsson, kaupmaður.
Sigurjón Magnússon.
Sigurjón Stefánsson, sjómaður.
Stefán Halldórsson, verzlm.
Sveinn Árnason, trésmiður.
Thoroddsen, Pétur, læknir.
Valdemar Valvesson, kennari.
Vigfús Sigurðsson, trésmiður.
Zoëga, Tómas J., verzlunarmaður.
Þorbergur Guðmundsson, búfræðingur.

Eskifjarðar-umboð.
(Umboðsmaður Stefán Stefánsson, bóksali á Eskifirði)[1]).

Arndís Kristjánsdóttir, Eskifirði.
Arnesen, J. C. F., konsúll, Eskifirði.
Arnfinnur Jónsson, Eskifirði.
Björn R. Stefánsson, verzlunarstj. á Reyðarfirði.
Einar Hálfdanarson, Hafranesi.
Eiríkur Bjarnason, Eskifirði.
Ferd. Magnússon, Reyðarfirði.
Friðrik Steinsson, Eskifirði.
Guðm. Ásbjarnarson, Eskifirði.
Gunnar Bóasson, Reyðarfirði.
Hallgrímur Bóasson, Reyðarfirði.
Hallgrímur Guðnason, Eskifirði.
Jón Björnsson, Seljateigi, Reyðarfirði.
Jón Valdemarsson, gagnfræðingur, Seljateigi.
Sigurður Hjörleifsson, læknir, Eskifirði.
Sigurður Vigfússon, kenn., Eskifirði.
Stefán Björnsson, prestur, Hólmum.
Sveinbjörn P. Guðmundsson, Hólmum í Reyðarfirði.

Fáskrúðsfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Marteinn Þorsteinsson, bókhaldari)[1]).

Björgvin Þorsteinsson, verzlunarm., Fáskrúðsfirði.
Georg Georgsson, læknir, Fáskrúðsfirði.
Guðm. Jónsson, útvegsb., Búðum.
Halldór Pálsson, búfr., Tungu.
Höskuldur Stefánsson, bóndi, Dölum.
Jóhannes Þórðarson, vm., Dölum.
Jón Davíðsson, verzlunarm., Fáskrúðsfirði.
Jón Stefánsson, verzlunarm., Fáskrúðsfirði.
Lestrarfélag Búðaþorps.
Magnús Gíslason, cand. jur., Fáskrúðsfirði.
Marteinn Þorsteinsson, bókhaldari, Fáskrúðsfirði.
Páll Benjamínsson, verzlunarm., Fáskrúðsfirði.
Páll Pálsson, kenn., Fáskrúðsfirði.
Stefán Gíslason, Kolfreyjustað.
Stefán Guðmundsson, verzlunarfulltrúi, Fáskrúðsfirði.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Djúpavogs-umboð.

(Umboðsm. Bjarni Eiríksson, kennari, Djúpavogi)[1]).

Bjarni Eiríksson, kenn., Djúpavogi.
Björn Jónsson, verzlm., Djúpavogi.
Brím, Ólafur H., bóndi, Eyjum.
Elías Jónsson, verzlstj., Djúpavogi.
Helgi Einarsson, bóndi, Melrakkanesi.
Ingim. Steingrímsson, verzlunarm., Djúpavogi.
Jón Árnason, óðalsbóndi, Múla í Álftafirði.
Jón Finnsson, prestur, Hrauni við Djúpavog.
Jón Jónsson, lausam., Geithellum.
Pétur Þorsteinsson, prestur, Eydölum.
Sveinn Sveinsson, bóndi, Hofi.
Thorlacius, Ólafur, læknir, Búlandsnesi.

**Skaftafellssýsla.**

Ari Hálfdanarson, hreppstj., Fagurhólsmýri, Öræfum '16.

Lóns-umboð.

(Umboðsm. Jón Jónsson, prófastur, Stafafelli í Lóni)[1]).

Bjarni Guðmundsson, bókhaldari, Höfn í Hornafirði.
Jón Guðmundsson, kennari, Höfn.
Jón Jónsson, prófastur, Stafafelli.
Lestrarfélag Lónsmanna.
Sigurður Sigurðsson, kenn., Hoffelli.
Þorleifur Jónsson, alþm., Hólum.

Hornafjarðar-umboð.

(Umboðsm. Þórhallur Daníelsson, kaupm., Höfn í Hornafirði)[1]).

Gísli Sigurjónsson, Fornustekkjum.
Guðm. Sigurðsson, söðlasm., Höfn í Hornafirði.
Lestrarfélag Mýrahrepps.
Lestrarfélag Suðursveitar.
Pétur Jónsson, prestur, Kálfafellsstað.
Þórður Oddgeirsson, prestur, Bjarnanesi.
Þórhallur Daníelsson, kaupmaður, Hornafirði.

Víkur-umboð.

(Umboðsm. Jón Ólafsson, kennari, Vík í Mýrdal)[1]).

Bjarni Ásgr. Eyjólfsson, Syðri-Steinsmýri.
Bjarni Einarsson, præp. hon., Vík.
Bjarni Kjartansson, kaupm., Vík.
Björn Runólfsson, Holti.
Brynjólfur Einarsson, Reyni.
Einar Erlendsson, verzlunarmaður, Vík.
Eiríkur Ormsson, trésmiður, Vík.
Eyjólfur Guðmundsson, hreppstj., Hvoli í Mýrdal.
Guðgeir Jóhannson, kennari, Vík.
Guðlaugur Br. Jónsson, kaupm., Vík.
Jóel Sigurðsson, Bakkakoti.
Jóhann Sigurðsson, búfræðingur, Breiðabólstað.
Jón Ólafsson, kennari, Vík.
Lestrarfélag Dyrhólahrepps.
Páll Sigurðsson, Skammadal.
Sigurjón Kjartansson, kennari, Vík.
Ungmennafél. „Bláfjall“ í Skaftártungu.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.

Þorsteinn Einarsson, verzlm., Vík.
Þorsteinn Þorsteinsson, kaupm., Vík.

### Rangárvallasýsla.

Árni Ingvarsson, Núpi '15.
Björgvin Vigfússon, sýslumaður, Efra-Hvoli '16.
Einar Jónsson, hreppstjóri, Kálfsstöðum '16.
Einar Jónsson, Tjörnum undir Eyjafjöllum '17.
Erlendur Guðjónsson, Hamragörðum '17.
Guðmundur Guðfinnsson, læknir, Stórólfshvoli '15.
Ingimundur Benediktsson, Kaldárholti '15.
Ingimundur Jónsson, búfr, Hala '16.
Jakob Lárusson, prestur, Holti '15.
Jón Guðmundsson, bóndi, Ægissíðu '16.
Jón Jónsson, bóndi, Sumarliðabæ '16
Lestrarfélag Ásahrepps '16.
Lestrarfélag Landmanna '16.
Magnús Kristjánss., Drangshlíð '16.
Ólafur Finnsson, prestur, Kálfholti '16.
Skúli Skúlason, prófastur, Odda '16.
Thorarensen, Grímur, hreppstjóri, Kirkjubæ '17.
Tómas Sigurðsson, hreppstj., Barkarstöðum '16.
Ungmennafélagið „Hekla“ '16.
Vigfús Bergsteinsson, Brúnum '16.
Þorsteinn Benediktsson, prestur, Lundi '14.
Þorsteinn Jónsson, oddviti, Moldartungu '16.

### Árnessýsla.

Ágúst Helgason, bóndi, Birtingaholti '16.
Eggert Benediktsson, hreppstjóri, Laugardælum '16.
Einar Jónsson, lausam., Hæli '14.
Eiríkur Einarsson, s. sýslumaður, Eyrarbakka '15.
Engilbert Sigurðsson, Kröggólfsstöðum '16.
Gestur Einarsson, bóndi, Hæli '15.
Gísli Jónsson, Stóru-Reykjum '16.
Gísli Pétursson, læknir, Eyrarbakka '15.
Guðjón Rögnvaldsson, Tjörn í Biskupstungum '16.
Guðm. Guðmundsson, bóksali, Eyrarbakka '16.
Guðm. Guðmundsson, Efri-Brú '16.
Guðm. Lýðsson, bóndi, Fjalli á Skeiðum '16.
Halldór Jónsson, bókh., Norðurkoti, Grímsnesi '15.
Jónas Halldórsson, hreppstj, Hrauntúni '16.
Jón Sigurðsson, cand. phil., Kallaðarnesi '16.
Kjartan Helgason, prestur, Hruna '15.
Lestrarfél. Baldur, Hraung.hr. '17.
Lestrarfélag Gnúpverja '16.
Lestrarfélagið „Mímir“, Ölfusi '16.
Lestrarfélag Stokkseyrar '15.
Páll Lýðsson, hreppstjóri, Hlíð í Gnúpverjahr. '15.
Páll Stefánsson, Ásólfsstöðum '16.
Sigurður Ólafsson, fv. sýslumaður, Kallaðarnesi '16.
Sveinn Guðmundsson, járnsmiður, Eyrarbakka '17.
Thorsteinsson, Jón, prestur, Þingvelli '16.

Ungmennafélagið „Hvöt“, Grímsnesi '16.
Þorsteinn Þórarinsson, Drumboddsstöðum '15.
Þorvaldur Þorvaldsson, Skaftaholti, Gnúpverjahr. '16.
Þórður Ólafsson, Ásgarði '16.

**Vestmanneyjasýsla.**

Vestmanneyja-umboð.

(Umboðsm. Jón Sighvatsson, bóksali)[1]).

Árni Sigfússon, kaupm.
Björn Jónsson, kennari.
Dal, Sita, verzlunarmær.
Einar Lárusson.
Finnur Sigmundsson.
Guðný Guðjónsdóttir.
Gunnar Ólafsson, kaupm.
Jóhann Þ. Jósefsson, kaupm.
Johnsen, Árni J., verzlm.
Johnsen, Gísli J., konsúll.
Johnsen, Lárus J., verzlm.
Jón Einarsson, kaupfélagsstj.
Jón Jónsson, útvegsbóndi.
Magnús Stefánsson, sýsluskrifari.
Sigurður Sigurðsson, lyfsali.
Sigurjón Högnason, gagnfr.
Sýslubókasafn Vestmanneyja.
Þorbjörn Guðjónsson.

## B. Í Vesturheimi.

**Kanada og Bandaríkin.**

Andrews, A. le Roy, Ithaka N. Y. '15.
Cornell University Library, Ithaca N. Y. '16.
Halldór Hermannsson, bókavörður, Ithaca N. Y '15.
Hollander, Dr. Lee M., Madison, Wis. '15.
Newberry Library, Chicago '15.
Þorbergur Þorvaldsson, próf. dr., Saskatoon, Saskatchewan '16.

Vesturheims-umboð.

(Umboðsm. J. J. Bildfell, 520 Union Bank, Winnipeg)[2]).

Albert Jónsson, Winnipeg.
Arason, W. B., Husawich.
Árni Eggertsson, Winnipeg.
Árni Sveinsson, Glenboro.
Askdal, K. S., Minneota, Minn.
Bandalag Pembínasafnaðar, N. Dak.
Bergmann, Friðrik, prófessor, Winnipeg.
Bergmann, Jonas S, Gardar, Pembina.
Bjarnason, J. M., Bi-marhave, Van.
Björnsson, A. J, Deer Horn, Man.
Björnsson, G. B., Minneota, Minn.
Björn Sveinsson, Svold, N. D.
Blöndahl. A. J., Wynyard.
Bókasafn Tjaldbúðarsafn., Winnipeg.
Borgfjörð, Th. S., Vancouver.
Cristophersson, Hernit, Brú, Man.
Davidsson, Charles G., St. Paul., Minn.
Eggert Jóhannesson, Winnipeg.
Eggertsson, J., Winnipeg.
Egill Erlendsson, Winnipeg.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1916.
[2]) Skilagreinir ókomnar fyrir 1914—1916.

Einar Gíslason, Gimli.
Einar Sigvaldason, Baldur.
Eyjólfur S. Guðmundsson, Jacoma, Wash.
Friðrik Hallgrímsson, prestur, Baldur, Man.
Geirmundur B. Olgeirsson, Edinburgh, N. D.
Gestur Jóhannesson, Poplar Park.
Gíslason, Anna, Winnipeg.
Gísli Egilsson, Lögberg, Sask., Can.
Goodman, G. G., Wynyard, Sask.
Goodman, Gísli, Winnipeg.
Gould, Chester N., prófessor, Chicago.
Guðmundur Árnason, prestur, Winnipeg.
Guðni Þorsteinsson, Gimli, Man.
Gunnar Sveinsson, Seattle, Wash.
Gunnlögur Tr. Jónsson, ritstjóri, Winnipeg.
Guttormur Guttormsson, prestur, Churchbridge.
Guttormsson, Thorst., Winnipeg.
Halldórsson, M. B., dr., Souris, N. Dak.
Henderson, Joh., Winnipeg.
Hjálmar F. Daníelsson, Otto, Man.
Högni Einarsson, Winnipeg.
Icelandic Library „Mímir“, Pembina, N Dak.
Jakob Guðmundsson, South Hill, Van.
Jóhannes Sigurðsson, Seattle.
Johann O. Björnsson, Wynyard, Sask.
Jóhann Pálsson, Clarkleigh, Man.
Johnson, Arthur A., Mozart, Sask.
Johnson, Baldur, B. A., Langenburg.
Johnson, Hallgrímur, B. A., Winnipeg.
Johnson, Kristján, Duluth.
Johnson, Magnús, Lundar, Man., Can.
Johnson, St. E., Otto P. O., Man.
Jón Árnason, B. A., Wynyard.
Jón Einarsson, Winnipeg.
Jón J. Hallsson, Hólar, Sask.
Jónas Daníelsson, Winnipeg.
Jónsson, B. B., prestur, Winnipeg.
Klemens Jónasson, Selkirk.
Kristinn Þorfinnsson, Gardar, N. D.
Kristinsson, Kr. Fr., Framnes, Man.
Kristján Sigurðsson, ritstjóri, Winnipeg.
Kristján Stefánsson, Winnipeg.
Lestrarfélagið Árgalinn, Wild Oak, Man.
Lestrarfélagið Dagsbrún, Lundar, Man.
Lestrarfélagið Dagsbrún, Vidir, Man.
Lestrarfélagið Fjólan, Nes, Can.
Lestrarfélagið Fram, Arnes, Man.
Lestrarfélagið Fróðleikshvöt, Árborg.
Lestrarfélagið Gangleri, Gardar.
Lestrarfélagið Gimlé.
Lestrarfélagið Hafstjarnan, Pt. Roberts, Wash.
Lestrarfélagið Harpa, Blaine, Wash.
Lestrarfélagið Herðubreið, Narrows, Man.
Lestrarfélagið Iðunn, Markerville, Alberta.
Lestrarfélagið Ingólfur, Vancouver.
Lestrarfélagið Ísland, Baldur, Man.
Lestrarfélag Íslendinga í Cypressveit, Glenboro.
Lestrarfélag Íslendinga í Reykjavík, Reykjavík P. O.
Lestrarfélagið Leifur, Candahar S.
Lestrarfélagið Mentahvöt, Otto, Man.
Lestrarfélagið Mentun, Anthler S.
Lestrarfél. Mikleyinga, Hekla, Can.
Lestrarfélagið Mímir, Wynyard.
Lestrarfél. Morgunstjarnan, Hólar.
Lestrarfélagið Skjaldbreið.

Lestrarfél. Stjarnan, Selkirk, Man.
Lestrarfél. Tilraunin, Keewatin, Ont.
Lestrarfél Verðandi, Mozart, Sask.
Lestrarfél. Vestri, Seattle, Wash.
Lestrarfélagið Þjóðernið, Winnipeg, Beach.
Lestrarfél. Þörfin, Kristnes, Sask.
Lestrarfélagið Æskan, Dakota.
Long, S. M., Winnipeg.
Magnús Hinriksson, Churchbridge.
Magnús, S., Duluth.
Markerville, Jón, Alta.
Mæri, Jon, Svold, N. Dak.
Norman, Jakob, Leslie, Sask.
Oddsson, Th., Winnipeg.
Olson, Á. B., Gimli, Man.
Ólafsson, K. K., prestur, N. Dak.
Ólafur Kjartansson, Winnipeg.
Pétur Hjálmsson, prestur, Markerville, Alberta.
Pétur Ó. Hallgrímsson, Seattle.
Pétursson, P. V., Ivanhoe.
Runólfur Marteinsson, Winnipeg.
Scheving, S. P., Victoria B. C.
Sigtryggur Jónasson, Árborg.
Sigurðsson, Job, Mrs., Upham, N. Dak.
Sigurður Ólafsson, prestur, Baine, Wash.
Símon Símonarson, Winnipeg.
Skaptason, M. J., prestur, Winnipeg.
Snæbjörn Einarsson, Lundar, Man.
Stefán Guttormsson, Winnipeg.
Steingrímur Þorláksson, prestur, Selkirk.
Styrkár Vesteinn Helgason, Leslie. Sask.
Sveinn Árnason, Seattle, Wash.
Swanson, Fred., Winnipeg.
Thorarensen, Ch., Icel. River.
Thordarson, Ch., verksmiðjueigandi, Chicago.
Thordarson, Thordur, dr., Minneota, Minn.
Thorgeirsson, Mart., Akra, N. Dak.
Thorlacius, B., Ninith, Man.
Thorsteinsson, Oddur, Icel. River, Man.
Toronto University Library, Toronto.
Tómas Jónasson, Icel. River, Man.
University of North Dak.
Vídal, Sig. J., Hnausar, Man.
Victor Eyjólfsson, Icel. River, Man.
Wilhelm Kristjanson, Otto P. O., Man., Can.
Þorgerður Þórðardóttir, Winnipeg.
Þorgils Þorgeirsson, Winnipeg.
Þórður Árnason, Mozart, Sask.
Þórir Björnsson, Duluth, Minn.

### C. Í öðrum löndum.

(Bókasölu-umboð hefir Gyldendalske Boghandel Nordisk Forlag Klareboderne 3, Kaupmannahöfn)[1]).

Færeyjar.

Dahl, Jakob, cand. theol., kennari, Thorshavn '16.
Paterson, Joannes, kongsb., Kirkjubæ '16.
Simun av Skarði, lýðháskólastjóri, Fagrahlíðar-háskóli '16.
S. P. úr Konoy, kennari, Götu '16.
Thorshavns literære Samfund, Þórshöfn '16.

---

[1]) Skilagrein ókomin fyrir 1916.

### Danmörk.

Blöndal, Sigfús, bókavörður, Amagerbrog. 158, Kh. '16.
Blöndahl, Sighv., stud. jur., H. C. Örstedsv. 57, Kh. '16.
Gad, G. E. C., bóksali, Vimmelsk. 32, Kh. '16.
Gísli Brynjólfsson, læknir, Dannebrogsg. 1, Kh. '16.
Guðjón Eiríksson, búfr., Vilhelmsdal, Mörköv St. '16.
Gunnar Gunnarsson, rithöf., Gl. Kongev. 141[3] Kh. '16.
Hafsteinn Pétursson, prestur, Fiolstr. 28, Kh. '16.
Halldór Kristjánsson, stud. med., Kysthosp. Juelsminde, Jylland '16.
Hammerich, M., málaflm., Schlegels Allé 3, Kh. '16.
Haraldur Sigurðsson, tannlæknir, Österbrog. 60, Kh. '16.
Héðinn Valdemarsson, stud. polit., Khöfn '16.
Jakob Gunnlögsson, stórkaupmaður, Niel Juelsg., Kh. '16.
Johansen, J., Landbrugsskolelærer, Ladelund pr. Vejen '16.
Jónas Lárusson, veitingamaður, Personbg. Restauration, Kh. '16.
Jón Sveinbjörnsson, kmjr., Paludan Müllersvej 3, Kh. '16.
Kristján Björnsson, stud. med., Odenseg. 8, Kh. '16.
Magnús Jochumsson, stud. mag., Ravnsbg. 5 B St. Kh. '16.
Magnús Magnússon, prestur, Bregninge pr. Ringk. '16.
Melsted, Bogi Th., mag. art., Ole Suhrsg. 18, Kh. '16.
Möller, J. V., prentari, Hestemöllestr. 5, Kh. 16.
Nielsen, Chr. Hein, cand. mag., Bergthorasg. 1[1] Kh. B. '17.
Nordal, Sigurður, dr. phil., Vesterbrog. 20, Kh. 16.
Pétur Bogason, læknir, Faxinge Sanat. pr. Præstö '16.
Sigurður Sigtryggsson, cand. mag., Viborg '16.
Sóreyjarskóla bókasafn, Sorö '16.
Stefán Stefánsson, cand. jur., Villa Christineberg, Sölleröd pr. Holte'16
Sveinbjörn Sveinbjörnsson, yfirkennari, Aarhus '16.
Tulinius, Thor E., stórkaupmaður, Gefionsplads 5, Kh. '16.
Valtýr Guðmundsson, dócent, dr. phil., Amagerbrogade 151, Kh. '16.

### Noregur.

Bugge, Alexander, fv. prófessor, dr. phil., Fyresdal, Telemarken '16.
Háskólabókasafnið, Kristiania '16.
Katedralskolens Bibliotek, Kristiania '16.
Kolsrud, Oluf, Universitetsstipendiat, Kristiania '16.
Skásheim, Anders, bókhaldari, Bergen '16.
Stórþingisbókasafnið í Kristjaníu'16.
Vísindafélagið í Þrándheimi '16.

### Svíþjóð.

Göteborgs stadsbibliotek '16.
Lunds Universitets Nord. Seminarium '16.
Söderwall, K. F., prófessor, Lund '16.
Zadig, Viggo, cand. phil., Malmö '16.

**Þýzkaland.**

Anderson, Ernst, godsegare, Allenstein, Preussen '13.
Blankenstein, M. v., litt.dr., Berlin'13.
Erkes, Heinrich, kaupm., Köln '16.
Gotzen, Jos., dr. phil., Köln '13.
Gruner, Max, dr. phil., Berlin '13.
Herdersche Verlagshandlung, Freiburg im Breisgau, Baden '18.
Heydenreich, W., dr. phil., Eisenach '13.
Mayer, E., prof., dr. phil., Würtzburg '15.
Meissner, R., prófessor, dr. phil., Bonn '15.
Staatsbibliothek, München '13.
Stadtbibliothek, Hamburg '13.
Universitetsbibliothek, Kiel '15.

**England.**

(Umboðsm. The Viking Society, Chelsea, London).

Banks, Mrs. M. M., London '16.
Gray, John, prestur, St. Peters, Falcon ave., Edinburgh '15.
Hight, Geo. Ainslie, Oxford '16.
Johnston, A.W., Chelsea, London '16.
Lúðvík Jónsson, búfr., London '17.
Olsen, O. T., dr., Grimsby '16.
Phillpotts, Miss Bertha S., Tunbridge Wells '16.

**Holland, Belgía, Frakkland, Austurríki og Rússland.**

Austin, C. K., læknir, Paris '16.
Cahen, Maurice, agrégé de l' Université, Paris '15.
Hoogt, J. M. van der, litt. cand. Wageningen, Nederl. '16.
Jon Svensson, prestur, Feldkirch, Stella m., Vorarlberg, Österreich '17.
Krijn, Sophie A., Amsterdam '16.
Lascaronsky, Bas. Greg., próf., Kiew '14.
de Vries, J. P. M. L., litt. n. doct., Waatergraafsmeer bei Amsterdam '16.

Reykjavík, 18. júní 1917.

*Matthías Þórðarson,*
bókavörður félagsins.

# Áskorun.

Stjórn Bókmentafélagsins hefir ákveðið að gefa út helztu rit Jónasar skálds Hallgrímssonar í bundnu og óbundnu máli og kosið til að sjá um útgáfuna, í samráði við forseta félagsins, þá Helga Jónsson, dr. phil. í Reykjavík, Matthías Þórðarson, fornmenjavörð í Reykjavík og Jón Sigurðsson í Kaldaðarnesi.

Til þess að rit þetta geti orðið sem fullkomnast eru það tilmæli útgáfunefndarinnar til allra þeirra, er hafa í höndum eða vita um handrit frá Jónasi Hallgrímssyni, kvæði, sendibréf eða annað, og sömuleiðis bréf til Jónasar, að ljá eða útvega nefndinni alt slíkt til afnota, helzt í frumriti, en ella í stafréttu eftirriti, og enn fremur önnur gögn, er lúta að æfi Jónasar, svo sem frásagnir eða ummæli um hann í bréfum samtíðarmanna. Nefndin beiðist þess og, að henni séu látnar í té sagnir eða munnmæli, er menn kynnu að hafa heyrt um Jónas, t. d. um tildrög sumra kvæða hans o. fl., alt að tilgreindum heimildum.

Allir þeir, sem kynnu að geta rétt nefndinni hjálparhönd í þessu efni, eru beðnir að senda gögn sín einhverjum nefndarmanna sem allra fyrst.

Reykjavík, 13. júlí 1916.

*Helgi Jónsson. Matthías Þórðarson.*
*Jón Sigurðsson.*

# SKÍRNIR

## TÍMARIT HINS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGS

XCII. ÁR

RITSTJÓRI
GUÐM. FINNBOGASON



REYKJAVÍK — 1918
ÍSAFOLD — ÓLAFUR BJÖRNSSON

# Efnisskrá.

# Jörð.

Vor jörð. Vor jörð. Eitt orð í himnaheim.
Eitt hugboð andans mikla, er ljósið glóði.
— Hann risti þína braut sem línu í ljóði,
sem logahending í vorn sólargeim.
Hann kvað þig fram í kraptsins myndum tveim,
hann kenndi þig við eilífð og við dauða.
En eins og styðjast stuðlar dýrra braga
hann strengdi þína geisla á djúpið auða.
Þeir eiga að bera andvörp þinna nauða
og óm þíns fagnaðs yfir tímans daga.

Svo hlóðst þín krystallsbygging, röð af röð,
og rætur seildust djúpt að tindi og grunni.
En hugir lyptust yfir röst og runni
í röðulmorgna og heilög straumaböð.
Og himinn snart með ljósi lífgræn blöð,
svo loptið brjóstin þyrstu mættu teiga.
— Svo kveikist þrá, og þrautin á að vinnast
og þúsund leiðir hnoss og sælu eiga.
En eldhjör blikar milli vara og veiga:
Einn vegur liggur heim. Þín fórn skal innast.

Því sekkur glaumsins bylgja blökk og hljóð,
er beinist að sjer sjálfum andans kraptur
og neista viljans sendir efnið aptur,
með arð síns banastríðs í lífsins sjóð.
Vor jörð. Nú hrópar hjartna þinna blóð
er hismið endurkrefst í þögn og eyði.

Með kvíða og ógn þess hörðu fjötur hrökkva,
svo hnígur moldin þungt að sínu leiði.
Vjer frelsumst sem í leiptri af líkn og reiði.
— Vort ljós, það kviknar þegar fer að rökkva.

Í einum svip vjer sjáum lífsins dag,
er sálin lítur við í dauðans hliði —
sem rifjist þáttur upp á sjónarsviði,
er síðsti ómur deyr í leiksins brag.
Hve hljómar saknaðsárt vort minnislag;
hve sveimar liðins tíma augun skera.
— Í kvæðalok nær hryggðin hærra en gleðin.
Að hinnstu skilst oss fyrst vor eigin vera,
og hjartað finnur orð, sem andann bera.
— — Vort æfiljóð, sem bót ei verður kveðin!

Þín dýpsta hvöt hún bjó þjer böl og hel.
Í banni traðkast nú þinn helgi lundur.
Og þó á lífið enn sitt háa undur —
er ástin helga snertir mannleg þel.
Þá skín þú saklaus enn, vort Edenshvel,
með aldin frjáls, er sig til jarðar hneigja.
Þá gjöra hjörtu hugi tvenna að einum,
og himininn hann sjest, en orðin þegja —
en syndug, jarðnesk brjóst í draumi deyja
og drúpa að vængjaföðmum, engilhreinum.

— Vér helgumst þér, vor sólarsignda fold,
í segulviðjum, undir loptins höfga,
með eðlið skipt, til hels og himins öfga,
og hljóða vöggu búna í unn og mold.
Þú hófst til ljóss og lífs vort þunga hold
og lyptir vorri brá til morgunlanda.
Sem vona og trúnaðs börn, þín björg vjer hreifum.
Á brúnum tinda vegamerkin standa.
Loks dagar yfir draum vors bundna anda
og dauðinn leysir vora sál úr reifum.

— Vjer teigum við þitt brjóst vort Bragavín;
þín bros og daggir titra í vorum gígjum,
þinn andblær ber vorn óð að himinskýjum;
með ómi þinna hamra rödd vor dvín.
Þú breiðir klæði blóma og fannalín
á brautir vorar, upp til söngsins hæða.
Þitt afl er það, sem ljóði og list vér vígjum
— þú ljetst það streyma fram til vorra æða.
Af jarðarætt er andi vorra kvæða.
Þinn eldur býr í strengnum sem vjer knýjum.

Vort sandkorn himnahafs, hve ertu stór.
Þín hljóðu straumaköst ná geiminn yfir.
Í þínu dufti drottins myndin lifir.
Þú dropi varðst svo fylltist ljóssins sjór.
Sá andi, er stillir stjörnuskarans kór,
hann stýrir hverju spori þinna loga;
því hann er sá, sem allt sjer í því eina;
því á eitt sjónarkast vort hvolfsins boga;
því speglast blikur blárra, djúpra voga
í blaðsins dögg, í tárum þinna steina.

Þú deplar auga og dagur verður kveld.
Þú dregur blæju hægt á mánagluggann —
og breiðir þjer að brjósti næturskuggann,
þú blundar, vaknar, kveikir morguneld.
Þú dúðar okkur hljótt í haustsins feld,
en heitan móðurkoss til vorsins geymir.
Svo snýr þú við, sem víf að ástarhótum,
og vetrarþraut í röðulfaðmi gleymir.
En grannahvelin heilög bros þín dreymir,
ó, himinstjarna, sem vér troðum fótum.

— Við djúpsins eld þú ólst vorn skyggna hug,
sem uggir heima og líf þar sólir dvína,
og hærra vill og víðar en þær skína,
sem veit, að takmörk á þitt stolta flug. —

Í sókn og flótta sveiflast þú á bug
uns sundrast þú í logans innsta kjarna.
En hrapir þú í ösku á auðar slóðir,
samt er þín líking varðveitt, fagra stjarna.
Í sál og anda ódauðlegra barna
þar er þín eilífð, veröld vor og móðir.

Þín sanna dýrð hún skín í hilling hæst,
þar hvelfast skýjaborgir. Og þær standa.
Á meðan grjót og múrar hrynja í sanda
rís munans höll þeim trausta grunni næst.
Þann skáldagrun, sem lýsir loptin fjærst,
er lengst að má úr heimsins dánarsögum.
Því verður list vors lífs hið fagra að dreyma
í lit, í máli, í hljóms og sjónar brögum.
— Þín fegurð öll er undir djúpum lögum,
sem andinn veit, en hjartað þarf að gleyma.

Þar birtist voðavafans gáta öll.
Hver vanhelg sjón hún deyr við bjarmann mikla.
Því geyma englasverðin landsins lykla
og ljósi jarðarandans hasla völl. —
Ein alda af brjóstsins hafi flytur fjöll
þar forvit heims er blindni og dróma vafið.
Vort hærra stig ber anda og kennd í eining —
í undirdjúpi sefans finnst það grafið.
Sjá farfuglsungann átta sig um hafið;
eins eygist luktri sjón vors höfunds meining.

En eins og hvolfir hylur skýi við,
svo hverfast sjónir vorri ytri skoðun.
Þitt blinda líf það hlýðir hærri boðun,
en himnur augans spegla öfug mið.
Þar starir skynjun öll, við afgrunns rið,
í ásýnd þá, sem ljóss frá stól er hröpuð.
Þar ristir máttug hönd á vegginn varnað:
Án vegabrjefs vors hjarta er leiðin töpuð.

Vor hulda greind var oss til skilnings sköpuð;
því skerðir trúlaust vit vorn sálarfarnað.

Þó væri án skuggans svipiaus sjálf þín brá.
Í sálarhjúpinn er hans teikning dregin
— uns sólarblettur er af auga þveginn
og upptök geislans hugir þola að sjá.
Því er allt líf þitt stormur, stríð og þrá
upp stigans þrep, svo hækki og göfgist myndin.
Því logar klaki og steinn í stjörnugliti,
því stráir blómið ilm á fjallavindinn,
því grípur augað geislann bakvið tindinn
og gægist yfir friðarbogans liti.

Má þessi vilji í blóði, bjargi og hlyn
ei bylta aflsins stefnu á nýja vegi. —
Skilst þannig útboð vort að dómadegi
að duptið sjálft sig hefji í æðra skyn?
Hvort skalt þú bera andans kraptakyn,
sem kveðst til annars lífs, án molda og grafa?
Skal jarðarreynsla rísa af efnisdraumnum
og rúnateiknin handan ljóssins stafa,
uns mennskir hugir sökkvisjóinn kafa
og sveiflumálið lesa í ysta straumnum?

— Svo rjett oss lífsins djúpu, dýru skál,
þú dóttir myrkra undir himnaljósum.
Lát bekki þína og öndveg anga af rósum,
lát óma í risin blá þitt hæsta mál.
Stíg tímans spor við hnattahjálmsins bál,
við hörpugný af röstum vinda og sjóa.
Hvert bros þíns vanga lyptir hjartaljóðum,
við ljóma þinna hvarma vonir gróa,
við lokkailm og andþyt sterkra skóga,
við æða þinna nið í björtum flóðum.

— Vor jörð. Vor jörð. Eitt blys í heljarheim.
Einn höfundsdraumur, roðinn sonarblóði.
Eitt heilagt rím í þessu logaljóði,
sem las vor guð í skuggans veldisgeim.
Hann kvað þig fram í eldi og í eim,
af yrkisefnum þagnar, myrkra og dauða.
Hve sterkir eru stuðlar þeirra braga;
þeir strengja geislabrýr á djúpið auða,
sem bera himnum boðskap gleði og nauða
frá brjósti þínu — yfir tímans daga.

*Einar Benediktsson.*

---

# Annað líf.

Ræðustúfur eftir Bjarna Jónsson frá Vogi.

---

Þessu lífi er óþarft að lýsa. Þar er um auðugan garð að gresja, ef leitað er lýsingar á því. Hafa bæði skáld vor og annara þjóða komist svo vel að orði um það, að mér mun nægja að nefna nokkur dæmi. Kristján Jónsson segir um það:

Lífið allt er blóðrás og logandi und,
sem læknast ekki fyr en á aldurtila stund.

En Jón Ólafsson lýsir nær því sem daglega verður:

Aldrei hljóta af argi frið,
enga bót fá meina,
heimska þrjóta að þreyta við:
það er ljóta gamanið.

Victor von Scheffel segir að það væri fífladans, ef það væri eigi svo alvarlegt sem það er:

Das Leben wäre ein Narrentanz,
wenn's nicht so ernsthaft wäre.

Vilji menn nú eigi láta sér lynda lýsingar einstakra manna, sem vel mega vera runnar af stundar geðblæ, þá er að minna á hitt, hvern veg þjóð vor lítur á það. Mætti til þess velja ýmsa málshætti og orðskviði, en eg mun láta mér nægja að minna á þenna: »Böl er búskapur, hrygð er hjúskapur, ilt er einlífi og að öllu er nokkuð«.

Þótt einhverjum þyki hér kenna svartsýni, þá hygg eg sannast sagt að daglegt líf muni flestum þykja grálegt og þyki mönnum sem öllu sé snúið öfugt, þar sem mestum hluta mannanna er nauðugur einn kostur að lifa til þess að eta, en þeir koma því eigi við, að eta til þess

að lifa. Tíminn og kraftarnir endast illa til að afla viðurværis, hvað þá til annars meira. Fer því flestum sem skáldinu, er sagði:

Ungum lék mér löngun á
að lifa til að skrifa.
En sköp hafa því svo skift, eg má
skrifa til að lifa.

Þetta líf, þ. e. baráttan við sultinn, er því ekki eftirsóknarvert.

Prestur var fenginn til þess, að telja um fyrir Jóni Arasyni, áður en hann var leiddur til líflátsins. Hóf séra Sveinn mál sitt á þessa leið: »Til er líf eftir þetta, herra«. »Veit eg það, Sveinki«, svaraði Jón. Eg mun nú eigi fara nær orðum prests en svo, að eg segi: »Til er annað líf, háttvirtir áheyrendur«. Og þótt eg fái sama svar, mun eg þó verða þrárri en Sveinki, og segja yður nokkru gjör frá því.

Mér kann nú að hafa orðið það á, að vekja með þessum orðum mínum þá eftirvænting hjá yður, að eg hefði öðlast eitthvað af speki hinna alkunnu draumspekinga, eða að eg hefði haft fregnir af framliðnum. En það var þó eigi ætlun mín. Má vera að eg hafi heldur átt að víkja við orðum Byrons úr »drauminum« og segja:

Tvískift er lífið, list á sína heima,
réttnefndra hluta tveggja takmörk skýr.

Þessu »öðru lífi« hefi eg lýst svo á öðrum stað: »Fyrir utan strit og stríð daglegs lífs er heill heimur fagurra sólgeisla, stórra fljóta, fossa og fjalla, mannfegurðar og lífs, orðsnildar og óma. Sumir sýna oss þenna heim í söng, sumir í sögu og leik, sumir í ljóði, sumir í litum og enn aðrir greipa hann í stein eða málma. Í þessum heimi lifum vér beztu stundir æfi vorrar og njótum hreinastrar gleði og höfum hana þar helzt ómengaða. Þangað flýjum vér undan hugarharmi vorum og áhyggjum og daglegu stríði voru, sem er meini blandið á marga lund. Fyrir því megum vér vera þakklátir þeim mönnum, sem

skapa oss þenna hvíldarheim og alla þá gleði, sem þar býr«.

En þetta eru aðeins mín orð, og get eg hvorki búist við að menn hafi haft tíma til að taka eftir þeim, né að þeir trúi mér. En þá er að líta á meðferð mannkynsins á þessum efnum eftir því sem sagan kemst næst.

Svar mannkynssögunnar er ótvírætt þetta: Allar heimsins þjóðir hafa reynt að skapa sér annað betra líf eins og Oddur Hjaltalín, er gerði sér þá hlátraheim er heimur grætti. Vilji menn grenslast eftir því, hversu lengi mannkynið hafi haft listina í hávegum, þá verða menn að leita fram til hinna fyrri jarðalda, að minsta kosti fram til þriðju aldar (tertiæra tímans). Því að skömmu síðar en menn þeirrar aldar höfðu lært að gera sér verkfæri úr steini eða öðru, tóku þeir einnig að fegra þau og ágerðist það því meir sem lengra leið. Finna menn því í hellum listaverk frá tímum horfinna manntegunda. Nákvæmlega verður eigi sagt, hversu langt er nú liðið frá fyrsta upphafi listarinnar, en svo mikið má þó telja víst, að hér veltur á milliónum ára. (Wilh. Bölsche, Der Mensch der Vorzeit, bls. 19).

Sem vænta má sýnir nú sagan það einnig, að því hærra sem er menningarstig þjóðarinnar, því meiri mætur hefir hún á listum. Má auðveldlega rekja þetta frá hinum verst mönnuðu þjóðum upp til þeirrar þjóðar, sem hæst hefir staðið að menning, til hinna fornu Hellena (Grikkja).

Nú er þá mönnum óhætt að trúa orðum mínum, þeim er eg gat um áðan, því að öll saga mannkynsins sannar þau, enda mun engi á móti mæla, ef hann hugsar málið.

Hverjir skapa nú þann heim, er annað líf á heima í, eða himin þess?

Hver maður á í hug sínum friðaðan blett, þangað sem argaþras daglegs lífs kemst eigi. Þangað flýr hann sér til hugarhægðar, hvenær sem færi gefst. Þar hefir hann geymt það allt, sem fegrar líf hans. Sumt hefir hann skapað sér sjálfur, sumt er komið frá forfeðrum hans og enn annað frá samtíðarmönnum hans. Má því með sanni

segja að hver maður geri sér himin sinn að einhverju leyti, enda mun af þessari viðleitni runnin sú húsgerðarlist, sem hvelfir himna yfir oss jarðarbúa.

En annars vinna að því starfi sérstakir húsgerðarsnillingar, er kallast listamenn. Þeir hvelfa oss himna til annars lífs hér á jörð og þeir fylla þann himin með alls konar fyrirmyndum fegurðar og hreinleiks, þeir gera oss hugsjónahimin Platons

En hvern veg fer um laun þeirra? Mundu þeir fá slík laun sem aðrir verkamenn þjóðarinnar eða önnur meiri og veglegri? Hverju mundi kauphækkun þeirra nema? Eftirfarandi smásaga sýnir yður bezt, hver laun eru goldin hamingjusmiðum þjóðarinnar, birtuberum hennar og gleðigjöfum.

Land eitt liggur hvorki fyrir austan sól né vestan mána. Er það auðhitt öllum áheyröndum mínum. Þar bar svo við eitt sinn, að vinnuveitandi sat í ljótu og stóru húsi sínu. Þar var illa bjart og auðir veggir og allt ömurlegt og kaldranalegt.

Þá kvaddi maður dyra og inn kom ókunnur verkamaður. Sá litaðist um og kendi í brjósti um húsráðanda, er hann sá, hversu þar var óvistlegt Hann gleymdi erindi sínu og mælti til vinnuveitanda:

»Eg hygg að eg mundi mega gera vistlegra hér og vildi feginn reyna, ef eg mætti.«

»Sama er mér, þótt þú reynir,« svaraði húsráðandi, »annars er hér nógu gott.«

Ókunni maðurinn slær hörpu sína, og steinar og annað efni kemur og raðast sjálft í forkunnar fagurt og haglega gert hús með gotneskum oddbogum og grönnum og háttgnæfandi turnum. Inni var allt prýðilegt. Þar voru hörpur og töluðu mannamáli og sungu sjálfkrafa. Þar voru skáldrit og gengu söguhetjurnar og fólkið út úr spjöldunum og sýndu ýmist lifnaðarháttu og hugarfar liðinna alda, eða samtíðarinnar. Þar voru á veggjum málaðar myndir, og sá þar sumar og gróður, þótt um vetur væri, og var sem þar inni í húsi þessu væri saman kom-

inn kjarninn úr fegurð láðs og lagar, lífs og dauða, þar voru höggnar myndir og steyptar, er drógu saman í eina örlagastund æfi og örlög einstaklinga og heilla þjóða, er sýndu á einum veggfleti hugsjónir og andarauð ótal alda og þjóða. Þar kvað margt listaverk Urðar orði, verðandin vafðist sólstöfum og fegurð og snildin sýndi þar skuld tímans, eða hvað fram skyldi fara síðar.

Alt þetta gladdi geð eigandans og huggaði hann og hresti, þegar hann kom þreyttur heim frá störfum sínum, hvatti, efldi og vakti hug hans. Hann undi nú hag sínum hið bezta.

Og tímar liðu.

* * *

Einhvern dag sat vinnuveitandinn glaður og reifur í höll fegurðarinnar og hvíldist eftir happasæl störf. Þá kom ókunni maðurinn til hans og mælti:

»Þykir þér eigi fagurt hér og þykir þér eigi nokkurs um vert, hversu eg hefi búið um þig?«

»Eg kann vel við margt af þessu glingri þínu,« svaraði vinnuveitandinn.

Þá mælti ókunni maðurinn enn: »Nú er mér vaxið ásmegin og alt fegurðarstarf mitt er máttkara en áður, sjónin hvassari, heyrnin næmari, höndin hagari, andinn auðugri, hyggjan dýpri og skilningin skarpari. Því að Freyja hefir nú veitt mér aflvakann mikla, ástina og konuna. En eitt smáatvik vekur mér áhyggju. Mig skortir mat til að halda við starfsþoli mínu, og þykir mér sárast ef óort verk mín farast fyrir.

Nú hefi eg veitt þér harla mikil gæði, hugarauð og æfiyndi, mundir þú þá eigi vilja veita mér þetta lítilræði í staðinn?«

»Skárra er það nú lítilræðið!« svaraði húsráðandi. »Annars var aldrei samið um kaup fyrir þetta fitl þitt, enda mundi eg aldrei hafa keypt það. Þú vanst verkið af sjálfsdáðum og átt því enga heimting á kaupi. Þó mun eg nú gefa þér nokkur hundruð krónur, en síðan vil eg vera laus við alt betl.«

Þá var sem töfrasproti hefði snortið öll verk ókunna mannsins, því allt varð nú miklu fegra en áður, ljóðin og lögin, litir og lögun, vöxtur og vænleikur, og sólarbirtan sjálf varð hlýrri og skærari.

Og tímar liðu.

* * *

Vinnuveitandinn situr í tvöfaldri fegurð í höll sinni og hvílist eftir mikil og happasæl afrek. Þá er drepið á dyr, og inn gengur ókunni maðurinn. Hann mælti við húsráðanda:

»Hversu gezt þér að fegurðarheimi þeim, er eg bjó þér síðast?«

»Eg hefi gaman og hvíld af mörgu af þessu glingri þínu,« svaraði hinn.

Þá mælti ókunni maðurinn: »Nú hefi eg enn fengið meira vald yfir heimi fegurðarinnar, því að nú þekki eg af eiginni reynslu sorgina og kvíðann og áhyggjurnar. Og nú hefi eg lykil að hvers manns hug og megna nú að veita hverjum þá gleði, er hann þarfnast mest. — En eitt er þó að. Þegar barnið mitt grætur og biður um brauð, en eg á ekkert til, þá verð eg svo hljóðglöggur á allar bölraddir verandinnar og svo skarpskygn á skaðræði og böl, að samræmi fegurðarinnar flýr mig. Mér er ofraun að hvelfa öðrum mönnum himna til annars betra lífs, þá er minn eigin himinn hrynur yfir mig. Vilt þú nú hjálpa mér?«

Þá svaraði vinnuveitandinn: »Eg sagði þér það síðast, að eg vildi eigi þola þér betl. Eg fyrirlít alla bitlingamenn!«

Þá dapraðist sólarbirtan, þung stuna fór um strengi harpnanna, sorta brá yfir málverkin og marmaralíkneskin grétu.

Fjórða daginn eftir sat vinnuveitandinn í höll sinni og horfði út um gluggann. Þá gekk ókunni maðurinn þar fyrir. Hafði hann hörpuna í annari hendi, en undir hinni bar hann svartan stokk og prestur í hempu gekk við hlið hans.

Ókunni maðurinn leit upp í gluggann og sló hörpunni niður við stein, svo að hún fór í smá mola. — Þá brast hver strengur á hörpum þeim, sem inni voru, af skáldritunum var ekkert eftir nema spjöldin, líkneskin sprungu og steinarnir hurfu úr húsinu og hvert efni, þangað sem það var áður.

Listin hafði læst himni sínum fyrir vinnuveitandanum. Hann var eigi framar hluttakandi annars lífs.

Allt var nú ljótt og ömurlegt umhverfis hann. Þar sat hann í náttsvalanum gramur og geðvondur. Hræfuglar görguðu honum til huggunar og ýlustráin ýlfruðu hann í svefn. Hann var ímynd vanþakklátrar þjóðar, er myrðir þá menn, er freista að göfga hug hennar og strá geislum á götu hennar og varða, yrkja og vökva ódauðlegan laukagarð henni til yndis, auðs og frægðar. — —

Hér tel eg því svarað, hversu búið er við listamenn.

---

# Konungssonur.*

Eftir Gunnar Gunnarsson.

---

Þér gerðuð boð eftir mér, herra konungur?

Kalla þú mig Hákon, Inga.

Hákon Sverrisson, þér vilduð hafa tal af mér?

Kalla þú mig Hákon, Inga, ekkert nema Hákon.

Hákon, hvað viljið þér?

Það, Inga, alt vil eg þér. — Þegar eg kom hingað fyrir viku til Borgar og sá þig standa þarna úti á svölunum, þá — þá stöðvaðist eitthvað innan í mér, þá stöðvaðist hjartað hérna í brjósti mínu, — og það var líkast því að sjálft líf mitt léki á þræði. Og þegar eg spurði þig: hver ert þú? og þú horfðir á mig með einörðu, bláu augunum þínum og svaraðir: Inga frá Varteigi, þótti mér sem eg jafnan hafa þekt það nafn, og hafði þó aldrei heyrt það áður.

Hvenær hyggist þér að halda ferðinni áfram, herra konungur?

Aldrei, — eg fer aldrei lengra. En kalla þú mig Hákon, Inga. — Hvað ert þú að hugsa um?

---

* Höf. hefir samið sögu þessa á dönsku, og er hún bygð á sögu Hákonar konungs Hákonarsonar, þar sem hann er einmitt „konungssonurinn“, er sagan segir af. Í síðasta þriðjungi sögunnar hefir höf. á fáeinum stöðum þýtt orðrétt úr Hákonarsögu, ýmist hluta úr setningum eða samfeldar setningar. Þar sem svo stóð á, hefi eg ekki lagt til íslenzka þýðingu frá sjálfum mér, taldi réttara að láta orð Hákonarsögu óbrjáluð; hefi aðeins vikið við rithætti í sama horf og annarstaðar í sögunni. *Þýð.*

Þér eruð ungur, herra konungur. . . . Hvers vegna hlæið þér að mér?

Inga! — Inga frá Varteigi! — hvað ert þú gömul?

Nítján vetra, herra.

Nítján vetra! — Þá erum við jafnaldrar! — En þú munt vera mun betur viti borin en eg, Inga.

Svo vel viti borin er eg, Hákon, að eg veit, að konungur verður ekki heftur á för sinni — og að ekki ber að hefta hann. . . .

Þú talar jafnan svo hyggindalega og skynsamlega, Inga. . . . Inga, en hvað þú ert fögur! — Um hvað ert þú að hugsa, Inga?

Eg kem að rekkju yðar í nótt, herra.

Inga! — hvað segir þú! . . .

Sleppið mér. . . . Eg kem að rekkju yðar í nótt, herra.

Inga frá Varteigi — eg elska þig.

Það veit eg, herra — annars kostar hefði eg ekki komið að rekkju yðar í nótt.

Inga frá Varteigi — elskar þú mig?

Þarft þú að spyrja, Hákon . . . Hákon . . .

Þú ert mikillát kona, Inga, mikillát svo sem ætt þín er. Þú ert konungi samboðin.

Annars kostar hefði eg ekki komið, herra.

Inga frá Varteigi — þú skalt verða drotningin mín — drotning Noregs. Þú kemur með mér til Björgynjar. Við höldum brúðkaup okkar um jólin.

Nei, herra, drotning vil eg ekki vera. — En eg vildi gjarna ala yður son, herra.

Inga, hafnar þú því að verða drotningin mín?

Já, herra.

Þú móðgar mig, Inga.

Nei, herra, en eg elska yður, og vildi gjarna ala yður son.

Er það sakir þess að þú elskar mig, að þú vilt ekki verða drotningin mín?

skáldlegur hugarburður aðdáunarfullra ritskýrenda, er skreyta vilja hana með djúpsóttum skýringum. Það er sagt svo skýrt, að um verður ekki deilt: »Hvárt mun Gunnari aldri hefnast þessi ójafnaðr?« spyr Höskuldur Hrút. »Eigi mun þat«, segir Hrútr, »hefnaz mun honum víst« (sbr. og fyrnefnd orð hans: »illa mun þér launat verða«, og ósk Höskulds: »njót þú nú sem þú hefir aflat« Nj. c. 24).

Og mér þykir líklegt, að sama sé hugsun höfundar, hákristins hugsjónamanns, um hörmuleg áhrif ráðs Njáls á örlög sjálfs hans og sona hans, að honum hafi hefnst fyrir brögðin, er hann beitti Hrút í málinu. En sá skilningur verður ekki ráðinn eins ótvírætt af sögunni og sú skýring, að Gunnari hafi komið í koll aðfarir sínar við Hrút. Honum virðist ekki hefnast fyrir, að hann lék á Hrút, heldur fyrir hólmgönguáskorun sína (smbr. orðið »ójafnaðr«), en á henni átti Njáll enga sök. Ósk Höskulds og spá Hrúts eiga eingöngu við Gunnar. Og segja má, að sagan hefði að líkindum gefið það í skyn á einhvern hátt, ef Njáll væri hafður þar í huga. En höf. fjölyrðir aldrei meira en þörf gerist — getur hafa þótt nægja að segja skýrt um Gunnar, að honum hefndist. Sama væri þá auðsætt um Njál. Mest list í að láta lesendur og heyrendur sögunnar ráða í þetta af rás atburðanna. Og ef menn fallast á þenna skilning, verður dásamleg eining í allri Njálu.

En skáldið vill áreiðanlega leiða oss fleira fyrir sjónir með frásögn sinni af ráðum Njáls. Ráð hans fara öll á sama veg, snúast öll honum og Gunnari til óhamingju. Hann ræður Gunnari að fara utan (c. 28). Af því hlauzt ógæfan mikla, hjónaband Gunnars og Hallgerðar. Fyrir ráð hans og meðmæli fær Þráinn Sigfússon Þorgerðar, dóttur Hallgerðar (c. 34). Af því náði Hallgerður tökum á honum. Fyrir bón hennar fór hann með Sigmundi að vígi Þórðar leysingjasonar (c. 41—c. 42). En af því hefst fjandskapur Njálssona og Þráins, er lauk þannig, að Skarphéðinn vó hann á Markarfljóti. En sonur Þráins og

Þorgerðar var Höskuldur Hvítanessgoði, er Njálssynir drápu. En af því supu þeir og Njáll banaseyðið. Af þremur fyrstu ráðum Njáls sprettur öll ógæfa í Njálu[1]). Enn réð hann Gunnari það heilræði að vega »aldri meir í hinn sama knérunn enn um sinn« (c. 55). Hugsunin er auðskilin: Því fleiri sár sem sami maður sló sömu ætt, því hættara var við hefndum. En þetta afbragðsráð hafði þveröfugan árangur við það, sem til var ætlað, varð einmitt til þess, að Gunnar vó tvisvar í sama knérunn. Mörður frétti ráðið og hagnýtti sér það, réð að koma Þorgeiri Otkelssyni í fjandskap og aðför að Gunnari, og stilla svo til, að Þorgeir félli fyrir honum, og það hepnaðist.

Sá les undarlega Njálu, er heldur, að höf. hafi verið annast um sögulegar staðreyndir, er hann samdi frásagnir sínar af ráðum Njáls. Þá væru þær að líkindum bæði þurrari og styttri. Höf. hefir ekki hirt samvizkusamlega um einstök sannindi né staðreyndir, heldur almenn lífssannindi. Öll ráð Njáls segja sömu harmsögu: Þótt mannleg vizka leggist djúpt, fær hún ekki »skygnst inn í hið hulda, sem nokkuð er fjær[2])«, ekki séð við ráðum skapanna né stíflað straum þeirra og veitt honum í annan farveg.

Líklega hefir Njáll verið mikill vin Gunnars og ráðunautur hans góður, bæði í málaferlum og fleiri efnum. Og ráðleitanir og ráðleggingar hafa víst tíðkast allmjög meðal vor og frændþjóða vorra í fornöld. Þá er menn voru ráðþrota — og það hefir ef til vill verið oftar en nú —, sneru þeir sér til þeirra, er gnótt áttu þar fyrir. Við

---

[1]) Nials tre första råd och hans sista — det är hans saga. Bååth, bls. 152.

[2]) Ef höf. hefði látið Njál á gamals aldri líta yfir ráð sín og tala við sjálfan sig um þau, hefði hann getað látið hann spyrja eins og Nikulás Baglabiskup í „Kongs-Emnerne" eftir Ibsen: Er menneskets klögt da så usel at det ikke mægter råde over andet og tredje led af sin egen gerning?" Þeir sem skrifað hafa beztu fornsögur vorar, hafa haft glögt auga á þessu, einkum höf. Njálu, og má telja líklegt að Ibsen hafi hugsast þetta fyrir áhrif af lestri þeirra.

þenna raunveruleik styðst frásögnin af ráðum Njáls. Og sama máli gegnir um ráðleitanir til Marðar og ráðagerðir hans.

— Lítum nú á lofun Gunnars og Hallgerðar. Þá er hann kom frá útlöndum, heimsótti hann Njál og kvaðst þá til þings ætla. Njáll latti hann farar — grunar, til hvers þingreið hans dregur. En hér fór Gunnar ekki að ráðum hans. Njáll getur nú ekki girt fyrir, að óhamingja renni af ráði hans (er hann réð Gunnari að fara utan).

Nú ríður Gunnar til þings. Hann skemtir sér þar hið bezta, honum er veitt mikil eftirtekt, og margir eiga tal við hann. Þá kemur ógæfan til hans — í gervi glæstrar konu. Frá því segir svo (Nj. c. 33):

„Þat var einn dag, er Gunnarr gekk frá Lögbergi. — Þá sá hann konur ganga í móti sér — ok váru vel búnar. Sú var í ferðarbroddi konan, er bezt var búin. — Enn er þau fundust, kvaddi hon þegar Gunnar. Hann tók vel kveðju hennar ok spurði, hvat kvenna hon væri. Hon nemndist Hallgerðr ok kvaðst vera dóttir Höskulds Dala-Kollssonar. Hon mælti til hans djarflega ok bað hann segja sér frá ferðum sínum. Enn hann kvaðst ekki varna mundu henni máls. Settust þau þá niðr ok töluðu. Hon var svá búin, at hon var í rauðum kyrtli — ok var á búningr mikill. Hon hafði yfir sér skarlazskikkju — ok var búin hlöðum í skaut niðr. Hárit tók ofan á bringu henni ok var bæði mikit ok fagrt. Gunnarr var í tignarklæðum þeim, er Haraldr konungr Gormsson gaf honum. Hann hafði ok hringinn á hendi, Hákonarnaut. Þau töluðu lengi hátt. Þar kom, er hann spurði, hvárt hon væri ógefin. Hon sagði, at svá væri, „ok er þat ekki margra at hætta á þat“, segir hon. „Þykki þér hvergi fullkosta?“ segir hann. „Eigi er þat“, segir hon, „enn mannvönd mun ek vera“. „Hversu munt þú svara, ef ek bið þín?“ segir Gunnarr. „Þat mun þér ekki í hug“, segir hon. „Eigi er þat“, segir hann. „Ef þér er nakkvarr hugr á“, segir hon, „þá finn þú föður minn“. Síðan skildu þau talit“.

Sumir trúa því, að Hallgerður hafi sagt frá bónorðinu og frásögnin síðan geymst. Þeir hafa það til síns máls, að fornþjóðir fóru ekki eins í felur með hvatir sínar og athafnir í kynferðisefnum og menningarþjóðir vorra tíma[1]). Lesendur fornsagna vorra muna víst, að riðið var stundum með álitlegu föruneyti í bónorðsfarir. En sleppum

[1]) Vedel, Helteliv, bls. 12—14.

öllum bollaleggingunum, hvort sagt hafi verið frá þessu launtali Hallgerðar og Gunnars. Aðalatriðið er, að fullkominn skáldbragur er á kaflanum. Efnið er þann veg vaxið, að það hefir, að kalla, frá ómunatíð verið bezta smíðaefni skáldanna, úr engu efni svo mjög smíðað sem því. Og það verður sennilega ljúflingsefni skálda eins lengi og skáldsögur verða samdar. Öll meðferð efnisins ber og með sér auðkenni góðs söguskáldskapar. Lýsingin er alment sönn. En það er »einkenni skáldlegra sýninga, að þær sýna oss alment í einstöku, mannlífsmynd á fám mönnum og athöfnum«, segir í þýzkum skáldskaparmálum[1]). Frásögnin af lofun Gunnars og Hallgerðar er ekki löng, en gerð af ekki lítilli list. Fyrst þarf að skýra, hví ástir þeirra hafi kviknað svo leifturfljótt, gera slíkt sennilegt. Í því skyni er fyrst sagt, að bæði hafi verið skrautbúin. Gunnar er í ágætu skapi, nýkominn frá útlöndum með gull og góðan orðstír. Þingheimur horfir á hann aðdáunaraugum. Hug hans fyllir fagnaðarmóður og sigurvíma, líkt og ungir menn og metnaðargjarnir komast í nú á dögum, er þeir hafa nýlokið prófi eða hlotið verðlaun Af þessu gengur viðræða við Hallgerði greiðara. Hann er og næmari á áhrif, er hugur hans hossast í slíku feginsróti. Snildarlega er sagt frá bónorðinu sjálfu, og verður þar sízt vilst á skáldskaparmarkinu. »Þau töluðu lengi hátt«. Vér ráðum oss til gamans í, að úr því hafi þau lækkað róminn. Höfundur Njálu er oftast naumur á orð. En vel sé slíkri nízku! Gunnar færir sig upp á skaftið hægt og hægt, þreifar gætilega fyrir sér, er ekki um hryggbrotið. Vér karlmennirnir finnum, að vér myndum fara líkt að, ef svipað stæði á. Og ætli kvenþjóðin kannist ekki við gætni Hallgerðar í svörum? Sagan gæti verið af lofun, er gerðist í gær.

Vér höldum áfram lestrinum og komum nú að þræladrápinu. Þar segir fyrst frá því, að Bergþóra móðgaði Hallgerði, af því að hún bað hana þoka úr sæti fyrir

---

[1]) Rudolf Lehmann, Deutsche Poetik Muenchen 1908, bls. 145.

tengdadóttur sinni. Í hefndarskyni lét Hallgerður drepa húskarl fyrir Bergþóru, en hún hefndi aftur, og gekk svo um hríð, að þær létu menn vega hvor fyrir annari. Þessi kafli virðist ekki eins ómissandi hlekkur í þeirri festi, er söguhetjurnar eru dregnar á ofan í djúpið, og flestir þættir sögunnar aðrir. Þó er sumt þar rökstutt, er síðar gerist í sögunni. Hallgerður getur ekki hafa unað því vel, að Gunnar vill ekki hefna þeirrar svívirðu, er hún þóttist bíða í boðinu á Bergþórshvoli, að hann sættist jafnan við Njál og dró allmjög taum hans og sona hans í orði. Hér byrjar því sú beiskja að gróa, sem ruddist út í firinverki hennar á banadægri Gunnars. Og af hennar völdum bólar hér á upptökum óvináttu Þráins og Njálssona. En þessi glæsilegi þáttur er samt ekki saminn sökum þessa. Aðalatriðið er þar vinátta Njáls og Gunnars, höfuðefni þess hluta Njálu, er kalla má Gunnarssögu. Styrkleik hennar á kaflinn að sýna. Útlendingur einn hefir ritað alllanga bók um Eglu og heldur því fast fram, að hún sé skáldrit. Því til stuðnings telur hann, meðal annars, hve vinskapur skipi þar mikið rúm. En slíkt auðkenni skáldrit, er í lifi menning herskárra fornþjóða, t. d. Ilionskviðu o. fl.[1]). Og nú sést, hví höf. lýsir svo rækilega hefnigirni og heiftarverkum Bergþóru og Hallgerðar, smámunasemi þeirra og þráa. Það kemur ekki til eingöngu af því, hve höf. hefir haft gaman af þessum eigindum þeirra og afrekum. Fjandskap þeirra notar hann bæði til prófunar á vinfengi Njáls og Gunnars og til samanburðar við sáttfýsi þeirra. List hans þurfti á andstæðum að halda, eins og list öll yfirleitt. Því smærri sem húsfreyjurnar á Bergþórshvoli og Hlíðarenda urðu og því grálegar og lengur sem þær fjandsköpuðust, því betur naut sín vinátta bænda þeirra, því skýrara sást veglyndi þeirra og drengskapur.

Af þessum greinum verður varla efað, að höf. hafi samið þenna þátt að nokkru, eftir því sem markmið hans og góð skáldlist heimtaði. Leynir sér og ekki skáldbragur á allri

[1]) A. Bley, Eigla-Studien. Gand 1909, bls. 73—74.

efnismeðferð, samtölum og skaplýsingum, öllu stilt þannig, að lunderni aðalmanna sögunnar komi sem bezt í ljós. Lundarfar Hallgerðar og Bergþóru sést t. d. á húskörlum þeirra, er þær sendu til víga. Vegendur Hallgerðar eru illmenni, trúa henni trauðla, reka erindi hennar tregir og möglandi. Húskarlar Bergþóru eru drengir betri, þykir vænt um húsmóður sína og fara fyrir hana fúsir á vettvang. Atla þykir betra að bíða dauða í húsi þeirra Njáls en »skipta um lánardrótna« (c. 38).

Öll er frásögn þessi af vinskap þeirra Njáls og Gunnars raunverulegs eðlis, mynd af fögrum þætti í lífi forfeðra vorra. Vinátta hefir vafalaust tengt menn stórum fastara þá en nú, er gerólík störf, áhugaefni og gagnstæðar skoðanir naga strengi hennar í sundur. »Njála er eitt hið mikilvægasta vitni þess, hvílíkur veigur var í vinfengi — því líka, sem hvíldi hvorki á mægðum né fóstbræðralagi — í fornnorrænu lífi«, segir Heusler.

Vér flettum Njálu áfram. Þá koma deilur Gunnars, bardagar og málaferli, er höfðu að lokum í för með sér sekt hans og víg. Hér drep eg á vígaferli hans.

Um Rangárbardaga Gunnars alla þrjá er það satt að segja, að þeir minna mjög á hernað hans og víking, líkur fornaldarsögublær á frásögn af hvorutveggja. Ef utanfarar-þáttur Gunnars er að mestu eða alveg »hreinn tilbúningur«, eins og Finnur Jónsson heldur og fyr getur hér, þá verður harla líklegt, að margt sé ýkt stórlega um vígaferli Gunnars hér heima, vopnfimi hans og hreysti, afrek hans ekki ótrúlegri í viðskiftum hans við víkinga en í bardögum við Rangá, enda líkt að orði komist í báðum frásögnunum, sem oftar hendir höfund Njálu. Í seinasta Rangárbardaga, þá er Þorgeir Otkelsson féll, segir t. d.: »Gunnarr snaraði svá hart skjöldinn, at spjótit brotnaði í falnum« (c. 72). Líkt er að orði komist, er sagt er frá því, er hann feldi Vandil: »Gunnarr snaraði hart skjöldinn, er sverðit festi í, og brotnaði sverðit undir hjöltunum« (c. 30). Lýsingar á Rangárbardögum minna og nokkuð hver á aðra. Í tveimur þeirra vegur Gunnar menn á loft upp

á atgeirinum og kastar báðum út á Rangá (c. 63, c. 72). Og í fyrsta bardaganum sló Gunnar öxi úr hendi Skamkels út á Rangá, líka með atgeirnum (c. 54). Rangá fékk því nokkra hressing í þeim öllum. — Einum hratt Kolskeggur og út á Rangá, Ögmundi flóka, er hann hafði höggvið fætur af honum. Eftirtektarvert er það, að Ögmundur þessi er ekki nefndur nema í þetta eina skifti, og meira vitum við ekki um hann, að sögn Finns Jónssonar. (Brennu-Njálssaga c. 72, bls. 158). En í Örvar-Oddssögu er getið manns með sama nafni, er kallaður var Eyþjófsbani, og svo er frá sagt: »Hann var svartr á háralit, og hekk flóki svartr mikill ofan fyrir andlitit, þat er topprinn skyldi heita.« (Örvar-Oddssaga í Altn. Saga-Bibliothek, Heft 2, c. 26).

Leikfimi- og bardagafróðari menn en ég verða að skera úr, hvort menskir menn fái unnið sum þau hreystiverk, er Gunnari eru eignuð, t. d. hvort hann hafi haft svigrúm til að henda mönnum út á Rangá, er margar hendur og vopn sóttu að[1]). Við Knafahóla er sagt, að Gunnar hafi varpað sér »skjótt til höggs við austmanninn ok sníðr hann sundr í miðju« (c. 63). Þetta kveður Steingrímur læknir Matthíasson ekki ná nokkurri átt (»Benrögn« »Skírni« 1916, bls. 284, smbr. bls. 286) og leiðir nokkur rök að. Hann telur dæmi þess, að rangt hljóti að vera sagt frá vígum bæði í Laxdælu og Njálu, sem stafi af rangri athugun«, t. d. að höfuð Kols Þorsteinssonar hafi nefnt tíu, »er þat fauk af bolnum.« (Nj. c. 158).

Annars kveikir sumt í frásögnum af vopnaviðskiftum Gunnars tortrygni af því, að þar gengur alt »eins og í sögu«, t. d. í orustunni við Knafahóla. Þar vill Gunnari það happ til að koma auga á Sigurð svínhöfða. Hann »skýtr til hans af boganum«. Sigurður »brá upp hátt skildinum, er hann sá örina hátt fljúga«. En hvað stoðar það? Ekkert fær stöðvað fljúgandi örina, er þaut gegnum aug-

---

[1]) Fleiri sagnir eru til af sama tæi, t. d. af Þórólfi Skalla-Grímssyni, (Egla c. 53).

að, »svá at út kom í hnakkann«. Annari ör skaut Gunnar þegar að ráðsmanni Starkaðar »ok kom sú á hann miðjan ok fell hann fyrir fætur búanda einum ok bóndinn um hann. Kolskeggr kastar til steini, ok kom í höfuð bóndanum, ok varð þat hans bani« (c. 63).

Í frásögnum þessum felst vafalaust sá sannleikur, að Gunnar hefir borið stórum af samtíðarmönnum sínum í vopnfimi og hreysti, ef til vill á líkan hátt og frábær frumleiksmaður ber af fjöldanum í andlegum efnum. Gunnari hlaut og að þróast mjög snarræði og vaskleikur, er hann varð við annan eða þriðja mann hvað eftir annað að berjast við miklu liðfleiri óvini.

Efa orkar og hin alkunna frásögn, að Hallgerður hafi synjað Gunnari lepps úr hári sér í bogastreng, en ekki af rökum sálfræðilegs eðlis. Njála veit löngum, hvað hún syngur þar. Hefnigirni er ein hin allra sterkasta hvöt eða hreyfiafl í lífi hernaðarþjóða á fyrstu menningarstigum þeirra. Og í öllum skáldskap um hetjur og hreystiverk, bæði norrænum og suðrænum, í ljóðum og lausu máli, er aðalefnið — hefndir. Í ógleymanlegri grimd birtist þessi máttuga hvöt, hefndargirndin, í svari Hallgerðar: »Þá skal ek nú muna þér kinnhestinn« o. s. frv. Ef eitthvað er hæft í sögunni, geta og fleiri rök hafa ráðið tiltektum hennar, en sagan lætur í veðri vaka. Konum er sárt um fegurð sína, ekki sízt ásthneigðum skrautkvendum, og hefir vafalaust kveðið meira að hégómadýrð formæðra vorra en kvenna nú á dögum. Hallgerði hefði efalaust þótt mikið fyrir að missa hárið. Enn gat það hafa ýtt undir hana, að fall Gunnars var fyrirsjáanlegt, enda segir hún ekki: »Hirði ek ekki, hvárt þú lifir lengr eða skemr,« heldur »verr þik lengr eða skemr.« En ytri rök fá efa um, að sönn sé sögnin. Björn leikfimiskennari Jakobsson hefir bent mér á, að hæpið væri, að nógu sterkur bogastrengur yrði snúinn úr lepp úr konuhári, að minnsta kosti á stuttri stundu[1]). Þó að hægt

[1]) Síðan þessi ritgerð var samin, hefir hr. B. J. bréflega látið sömu skoðun í ljós við mig og ritað góðar athugasemdir um frásagnir af af-

kynni að vera með góðum tækjum á nægum tíma að búa til nógu sterkan streng úr kvenmannshári, tækist slíkt fráleitt á augabragði, sem gera varð hér. Bogastrengir hafa orðið að vera nokkuð sterkir. Í þá var haft »harðtvinnað« hörband og stundum dýrasinar og dýraþarmar. (Björn Bjarnason: »Íþróttir fornmanna«, bls. 90). Og vafalaust hefir Gunnar þurft flestum fremur gildari streng. En ótrúlegt er, að kappinn á Hlíðarenda, bezti bogmaður landsins, er þá átti óvina von á hverri stundu, hafi ekki átt nema einn bogastreng eða annað efni í hann en hár konu sinnar. Vafasamt er og, að hann hefði haft svigrúm til að benda boga, ef strengur hefði bilað, þótt annar hefði verið til í staðinn, þar sem þakið var af skálanum og tugir óvina í höggfæri.

Annars er líklegt, að skotgögn Gunnars hafi bilað, að óhapp það hafi gagnað fjendum hans, en að það hafi gerst með öðrum hætti, en sagan segir. Eg ræð þetta af því, hve Njálu verður tíðrætt um brest þeirra og bilun. Gizur hvíti heldur, að hann eigi eftir fátt örva, af því að hann þreif eina ör óvina sinna — þeim til stríðni, og skaut að þeim Gizuri vex við það hugur og sigurvon og hefur sókn á

rekum Gunnars. Set eg hér kafla úr bréfi hans, með bessaleyfi: „Finst mér margt að athuga við frásagnir um afrek Gunnars. — — Hann (ɔ: Gunnar) er talinn frábær bogmaður og hæfði alt, er hann skaut til. Og boginn í höndum þess, er með kunni að fara, var afbragðsvopn, enda ber sagan með sér, að Gunnar hefir haft hann sem annað aðalvopnið, því að hann hafði hann með sér á ferðum sínum og varðist með honum, þegar ráðist var á hann. Þó dreg eg mikið í efa, að hann hafi verið jafnfimur bogmaður sem orð var á gert, því að lítill sýnist mér árangur af skeytunum. Þannig var það, er hann var veginn, að hann gat engum banað með boganum. Stóð þó í skjóli og óvinir hans á víðavangi. En marga særði hann. Litur því út fyrir, að hann hafi hvorki verið hæfinn né harðskeytinn, því að nærri gengu þó óvinir. En auðvitað var hann nógu mikill bogmaður til þess, að þetta vopn kom honum að ágætu liði. Því er óhugsandi annað, en að Gunnar hafi átt fleiri en einn boga eða, að minsta kosti, fleiri en einn streng.“ — — Merkilegt er, að Sigurður Breiðfjörð trúir ekki sögunni: — „Eg um það í efa geng — aðsóknin þó biði, — að brúðir hefði bogastreng — búið til að liði.“

nýjan leik. Auðvitað var þetta ramskakt ályktað. Gunnar skaut lengi af boganum eftir þetta. Síðan er bogastrengur hans höggvinn í sundur, og það ríður baggamuninn, að hann fær ekki streng í staðinn (sbr. orð hans við Hallgerði: »Líf mitt liggr við«). Og Eyrbyggja, er minnist lítillega á fall Gunnars, styrkir þessa ætlun mína. Þá er Snorri goði hygst að taka Björn Breiðvíkingakappa af lífi, lætur sagan hann komast þannig að orði: »Hefir lítt sózt at sækja afarmenni slíkt í hús inn«, — — »sem dæmi finnast at þeim Geir goða ok Gizuri hvíta, þá er þeir sóttu Gunnar at Hlíðarenda inn í hús með 80 manna, en hann var einn fyrir, ok urðu sumir sárir, en sumir drepnir, ok léttu frá atsókninni, áðr Geirr goði fann þat af skyni sjálfs sín, at honum fækkuðust skotvápnin« (Eyrb. c. 47). Njálu og Eyrbyggju greinir hér á: Í fyrsta lagi um tölu þeirra, er sóttu að Gunnari: Njála kveður þá 40 (eitt handrit 20), Hauksbók 30. Í öðru lagi var það ekki Geir goði, heldur Gizur hviti, sem hugði Gunnar skorta örvar. Í þriðja lagi virðist Eybyggja ætla, að Gunnar hafi í rauninni verið tæpur að skotvopnum — nefnir ekki hvaða. Af Njálu sést ekki annað, en hann eigi gnótt þeirra, nema bogastrengja, en við það á Eyrbyggja varla, er hún segir: »fækkuðust skotvopnin«. Sýnir þetta, að valt er að treysta sögunum í einstökum atriðum.

Landnáma nefnir hárskrúð Hallgerðar, en enga sögu, sem því er tengd. En ólíklegt er — þótt víst sé það ekki — að fræðimenn þeir eða fræðiþulur sá, er Landnáma má þakka smásögur sínar, forneskjulegar og áhrifamiklar í senn, hefðu slept svo afareinkennilegri sögu úr safni sínu, ef þeir hefðu heyrt hana. Og ótrúlegt er aftur, að jafneftirminnileg saga hefði ekki þeim til eyrna borist.

Heildarhugsun sögunnar hefir krafist þess, að Hallgerður veitti fjendum Gunnars aðstoð í síðustu vörn hans, sem seinna verður vikið að. Ekkert gat og betur sýnt Hallgerði og Bergþóru og mun þeirra en það, hversu þær reyndust mönnum sínum í dauða þeirra. Hallgerður neit-

aði bónda sínum um lepp úr hári sér. Óbeðin gaf Bergþóra sínum manni líf sitt.

Eg hefi nú leitt líkur að því um nokkur atriði úr sögu Gunnars, að þau séu skáldskap blandin, með skáldlegu ráði sögð, að slíkt sé, að minsta kosti, eðlilegasti skilningur á þéim. Og fleira má telja. Ekki veit eg, hvað er skáldskapur, ef lýsingin á rakkanum Gunnars, Sámi, er það ekki. Fögur er sú hundslýsing: »Hann er mikill ok eigi verri til fylgðar en röskr maðr«, segir Ólafur pái um hann. »Þat fylgir ok, at hann hefir manns vit; hann mun ok geyja at hverjum manni, þeim er hann veit, at óvinr þinn er, en aldri at vinum þínum; sér hann þó á hverjum manni, hvárt til þín er vel eða illa; hann mun ok líf á leggja at vera þér trúr« (c. 70). Það er tæplega tilviljun, að þessi lýsing kemur á eftir skáldskaparlegri frásögn af því, er Njáll varaði Gunnar við aðför þeirra nafna, Þorgeirs Starkaðarsonar og Þorgeirs Otkelssonar, er hann var einn heima á Hlíðarenda og ónýtti fyrirætlun þeirra og sneri henni í ósigur (c. 69). Myndin af Sámi lýsir vinarhug, er ímynd hans og almenn eðlislýsing vináttu og vinaþels.

Af list notar sagan atgeirinn. Hann boðar víg bæði skiftin, er Gunnar vegur í sama knérunn, er Njáll hafði varað hann við, enda komu þau víg honum á feigðarkné. Hans er síðar hefnt með atgeirnum og sýnir það — meðal fjölmargs annars — með hvílíkri íþrótt höf. fer með efni sitt[1]). Atgeirinn syngjandi á undan örlögþrungnum vígum fellur haglega í samræmi við frásöguaðferð Njálu, þar sem lesendur hennar grunar næstum alt, áður en það gerist. Hann verður lítt gleymanlegt líkamsgervi þessarar söguvenju, hvort sem höf. hefir ætlast til þess eða ekki. [Framh.]

[1]) Bååth, Studier, bls. 129.

*Sigurður Guðmundsson.*

# Shakespeare: „Bálför Sesars“.

[Julius Cæsar: Act III. Scene II.][1]).

Gestur íslenzkaði,
undir bragarhætti höfundarins.

---

*»Le ton fait la chanson«.*
(Franskur málsháttur).

*Forspjall.*

Andargift Shakespeares er heimskunn, málsnild hans er víðkunn, en bragsnild hans er lítt kunn: Þýðingarnar bera engan vott um neina rækt við þá miklu bragsnild þessa brezka meistara, sem lýsir sér í beztu leikljóðum hans, og — óhætt að segja — fremur óljósan vott um málsnild hans, um »mellifluous Shakespeare«, »the sweet swan of Avon«.

Þetta stafar af þeirri rótgrónu, voldugu venju, að meta þýðingar þeim mun betri sem þær eru »orðréttari«. Það hefir verið æðsta þýðinga-markmiðið, að ná orðrjettri afsteypu af frumritinu. Og að því leyti eru ýmsar Shakespearesþýðingar orðlögð völundarsmíði.

Hér er nýtt í efni: Þeirri fornfrægu »orðréttu nákvæmni« er afneitað, hiklaust og afdráttarlaust, og alt önnur »nákvæmni« látin sitja í fyrirrúmi: — 1) Hér er þess freistað af fremsta megni, að ná sannri, lifandi eftirmynd af málfæri, orðbragði, talsmáta höfundarins; en þá er oft úti um »orðréttu nákvæmnina«; það gamla keppikeflið getur þá orðið manni að fótakefli: Eng-

---

[1]) Um leikinn í heild sinni sjá grein þá er þýðingunni fylgir, bls. 106. Hefir cand. Bogi Ólafsson ritað hana fyrir Skírni. Ritstj.

in tvö tungumál eru eins í vexti, eins í orðalaginu; og þó það gangi fjöllunum hærra, að urmull orða í hverjum tveim tungumálum séu sammerkingar, hvað sem um er að ræða, þá er, ef satt skal segja, harla vafasamt, hvort slíks eru nokkur dæmi; ef einhver segir: »hún« = »she«, = »elle«, þá segir hann satt og ekki satt, hálfan sannleik, ekki fullan. — 2) Hér er það annað nýtt í efni, að kveðandi höfundarins er fullur sómi sýndur. Er þetta sennilega fyrsta tilraunin í þá átt, að »þýða« braglistina í leikljóðum Shakespeares. Í þeim leikljóðahætti (»blank verse« — lauskvætt) hafa engin skáld komist neitt til jafns við Shakespeare, hvorki fyr né síðar; en hvernig sem á því stendur, þá er ekki um að villast: bragsnild hans hefir ekki verið metin að verðleikum: ágætustu og víðfrægustu þýðingarnar eru yfirleitt kveðnar á jafnagangi frumháttarins — lon og don — »the right butterwomans rank to the market«. Og þó er það enginn ókleifur vandi að temja sér og ná allri tilbreytninni í kveðandi Shakespeares. Er þessi þýðingar-tilraun ávöxtur af allnáinni rannsókn á kveðandi hans, og látin af hendi í vonleysi um tómstundir til að vinna úr þeim aðdráttum. Hér var að sjálfsögðu ekki lögð stund á þá óþörfu, hugsunarlausu nákvæmni, að kveða hverja lotu á sama gangi og í frumkvæðinu; tjáir ekki að tala frekar um það mál.

Nú er alþýða manna orðin því vön að »strokka« öll lauskvæð ljóð, hefir ekki heyrt alla tilbreytnina í syngjandi Shakespeares, veit ekki af henni, veit ekki hvílíkan listarauka þar er um að ræða. Þess vegna eru hér höfð framburðarmerki við þær loturnar þar sem brugðið er út af vanaganginum, á Shakespeares vísu. En þess ber vel að gæta, að merkin eru mjög lauslegar bendingar; því má ekki gleyma[1]).

---

[1]) Í (⏊ ⏊) t. d. er (⏊) iðulega lengra í framburði en (–) í (⏊ ⏑ ⏑) eru hlutföllin harla breytileg. En kveðandin er gangrétt engu að síður — í eyra manns, ef rétt er þulið (ɔ: eftir orðum og efni).

(—) er ≦ 𝅗𝅥 ɔ: sviplangt og 𝅗𝅥
(–) — — ♩ . — — ♩
(⏑) — — ♪ . — — ♪
(⏒) — — 𝅘𝅥𝅯 . — — 𝅘𝅥𝅯
(c. 160—240 MM. — ganghraðinn misjafn, »acceler.« »ritard.«, líkt og í söng).

( ' ) yfir dráttarmerki táknar áherslu. En því má aldrei gleyma, að áherslurnar eru mjög mis-harðar.

Um lagið sjálft, háttar lagið (»melodia«; sbr. »Fornyrðis-lag«, «Lilju-lag«), þann höfuðgaldur, tjáir ekki að tala hér; engin tök á að »tákna« lagið.

Þýðingin er gerð eftir þessum útgáfum:

1. *Julius Cæsar.* Edited by *W. A. Wright.* Oxford 1901.
2. *Julius Cæsar.* Edited by *A. W. Verity.* Cambridge 1912.

Nú hefir menn, veit eg, greint á um ýmsar setningar í þessum þætti, sem hér er íslenzkaður, skilið þær á tvo vegu eða fleiri; en sá ágreiningur varðar þó hvergi miklu, nema á alls einum stað: í viðræðu bæjarmanna þegar Anton »hættir og bíður«; þar skiftir miklu um skilninginn á fyrra tilsvari 2. bæjarmanns; í frumritinu stendur: »*Cæsar has had great wrong*«, og 3. bæjarmaður gellur við: »Has he, masters? . . . «. — Málvinir mínir, allir nema einn *(Mr. André Courmont)*, eru mér ósamdóma, segja hugsunina þessa: »Sesar hefir sætt miklum rangindum (ɔ: honum hefir verið gert margt rangt til);« er svo að sjá, sem all-flestir hafi skilið setninguna á þá leið. En hér er á tvent að líta, það fyrst að »to have wrong« gat í Shakespeares tíð átt sammerkt við frönsku orðin »avoir tort«;[1]) og þá rekur að hinu sem alt á veltur: Mér hefir orðið mjög starsýnt á bæjarmennina fjóra; mér er sem eg sjái þá og heyri — eins og eg væri þeim gagnkunnugur; svo snildarlega hefir Shakespeare gert þá úr garði; og — það leynir sér ekki, ef að er gáð: 2. bæjarmaður er harla ólíkur hinum þremur að skapsmunum, og það á þann hátt, að eg get ekki ætlað honum að hvarfla alveg eins

---

[1]) Við Íslendingar segjum líka: „hafa rangt við“, „hafa rangt í frammi“ o. fl.

fljótt og hinum frá trúnni á ráðvendni Brútusar og rangindi Sesars; en hitt er honum líkt að kenna strax í brjósti um Anton, þegar hann sér »glóðrauð augun af gráti«.

Eftirá: Prentun á »Bálför Sesars« drógst úr hömlu. Og nú hefir Professor Philosophiæ, Dr. phil. *Á. H. Bjarnason* gert mér þann vinargreiða að líta á þetta umtal mitt, og alla þýðinguna, og frumritið. Og »Eg er«, segir hann »í engum vafa um það, að yðar þýðing (ɔ: á orðunum: »Cæsar has had great wrong«) er rétt, þótt hin merkingin sé tíðari í nútíðarmáli«. En eg bað hann að bera um þetta vafamál frá sjónarmiði sinnar höfuðvísindagreinar (sálarfræði). Leyfir hann mér að láta sín við getið; röksemdir hans fara í sömu átt og mínar, en miklu ítarlegri og yfirgripsmeiri, og munu til taks, ef þörf gerist síðar meir.

*Gstr.*

## Julius Sesar:

### Þriðju viðskifti; annar fundur.

### A höfuðtorginu í Róm.

(*Brútus* kemur og *Kassjus* og flokkur bæjarmanna).

*Bæjarmenn:*

Fær okkur heim sanninn. Við heimtum sanninn.

*Brútus:*

Komið þá, vinir, hér og heyrið orð mín.
Kassjus, þú heldur áfram yfir um torgið
með helming fólksins.
Þeir sem hallast að mér, þeir verða eftir;
þeir sem ætla með Kassjus, þeir halda áfram;

og skal nú lýsa sökum þeim er urðu
Sesar að falli.

*1. bæjarmaður:*
Bezt eg hlusti á Brútus.

*2. bæjarmaður:*
En eg á Kassjus. Komum svo á eftir
og vitum hvort þeim segist eins frá öllu.
(*Kassjus* fer og sumir bæjarmanna. Brútus stígur í ræðustólinn).

*3. bæjarmaður:*
Hann Brútus góður er uppi. Höfum hljótt.

*Brútus:*
Hlustið á orð mín öll.
Rómverjar, landar mínir og vinir!
Heyrið mér, munið málefni mitt, og hafið hljótt, svo þið heyrið; trúið mér, munið heiður minn, og látið mig njóta heiðurs míns, svo þið trúið; berið mér eftir beztu vitund, og hyggið vel að, svo þið verðið því bærari um að dæma.

Ef sá er hér nokkur, sem var ástvinur Sesars, þá má hann vita að sízt unni Brútus Sesari minna en hann. Mun þá sá vinurinn spyrja hvers vegna Brútus reis í móti Sesar, en eg mun svara: ekki af því eg ynni Sesar miður; sökin var eg unni Róm betur.

Mynduð þið fremur kjósa Sesar á lífi, og deyja allir í ánauð, en Sesar dauðan, og lifa frjálsir menn.

Sesar unni mér, því græt eg hann; hann var gæfumaður, því tek eg glöðu geði; hann var hreystimaður, því flyt eg hrós um hann; en hann var valdagjarn, og því vóg eg hann. Koma þá tár móti ást hans, gleði móti gæfu, hrós móti hreysti, en víg móti valdafíkn.

Hver er hér svo þýlyndur, að þrælsnafn vilji bera? Segi til, ef til er; hann á sök við mig.

Hver er hér sá ruddi, að ekki vilji hann Rómarekkur heita? Segi til, ef til er; hann á sök við mig.

Hver er hér það afskúm, að vilja ekki elska ættjörð sína. Segi til, ef til er; hann á sök við mig.

Eg bíð, eftir svari.

*Allir:*

Enginn, Brútus, enginn.

*Brútus:*

Þá á enginn sök við mig.

Það eitt hefi eg haft í frammi við Sesar, sem þið skuluð við Brútus.

Vígsmálið Sesars er reifað og skráð á Borgarhól; engu leynt um afrek hans; né ofsögum sagt af ávirðingum hans, sem urðu honum til falls.

(*Anton* kemur og fylgd manna með *lík Sesars*).

Þarna koma þeir með líkið. Markús Anton fylgir: Hann var ekkert við vígið riðinn; mun þó njóta góðs af því, eiga uppreisn vísa; mun ekki svo um hvern ykkar?

Að skilnaði kveð eg svo að orði: eg bar vopn á bezta vin minn til að bjarga Róm; það sama vopnið hefi eg handbært á sjálfan mig, nær sem ættjörð minni hugnast þörf dauða míns.

*Allir:*

Heill, Brútus, heill, heill!

–́ ⏑⏑, –́ ; –́ !

*1. Bæjarmaður:*

Göngum í sigurhersing heim með honum.

*2. Bæjarmaður:*

Komum upp mynd af honum hjá feðrum hans.

–́ ⏑ ⏑ –́ – –́ ⏑͡⏑ –́ – –́ o

*3. Bæjarmaður:*

Gerum hann Sesar.

*4. Bæjarmaður:*

Sesars beztu kosti

konunga skal í Brútus.

*1. Bæjarmaður:*

Leiðum hann heim og æpum siguróp.

*Brútus:*

Heyrið þið, landar.
⊥ ⏑ ⏑ ⊥ —o

*2. Bæjarmaður:*

Þey! Það er hann Brútus.
⊥ ! ⊥ ⏑ ⏑ ⊥ ⏑o

*1. Bæjarmaður:*

Þei þei!
⏑ ⊥ !

*Brútus:*

Heyrið mér, landar, leyfið eg fari einn,
gerið það, verðið eftir hér hjá Anton.
Virðið nú Sesar látinn, einnig Anton
og lofsorð hans um Sesar, sem við höfum
leyft að hann mæli hér af munni fram.
Eg beiðist þess, að allir bíði og hlýði
á ræðu Antons, allir nema eg.

(Hann fer).

*1. Bæjarmaður:*

Hæ kyrrir! Hinkrum við, hlustum á Anton.
— ⊥ —! ⊥ — ⊥, ⊥ ⏑ ⏑ ⊥ — o

*2. Bæjarmaður:*

Látum hann komast áfram upp í stólinn;
heyrum svo. — Anton góður, stígðu' í stólinn.
⊥ ⏑ ⏑o ⊥ — ⊥ — ⊥ — ⊥ — o

*Anton:*

Eg þakka fyrir, það á Brútus skilið.

(Stígur upp í ræðustólinn).

*4. Bæjarmaðnr:*

Hvað segir hann um Brútus?
⏑ ⏑⊥⏑ ⏑⌢⏑ ⊥ ⏑?

*3. Bæjarmaður:*

Að Brútus eigi skilið
⏑ ┴ — ┴ — ┴ ⏑
hann þakki okkur öllum fyrir eitthvað.

*4. Bæjarmaður:*

Hollast hann tali hægt um Brútus hér.

*1. Bæjarmaður:*

Sesar var þjóðarböðull.
┴ ⏑ ⏑ ┴ — ┴ ⏑ o

*3. Bæjarmaður:*

Já, það er satt;
⏑ ┴ — ;┴ ,
og sönn blessun að hann er burt úr Róm.
⏑ ┴ ┴ ⏑ ⏑ ┴ — ┴ — ┴ o

*2. Bæjarmaður:*

Þei! Hlustum, heyrum nú hvernig Anton tekst.
— ! ┴ — ┴ ⏑ ;⏑ ┴ — ┴ — ┴ o

*Anton:*

Höldar í Róm.
┴ ⏑ ⏑ ┴ o

*Bæjarmenn:*

Þei, þei! Heyrum til.
— ┴ ! ┴ — ┴ o

*Anton:*

Vinir, landar í Róm, ljáið mér hljóðs;
┴ —, ┴ ⏑ ⏑ ┴ , ┴ ⏑ ⏑ ┴ ;
ég leita Sesar legs, en ekki lofs.
Það ljóta í fari manna lifir þá;
það góða títt fer sömu leið og líkið;
látum það svo um Sesar. — Brútus góður
bar ykkur vitni um valdagræðgi Sesars:

Væri það rétt, þá var það ljótur galli;
og ljótlega hefir Sesar goldið hans.
Eg kem hér — Brútus bauð mér það, og hinir,
því Brútus, hann er mesti heiðursmaður;
eins hinir allir, allir heiðursmenn —
kem hér á torg að tala um Sesar látinn.
Vin átti' eg þar, trúan og traustan vin:
–́ ⏑ ⏑ –́, –́ ⏑ ⏑ –́ – –́:
En Brútus ber hann væri valdagjarn;
og Brútus, hann er mesti heiðursmaður.
Hann færði marga fanga heim í Róm
og friðgjöld þeirra runnu í bæjarsjóð:
Hvort bar það vott um valdagræðgi Sesars?
Kvæðu við sultarkvein, Sesar, hann grét:
–́ ⏑ ⏑ –́ – –́, –́ ⏑, ⏑ –́:
Valdafýkn skyldi skap-harðari' en svo.
–́ ⏑ ⏑ –́ – –́ –́ ⏑ ⏑ –́ o
En Brútus ber hann væri valdagjarn;
og Brútus, hann er mesti heiðursmaður.
Þið munið allir, það var hér á þingi,
að þrisvar bauð eg honum konungstign,
fekk þrisvar afsvar: Var það valdagræðgi?
En Brútus ber hann væri valdagjarn;
og það er víst, að hann er heiðursmaður.
Að rengja Brútus ber eg ekki við,
eg ber það eitt, sem mér er kunnugt um.
Þið unnuð honum fyr, sem von var til,
og von eg spyrji: Hvar er harmur ykkar?
Mannvit, þú ert í manneygð skrímsli horfið,
en menn af viti gengnir. Vægið mér;
hjartað er horfið, lagst hjá líki Sesars;
eg hætti' og bíð heimkomu þess til mín.
⏑ –́ ⏑ –́ –́ ⏑ ⏑ –́ – –́ o

*1. Bæjarmaður:*

Mér finst hann hafa rétt að mæla í mörgu.

*2. Bœjarmaður:*

Hyggir þú að, þá hlýtur þú að sjá:
Sesar var rangs-leitinn.
—́ ◡ ◡ —́ —́ — o

*3. Bœjarmaður:*

Var hann, vinir?
—́ — —́ ◡?
Mig grunar að sá næsti verði verri.

*4. Bœjarmaður:*

Tókuð þið eftir. Ekki þáði' hann kóngstign;
svo það er víst: Valdagjarn var hann ekki.
◡ —́ — —́: —́ ◡ ◡ —́ — —́ ◡ o

*1. Bœjarmaður:*

Ef það sannast, mun ýmsum illa vært.
◡ —́ —́ ◡, ◡ —́ — —́ — —́ o

*2. Bœjarmaður:*

Ósköp að sjá! Glóðrauð augun af gráti.
—́ ◡ ◡ —́! —́ — —́ ◡ ◡ —́ ◡ o

*3. Bœjarmaður:*

Já, Antons líki er enginn hér í Róm.

*4. Bœjarmaður:*

Heyrið, hann tekur til, tökum nú eftir.
—́ ◡, ◡ —́ — —́, —́ ◡ ◡ —́ — o

*Anton:*

Hann Sesar sem með einu orði í gær
staðist hefði' allan lýð: liggur nú hér,
—́ ◡ ◡ —́ ◡ —́: —́ ◡ ◡ —́,
aumari' en hver af þeim, er virða' hann viðlits.
En færi eg að æsa ykkur upp,
reita til reiði, vekja rimmu og róstu,
þá myndi' eg móðga Brútus, móðga Kassjus,
sem, eins og kunnugt, eru heiðursmenn.

Það má eg sízt, að móðga þá; vil fremur
móðga þann látna, móðga mig og ykkur,
heldur en slíka heiðursmenn eg móðgi.
En hér er bréf — innsigli Sesars undir,
◡ —́ — —́ , —́ ◡ ◡ —́ — —́ —,
erfðabréf Sesars: sjálfur fann eg það.
Ef borgarmönnum bærist þetta skjal,
— en virðið vel, eg birti ekki bréfið, —
myndu þeir koma og kyssa benjar Sesars,
og rjóða tröf sín í hans dýra dreyra,
já, biðja um hár af höfði hans til minja,
og minnast þess á dánardægri sínu,
láta það ganga, eins og ættargiftu,
mann fram af manni.

*4. Bæjarmaður:*

Láttu' okkur heyra, lestu bréfið, Anton.

*Allir:*

Við viljum heyra bréfið! bréf Sesars!
—́ ◡ ◡ —́ — —́ —! —́ —́ ◡ !

*Anton:*

Það má eg ekki; hægir, vænu vinir;
◡ —́ — —́ —; —́ —, —́ — —́ ◡;
Eg hlýt að þegja' um hug Sesars til ykkar.
◡ —́ — —́ — —́ —́ ◡ ◡ —́ — o
Enginn er staur, enginn er steinn, en maður;
—́ ◡ ◡ —́ , —́ ◡ ◡ —́ , — —́ —;
menn eruð þið: V[illegible]ð þið vilja Sesars,
—́ ◡ ◡ —́ : —́ ◡ ◡ —́ — —́ —,
mynduð þið tryllast, allir verða óðir:
Hepni' að þið vitið ekki' um arfinn ykkar;
því ef þið vissuð — þá er vant að vita.

*4. Bæjarmaður:*

Við viljum heyra bréfið, lestu bréfið;
við heimtum bréfið, Anton, bréf Sesars.
◡ —́ — —́ —, —́ —, —́ —́ — o

*Anton:*

Viljið þið slaka til? Viljið þið bíða?
–́ ⏑ ⏑ –́ – –́? –́ ⏑ ⏑ –́ ⏑?
Eg hljóp á mig, átti' ekki' að nefna bréfið:
⏑ –́ –́ –, –́ ⏑ ⏑ –́ – –́ ⏑:
Eg óttast þessa heiðursmenn eg móðgi,
sem hafa myrt Sesar; eg óttast það.
⏑ –́ – –́ –́ ⏑; ⏑ –́ – –́ o

*4. bæjarmaður:*

Þessa fanta: Kalla þá heiðursmenn!
–́ – –́ –: –́ ⏑ ⏑ –́ – –́

*Bæjarmenn:*

Já, bréfið! erfðabréfið!

*2. bæjarmaður:*

Þeir voru bófar, böðlar; bréfið! lestu bréfið. —

*Anton:*

Ætlið að þvinga mig að birta bréfið?
Sláið þá hring, þarna í kringum líkið;
–́ ⏑ ⏑ –́, –́ ⏑ ⏑ –́ – –́ –;
látið mig svo sýna' ykkur höfund bréfsins.
–́ ⏑ ⏑ –́ –́ ⏑ ⏑ –́ – –́ – o
Má eg það? — Má eg þá koma niður?
–́ – –́? –́ ⏑ ⏑ –́ – –́ –?

*Allir:*

Flýttu þér niður.

*2. bæjarmaður:*

Niður.

*3. bæjarmaður:*

Þú mátt.

(Anton fer niður).

*4. bæjarmaður:*

Í hring; sláið hring.
— —̇ ; —̇ — —̇ o

*1. bæjarmaður:*

Fjær börunum, burt frá líkinu.
⏑ —̇ ⏑ ⏑, —̇ — —̇ ⏑ ⏑ o

*2. bæjarmaður:*

Burt, svo hann Anton komist, öðlingsmaðurinn.
—̇, ⏑ ⏑ —̇ — —̇ —, —̇ — —̇ ⏑͡⏑ ⏑ o

*Anton:*

Þið eruð en of nálægt; farið fjær.

*2. bæjarmaður:*

Farið frá; fljótt! Hliðrum til.
—̇ — —̇; —̇ ! —̇ — —̇ o

*Anton:*

Hver sem á tár, tygi sig nú til gráts.
—̇ ⏑ ⏑ —̇, —̇ ⏑ ⏑ —̇ — —̇ o

Skikkjuna þekkið þið; en það man eg,
er fyrsta sinni Sesar hana bar;
það var eitt sumarkvöld, hann sat í tjaldi,
en allur Nerva-her lá úti, í valnum.
Sjáið, þarna rak Kassjus kutann sinn,
og þessa glufu á Kaska, klækjarefur:
en hérna lagði góða barnið Brútus;
og þegar hann dró bannsett blaðið út,
⏑ —̇ ⏑ ⏑ —̇ —̇ — —̇ — —̇,
stökk dreyri Sesars, sjáið, út á eftir,
eins og um dyr, að skygnast um í skyndi,
hvort Brútus hefði barið svona hart;
því Sesar unni Brútus eins og barni:
það vitið þið, það vita guð og menn!
Þetta var versta, lang-versta lagið;
—̇ ⏑ ⏑ —̇ —, —̇ —̇ — —̇ ⏑;

því þegar Sesar sá hann reiða vopnið,
það ræktarleysi, sjöfalt verra en svik,
fekk bugað hann: þá brást hans hrausta hjarta.
Huldi' hann nú skikkjufaldi höfuð sitt,
og rétt við stallann undir steinmynd Pompejs,
sem flóði' í blóði þá — þar féll hann Sesar.
Og hvílíkt voðafall! Því vitið, landar,
að eg og þið, við allir féllum þar,
en blóðug svikin brutust þá til valda
Eg sé þið grátið; get, að ykkur taki
að hitna' í skapi: Hrynjið hlýju tár!
En veslir menn, því grátið þið, þó göt
sjáist á skikkju Sesars? — Lítið hér
(Sviftir skikkjunni af líkinu).
hans liðið lík, lemstrað, öll verksummerkin.

*1. bæjarmaður:*

Þvílík hörmung.

*2 bæjarmaður:*

Þvílíkur höfðingi' og Sesar.

*3. bæjarmaður:*

Þvílíkur ólánsdagur.

*4. bæjarmaður:*

Þvílíkir erkibófar.

*1. bæjarmaður:*

Þvílíkur vættvangur.

*2. bæjarmaður:*

Hér þarf að hefna.

*Allir:*

Hefnum! Á stað! Leitum! Brennum! Brælum!
Vegum! Drepum! Vægjum engum fantinum!

*Anton:*

Bíðið þið, landar.

*1. bæjnrmaður:*

Þei þarna! Hlýðið orðum höfðingjans.
— ⏊ —! ⏊ — ⏊ — ⏊ — ⏊ o

*2. bæjarmaður:*

Já, hlýðum honum, fylgjum honum, föllum með honum.

*Anton:*

Nei, ljúfu vinir, látið ekki orð mín
æsa' upp í ykkur slíkan hefndarhug.
Þeir eru heiðursmenn, sem þetta gerðu:
Um sakarefni hvers eins veit eg ekki;
en veit þeir eru hyggnir heiðursmenn,
og verður eflaust öllum greitt um svör.
Grunið mig ekki um græsku, góðir hálsar:
er enginn mælskumaður, eins og Brútus;
er hreinn og beinn, þið þekkið mig að því,
og harma vin minn; þetta vita þeir,
sem leyfðu mér að tala um hann á torgi:
Því eg hef hvorki vit, né orð, né æði,
prúðmensku, raust, né nokkurn mælskumátt,
að hleypa hita í menn: Eg tala bert,
eg tala um það, sem engum ykkar dylst:
sýni' ykkur sár Sesars, þá hljóðu munna,
⏊ ⏑ ⏑ ⏊ ⏊ ⏑, ⏑ ⏊ — ⏊ ⏑,
og fel þeim málstað minn: En væri' eg Brútus,
og Brútus Anton, þá myndi hann Anton
⏑ ⏊ — ⏊ —, ⏊ ⏊ ⏑ ⏑ ⏊ —
gera' ykkur ærða, og orka því að leggja
sárum Sesars þau orð í munn, er myndu
⏊ — ⏊ ⏑ ⏑ ⏊ — ⏊ , — ⏊ ⏑
hvern stein í Róm til rimmu vekja og róstu.

*Allir:*

Vekjum róstu.

*1. bæjarmaður:*

Berum eld að Brútus.

*3. bæjarmaður:*

Fljótir, á stað! Förum og eltum fantana.
–́ ⏑, ⏑ –́ ! –́ ⏑ ⏑ –́ – –́ ⏑͡⏑ o

*Anton:*

Heyrið þó, landar, heyrið þó til mín.

*Allir:*

Þei þei! Hlustum á Anton. Heill! Anton.
– –́ ! –́ ⏑ ⏑ –́ – o –́ ! –́ – o

*Anton:*

Þið vitið ekki, vinir, hvað þið gerið:
Hvers hefir Sesar unnið til af ykkur?
Þið vitið ekkert — verð að segja það:
Þið hafið gleymt, eg gat um bréf, um arf.

*Allir:*

Veláminst; bréfið! bíðum, heyrum bréfið.

*Anton:*

Bréfið er hér, innsigli Sesars á,
–́ ⏑ ⏑ –, –́ ⏑ ⏑ –́ – –́,
og hverjum einum Rómarekk hann gefur,
hverjum um sig: sjötíu’ og fimm drökmur.
–́ ⏑ ⏑ –́: –́ ⏑ ⏑ –́ –́ – o

*2. bæjarmaður:*

Höfðinginn Sesar! Skulum hefna hans.

*3. bæjarmaður:*

Hann Sesar, konungsmakinn!

*Anton:*

Verið kyrrir.

*Allir:*

Þei þei!

*Anton:*

Lundinn hans líka, hérna megin Tíber,
skrúðgrænu rjóðrin, skógargöngin fögru!
Það fáið þið í arf, og ykkar niðjar
um allan aldur, — megið upp frá þessu
reika þar út og inn og yndis njóta:
Sesar er nár! Nær kemur annar slíkur?
⊥ ⏑ ⏑ ⊥! ⊥ ⏑ ⏑ ⊥ — ⊥ —?

*1. Bæjarmaður:*

Aldrei, aldrei. — Fljótir, á stað, á stað!
⊥ —, ⊥ — o ⊥ ⏑, ⏑ ⊥, — ⊥!
Brennum nú lík hans hér í helgum reit,
og eldum með þeim eldi að öllum föntunum.
⊥ ⌒ ⌒
Hefjið líkið á loft.
⌒ ⌒ ⊥ ⏑ ⏑ ⊥

*2. Bæjarmaður:*

Röskir að ná í eldinn.
⊥ ⏑ ⏑ ⊥ — ⊥ — o

*3. Bæjarmaður:*

Rífum bekki.
⏑ ⏑ ⊥ — o

*4. Bæjarmaður*

Rífum palla, ljóra, laust og fast.
⌒ ⌒ ⊥ — ⊥ — ⊥ — ⊥ o

(Bæjarmenn fara með líkið).

*Anton:*

Sjáum hvað setur. Fár, þú ert á ferli,
–́ ⏑ ⏑ –́ – o –́, –́ ⏑ ⏑ –́ –,
farðu' á land hvert þú vilt!
–́ ⏑ ⏑ –́ – –́!

(Sveinn Oktafs kemur).

Hvað nú, sveinki!
⏑ –́, –́ –!

*Sveinninn:*

Oktaf er kominn alla leið í Róm.

*Anton:*

Hvar er hann?

*Sveinninn:*

Þeir eru í húsi Sesars, hann og Lepid.

*Anton:*

Og þangað fer eg rakleitt heim til hans.
Hann kemur eftir ósk. Gæfan er glettin,
– –́ – –́ – –́ o –́ ⏑ ⏑ –́ ⏑,
svo glöð í bragði, að alt mun ganga' að óskum.

*Sveinninn:*

Eg heyrði' hann kvað þá, Brútus og Kassjus, farna
sem flugumenn á flótta burt úr Róm.

*Anton:*

Bjóst við þeir kynnu' að finna' að eg hef fundið
fólkið að máli. — Fylg mér, sveinn, til Oktafs.

(Þeir fara).

---

## W. Shakespeare

**fæddist 1564; og dó 1616.**

Hann ritaði leikinn: Julius Cæsar skömmu eftir aldamótin 1600. Efni leiksins er tekið úr sögu Rómverja, á árunum 44—42 fyrir Krists burð, úr æfisögusafni frægra

manna grískra og rómverskra, er samdi Plutarchus, grískur fræðimaður, er lézt um 120 árum eftir Krists burð. Þessu æfisögusafni var snúið á ensku, og gefið út fyrsta sinni árið 1579.

Í upphafi leiksins getur þess, hve Cæsar sé vinsæll af alþýðu manna. Hins vegar má og sjá, að lýðveldissinnar hafa ilt auga á honum, enda ber mjög á því í viðræðum alþýðustjóranna við iðnaðarmennina á götunni. Þeir eru og margir í Rómaborg smeykir um, að Cæsari verði boðið konungsnafn á Lúperkalshátíðinni (í febrúar 44 árum f. Kr.).

Brútus er einn af aðalmönnum leiksins, hinn mætasti maður, en gallharður lýðveldissinni. Hann er að vísu kær vinur Cæsars, og dáist mjög að honum, en hyggur, að hann muni konungur vilja verða, enda kunnugt um metorðagirnd hans; þykir honum þetta ærið ilt, og er næsta óráðinn í því, hvað gera skuli lengi vel.

Þessa óánægju Brútusar færir nú Cassius sér í nyt, hatursmaður Cæsars; elur á óánægjunni annars vegar, en skjallar Brútus öðrum þræði; og reynir að telja hann á að ráða verði Cæsar af dögum, heldur en að gerast ánauðugir þrælar hans. Cassius aflar sér margra annara fylgismanna, og neytir síðan allra bragða til þess að fá Brútus algerlega á sitt mál; tekst honum þ tta von bráðar, sumpart með fortölum sínum, sumpart með rituðum áskorunum, er víða verða fyrir Brútusi, og Cassius hefir sjálfur samið; kemur þá svo, að Brútus þykist ekki lengur geta látið afskiftalausan Cæsar og mál hans, er hann hyggur, að beztu menn Rómaborgar biðji sig liðs. Þá er samsærið gert, og er Brútus sjálfkjörinn höfðingi flokksins, því að hann hefir almennings orð á sér. Er þessu næst afráðið að teygja Cæsar til Capitólshæðar og myrða hann þar, en jafnframt bannar Brútus að drepa Anton, vin dyggan Cæsars, og þykir þó mörgum óviturlega ráðið. Cæsar fær pata nokkurn af samsærinu, enda ganga spár allar geigvænlega illa, en þó ræður hann af að fara til Capitóls-

hæðar, og er þá þegar myrtur, er þangað kemur. Þá fyrst fer til muna að bera á Anton þeim, er áður var nefndur, þriðja aðalmanni leiksins; fær hann leyfi Brútusar til þess að flytja ræðu yfir líki Cæsars á torginu, þótt bandamönnum Brútusar þyki þetta hið mesta óráð. En Brútus uggir ekki að sér. Þeir halda nú til torgsins og flytur Brútus ræðu, og lýsir víginu og hvað til þess bar, gengur hann þá í brott, en til kemur Anton, talar all-langt mál, og æsir lýðinn mjög gegn morðingjum Cæsars. Þessar ræður, er þótt hafa með því fegursta, er samið hefir verið af því tæi, hvor á sinn hátt, eru nú þýddar á íslenzku hér að framan. Við ræðu Antons ærist skríllinn svo mjög, að banamönnum Cæsars verður eigi vært í Rómaborg. Þessu næst er stofnað þrístjóraveldi hið síðara, og eru í því Octavianus, Anton og Lepidus.

Ósamlyndi kemur upp í herbúðum lýðveldismanna. Brútus missir konu sína, og verður mikið um, innri ró-semd hans hverfur, og andi Cæsars birtist og krefst hefnda fyrir vígið. — Yfirleitt er Cæsar gerður að lítilmenni og skrumara í fyrstu þáttum leiksins, en verður nú ægilegur óvinunum eftir lát sitt. — Nú líður óðum að leikslokum, orustunni við Philippi. Sálarþrek Brútusar er nú gersam-lega horfið; þykir honum sem þeir hafi til lítils unnið á Cæsari, enda verkið hið versta, og eftir orustuna ráða þeir sér bana báðir, Brútus og Cassius. En yfir líki Brútusar votta óvinirnir göfuglyndi hans með þessum orðum:

„Þessi var beztur Rómverji af þeim öllum,
því öllum flokknum, nema honum einum,
gekk öfund til við Cæsar, mikilmennið;
hann einn, af hreinni, innilegri ást
á ættjörð sinni, slóst í lið með þeim.
Hann lifði vel, og höfuðvættir héldust
svo á um hann, að heimur mætti rísa
og róma við hverja þjóð „þar var maður““.

*(Gestur* íslenzkaði).

---

# Gamlir náungar frá Breiðafirði.

---

## Sigmundur Drottinskarl.

Í æsku minni eimdi töluvert eftir af hinni gömlu förumannaöld. Man eg meira en tylft af þeim, körlum og kerlingum, sem árlega gistu í Skógum hjá foreldrum mínum — faranda-fólki, meir eða minna frábrugðnu, og flestu okkur krökkum fremur kærkomnu, af því að það var okkur eins og utanveltu-fólk, sérkennilegt að svip og búningi og líktist engu í tali og látæði — nema sjálfu sér. Móður okkar virtist það fremur aufúsugestir og veitti glaðlega beina, einkum flökkukonum sem Hjalta-Kristínu, er ætíð færði okkur flatkökur, eða Kristínu purku, er líka hafði stundum eitthvert fágæti meðferðis. Sagði hún þá föður okkar frá gjöfunum og dró ekki af, en hann tók því oftast fálega, eða sagði: »Gott er nú það, en allar gjafir þiggja laun hjá þess konar fólki«. Karlarnir áttu og betur við hann, ef voru fréttafróðir og greinargóðir, og tók létt á, þótt heimildir væru efasamar, því fróðleik og fréttasögum unni hann mjög, enda veit eg fáa menn, sem fróðari eru um alla vegi, nálega hvar sem var á landinu. »Hrókur alls fagnaðar« (eins og forðum Gizur Hallsson) var okkur *Jóhann stríðsmaður.* Sá karl kunni frá mörgu að segja, sem gamall fylgdarmaður Jörundar hundadagakóngs. Hann kunni Njálu og fleiri sögur utanbókar og þuldi alls konar æfintýri á vökum; sat hann þá sveittur, all-öldurmannlegur með bera bringu, en hár og skegg féll brimhvítt á kambana, því við kembingar undi hann vel; og er blaðið var búið í minni hans, brá hann

við öðrum kambinum, eins og þar stæði næsta blaðsíðan; stundum sletti hann dönsku innan um, og þótti okkur piltum allmikil bragarbót, þótt okkur væri það grænlenzka. Bróðir Jóhanns var líka við og við á faraldsfæti þar um sveitir. Hann þótti okkur ljótur og óþýður, enda fylgdu honum tveir afarstórir útlendir hundar, sem lágu hjá honum á nóttum. Man eg, að eg þorði ekki að sofna eina nóttina og hlustaði á karlinn, er hann var að siða seppana og sagði: »Eg þoli þig ekki, eg þoli þig ekki!« Við Gunnlaug flakkara og Lúsa-Jósep féll okkur og hálfstirt, og sömdum kýmnileik um þá, sem oflangt yrði hér frá að skýra, nema hvað rúm þau, er þessir »gentlemenn« höfðu sofið í, fyrirfundust afskapleg að leikslokum.

Meira fanst okkur til Magnúsar aumingja, Guðm. Purkubróður og Gvendar godda. Hinn síðastnefndi var orðlagður skrumari og smjaðrari, en í minna lagi vandaður. Urðu hans æfilok þau, að hann réðst á Björn póst á Bröttubrekku, en hafði miður, og tróð Björn, er var heljarmenni, steini í munn Godda; kom hann ekki steininum út úr sér, komst við illan leik til bygða og lét þar líf sitt.

Þessa menn alla og fleiri þeirra líka mætti sérkenna á ýmsan hátt, en til þess hefi eg hvorki tíma né minni. En það höfðu þeir allir sameiginlegt, að þeir höfðu allir svip og keim af eldri aldarhætti, og það var það, sem gekk okkur óvitandi mest í augu.

En nú er að minnast á Sigmund Drottinskarl. Hann kom aldrei að Skógum, enda átti sveit sína vestur á Barðaströnd. En þegar eg var kominn út í Flatey og var þar búðarpiltur, kyntist eg karli þessum og mintist á ýmsar skrítlur, sem móðir okkar hafði sagt okkur frá Simba, þegar hún var heimasæta í Hergilsey og hann var þar vinnumaður. Hann var meðalmaður vexti og mjög meinleysislegur, klæddur hvítgráum peysutötrum með karbættan hatt á höfði, hvítur á hár og skegg og hékk hvorttveggja í flygsum, en hvítur gröftur í augnakrókunum, og allur bar hann sig beygjulega. Kendi eg óðara í brjósti

Hannibals, sem er snild að allri efnismeðferð og kjarnort mjög, Seiðkonuna, sem minnir á Grím Thomsen, Síðustu sigling Jóns Indíafara, sem flytur mann með valdi gegnum aldirnar, að dánarbeði Jóns gamla og lyftir blæjunni frá sál hans í óráðinu, unz hann »siglir á guðs síns fund«, o. fl. o. fl. Í síðast nefndu kvæði eru ýms orðatiltæki Jóns, og er þeim vel fyrir komið.

Yfir kvæðunum hvílir frumlegur blær og hressandi. Höf. er yfirleitt ólíkur öðrum íslenzkum skáldum og má ef til vill rekja það til þess, hve fróður hann er um bókmentir annarra þjóða og tíma. Hannn er enginn heima-alningur.

Gallar á kvæðunum eru helzt stirðleikur á bragarhætti sumsstaðar, en ekki kveður mikið að því. Einna mest ber og á því í hinum þýddu kvæðum aftan við bókina.

Þýðingarnar eru misjafnar að gæðum, sem von er til, en þó mun yfirleitt vera fengur í því, að hafa þær. Vil eg þar til nefna m. a. Skóarann eftir Tennyson og grísku kvæðin. Önnur eru aftur talsvert göllut — sum.

Eitt kvæði þarf eg að minnast á enn — Skriftamál þingmannsefnisins. Það ætti í raun og veru að syngjast á kjörfundum, eins og höf. bendir á. En líklega eru kjósendur yfirleitt ekki þannig gerðir, að þeir geti lyft sér upp í svo guðdómlegt gaman.

Margt mætti fleira og nánara um bók þessa segja, þótt ógert verði látið hér, því að tilgangur minn er einungis sá, að minnast lauslega á bók, kvæðabók, sem hefir eitthvað nýtt og áður ósagt að færa oss Íslendingum. Og það hefir Drotningin í Algeirsborg, mörgum kvæðabókum fremur.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Magnús Gíslason: Rúnir.** Rvík. 1916.

Kvæðabók þessi hefir hlotið ómilda dóma sumsstaðar og það ómaklega. Fyrst og fremst verður að líta á hag skáldsins og alla aðbúð, andlega og líkamlega. En þótt því sé slept, þá er margt svo gott í kvæðunum, að mjög er ranglátt, að varpa þeim öllum til hliðar með sleggjudómi.

Höf. hefir lengst af átt við bág kjör að búa, heilsuleysi og fátækt. Kennir þess víða í kvæðunum, hve kunnugur hann er þeim gestum, og er þá víða vel að orði komizt, t. d. í kvæðinu Fátækt:

Oft í þeirri örgu nauð
ertu af blundi vakinn,
við að sáran biðja um brauð
börn þín svöng og hrakin.

Náðir lýðs ef leitar á,
lengist gata að vinum;
gróðans menn ei gerast þá
greiðugari hinum.

. . . . .

Litist þú um land og haf,
leitir eftir brauði,
virðist standa öllu af:
angist, kvöl og dauði.

Lausavísurnar eru og sumar snjallar og enn fremur má nefna kvæðin um Þorgils gjallanda og Torfa í Ólafsdal og einna helzt Draumadísina, sem er mjög gott kvæði.

Gallar eru ýmsir á kvæðunum, yrkisefnin stundum léttvæg og meðferðin of alvanaleg og málvillur á stöku stað. En það er engin furða. Hitt ber að undrast, hve langt höf. hefir samt sem áður komizt sumsstaðar, þrátt fyrir alla örðugleika.

Jakob Jóh. Smári.

**Axel Thorsteinsson: Nýir tímar.** Rvík. Bókav. Ársæls Árnasonar. 1917.

Eg hefi annarsstaðar minst á bók þessa og get því verið stuttorður. Höf. ritar heldur lipurt og eðlilegt mál og er sýnt um að halda þræði sögunnar, vill vel og hugsar fagurlega. En hann skortir fastari tök á lífinu og persónunum, hættir um of við að láta sér nægja að rissa, í stað þess að móta með hörðum höndum. Og einkum þarf hann að verða þroskaðri í hugsanalífi sínu. En líklegt þykir mér að hann eigi eftir að rita góðar bækur, ef hann heldur áfram að afla sér æ meiri þekkingar og víðsýnis, en hann getur haft enn þá.

Jakob Jóh. Smári.

**Axel Thorsteinsson: Sex sögur.** Rvík 1917. Bókav. Guðm. Gamalíelssonar.

Um sögur þessar má líkt segja og um Nýja tíma. Flestar

fjalla þær um ást, en geta eðlilega ekki sýnt hana nemá frá örfáum hliðum og er það skaði. Bezt af sögum þessum þykir mér Madama Þorgerður; þar tekst höf. að líta ofan á efnið með hressandi kýmni — innan um alvöruna. Gaska er og snotur saga. Aftur eru hinar heldur smávægilegar að efni og meðferð.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Jónas Þorbergsson: Fríkirkja — Þjóðkirkja.** Fyrirlestur haldinn á Akureyri 26. janúar 1917.

Í fyrirlestri þessum ræðst höf. á fríkirkjufyrirkomulagið, eins og það t. d. tíðkast í Ameríku, og finnur á því marga galla. Er því ekki að leyna, að lýsing hans á því er ekki fögur. Höf. vill hafa þjóðkirkju, mjög »rúmgóða«, sem sjá má af loka-tillögum hans, en þær eru á þessa leið:

»Hin margbrotnu kenningakerfi verða að hverfa, og hin fáu meginatriði, sem öllum kemur saman um, að verða hyrningarsteinarnir undir framtíðarkirkjunni, sem verður svo rúm, að allir, sem kristnir vilja vera, geta staðið þar innan veggja. Þar verða hinar mörgu vistarverur.

Eg leyfi mér nú að leggja fram þessar tillögur:

1. Að ákvæðið um það, að hin ev. lút. kirkja skuli vera þjóðkirkja á Íslandi, sé numið úr lögum.

2. Að í stað hinnar lútersku kirkju sé stofnsett »Hin íslenzka kristilega kirkja«, sem grundvallist á öllum þeim meginatriðum, sem geti jafnframt orðið samvinnugrundvöllur allra þeirra trúflokka, sem nú berjast um völdin í landinu.

3. Að ríkið taki að sér að vernda kirkjuna á þessum grundvelli, enda sé ekki kenningafrelsi presta á annan hátt takmörk sett, og að svo sé búið um kjör presta og hag kirkjunnar, að þau skilyrði bresti ekki, til þess að hún geti orðið blessunarrík stofnun í þjóðfélaginu.

4. Að trúbragðakenslu við háskólann verði hagað svo, að þar sé ekki einni trúarstefnu gert hærra undir höfði en öðrum.

5. Að uppfræðslu barna í kristilegum efnum sé hagað samkvæmt þessu«.

Tillögur þessar virðast mér fara í mjög æskilega átt, en erfiðleikar mundu sjálfsagt verða á framkvæmd þeirra. En þær eru alt um það athugunarverðar.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Glímubók**, gefin út af Íþróttasambandi Íslands. Með 36 myndum. Rvík 1916.

Þetta er sú bókin, sem mér varð einna starsýnast á, er eg fór að skynja bókaforðann, sem út hafði komið í fimm ára fjarveru minni. Ekki vegna bókmentagildis vitanlega — hún er í öðru skyni skráð — heldur af því, að hún var mér, og öðrum er íþróttum unna, langþráður gestur. Það er að vísu nokkuð seint að fara að fagna henni nú, er svona langt er umliðið síðan hana bar að garði. En vonandi er sá tími hverfandi í samanburði við æfina, sem hún á fyrir höndum að lifa, til gagns og gamans íslenzkum drengjum, og þjóðinni til atgervisauka.

Við reigjumst af mörgu, Íslendingar, og eigum þó fremur fátt í fórum okkar að miklast af, enn sem komið er. Eitt af því fáa er glíman. Hún gæti orðið okkur til mikils manngildisauka og sæmdar, ef góð rækt væri við hana lögð og hún tekin, framar en verið hefir, í þjónustu uppeldisins. En fyrsta skilyrði þess, að hún geti komið að tilætluðum notum, er að æskulýðurinn eigi kost á handhægri bók sér til leiðbeiningar og uppörvunar í þeim efnum. Úr þessari brýnu þörf bætir Glímubókin — og gerir það með heiðri og sóma.

Íþróttasambandið á miklar þakkir skilið fyrir vikið. Til verksins hefir verið vandað sem bezt. Mannvalið gat naumast tekist betur. Höfundarnir — G. Kr. Guðmundsson, Hallgr. Benediktsson, H. Hjörvar, M. Kjaran og S. Pétursson — eru allir afburða-glímumenn, bragðvanir og bragðfimir, og nákunnir eðli glímunnar og öllum tilbrigðum. Og það sem mestu varðar: þeir eru engu ósnarpari í athugunum en í atlögum. Aðalkostur bókarinnar er gjörhyglin í lýsingum bragða og varna. Þá spillir það heldur ekki til, að sá maðurinn, sem fært hefir bókina í letur, er allra manna orðfimastur á íslenzkt mál, jafn pennamjúkur sem hann er fótmjúkur. Það er Helgi Hjörvar kennari. Enn eykur það gildi bókarinnar að mun, að Guðm. Björnson, landlæknir, sem er varaformaður Íþróttasambandsins, hefir verið þarna í ráðum, svo að treysta má því, að í glímureglunum sé hvergi brotið á móti boðorðum heilsufræðinnar.

Höfundarnir hafa sett sér þrenns konar verkefni: að segja sögu glímunnar, að lýsa henni í sókn og í vörn eins og hún er og hefir verið, og að marka henni sem heillavænlegasta framþróunarstefnu, með því að byggja út öllu ófögru, óhollu og óglímumannlegu, sem slæðst hefir að þessari íþrótt. Síðasttalda atriðið hefir ekki tekist sízt. Það er mér mesta fagnaðarefnið. Vafasöm

smáatriði í bragðalýsingum nenni eg ekki að elta ólar við, enda ekki áhættulaust fyrir gamlan mann og óglíminn að deila við dómarana. Reynslan er ólýgnust í þeim efnum, en hún er þeirra megin — og hjá ókomna tímanum.

»Innganginn« hefir Helgi Hjörvar einn samið, og rakið þar sögu glímunnar alt til þessa dags. Kaflinn er einkar-skemtilegur aflestrar, skipulega með efni farið og orðfærið fyrirtak. Hitt er annað mál, hvort þar geti allir stafir staðist. Um ýms meginatriði skortir enn óyggjandi heimildir, og því vorkunn þótt menn reyni að skapa í skörðin. Fjarri sé það mér að álasa höf. fyrir það; gott að á sem flestar götur sé bent. En samferða get eg ekki orðið honum alstaðar.

Um heiti glímunnar og innlendan uppruna felst hann á skoðun mína í »Íþróttum fornmanna«, en telur hana þó engan veginn örugga. Traustari sönnun held eg verði þó varla fundin. Og ekki lætur landlæknir neinar vöflur á sér finna um það efni í aths. sínum á bls. 43. Hann gengur sömu götuna og eg. Óvandlátari er höf. þegar hann er að leiða rök að tilgátu sinni um stakkglímuna sína og lausatökin sem »tegund reglubundinna fangbragða«, er tíðkast hafi um öll Norðurlönd, jafnhliða hryggspennunni. Heljarfangið, er menn hafi verið látnir þreyta í augsýn konunga í fyrndinni, hafi öðrum þræði verið stakkglíma; hún hafi enn verið þreytt á Íslandi, og þar eigi glíman til foreldris að telja. Tilgátan er ekki óálitleg í svip. En sannanirnar flugufætur. Eina átyllan er »fangastakkurinn«. En undir hann hillir hvergi nema í dimmum þokuslæðingi ungra ævintýrasagna. Kjalnesingasaga er elzta — og ef til vill einasta heimildin. Annarar hef eg ekki látið getið í »Nordb. legeml. Uddannelse«. Má vera að aðrar yngri séu til; um það þori eg ekki að segja að sinni, enda skiftir það minstu. En »víða« er hans ekki getið »í fornritum vorum«, eins og höf. kemst að orði; það er víst. Af Kjaln.s. ályktaði eg með hálfum hug, að heitið væri fornt og hefði fatið ef til vill verið notað á þann hátt, er gefið var í skyn í sögunni, og furðar mig nú satt að segja á þeirri dirfsku minni. En Hjörvar lætur sér ekki fyrir brjósti brenna að byggja á þessari ungu og óvöndu heimild heljarmikla kenningu um sérstaka tegund fangbragða, sem annars enginn flugufótur er fyrir í nokkurri viðlitsverðri heimild úr norrænni fornöld, hvorki á Íslandi né annarsstaðar á Norðurlöndum. Að minsta kosti þekkir hvorugur okkar Hjörvars neina slíka, og sjálfsagt ekki landlæknir heldur; hann knésetur stakkfangið án þess að spyrja um skírnarseðil. Þau fang-

brögð eru þannig vaxin, að hafi þau verið tízkuraun í samkvæmum og á mannamótum hér á landi á söguöldunum, gat naumast hjá því farið að þau leiddu einatt til afdrifamikilla atvika, eins og aldarandinn var þá. Og því finst mér lítt hugsanlegt, að þau gægðust þá hvergi fram í áreiðanlegum fornritum, hvorki í sögum né kveðskap. Af þessari þögn bókmentanna virðist mér ekki of djarft að álykta um þessa blessaða úlpuglímu, að hún hafi að minsta kosti ekki tíðkast hér á landi, þó að hún kunni að hafa verið til á Norðurlöndum einhvern tíma í fyrndinni. En sé sú ályktun rétt, þá getur ekki glíman heldur verið af henni runnin, svo framarlega sem hún er innlend íþrótt frá upphafi.

Um hitt þarf engum getum að leiða, að ýmiss konar lausatök hafi tíðkast hér eins og hvarvetna á bygðu bóli, einkum axlatök, en að eins ekki sem nein reglubundin tízkufangbrögð, með sérstakan einkennisbúning í eftirdragi. Og mikla þökk kann eg höf. fyrir það, hversu liðlega hann rekur skyldleik glímunnar við lausatök annars vegar og hryggspennu hins vegar, að hún sé í uppruna sínum bil beggja. Um það er eg honum alveg sammála, og mér hefir aldrei komið til hugar að bera brigður á það. Hefi alt af talið það sjálfgefið, eins og ýms orðtök mín í glímukaflanum í Íþr. Fornm. bera ótvíræðan vott um (t. d. bls. 190: »nýbrigði frá fangbrögðunum fornu«; sbr. 180 og 189). Að eg fór ekki út í þá sálma að rekja þann skyldleika í einstökum atriðum kom til af því, að eg þóttist ekki eiga þar nema getgátum til að dreifa. Mér kom það því mjög á óvart, er Hjörvar eignar mér þá ankannalegu skoðun, að glíman sé eigi runnin af eldri fangbragðategundum, heldur komin eins og fiskur ofan úr fjalli af fjarskyldri íþrótt. Sjálfur á eg að vísu nokkra sök á þeim misskilningi. Eg kemst sem sé svo að orði á einum stað (bls. 191), að líklega sé »glímuíþróttin afspringur þjóðlegustu skemtunar Íslendinga á söguöldinni, knattleikanna«. En þar á eg að eins við það, hvaða þjóðlífsatriði muni hafa gefið tilefni til framvaxtar hennar af eldri fangbragðategundum. Höf. gleymir því, þar sem hann talar um uppkomu nýrra íþrótta (bls. 2), að þær eru ekki eingöngu afspringur eldri samkynja íþrótta, heldur líka stæling á ýmsum atriðum í atvinnuháttum og annari lífsbaráttu þjóðanna, sumar að öllu leyti (frum-íþróttir), aðrar að nokkru leyti. Þessa ber einkum að gæta, þegar um forna tíma er að ræða og frumlega menningu. Þá eru íþróttirnar ekki, eins og nú, nokkurs konar uppeldislyf, fyrir utan og ofan vinnubrögð og viðskifti manna, vísindalega tilreidd af heilsufræðingum og uppeldisfræðingum og áletruð föstum afnota-

reglum. Þá eru þær á eilífu öldukviki. Það eru kröfur lífsins (í atvinnu, hernaði, samkvæmisháttum o. s. frv.), er sníða þeim stakkinn að mestu, skapa þær og breyta þeim. Þær eru alt í senn: afspringur lífsbaráttunnar, undirbúningur undir hana og liður í henni. Nú vitum við um glímuna, að hún er samruni úr hryggspennu og lausatökum. Og þá liggur óneitanlega næst að leita að orsökunum til þess samruna. Hvar var sá leikvöllur, þar sem þessar fangbragðategundir héldust í hendur, þannig að úr einni sló í aðra? Hverjar voru þær fangraunir, þar sem aflinu og bragðfiminni var látið frjálst að heyja hildi um aðstöðuna og átökin? Það þarf nú víst ekki að fletta neinum blöðum um það, að flestar fangbragðaviðureignir manna, þar sem um líf og dauða var að tefla, voru sjaldnast annaðhvort hryggspenna eða lausatök, heldur hvorttveggja, hvað af öðru. Menn runnust á og leituðu sér fangstaðar sem bezt mátti verða. Af því stafar líklega frá upphafi vega heitið fang. Sterkari manninum kom það betur að ná hryggspennunni; en hinum, sem mýkri var og síður átti aflinu að treysta, var um að gera að forðast að láta lykja sig svo örmum, að hann gæti ekki notið bragðfimi sinnar. Viðureignin mun þannig löngum hafa byrjað sem lausatök, en snúist upp í hryggspennu, eða orðið bil beggja — glíma, eða eitthvað í þá áttina. Eftirmynd af þessum heljarglímum lífsbaráttunnar finnum við einmitt í knattleikunum. Allar knattleikafrásagnir fornbókmentanna bera það ótvírætt með sér, að fangbrögð voru einhver ríkasti þátturinn í leikaðferðinni (sbr. Íþr. Fornm. 213—222). Þar er skipað til leiks öldungis á sama hátt og í bændaglímu; tveir og tveir eigast við, þeir sem jafnsterkastir eru; þeim lendir saman í fang eða sviftingar, sem eru sannnefndar »glímur« í eldri merkingu þess orðs (snögg viðbrögð, brögð). Það liggur beint við, að þær viðureignir í leikum breyttust og þróuðust einmitt í glímuáttina. Þar er sá gróðrarreiturinn, sem líklegast er að glíman hafi sprottið upp úr, smátt og smátt. Við þekkjum því miður ekki knattleikinn forna svo nákvæmlega, að við vitum hvernig fangbrögðunum var fyrir komið í leikaðferðinni; vísast að þeim hafi verið markað þar reglubundnara svið en okkur virðist; hitt vitum við, að undir þeim var sigurinn einatt kominn. Er það tilviljun ein, að sérstök glímumót koma lítið við sögu á meðan úti knattleikarnir stóðu í blóma? En síðar (á 13. og 14. öld), er þeir eru sama sem horfnir úr sögunni, fara þjóðleikar Íslendinga mestmegnis fram inni í húsum, og þá sjaldan sagnaritararnir lofa okkur að gægjast inn í stofuna, þá sjáum við

að þeir leikar eru enn samtvinnungur úr eins konar knattleik og fangbrögðum (h o r n a s k i n n l e i k a r) eða þá eingöngu glímumót. Bendir ekki þetta á, að eftir því sem glímunum vex fiskur um hrygg verða þær meginþáttur þjóðleikanna og loks alveg sjálfstætt samkomuefni? Gauksunginn bolar fóstbróður sínum út úr hreiðrinu. Þetta var það, sem fyrir mér vakti, er eg kallaði glímuíþróttina afspring knattleikanna, og vona eg að það megi til sanns vegar færa.

Eg hallast meir og meir á þá sveifina, að gliman hafi ekki verið orðin sjálfstæð íþrótt fyr en löngu eftir kristnitöku, en að rætur hennar standi þó alla leið aftur um knattleikavelli söguldanna. Menjar hennar finnast í stöku atriðum frá þeim öldum, en þær eru framvaxtarskeið hennar en ekki fullorðinsár.

Og nú tek eg eftir einu, sem eg hefi ekki veitt athygli áður og mjög styður minn málstað. Í Egilss. 40 — en sá staður er víst elzta heimild orðsins glíma — virðist greinilega bent til hins forna sambands glímunnar við knattleikana. Eg get ekki betur séð en að orðið (í flt.) sé þar beint notað um knattleika-ryskingarnar: »Egill var mjök at glímum; var hann kappsamr mjök ok reiðinn, en allir kunnu þat at kenna sonum sínum, at þeir vægði fyrir Agli. Knattleikr var lagiðr — —«. Knattleikssagan er sögð til dæmis um reiðigirni Egils við »glímurnar«.

Fleira held eg ekki að okkur Hjörvar beri á milli. — Hafi hann heill unnið verkið, og þeir félagar allir.

Nú mænum við vonaraugum eftir næstu bók frá Í. S. Í. — fimleikabók?

**Björn Bjarnason** frá Viðfirði.

**Þorleifur H. Bjarnason: Fornaldarsaga** handa æðri skólum. Rvík 1916. IV + 224 bls. 8vo.

Saga þessi er, eins og titillinn sýnir, ætluð æðri skólum íslenzkum og þá sérstaklega lærisveinum hins almenna mentaskóla í Reykjavík, en þar hefir höfundurinn um mörg ár haft sögukensluna á hendi og getið sér góðan orðstír fyrir.

Skifting bókarinnar er þessi: Fyrst er örstuttur inngangur (2 bls.) um forsögu, steinaldir, bronsöld og járnöld. Þá kemur fyrsti aðalkaflinn um Austurlandaþjóðir (11 bls.), þá er annar kaflinn um Hellena, eða Forn-Grikki (75 bls.). Þriðji og síðasti kaflinn er saga Rómverja og er hann, sem vænta mátti, þeirra lengstur (135 bls.). Loks er lítill eftirmáli (1 bls.) og gerir höfundurinn

þar grein fyrir stuðningsheimildarritum sínum og aðferð sinni við samning bókarinnar. Aftast er efnisyfirlit yfir bókina.

Þarna hafa þá Íslendingar fengið þriðju kenslubókina á 50 árum í Fornaldarsögu og — að minni hyggju — þá beztu, að ólöstuðum fornaldarsögum þeirra bræðranna Páls Melsteð (Rvík 1864) og Hallgríms Melsteð (Kmh. 1900).

Aðalskilyrðin fyrir góðri kenslulubók í sögu munu einkum vera þessi: í fyrsta lagi hárrétt frásögn eða svo nærri sannleikanum sem komist verður; í öðru lagi heppilegt val úr því nær óþrotlegu efni, þannig að hvorki minnið þreytist um of né andinn sljófgist við stagl eða smámuni, heldur sé það til tínt, sem mestu varðar; í þriðja lagi hreint mál og tilgerðarlaust, lipurt og þýtt orðfæri; í fjórða lagi vandvirkni í öllum ytri frágangi.

Um fyrsta atriðið hygg eg, að allir muni geta orðið samdóma, að þessi fornaldarsaga sé hin vandaðasta og áreiðanlegasta að efni til, sem vér eigum á íslenzka tungu, því að höfundur hefir tekið til greina sagnfræðilegar rannsóknir síðustu tíma og studdst við ýms ágæt rit í þessum greinum, svo sem hin stórmerku rit eftir þýzku sagnfræðingana E. Curtius (Griechische Geschichte 5. útg.), og Th. Mommsen (Römische Geschichte 8. útg.), einnig snillinginn J. Burkhardt í kaflanum um Constantin mikla, og samtíð hans og síðast en ekki sízt hina ágætu bók eftir J. N. Madvig: Den romerske Stats Forfatning og Forvaltning (Kbh. 1881), þessa fögru elligjöf til vísindanna, árangur af æfilangri starfsemi stórgáfaðs eljumanns í fornum rómverskum fræðum.

Þá er efnisvalið. Um það má lengi þrátta, hvað taka skuli upp í kenslubækur, því sitt sýnist að jafnaði hverjum og vart mun nokkur svo heppinn í vali, að öllum líki það allskostar; suma vantar þetta, aðra hitt, inn í takmarkað rúm, og þetta er einmitt eitthvert allra örðugasta viðfangsefnið, versti hnúturinn, fyrir þá, sem skólabækur semja, ekki sízt sögubækur. En hér finst mér höf. hafa tekist ágætlega lausnin. Margt af því, sem í fyrri kenslubókum hefir íþyngt minninu, þreytt heilann og jafnvel raskað þræðinum eða gert hann torraktari, ýmisleg smáatvik, mannnanöfn, ártöl o. fl. hefir víða orðið að víkja úr sessi fyrir öðru þýðingarmeira, svo sem þróunarsögu mannsandans og mannfélagsins. Kaflar sem áður voru flestum hvimleiðir í eldri kenslubókum (t. d. allar flækjurnar eftir lát Alexanders mikla, þjóðflutningarnir og fjörbrot rómverska keisaradæmisins) eru nú orðnir miklu aðgengilegri en áður og lítill söknuður að flestu því

sem slept hefir verið, enda kennaranum jafnan innan handar að skýra nánar rás viðburðanna í kenslustundunum og laða æskuna með ýmsum skemtilegum frásögnum enn meir að söguseiðnum. Ætti eg að tilgreina nokkuð, sem eg hefði sérstaklega kosið öðru vísi, þá mundi eg tilnefna fyrsta kaflann um Austurlandaþjóðir. Mér þykir þar helzt til fljótt yfir sögur farið — tæpar 11 bls. um Egipta, Babyloniumenn, Assyriumenn, Fönika, Gyðinga, Meda, Persa og Indverja. — Það er skiljanlegt, að Gyðingar fái einar 15 línur, því að höf. mun hafa ætlað biblíulestrinum að fylla þar upp í stóru skörðin. En Indland með öllu sínu andlega djúpsæi, hin mikla menning Egipta, Persaveldi og Assyringa og hinir víðförlu Fönikar, virðast trauðla geta komist fyrir á svo mörkuðum bás sem 11 bls., ekki sízt þar sem hin grísk-rómverska menning á rót sína að rekja til austurs í mjög þýðingarmiklum atriðum og áhrifin þaðan auðsæ.

Um þriðja atriðið — hreint mál og lipurt orðfæri — mun mega með sanni segja, að bókin sé yfirleitt rituð á vönduðu, hreinu máli, stíll og orðfæri ekki ólipurt, þótt ekki virðist mér höf. vera jafnoki Páls gamla Melsteð í þýðleik og léttleik frásagnarinnar, enda munu fáir í þeim greinum »Flosa líkir« nú lifandi Íslendinga.

Hér eru nokkur orð og orðatiltæki, er eg hefi rekist á, þegar eg fór yfir bókina, ýmist röng — að minni hyggju — eða óviðkunnanleg:

Bls. 16: »dró sig út úr bardaganum« í staðinn fyrir: hætti að berjast, eða, lét af hernaði. Á sömu bls. í síðustu málsgrein um Hómers kvæði er blandað saman tveim orðum: kviður og þjóðkvæði og kynin notuð á víxl í fornöfnum (þær, þau).

Bls. 47: »óskammfeilinn« í staðinn fyrir »ósvífinn«.

Bls. 53: »4000 kilometra óravegur«. Óviðfeldið er að nota orðið óravegur í sambandi við ákveðna vegalengd.

Bls. 59: »iðnborgar og verzlunar«. Hví þá ekki: iðnaðarborgar eða iðnarborgar og verzlunar, sem er hljómfagurra, enda vanalega sagt, iðnaður og verzlun.

Bls. 60: »teknaafgangur«. Auðvitað meinlaust, en þó hljóðgap (hiatus), sem hægt var að forðast (afgangur tekna). Á sömu bls.: »Vestur-lokris« í staðinn fyrir Vestur-Lokris.

Bls. 63: »fræddu þeir unga menn með fyrirlestrum og fræðiiðkunum«; óljóst og óviðkunnanlegt.

Bls. 86 og 88: »bronzi« (þáguf.), en bls IV. (í inngangin-

um) bronsi (nefnif.). Mér finst viðkunnanlegast að nefna málminn brons (hvk. sbr. spons).

Bls. 88: »mannvirkjagerðar og húsa«. Mannvirkjagerð er ljótt og tæplega rétt orð, auk þess eru hús einnig mannvirki.

Bls. 100: »hinn mesti bjargvættur«. Í fornu máli var vættur kvk. Nú í daglegu tali karlk. En væri ekki rétt að láta orðið halda fornu kyni, eins og sumir enn gera, að minsta kosti í ritmáli? Í hugtakinu er eitthvað mjúkt og dísarkent (sbr. heilladísir).

Bls. 150: »enda átti Marius föðursystur, og sjálfur var hann kvæntur dóttur Cinnu«. Óíslenzkulegt og óskiljanlegt nema þeim sem veit. Á sömu bls. orðið »framúrskarandi«, mjög oft notað, en ljótt orð, í staðinn fyrir frábær, ágætur, stakur. Sama er að segja um orðið: »framþróun«, sem einnig kemur fyrir í bókinni, þetta ástfóstur flestra blaðamanna og rithöfunda nú á dögum. Orðið er hrein og bein upptugga (ταὐτολογία). Hvers vegna ekki blátt áfram þróun? Eða þróast nokkuð aftur á bak? Eitthvað þróast = því fer fram, það dafnar.

Bls. 174: »deilumál dagsins« er sakleysislegt á að líta, en tæplega íslenzka.

Bls. 177: »og honum lék grunur á um trúnað þeirra við sig«. Mér finst einfaldara og óbrotnara að segja: hann grunaði þá um svik við sig, eða, grunaði að þeir sætu á svikráðum við sig. En »sitt sýnist oft hverjum«.

Bls. 204: »eitthvert aðalmein« í staðinn fyrir eitthvert versta mein.

Bls. 212: »hin grísk-rómverska siðmenning var búin að vera«, í staðinn fyrir: h. gr.-rómv. siðmenning var undir lok liðin (henni var lokið), á heljarþröminni, eða eitthvað því um líkt.

Í sambandi við orðfærið vil eg fara nokkrum orðum um meðferð Íslendinga á grískum og rómverskum eiginnöfnum, eins og hún hefir verið og er enn fram á þenna dag. Tunga vor er enn þá að miklu leyti fornt mál með auðugum málmyndum. Sagnorð vor og forsetningar stýra enn, sem fyrir þúsund árum, þrem föllum, þolfalli, þágufalli (eða staðarfalli) og eignarfalli, en ákveðni greinirinn óleyfilegur með eiginnöfnum, svo að vér getum ekki látið hann, eins og málfrændur vorir Þjóðverjar, segja til falls. Af þessu leiðir, að oss verður oft á að misþyrma með fallbeygingum eiginnöfnum hinna

fögru suðrænu forntungna í íslenzku máli og »syngur« þar að jafnaði »hver með sínu nefi«, svo að það er ekki einu sinni nokkurt samræmi í misþyrmingunum. Fyrir því nær hálfri öld var reyndar farið að bóla á lofsverðri viðleitni til endurbóta í þessum greinum hjá hinum góðkunnu kennurum latínuskólans, skólameistara dr. Jóni Þorkelssyni og Gísla skólakennara Magnússyni (sbr. Latnesk lesbók handa byrjöndum Rvík 1871), en Gísli, sem mun verið hafa aðalhvatamaður þessarar hreyfingar, átti þá skamt eftir ólifað († 1878), og að honum látnum sótti alt í sama horfið sem áður: engin regla, eilíf ósamkvæmni, alt af handahófi, eftir því sem hverjum dettur í hug í þann svipinn.

Til sönnunar máli mínu skulu hér tekin nokkur dæmi — af mýmörgum — úr þessari nýju fornaldarsögu: Á bls. 41 eru nefnd skáldin Alkaios og Tyrtaios, en á næstu bls. Pindar (án fallendingar); bls. 59 Filippusi, Demosþenesi, Demosþenesar, Leonidasar, Þukydidesar og Euripidesar (bls. 44); bls. 138: Sulla — Sullu, Cinna — Cinnu (sbr. Sturla — Sturlu) en aftur á móti alstaðar Róm — Rómar (þó ekki í orðinu Rómaveldi); bls. 146: Pontos (þolfall), á sömu bls. Biþyniu (þolfall); Miþradates (þágufall), Tigranokerta (þolfall), Tigranesar, Lucullusi; bls. 150: Maríusar (nefnif. flt.); bls. 151: Galliu cisalpina (þágufall) og Galliu Narbonensis (þolfall), en á næstu bls. Gallia transalpina (þágufall); bls. 156: Þessalonike (þágufall); bls. 166: Epikuros (eignarf.) og Stóumanna; bls. 174: Juliusættin og á sömu bls.: Augustusaröldin. Aþenuborg er alstaðar nefnd Aþena, á grísku heitir hún Ἀθῆναι ekki Ἀθήνη, svo að gamla nafnið virðist viðfeldnara. Delphi (Δελφοί)er notað í öllum föllum (óhneigilegt). Rómversk mannanöfn, sem enda á -us í nefnifalli fá í viðbót íslenzka eignarfallsendingu og þágufalls: t. d. Camillusar, Maríusar, Constantiuusar, Diocletianusar, Camillusi o. s. frv. (líkt og vér segðum: Sigurðurar (eignarf.), Sigurðuri (þáguf.). Og sama er að segja um eiginnöfnin á -os, -es, -as; við þau er einnig bætt íslenzkum eignarfalls og þágufalls endingum. Á sama hátt fá latnesk lýsingarorð sumstaðar tvær afleiðsluendingar: t. d. latinskur, sem er alvanalegt orð en rangt (sbr. byzantinskur í stað byzanzkur) en sumstaðar aftur rétt farið með lýsingarorðið t. d. filippskur (orationes philippicae) o. s. frv.

Þessi dæmi, sem eg nú hef til tínt úr nýrri bók eftir mentaðan og vandvirkan höfund, hygg eg sýni og sanni, að eg hefi ekki oftalað, er eg mintist á óregluna og ósamkvæmnina í meðferð íslenzkra rithöfunda á erlendum eiginnöfnum og má merkilegt

telja, að allir þessir —asar, —esar, —osar og —usar skuli enn standa óáreittir í íslenzku ritmáli tuttugustu aldar, því merkilegra, sem eg fæ eigi betur séð en að til séu ýmsir vegir til að lagfæra verstu misfellurnar og fá meira samræmi í ritvenjum í þessum efnum.

Mér hugkvæmast í svipinn þrjár leiðir:

Fyrsta leiðin, sú einfaldasta og fyrirhafnarminsta: að láta eiginnöfnin jafnan vera óhneigileg, og rita ætíð orðið í nefnifalli, með eða án úrfellismerkis fyrir aftan orðið, þegar það að réttu lagi ætti að standa í öðru falli.

Önnur leiðin: að nota jafnan stofn erlenda orðsins (orðið án fallendingar) og gefa honum íslenzkar fallendingar.

Þriðja leiðin: sambland af báðum áður nefndum aðferðum eftir ákveðnum, föstum reglum, þannig, að t. d. stofn yrði notaður með íslenzkum föllum þegar það væri ekki of óþjált í máli, eða með einhverjum öðrum hætti eða reglum, sem málfróðum smekkvísum mönnum kæmi saman um.

Æskilegt væri, að íslenzkir og grískrómverskir málfræðingar tækju nú höndum saman, og rannsökuðu þetta efni nákvæmlega og kæmu sér svo saman um einhverjar fastákveðnar reglur, sem farið yrði eftir framvegis um ritkátt (helzt allra erlendra eða að minsta kosti) grískra og rómverskra eiginnafna í íslenzku ritmáli. Nefnd í málið dirfist eg eigi að nefna, því þær þykja reynast misjafnlega hjá oss nú upp á síðkastið.

Loks skal þess getið að prentvillur eru sárfáar í bókinni og yfirleitt vel frá henni gengið.

Læt eg hér svo staðar numið og enda með þessari ósk, að höfundur Fornaldarsögunnar hætti eigi við hafið verk, og að vér innan skams fáum að sjá frá hans hendi skólabók á íslenzku yfir sögu miðaldanna. Það hefir oft réttilega verið tekið fram, hve háskalegt það er fyrir íslenzkuna að láta unglinga í skólum vorum lesa kenslubækur á erlendu máli, en það á þó sérstaklega heima um söguna og auk þess mjög óviðfeldið, að sú þjóð, sem mesta frægð hefir getið sér allra Norðurálfuþjóða fyrir sagnaritun sína, hina íslenzku, í myrkri miðaldanna, kenni nú — á tuttugustu öldunni — æskulýð sínum veraldarsöguna á erlendu máli.

R.vík 16/9 1917. **Jón Jacobson.**

**Stephan G. Stephansson: Heimleiðis.** — Reykjavík 1917.

Um kvæði þessi, sem tileinkuð eru Ungmennafélögum Íslands og öll eru frá ferð skáldsins heim og heima á ættjörðunni síðastliðið

ár, þarf ekki að rita langt mál. Þau munu þegar flogin út um allar sveitir og þykja góð uppskera eftir eitt sumar og sanna orð Mag. Sigurðar Guðmundssonar um kvæðin, að »fáir gestir hafa goldið fagurlegar beina en hann með kvæðum sínum«. Skírnir flytur eitt þeirra: »Með ströndum fram«, er skáldið gaf honum að skilnaði. Getur það verið sýnishorn ljóðanna. Það er fyrsta kvæðið sem Stephan G. Stephansson hefir kveðið undir þessum fornfræga bragarhætti og er það bending um, að enn séu ósnertir sumir dýrustu strengirnir á hörpu hans.

Tvær meinlegar prentvillur skal eg benda á: Verðgangsmaður vígði hann k a l d u r, fyrir »vígði hann keldur«, bls. 29, 11 l. a. n. Og í 2. l. kvæðsins »Aleiðis til Geysis« á ekki að vera spurningamerki.

G. F.

**Aðalsteinn Kristjánsson: Austur í blámóðu fjalla.** Með tólf myndum. Winnipeg. Prentsmiðju Ólafs S. Thorgeirssonar 1917.

Efnisyfirlit: I Austur í blámóðu fjalla. II. Ágrip af sögu New York-borgar. III. New York á vorum dögum. IV. Hví söknum vér Íslands. V. Eftirmáli.

Hér eru ólík efni komin saman í eina bók. Þau virðast í fljótu bragði jafnfjarlæg hvort öðru og bunga Altantshafsins er breið. En leyniþráður bindur þau saman. Sá þráður er hugsunarháttur höfundarins. Hann er Vestur-Íslendingur í bezta skilningi — Íslendingur í húð og hár, gagntekin af ást til alls góðs sem íslenzkt er, en um leið hrifinn af því skapferli og þeim hugsjónum er verið hafa uppspretta vestrænna afreksverka. Þess vegna fer tveim sögunum fram, annars vegar um það sem höf. ann á Íslandi, hins vegar um það sem honum virðist merkast og eftirbreytnisverðast í fari Vestmanna. Hann segir í eftirmálanum: »Rit þetta er sérstaklega tileinkað þeim sveitaunglingum á Íslandi, sem alast þar upp við svipuð kjör og höfundurinn. Þeim unglingum, sem í æsku njóta lítillar mentunar, en unna fróðleik, og setja sér það markmið að auka sanna þekkingu, þ r á t t f y r i r þ a ð, þótt undirstaðan hafi verið lauslega bygð«. Hann vill fræða, til að glæða framfaralöngun og trúna á mátt og megin hugsjóna og viljaþreks. Hann dáist alstaðar að þeim sem unna sjálfstæðinu í hugsun og framkvæmdum og fara sinna ferða í leit þess sem satt er og rétt. »Það er sá sem ryður sannleikanum braut, er við höfum heimild til að telja gáfaðan. Uppfundingamaðurinn í heimi andans, sem hjálpar okkur

til að losast við þær af hinum gömlu vanans flækjum, sem okkur eru skaðlegar, hvort sem þeim er framfylgt í kirkjum eða þinghúsum. Sá, sem vísar okkur þannig til vegar, að við þurfum hvorki að þjóna hlutdrægninni í dag, né lygum (málamiðlaninni) á morgun«. (bls. 335)

Rúmur þriðjungur bókarinnar er ferðasaga höf., er hann fór kynnisför til Íslands sumarið 1914, eftir 13 ára dvöl vestan hafs, þar sem hann með dugnaði og hagsýni hefir komið ár sinni vel fyrir borð. Ferðasagan segir frá því sem bar fyrir augu og eyru á leiðinni til Reykjavíkur og þaðan norður um land, með »Eggert Ólafssyni«, en síðan um Eyjafjarðar-, Þingeyjar- og Skagafjarðarsýslur. Hún sýnir oss tilfinningar og hugleiðingar höf. á leiðinni, um menn og málefni, og er sérstaklega eftirtektarvert hvað hann segir um fossana. Er hann gramur yfir fyrirhyggjuleysi Íslendinga í þeim málum. Alstaðar gægist fram ást hans á íslenzkri náttúru. Undirstraumurinn er hvervetna hlýr til lands og þjóðar og víða er athugun höf. skörp og frumleg. Eg tek til dæmis það sem hann segir um samtal sitt við skipverja á leiðinni norður, um æfi þeirra á sjónum. »Eg hafði heyrt sjómenn segja frá svaðilförum sínum áður, þegar þeir voru staddir á landi; en mér fanst alt annar blær yfir frásögum þessara manna. Við höfðum oft sjó nær því í miðjum hlíðum, svo að eins sáust kaldir og klökugir fjallatindarnir; öldurnar rugguðu skipinu, og virtist það gera þeim frásögnina auðveldari — eins og þeir væru að lifa sig inn í atburðina; en þar við bættist, að nú gátu þeir athugað hætturnar frá fleiri hliðum, og gaf það frásögninni meiri þunglyndis og alvörublæ« (bls. 48). Eða þetta: »Einn af þeim fyrstu, sem eg mætti á Akureyri af þeim, sem mér voru sérstaklega minnisstæðir, var síra Matthías; hann var þá nærri 79 ára, þó virtist mér hann ganga mikið rösklegar en margir, sem yngri eru, rétt eins og hann væri að eltast við og reyna að komast fyrir einhverja hugmynd, er hinir höfðu gefist upp við, og fann eg það síðar, að þessi tilgáta mín hafði rétt verið« (bls. 50).

Einn kafli ferðasögunnar heitir »Fréttaburður að vestan«, og er auðfundinn sársaukinn yfir því, er bornar eru brigður á ræktarþel Vestur-Íslendinga til gamla landsins og þeir misskildir. Síðasti þáttur bókarinnar er góður það sem hann nær, þó ekki komi þar öll kurl til grafar, og er það mikilsvert að það efni sem höf. hreyfir við verði athugað sem bezt.

Nærri tveir þriðjungar bókarinnar eru ágrip af sögu New York

borgar og um New York á vorum dögum. Mig brestur því miður þekkingu til að dæma um efni þeirra kafla. Ef til vill hefði framsetningin grætt á því, ef höf. hefði málað með stærri dráttum og ekki nefnt eins mörg nöfn. Frásögnin verður og sumstaðar slitrótt, er í svo mörg horn er litið. Skaði er það og, að ekki fylgir uppdráttur af New York, því að hann mundi mjög hafa greitt fyrir skilning á því sem frá er sagt. Augsýnileg prentvilla er á bls. 123: »52. árið eftir að Columbus fann Ameríku«, á að vera »32. árið«, Á bls. 148, 13. l. a. o. er ártalið 1601, fyrir 1691. Á bls. 150 13.—14. l. a. o. ætti samkvæmt því sem á undan er komið að standa: »Eins og áður er getið, höfðu Hollendingar sagt Englendingum stríð á hendur«.

Þetta eru alt smámunir. Eg hefi haft gaman að lesa söguna, og er hún einkum notaleg fyrir þá sök, að maður finnur hvernig þær hugsjónir, sem gert hafa Bandaríkin að þeirri merkilegu stórþjóð, sem þau eru, hafa vermt hjartarætur höf. og knúð hann til að reyna að veita einhverju af þeim straum heim til ættjarðar sinnar. Nú eru Íslendingar komnir í fjörugt viðskiftasamband við New York og eru allar líkur til að þau viðskifti vaxi en þverri eigi framvegis. Er eg sannfærður um að bók þessi verður mörgum Íslendingi, er bregður sér þangað, góður leiðarvísir og opnar augun fyrir ýmsu, sem þeim annars mundi sjást yfir. Sem dæmi viturlegra hugleiðinga höf. þar sem hann er að lýsa því sem fyrir augun ber í New York skal eg taka þennan kafla:

»Því verður ekki með sanngirni neitað, að hugvit og fegurðarkend húsameistaranna vekur hjá manni undrun og aðdáun. Ekki get eg neitað því, að mér hafi fundist það hugljúfara, að sjá og athuga undraverðar framkvæmdir mannanna í New York, en að lesa um hallir Aladíns og töfrasprotann, sem opnaði Sesam. (Hér kennir ofurlítils misminnis á sögunni um Alý Baba. G. F.). Það er undravert. hve oft mannkynið kemst í framkvæmdum fram úr ímyndunarafli skáldanna, er samtíðinni virðist geisast áfram í skýjunum, utar og ofar heimi virkileikans. En þrátt fyrir aðdáun þá, er framkvæmdir stórborganna vekja, finst manni oft minna til um mannvirkin þar, þótt stórfeld séu, heldur en ef maður sér einhverstaðar nýgræddan akur eða túnblett, fífilbrekku eða gróna grund. Það vekur alt aðrar tilfinningar að horfa á mannvirki þau, þar sem mannvitið samstarfar náttúrunni í einingu að einhverju, sem lifir og grær og þroskast dag eftir dag og ár eftir ár. Það kennir mönnum ráðvendni og samvizkusemi, að starfa í félagi við náttúruna,

móður vora, taka sigurlaun erfiðisins frá fyrstu hendi, en hafa enga milligöngumenn. Það er svo mikill véla og steinaldarsvipur yfir mannvirkjum stórborganna, að mann sægir við. Þótt grundvöllurinn sé traustur, eftir orðsins vanalegu merkingu, og þótt hugvit mannanna flétti byggingarlistinni undraverða sigursveiga og töfra kórónur, finst manni oft, að framfarirnar séu samrunnin skjaldböku-skel efnisins, sem eiginlega eigi ekkert skylt við sannar framfarir. Er ekki einhver kínverskur svefngöngubragur yfir ákafa mannkynsins að reisa bæi og borgir, og troða hinn sanna lífsgróður niður í moldina?« (bls. 290—91).

Þau sýnishorn sem eg hefi tekið eftir höfundinn geta gefið hugmynd um ritháitt hans. Ytri frágangur á bókinni er allur snotur og prófarkalestur yfirleitt góður. Hún kostar í bandi 7 kr.

G. F.

**Almanak fyrir árið 1918.** 24. ár. Winnipeg. Útgefandi og prentari Ólafur S. Thorgeirsson. 1917.

Almanak Ólafs S. Thorgeirssonar má telja með beztu og þörfustu ritum sem gefin hafa verið út á íslenzku vestan hafs. Hefir því jafnan verið vel og smekkvíslega stjórnað. Aðalkjarni þess er »Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi«, sem þættir koma af árlega. Er þar skýrt frá landnámi hverrar Íslendingabygðar af annari, skráðar æfisögur landnemanna, ættir þeirra raktar meira og minna og fjöldi mynda. Hygg eg að hver sem les þessa þætti, verði að kannast við, að landnámssaga Íslendinga í Vesturheimi er ekki ómerkur þáttur af æfisögu kynflokks vors. Væri óskandi, að útgefandanum auðnaðist að gefa þættina út í bókarformi aukna og endurbætta eins og hann hefir haft í hyggju. Spá mín er sú, að Landnáma Vestur-Íslendinga verði einhverntíma gefin út skrautlega af niðjum þessara landnámsmanna, er þykjast munu þá góðir af ætterninu. Þá verður þakklátlega minst mannsins sem hafði framkvæmd til að safna þessum merkilegu heimildum áður en það var of seint.

Auk landnámsþáttanna hefir Almanakið flutt ýmislegt annað skemtandi og fræðandi, greinar um merka menn, íslenzka og erlenda, þýddar og frumsamdar smásögur, meðal annars ýmsar góðar eftir skáldið J. Magnús Bjarnason, kvæði, yfirlit yfir helztu viðburði og mannalát meðal Íslendinga í Vesturheimi, o. fl.

Í þessu síðasta Almanaki hefir útgefandinn fyrst gert stutta grein fyrir heimför Stephans G. Stephanssonar, en prentað síðan

það sem um hann var sagt í bundnu og óbundnu máli og birzt hefir á prenti — og sumt óprentað. Fylgja því góðar myndir af brjóstlíkani og lágmynd Ríkarðs Jónssonar af Stephani og ritföngunum eftir Stefán Eiríksson. Þá koma Landnámssöguþættir, æfintýri og æskuminning eftir J. Magnús Bjarnason, mannalát, fallnir íslenzkir hermenn, o. fl.

G. F.

**Erlendur Gottskálksson: Vísur og kviðlingar.** Með æfiágripi og minningarorðum. Útg. Þór. Stefánsson og Vald. Erlendsson. Khöfn 1916.

Æfiágripið og minningarorðin, sem útgefendur — sonarsonur og sonur Erlendar — hafa ritað framan við ljóðmælin, eru ágæt mannlýsing. Skilur hún eftir í huga lesandans mynd af sérkennilegum og gáfuðum alþýðumanni, sem ánægja er að kynnast. Gott er kvæðið »Við æfilokin« og sumar ferskeytlurnar, t. d. þessi hin þjóðkunna:

Alt af bætist raun við raun,
réna gleði stundir.
Það er ei nema hraun við hraun
höllum fæti undir.

Eg hefi alt af heyrt: »höltum fæti undir«, og þykir stórum betra. En langflest ljóðmælin hefði ekki átt að prenta, þar sem þau hafa ekkert bókmentalegt gildi og höf. hafði ekki ætlast til þess sjálfur, að þau væru gefin út.

G. F.

**Ársrit hins íslenzka Fræðafélags í Kaupmannahöfn.** Með myndum. Fyrsta og annað ár. Kh. 1916 og 1917; 8vo 128 + 128 bls.

Í árgöngum þessum eru allmargar merkilegar ritgerðir og skal hér á eftir minst á hinar helztu og gerð grein fyrir efni þeirra. Þorvaldur prófessor Thoroddsen ritar í fyrsta árganginum »Um æskukröggur og glæfraferðir Arminiusar Vamberys', hins ötula og fræga ungverska ferðamanns, er andaðist fyrir nokkrum árum. Annar árgangurinn hefst með einkar fróðlegri grein eftir hinn sama höfund, er hann nefnir: »Heimur og geimur. Þættir úr alþýðulegri stjörnufræði«. Höfundurinn skiftir ritgerðinni í fjóra kafla: 1. Breytingar og nýjar stjörnur. Heimsendir. 2. Stjörnuþyrpingar og þokustjörnur. 3. Vetrarbrautin. Takmörk alheimsins. 4. Geimurinn. Nöfn hinna

einstöku kafla sýna oss, hve efnið er margbreytilegt og skemtilegt; en auk þess er þar vel farið með örðugt viðfangsefni og frásögnin lipur og létt, eins og á öllu sem kemur frá hendi hins háttvirta höfundar, og teljum vér víst, að margur íslenzkur alþýðumaður hafi bæði gagn og gaman af að lesa báðar ritgerðirnar. Í síðari ritgerðinni farast höf. þannig orð um andatrúna (bls. 35):

»Mannlegu eðli er svo varið, að vér getum eigi gripið eða skynjað það, sem er fyrir utan vorn skynheim. Andatrúin er því ekkert annað en trú, eins og svo mörg önnur trúarbrögð, og á ekkert skylt við vísindi. Fyrir hinu dularfulla sambandi andatrúarmanna við annan heim hefir enn eigi fengist hinn minsti snefill af vísindalegri sönnun. Hingað til hefir að eins tekist að sanna, að mörg dularfull fyrirbrigði í sálarlífi manna standa í sambandi við veiklað taugakerfi og benda á ýmsa fyr lítt athugaða eiginleika í sálarlífi manna. En þar með hefir ekki fengist neitt samband við annan heim, andaheim eða sálir framliðinna«.

Finnur Jónsson prófessor birtir í fyrsta árgangi árrsitsins tvær ritgerðir, aðra um »Íslenzk fornkvæði« og hina »Um skáldmál Bjarna Thorarensens«, er allir, sem unna íslenzkri tungu og íslenzkum bókmentum, munu kunna höf. þakkir fyrir. Fyrri ritgerðin ræðir um safn það af íslenzkum fornkvæðum, er þeir Svend Grundtvig og Jón Sigurðsson gáfu út á árunum 1854—1860 og Pálmi yfirkennari Pálsson lagði loks smiðshöggið á 25 árum síðar með útgáfu 4. og síðasta heftisins. Í ritgerð þessari, sem er ágrip af annari ýtarlegri ritgerð, er höf. hefir birt í Árbókum Fornfræðafélagsins 1914, hefir hann gert þá grein fyrir uppruna og búningi kvæða þessara, sem að réttu lagi hefði átt að gera í eftirmála við útgáfu safnsins. Höf. tekur með réttu fram, að kvæði þessi sé »af útlendum uppruna og toga« og »velflest að minsta kosti dönsk«. Hann ætlar, að Íslendingar hafi »heyrt og numið dönsku kvæðin og þýtt þau á sitt mál á þann hátt, sem þau bera með sér, en þó svo, að íslenzkur hugsunarháttur, íslenzkt líf og íslenzkar þjóðsögur og þjóðtrú hafa haft eigi lítil áhrif og gert eigi litlar breytingar á dönsku kvæðunum, og það ekki að eins í smáum hlutum (stöku orðum og þess konar) heldur og í allri gerð þeirra«. Höfundur telur að málið á kvæðunum sé »ótvírætt« 15. eða 16. aldar mál og gerir allnákvæmlega grein fyrir búningi þeirra (kveðandi, hendingaskipun, hljóðstafasetning og viðkvæði). Loks beinir hann athygli vorri að því, að þessi útlendu kvæði hafi getið af sér

»innlend kvæði, þ. e. kvæði, frumort á Íslandi og með íslenzku efni«, svo sem Gunnarskvæði, um Gunnar á Hlíðarenda. Í síðari ritgerðinni »Um skáldmál Bjarna Thorarensen« deilir höf. fyrst á Einar skáld Hjörleifsson fyrir nokkur ummæli hans um búning og kveðandi Bjarna í æfisögu þeirri framan við aðra útg. af kvæðum Bjarna, er hr. Einar samdi, eins og kunnugt er, á stúdentsárum sínum í Kaupmannahöfn. Þar næst sýnir höf. oss, að eddukvæðin og önnur fornkvæði hafa haft nokkur áhrif á kveðskap Bjarna, bæði að því er lýtur að samsetning orða: silfrfjallaður, sem og að notkun fornra orðmynda: skalat, munat, vildak, sem nú teljast óhafandi. Loks gefur höf. lesendunum allfjölskrúðugt sýnishorn hinna gullfallegu samsettu nafnorða og lýsingarorða, er Bjarni hefir auðgað íslenzka tungu; skulu hér nefnd nokkur dæmi: 1) nafnorð: heiðhiminn, blátindar, hájöklar, hvítfaldur, glitfat, gullinhvel; 2) lýsingarorð: sólgyltur, ítrhvast (spjót), silfurblár (ægir), mjúksár (logi), geigvænir (logbrandar) o. s. frv.

Höf. lýkur máli sínu um Bjarna með þessum orðum: »Hann er frumherji máls vors á fyrstu tugum 19. aldarinnar. Hann er morgunroðinn eins að þessu leyti sem að efninu sjálfu og meðferð þess«. Munu flestir sem þekkja kveðskap Bjarna telja orð þessi sannmæli.

Í fyrsta árganginum hefir Gísli læknir Brynjólfsson ritað greinarkorn: »Um eiturmekki í ófriðnum mikla«, þ. e. ný tegund vopna, eitraðar lofttegundir, er mönnum telst, að Þjóðverjar hafi notað í fyrsta skifti í stórorustu á vesturvígstöðvunum 22. dag aprílmánaðar 1915 og síðar oftar.

Bókavörður Sigfús Blöndal hefir í sama árgangi snúið úr dönsku kafla úr æfiminning síra Ólafs Gíslasonar, prests í Saurbæjarþingum, er hefir að geyma allgreinilega og, að því er virðist, rétta lýsing á Þingeyrarklaustri á fyrri hluta 18. aldar. Handrit æfiminningarinnar, sem lýsing þessi stafar frá, fanst í Konunglega bókasafninu í Kaupmannahöfn fyrir skemstu. Væri æskilegt, að hr. Sigf. Blöndal héldi uppteknum hætti og skýrði mönnum hér á landi frá því í íslenzkum tímaritum eða blöðum, þegar merkileg íslenzk handrit finnast í söfnunum í Kaupmannahöfn, og léti helzt nokkur sýnishorn fylgja skýrslu sinni eins og hér.

Þá ritar Magnús Jónsson cand. jur. & polit. eftirtektarverða grein: »Um íþróttaskóla«. Hann ætlar að æskilegt sé, að stofna til kenslu í verknaði og íþróttum, úr því að menn séu nokkurn veginn samdóma um, að vér þurfum á eiri verklegri þekking að halda en vér höfum nú, og teljum í

annan stað, að »útbreiðsla frjálsra íþrótta sé harla æskileg«. Því næst skýrir höf. nánar frá því, hvernig hann hefir hugsað sér, að þessari kenslu verði bezt fyrir komið.

Loks ritar cand. mag. Bogi Th. Melsted auk margra smærri greina í fyrsta árganginum ritgerð um stórmerkilegt nýmæli: Verðlaunasjóður handa duglegum og dyggum vinnuhjúum í sveit«. Af því að þess þjóðþrifa- og sanngirnisnýmælis, sem höf. vekur máls á í hugvekju sinni, hefir áður verið getið í sumum blöðum vorum, ef oss minnir rétt, virðist ekki vera ástæða til að fjölyrða um það hér; en ef takast mætti að koma hugsjóninni í framkvæmd, þá teljum vér, að stigið væri stórt menningarspor í rétta átt, að eins vildum vér að slíkur verðlaunasjóður starfaði ekki einungis fyrir dugleg og dygg vinnuhjú í sveit, heldur einnig fyrir þau hjú í kaupstöðum, er það eiga skilið.

Í sumum greinum árgangsins, einkum þeim, sem að öllu eða nokkru leyti eru þýðingar úr öðrum málum, bregður fyrir óíslenzkulegum orðatiltækjum og jafnvel mállýtum, er ættu ekki að koma fyrir í slíku riti. Skal hér bent á nokkur þeirra. Á 101. bls. stendur: »hvort sá, sem einu sinni hefir verið kristinn, eigi ekki að njóta þess, að hann hefir fallið frá«,[1]) f. gengið af trúnni. »Fyrst um sinn hefi eg farið að á þann hátt gegn þeim« 102. bls.: hefir sungið söng til virðingar fyrir Krist sem guð (sic). 103. bls.: Það má ekki grafa þá upp, f. grafast fyrir hverjir þeir séu.

Það væri miklu viðkunnanlegra, að auglýsingar, sem prentaðar eru aftan við ritið, væru ekki tölusettar með réttu blaðsíðutali, svo að þeir sem láta binda það inn geti svift þeim burtu og ritið þó talist heilt eftir sem áður.

Í öðrum árgangi ársritsins skal hér að eins getið tveggja greina, auk ritgerðar Þorvaldar prófessors, er þegar hefir verið minst á. Önnur þeirra er »Þjóðjarðasalan« eftir meistara Boga Th. Melsted, en hin er um æfi og starfsemi Ole Worm's, hins nafnkunna föður norrænnar fornfræði. Greinina hefir Halldór Hermannsson bókavörður ritað og ber hún vitni um mikla þekking höf. á æfi Worm's og sérstaklega á viðskiftum hans við íslenzka fræðimenn. Höf. ætlar með réttu að Worm »muni vera hinn fyrsti útlendingur á síðari öldum, sem verðskuldar nafnið Íslandsvinur«.

Bogi Melsted sýnir oss í grein sinni um þjóðjarðasöluna, hvernig

---

1) Leturbreytingin eftir oss.

ágætlega heim við það, sem vér vitum um fornnorræna víkingslund og hetjuskap yfirleitt. Ekkert var og eðlilegra, en að Gunnar ofmetnaðist af sigrum sínum, fyltist ofurhuga, sem hetjum er títt og einatt hefir orðið þeim að falli. Það eykur trúanleik vísunnar, að hún er í öllum handritum Njálu, þar sem aðrar vísur í fyrri hluta sögunnar eru að eins í sumum þeirra. Hún segir oss aðalástæðu þess, að Gunnar hélt ekki sætt sína. Og höf. virðist hafa skilið efni hennar, sem vænta mátti um slíkan mannþekkjara, því að hann lætur Skarphéðin segja: »Mikit er um fyrirburði slíka, er hann sjálfr vitraði okkr, at hann vildi heldr deyja en vægja fyrir óvinum sínum«. En hér sést viðleitni sögunnar að fegra og siðfága hetju sína. Það var ólíku veglegra, sorglegra og skáldlegra að baka sér sekt og líflát af ást á sveit sinni og fegurð hennar heldur en af ofurkappi og vísvitandi mótþróa við landslög. Því lætur höf. bera mest á þeirri ástæðu, ef hann hefir ekki algerlega búið hana til. En hann þegir þó ekki um aðalástæðuna, ef til vill af raunsæi skáldauga síns. Hugsanlegt er og, að höf. hafi skreytt Gunnar hér og víða enn meira af því, að hann hefir fundið, að sagan yrði vinsælli fyrir vikið. Gunnar hefir vafalaust verið eftirlætisgoð samtíðar höfundar Njálu, enda virðist mega marka þetta af því, hvernig Eyrbyggja getur varnar hans hinztu, er tilgreint er í öðrum kafla ritsmíðar þessarar. Og í Hænsa-Þórissögu (c. 17) og Gunnlaugssögu ormstungu (c. 1) má sjá, að bjartur minningaljómi hefir leikið um nafn hans á 13. öld.

Fleiri en eg ætla þetta atriði Njálu skáldskap. Síra Friðrik Bergmann trúir ekki sögunni, kveður hana skáldskap.[1]) Einn hinn merkasti rithöfundur Norðmanna, Hans E. Kinck, sem er í senn stórgáfað skáld og maður lærður vel, hefir nýverið ritað grein um Íslendingasögur, þar sem hann minnist á þessi orð Gunnars.[2]) Hann kveður svo að

[1]) Vafurlogar bls. 61.

[2]) „Et par ting om ættesagaen. Skikkelser, den ikke forstod“, í ritinu Til Gerhard Gran 9. des. 1916, bls. 51.

orði, að sagan gæði hann náttúrutilfinningu (»skjænker ham naturfölelse«) Hann virðist því ekki eigna þau Gunnari. Kinck finst fremur fátt um þau, þykir hér samsetning lita, tvennskonar bleikja, ekki tilvalinnar tegundar. En íslenzkum bónda, sem hvert ár átti í höggi við launskæðar frostnætur, hafi þótt slíkt hrífandi sjón. Það sé búandi, sem sjái. Það sýni smáorðið »en«, er merki »til og med, ja endog«. Þessi auðfengna geðbrigða-upphrópun merki aðeins: Nú má fara að slá akur og taðan er hirt. Því verður naumast neitað, að búsýslubragð sé að orðunum. Er það í samræmi við þá kenning, að fornmenn hafi aðallega litið búmannsaugum á íslenzka náttúru, þó að æðri náttúruskoðunar verði vart[1]) En samt þykir mér upphrópunin list. Úr fimm orðum, tildurlausum og óbrotnum, er hér ger skýr og ekki lítil náttúrumynd. Hvert skifti sem eg minnist þessara orða, sé eg í huga langa hlíð með ljósgulum ekrum hér og þar og röð sleginna túna, með bæjum á, eftir henni endilangri. Og umgerðin er áhrifamikil og skáldleg.

Fyrsta eða dýpsta orsök falls Gunnars og heimsnúnings, hulin orsök eðlilegra orsaka þess, er forlög hans. Örlagaráð birtist í því, er hestur hans drepur fæti. Svo hljóðar skýring og skilningur Njálu.[2])

Í viðureign við þá Þríhyrningsfeðga fer Gunnar tvívegis heldur óhetjulega, óverulega. Í orrustunni við Knafahóla virðist hann eiga við þá alls kosti. Þá er þeir leggja á flótta, segir hann hæðnislega: »Þat mun ykkr þykja ilt til frásagnar, ef ekki skal mega sjá á ykkr, at þit hafit í bardaga verit.« Síðan hleypur hann að þeim og veitir þeim áverka (c. 63). Og í seinasta Rangárbar-

[1]) Th. Hjelmqvist, Naturskildringarna i den norröna diktningen. Stockholm 1891, bls. 7.

[2]) Bååth, Studier bls. 127. Þrisvar verða hestar verkfæri forlaganna í lífi Gunnars: Otkell réð ekki við hest sinn, er hann reið ofan á hann. Af því vá Gunnar hann. Af hestaati hófst fjandskapur hans við Þríhyrningsfeðga. Og loks er það af hests völdum, að hann hættir við utanför.

daga eggjar Kolskeggur hann að skjóta á Þorgeir Starkaðarson. En það vill Gunnar ekki, og er hvöt hans þar smábúandleg: »Eyðast munu fésjóðirnir um þat er þessir eru bættir, er hér liggja nú dauðir«. (c. 72). Kolskeggur kveður honum ekki munu féfátt verða, og hefði honum átt að vera kunnugt um efnahag bróður síns. Gunnar tímir, með öðrum orðum, ekki að drepa hann. Hetjur eru örlátar. Það er Gunnar líka, þá er hann hjálpar um hey og mat, svo að hann skortir sjálfan að lokum. Það er því undarlegt, er sagan gerir hann hér svo aurasáran. En ekkert dregur þetta úr dálæti hennar á hetju sinni, hefir ef til vill ekki tekið eftir, að hún óprýddi goðið með slíkri frásögu. Vildi sagan skýra, hví kappinn vann ekki á þeim feðgum? Eða var Gunnar svona féglöggur í málinu?

---

Líklegt þykir mér, að sagan geri mál Otkels bónda í Kirkjubæ verra en gerðir stóðu til. Í fyrsta lagi er hætt við, að höf. hafi verið hlutdrægur, er andstæðingur Gunnars átti í hlut. Og í öðru lagi fer naumast hjá því, að sú hlutdrægni hafi úr lagi fært söguleg sannindi, hetjunni í vil, andstæðing hans í óhag. Hlutdrægnin sést og af tvennu: Höf. eys Gunnar allan hátt og lágt lofi, en ekkert hrós drýpur á Otkel. Og þó gægist sitthvað geðfelt í fari hans upp úr frásögunni, eins og vænta má, því að hann var skyldur einhverri beztu ætt, er blómgast hefir hér á landi, náfrændi Gizurar hvíta, forföður Haukdæla. Hann er óskaðasár; »varð vel við skaðann«, er brann húsið. Hann er gjöfull, gefur Runólfi úr Dal uxa alsvartan. Og góður virðist hann hjúum og þrælum. Melkólfur þræll þykist sæll, ef hann ætti sig. En af þessu gerir höf. Otkeli enga sæmd, menn taka varla eftir því. Í öðru lagi er sýn hlutdrægni á því, að hvergi er litið á sakir með Otkels augum, hann hvergi látinn tala máli sínu né verja framkomu sína, og er það galli á sögunni. Fyrir bragðið er heysynjun hans ekki rökstudd nægilega, því að eg get ekki skilið svo, sem hún

sé illum tillögum Skammkels að öllu að kenna, eins og neitun allra sátta eftir þjófnaðinn í Kirkjubæ. Eg man tvo staði í íslenzkum bókmentum, þar sem sagt er frá sama efni, heyneitun í harðindum, sem sýnir, að slíkt er vel fallið til skáldlegrar frásagnar. Annar staðurinn er í Hænsa-Þórissögu, er Blund-Ketill falar hey af Hænsa-Þóri. Þar er rækilega skýrt frá heybirgðum hans. — »Þó at algjafta væri til alþingis, at þó mundi afganga fimm stakkar«. Og synjunin er studd með lýsingu á skapi Hænsa-Þóris, nurlara og kaupbraskara í fornum sið, og svörum hans. Hann er t. d. látinn spyrja: »Hvat skal ek þá hafa annan vetr, ef þá er slíkr vetr eðr verri?« (Hænsa-Þórissaga c. 5). Hinn staðurinn er í nýíslenzkum bókmentum, í »Gamla heyinu«, eftir Guðmund Friðjónsson, ágætri smásögu. Brandur gamli er sýndur blindur á rölti kringum heystabba, stóran og fornan. Hann ann honum hugástum, af því að hann hafði mörg ár látið sér ant um hann — stabbinn var mjög sýnilegur og áþreifanlegur lofköstur hygginda hans, hlaðinn úr heyi og torfi —, og af því að hann á fátt að unna sökum andlegrar eymdar og aurastrits langrar æfi. Af slíku skilst, að honum hlýtur að verða sárt um heyið. Og hann svarar og hugsar með sömu hygni sem Hænsa-Þórir, mörgum öldum áður: »Það getur gert grasleysisár, og það geta komið eldgos, og alt gras orðið eitrað eins og það varð í móðuharðindunum«. Alt slíkt vantar í heysynjunarsögu Njálu. Kinck fullyrðir, að Otkell eigi stórar birgðir (»hele lagre på stabburet« s. st. bls. 52), en slíks getur hvergi. Það sést að eins, að til hefir verið matur á tvo hesta um þingtímann, er Melkólfur þræll sótti mat að Kirkjubæ. Vera má, að ráða eigi í mikinn heyforða af orðum Otkels, að hvorttveggja sé til og af því er Njáll kallar illa gert að »varna Gunnari kaups«. Ef svo er, þá hafa fáyrði höf. skemt frásögguna. Meinsemi Otkels hefði orðið áhrifameiri, ef sést hefðu fullar tóttir eða verið frá þeim sagt. Svo mjög stakk hjálparsynjun hans í stúf við bóngæði Gunnars, er heylaus var sökum heyhjálpar sinnar. Eg held, að höf.

hafi því ekki heyrt né séð mikið látið af heyforða Otkels. Slíkur listamaður sem hann og auk þess stórum vilhallur Gunnari hefði ekki þagað um slíkt.

Otkell er ekki látinn greina neinar ástæður fyrir bjargarsynjun sinni, líkt og þeir gera, Brandur og Hænsa-Þórir. En ekki er hægt að ámæla honum að þeim óheyrðum, því að þær gátu verið réttmætar, t. d. að hann kysi fremur að hjálpa landsetum og félitlum grönnum, eða að hann þættist ekki eiga nóg hey sjálfur. Og það sést af dæmi Blundketils, að góðir menn í fornöld hafa verið heysárir. Það var því meiri þörf á, að Otkell gerði nokkra grein fyrir ástæðum sínum, er búast mátti við góðum undirtektum undir heyfölun Gunnars, eftir því sem sést skap hans og örlæti. Og hann fagnaði Gunnari vel, þá er hann kom að biðja hjálpar. Og þjófnaðarmálið er smásaga í sjálfri sögunni, afdrifamikill þáttur hennar, þar sem öll höfuðatriði þurfti því að rökstyðja sem í sérstakri smásögu væri. Hér virðist mér því skella í söguna, líklega sprottin af því, að höf. þarf að flytja mál Gunnars, en samtíðarmenn hans þektu arfsagnir þær, er hann studdist við, svo að hann hefir ekki þózt geta farið með efnið eftir vild sinni né kröfum góðrar listar. Hugsanlegt væri og, að hér hefði eitthvað týnst úr sögunni.

— — Af því, sem sagt er fyrr um frásögn sögunnar af framkomu Hallgerðar við víg Gunnars, sjást líkur þess, að Njála halli mjög á hina hárprúðu fríðleikskonu. Kuldinn í garð hennar birtist í orðalagi sögunnar á einum stað (c. 14), — er þess er getið, að hún hafi sezt að búi á Varmalæk, gefin í annað sinn: »Hallgerðr sat mjök á sér um vetrinn, ok líkaði við hana ekki illa«. Svona komast menn ekki að orði um aðra en þá, sem þeim er ekki um gefið. Áður er sagt, að allir heimamenn hennar hafi harmað hana, er hún fluttist aftur í föðurgarð eftir dráp Þorvalds, fyrsta manns síns. Úr því að hún reyndist hjúum sínum svo vel á mæðutima sinum, hefði mátt vænta, að líkað hefði við hana betur »en ekki illa«, er

hún stóð á hátindi hamingju sinnar og æfi, fyrsta hjúskaparárið með manni, er hún unni.

Ýmsir hafa veitt eftirtekt hlutdrægni Njálu í garð Hallgerðar, t. d. Hermann Jónasson (Draumar, bls. 43)[1]. Kinck lætur þá skoðun í ljós í fyrnefndri ritgerð. Hann bendir á, hve gjafir hennar til heimamanna sinna eftir víg Þorvalds komi henni að litlu liði í sögunni, er sé einkum hlutdræg í garð hennar, síðan Gunnar átti hana. Eg get þess til fróðleiks, að Kinck dettur í hug, að klerklærður kvenhatari hafi bætt sögunni af henni og bogastrengnum í bókina[2]). En ef einhver fótur sé fyrir þessu, heldur hann, að ástæðan hafi verið, að hún hafi ekki þolað Rannveigu, tengdamóður sína, og ekki getað hugsað til þess að flétta með henni streng úr hári sér. Eg trúi ekki á, að þetta hafi verið meira en í hæsta lagi aukaástæða, sem sjá má hér á undan. Kinck hyggur, að Gunnari hafi farist lítilmannlega í förinni að Kirkjubæ. Ef slíkt má ráða í af frásögn Njálu, held eg, að það sé ávöxtur af kristilegri siðfágun sögunnar á dýrlingi sínum. Og enn verð eg að andmæla hinu víðfræga skáldi Austmanna, er hann segir, að Gunnar hafi snúið heim með smánaryrði á baki. Þau finn eg hvergi í sögninni af þessari för. Hitt er annað mál, að neitun Otkels lætur að minsta kosti óþýðlega í nútíðareyrum: »Hvárttveggja er til, en hvártki mun ek þér selja«. Og Hallgerður gat hafa reiðst fyrir hönd sína, matarlausrar, og bónda síns, þótt Gunnar hefði ekki verið smánaður, og Otkell hefði

---

[1]) Sigurður Breiðfjörð hefir ort stökur um Hallgerði, og bera þær dómvísi hans vel söguna. Ef menn lesa þær, skilst þeim, með hve lítilli samúð sagan lítur á þessa illræmdu glæsikonu. Og þar sem samúð vantar, er hætt við, að skorti á skilninginn.

[2]) Nærri öld áður komst rímnaskáldið Breiðfjörð að þeirri niðurstöðu, að sögnin væri innskot:

„Af þessu' og öðru þykir hætt,
því í sagna-kverið
einhver hafi inn í bætt,
sem illgjarn hefir verið“.

haft gild rök til synjunar sinnar. Skapstórar konur og metnaðargjarnar fara ekki að lögum. Og það er sennilegt, sem Kinck bendir á, að húsmóðurinni á Hlíðarenda hafi gramist, er Gunnar kom með þrælinn Melkólf í viðbót á fæði. Mér hefir annars lengi þótt hvorttveggja jafnóskiljanlegt, að Otkell bað Gunnar að kaupa hann, eftir það sem á undan var gengið, og að Gunnar varð við tilmælum hans (»ufattelig godfjottethed«, kallar Kinck það s. st. bls. 52). Kinck ætlar því, að matvælatakan í Kirkjubæ hafi verið hefnd, en alls ekki þjófnaður, og að frásagan af orðum Hrúts um þjófsaugun Hallgerðar séu búin til sökum frásöguaðferðar (»sagaen har selv laget dem av tekniske grunde« s. st. bls. 49)[1]). Ef nokkuð er og ólíklegt, þá er það það, að höfðingjadóttir og hefðarkona gerist þjófur í sið hernaðar og víga, er taldi þjófnað svívirðilegastan allra glæpa. Og Hallgerði rak ekki skortur til slíks örþrifaráðs, því að hægt var að gefa gestum Gunnars annan mat en þýfið úr Kirkjubæ, að sögn Njálu. Aðrar sögur fara og ekki af þjófnaði Hallgerðar, og söguhöf. hefði víst ekki legið á þeim, ef heyrt hefði. En ef þjófsnáttúra hefði verið eins rík í henni og ætla má af þjófsaugunum, hefði hún að líkindum stolið oftar.

Þjófnaðarsagan er og tortryggileg af ytri rökum. Það líkist skáldhnykk, er Otkell gefur Melkólfi þræl kníf og belti, sem hann týnir í þjófnaðarför sinni, við Rangá, sem svo margt gerist við í Njálu. Og enn vill það til, að gripina finnur versti öfundarmaður Gunnars, Skammkell, manngerð illvildin, er ilt vill ills vegna, og að því leyti örlítið brot af *Jago* Shakspeare's og eldri í bókmentum heims en hann.

Það sýnist og glæfralegt að senda um hábjarta vornótt jafnlanga leið og frá Hlíðarenda vestur að Kirkjubæ á Rangárvöllum til að stela mat á tvo hesta, búa upp á

---

[1]) Um matvælatökuna í Kirkjubæ og spádóm Hrúts hefir Einar Hjörleifsson látið svipaða skoðun í ljós. Hann hyggur, að „hefndarhugur“ hafi ráðið mestu, er Hallgerður sendi þrælinn til Kirkjubæjar („Skapstórar konur“, Skírnir 1909, bls. 8).

þá, kveikja síðan í húsi og skilja ekki við það, fyr en fullséð væri, að útihúsið brynni til ösku.[1]) Og heimafólk á Hlíðarenda hefði naumast mátt fá nokkra vitneskju um þjófnaðinn. Melkólfur hefir því orðið að fara og koma aftur, meðan heimamenn sváfu.

Sigurður fornfræðingur Vigfússon kveðst »áreiðanlega« hafa fundið ösku úr búri Otkels (Árb. Fornleifafél. 1888—92, bls. 54). Trúum því, er mun þó óörugt, að askan sé úr mannvirki frá fornöld. En eg veit ekki, hvernig í ósköpunum hann hefir séð það á henni, að hún var úr búri því, er Njála á við. Oftar gat brunnið í Kirkjubæ en þá, þótt engar sagnir fari af. Nafnið á upphækkun þeirri (ostabúr), er hann gróf í, sannar ekkert. Munum, að lítið fór fyrir dómvísi (kritik) manna á fyrri öldum. Sögn af þessum bruna hefir lifað á vörum fólks. Eins kunnu héraðsbúar og Kirkjubæjarbúendur sögu Njálu af stuldi Hallgerðar. Þeir geta því hafa skírt upphækkun þessa ostabúr, eins og forfeður vorir tengdu heljarbjörg við sagnir af Gretti og kölluðu þau Grettistök. Með þessu neita eg ekki, að askan sé úr búri, sem Otkell hefir átt, heldur hinu, að um slíkt verði fullyrt. Rannsóknir Sigurðar Vigfússonar sanna ekkert um frásögn Njálu, allra sízt með hvaða tíðindum kveikt hefir verið í útibúrinu, né í hvaða skyni slíkt hefir verið gert.

Valda mun ágreiningi, hví sagan gerir þjóf úr Hallgerði. Kinck skýrir, að hylma hafi átt yfir, að matartakan hafi verið hefnd svívirðingar, er bóndi hennar þoldi í Kirkjubæ, mátulegt að nota til þess þrælinn, er troðið var upp á nátthúfuna bónda hennar (»som de prakket ind på hendes nathue av en mand«).

Eg hygg annað. Matvælatakan olli kinnhesti Gunn-

---

[1]) Þó finnast dæmi furðulegrar dirfsku til þjófnaðar Mér segir skólastjóri Magnús Helgason, er eg hefi grætt á að tala við um sumt í ritgerð þessari, að eitt sinn hafi verið stolið að næturþeli, milli loka og jónsmessu, mat á tvo hesta frá foreldrum hans í Birtingaholti. Aldrei varð uppvíst um, hver að væri valdur, en hann hefir tæpast verið eins langt aðkominn og Melkólfur að Kirkjubæ.

ars, er hann laust konu sína í viðurvist margra gesta. Harðneskja hans varð afsakanlegri af stuldinum, hinum herfilegasta glæp, heldur en ef til gerræðis hennar hefði verið stofnað í hefndarskyni fyrir bjargarsynjun og þrælssölu, er hún gat reiðst, þótt bóndi hennar væri ekki óvirtur. Þessi skýring fellur í ljúfa löð við auðsæja viðleitni höf., að kenna ógæfu Gunnars öðru en siðbrestum hans og gerðum — nema fyrsta ójafnaðarverki hans. Alt er honum illa launað. Skæðasti fjandmaður hans og ráðbani varð Mörður, sonur Unnar, frændkonu hans, er hann reyndist drengur, sem dugði í raun. Það er ranglætið í örlögum Gunnars, að honum er, hjálparþurfa sakir hjálpsemi, þverneitað hjálpar. Hann þýðist ekki ráð Þráins að taka hey í Kirkjubæ og gera verð fyrir (Nj. c. 47). Sá þegnskapur — og þrælskaupið — var honum goldinn með þjófnaði konu hans, er dró eftir sér sekt hans og dauða. Ólánið sprettur — samkvæmt skilningi Njálu — af manngæðum hans og drengskap, ráðsnilli Njáls, ósjálfstæði Otkels, illgirni Skamkels, slægð og fégirnd Marðar, þjófseðli konu hans, glæstrar og hárprúðrar með »flagð undir fögru skinni«, og refsidómi þungra örlaga. Og alt er þetta hefnd ójafnaðar, er hann beitti Hrút og fyrr er gerð grein fyrir. Og merkilegast er, að hefndin kemur úr ættum þeirra, er hann vann ójöfnuð fyrir og hafði hann í frammi við, frá syni Unnar og bróðurdóttur Hrúts. Og nú skilst, hví Hrútur og ekki annar kennir þjófsaugun og spáir fyrir henni. Sömu augu hefndu ósigurs hans í deilum við Gunnar um fé Unnar, — algerlega gegn vilja hans og óskum, (samanber: »mun oss verða í því engi hefnd né frami«). Það hefir í upphafi verið skilningur höf. á harmsögu Gunnars og listráð hans, að Hallgerður og Mörður steyptu honum í óhamingju. Áhrif hennar á líf hans urðu að gerast með hinum óskaplegustu endemum, svo að engum gætu dulist þau. Það er víst h ö f u ð á s t æ ð a þess, að sagan lætur hana stela í Kirkjubæ og — ef til vill — synja honum hárlokksins, hjálpa Merði og frændum hans sem áður við

síðustu sókn á hendur honum, þá er hún átti að fyrstu upptök. Hvorki drengskapur né hreysti í bróðurlegu bandalagi við vizku hins mesta spekings fá afstýrt hefnd fyrir ilt verk[1]), meira að segja ekki vinátta og trygðir með tengdum við þá ætt og þann mann, er það bitnaði á. Hún dynur á þér alt fyrir það, að skapadómi, vís þér sem dauðinn, óviðráðanleg og óstöðvandi. Sú virðist meginhugsun sögu Gunnars á Hlíðarenda.

## IV.

Eg bregð mér snöggvast frá Njálu og athuga Landnámu.

Merkilegt er, að hún telur bræður Gunnars, en nefnir ekki Kolskegg[2]), er ætla mætti, eftir Njálu, að mestar sagnir hefðu gengið af. Hauksbók er sett saman eftir landnámsbókum þeirra Sturlu Þórðarsonar og Styrmis fróða, og tekið það »úr hvárri«, sem önnur hafði »framar« (ɔ: meira) en hin. Hauksbók og Melabók nefna bræður Gunnars, en ekki Sturlubók, það sem nú er til af henni. Þeir Styrmir fróði og Sturla Þórðarson vóru báðir handgengnir Snorra Sturlusyni, hafa að líkindum báðir dvalist hjá honum. Og geta má nærri, hvort þeir hafa ekki oft spjallað við hann um fornar sagnir og fræði. Hauksbók hlýtur því að hafa heimildir sínar frá mönnum nákunnugum Snorra. En hann ólst, sem kunnugt er, upp skamt frá Hlíðarenda, á einu mesta fræðisetri Íslands í þá daga, Odda á Rangárvöllum. Fráleitt hafa aðrir vitað betur deili á Gunnari og ætt hans en Oddaverjar. Ef Kolskeggur hefir verið til, sætir því furðu, ef nafn hans hefir farið fram hjá hvort heldur Styrmi eða Sturlu eða báðum[3]),

---

[1]) „The lesson it (ɔ: Njála) teaches is of a Divine retribution, and that evil brings its own reward in spite of all that human wisdom, and courage, even innocence, can do to oppose it", segir Guðbrandur Vigfússon (Prolegomena, bls. xlii í Sturl. I. Oxf. 1878).

[2]) Landn. 1900, bls. 109, 236 (Melabók).

[3]) Að ætlun Finns Jónssonar er Melabók gerð eftir Sturlubók og hefir haft nafn bræðra Gunnars þaðan (Landn. Kh. 1900, bls. XXXV—XXXVI).

ekki sízt er þeir, eða sá þeirra, sem er hér heimildarmaður Hauksbókar, vita nöfn tveggja bræðra hans, Helga og Hafurs, er við engin tíðindi er dreift, en Kolskeggur hins vegar þeirra bræðra sagnkunnastur, að því er ætla má af Njálu. Annaðhvort hefir höf. Njálu því skapað Kolskegg af mætti anda síns, eða gert úr honum miklu meiri garp en hann var. Mér hugsast ekki önnur skýring á þögn Landnámu um hann. Gunnar á að hafa trúað Kolskeggi — sem alt er vafasamt um — fyrir því, er þeir vóru einir á heimleið eftir víg Otkels, að hann vægi nauðugur. Styrkir samanburður við Landnámu þá ætlun, að þessi orð hans séu skáldskapur, siðfágun sögunnar á kappa hennar og ljúfling, er afla eigi honum vegs og vinsældar.

Ekki ber Landnámu og Njálu saman um sonu Gunnars. Hauksbók getur þeirra, telur þá tvo eins og Njála, en kallar þá Grana og Hámund. Allar sagnir Njálu af Högna eru því efa orpnar af sömu greinum og það, er hún segir frá Kolskeggi, en stórmiklu munar, hve minna kveður að Högna en Kolskeggi. Hann gat því fremur leynst fyrir Styrmi fróða en föðurbróðir hans.

Landnáma minnist á þrjú atriði úr sögu Gunnars: víg Otkels, orustuna við Knafahóla og fall hans. Hún styrkir sögu Njálu frá vígi Otkels, það sem hún nær. Segir að eins, að Gunnar hafi barist við hann »við garð at Hofi«, og að Otkell og Skammkell hafi fallið þar (Ldn. bls. 110). Fleiri gátu hafa fallið, en höfundur þessa kafla Landnámu ekki hirt að nefna aðra en tvo hina merkustu. Aftur greinir Landnámu og Njálu allmjög á um bardagann hjá Knafahólum. Landnáma segir, að Egill úr Sandgili hafi setið þar fyrir Gunnari, fallið og með honum tveir Austmenn og Ari húskarl hans, en Hjörtur, bróðir Gunnars, »úr hans liði« (Ldn. bls. 109—110, 220).

---

En próf. B. M. Ólsen hyggur, að Melabók sýni oss eldri gerð Landnámu en önnur handrit hennar. Ef skoðun próf. Ólsens er rétt, styrkir það skoðun mína um Kolskegg. Þá verður einum fræðimanni fleira, er hefir ekki heyrt hans getið.

Njála kveður fjórtán hafa fallið, Hjört hinn fimtánda. Fræðiritið Landnáma kappkostar sýnilega að telja þá nákvæmlega, er á fundinum féllu, þar sem getið er falls eins húskarls, og hann nefndur nafni, ekki meira virðir en húskarlar vóru í fornöld. Það er því ekki ólíklegt, að Njála hafi stækkað Gunnar á að bæta einum tug við tölu fallinna manna.

Á Landnámu er helzt svo að sjá, sem Egill hafi verið aðalmaður í fyrirsát fyrir Gunnari hjá Knafahólum. Í Njálu er Starkaður undir Þríhyrningi frumkvöðull hennar og foringi. En Landnáma nefnir ekki, að hann hafi tekið þátt í þeirri aðför að Gunnari. Enn kemur Njálu og Landnámu ekki saman um austmenning. Landnáma kveður tvo hafa fallið, Njála einn.[1])

Landnáma (bls. 110) segir öðruvísi frá falli Gunnars en Njála. Saman ber þeim um tölu særðra og fallinna. En það ber á milli, að Landnáma kveður Gunnar hafa verið heima með einn karlmann fulltíða, en Njála segir hann einan, eins og Eyrbyggja. Öll frásögn af falli Gunnars fær og enn meira á oss, er enginn er til liðsinnis. Njála gerir með þessu hetju sína enn stærri en hin þurra frásögn Landnámu. Mest hljóta menn þó að taka eftir því, að Landnáma kveður Ásgrím Elliðagrímsson með þeim, er fóru til vígs Gunnars. Njála telur fyrirmenn þeirrar farar nákvæmlega (c. 75), en getur hans ekki, og veit þó margt af honum að segja. Er því ólíklegt, að höf. hafi ekki heyrt um hlutdeild Ásgríms í aðför að Gunnari. Aftur aflar Gunnar sér vináttu hans að sögn Njálu, — er hann skorar á hólm Úlf Uggason, skáld, er við lá, að ónýttist málssókn Ásgríms á hendur honum, og fyr er nefnt (Njála cap. 60). Með slíkum ójöfnuði barg Gunnar máli Ásgríms, er hét honum að vera aldrei í mót honum, en jafnan með í málaferlum. Njála og Land-

[1]) Tveir austmenn sátu fyrir Gunnari, samkvæmt Njálu, og vóru þeir á vist í Sandgili. Njála segir nokkra sögu af þeim austmanni, er komst heill úr bardaganum hjá Knafahólum. Hann féll fyrir Gunnari heima á Hlíðarenda, er þeir Gizur hvíti og Geir goði vógu hann.

náma verða hér ekki samþýddar á annan veg, en að Njála nefni ekki Ásgrím í aðför að Gunnari — af vangá eða öðrum sökum — og að hann hafi fylgt vini sínum og frænda, Gizuri hvíta, til vígs Gunnars, þrátt fyrir heit sitt og þegna hjálp í raun, sem hann getur hafa gert. En frásögn Njálu af viðskiftum Gunnars og Ásgríms fær varla staðist af því, að Helgi Njálsson hefir tæpast verið kvæntur dóttur Ásgríms, er þetta á að hafa gerst.[1]) Er þessi sögn ort til að sýna, hvað sá hinn mikli ágætisvinur, Gunnar á Hlíðarenda, er nauðugt var að vega menn, gat gert fyrir vini vina sinna (sbr.: »vin sínum — skal maðr vinr vesa — þeim ok þess vin«. Háv. 43. er.)? Því trúi eg trauðla, svo tvísýnn sómi sem honum, dýrlingi sögunnar, var að slíku. Einhver fótur mun vera fyrir þessu ójafnaðarbragði Gunnars. Eitthvað getur hafa farið milli mála um það. En líklegt er, að sagan hafi siðfegrað eitthvert glap hetjunnar, er hún af raunsæi eða einhverri ástæðu þóttist ekki geta þagað um, í því skyni látið Gunnar drýgja það í þarfir vina sinna og lyft ójöfnuði hans á þá leið upp í æðra veldi.

Samanburður á Njálu og Landnámu styrkir því þá skoðun, að Njála hafi stækkað og siðfágað Gunnar[2].)

## V.

Það er eitt auðkenna Njálu, að engin Íslendingasaga er, spjaldanna á milli, svo full af lögkrókum og lagaflækjum. Höfundur Njálu er sólginn í lögmannabrögð. Þessi merkilegi huldumaður er í senn stórskáld og málari mannlegra ástríðna og tilfinninga, ættfræðigrúskari og lögsöguþulur. Hann hefir verið einn þeirra manna, er hafa góða andlega matarlyst.

---

[1]) Þessa hjálp verður Gunnar að hafa veitt Ásgrími fyrir orrustuna við Knafahóla. Hana telur Finnur Jónsson 988, en Njálssonu kvænast 990—1000 (Brennu-Njálssaga, Einleitung, bls. XXXIV—XXXV).

[2]) Eg nenni ekki að ræða hér né rannsaka, hvort Landnáma hafi tekið frásögn sína af bardögum Gunnars úr sérstakri sögu af honum, er höf. Njálu hefir, ef til vill, ekki þekt. Sé ekki ástæðu til að ætla slíkt.

Mikið hefir verið ritað með lærdómi og aðdáanlegri gerhygli um lögfræði Njálu og hún sætt hörðum árásum. Þó er það nær minni ætlun, að margt megi enn finna og rita um þetta efni, er af má vaxa skilningur á þeirri hinni miklu bók. Er þess óskandi, að einhver lögfræðinga vorra rannsakaði lagastafi hennar og riti um þá. Einkum væri fróðlegt, að kannað væri eftir megni, hver lög og lagaákvæði sagan hefir í huga. Þótt það kunni að vera glannaskapur af alólögfróðum manni, get eg ekki stilt mig um að drepa á eitt atriði í málaferlum Gunnars.

Hetjan á Hlíðarenda lenti í þremur vígamálum, er höfðuð voru á hendur honum eftir Rangárbardagana þrjá. Þar sjást tvö sameiginleg einkenni: Annað er, að sæzt er á þau öll, og hitt, að sættir komast á þau á sama stigi, þá fyrst er Gunnar hefir flutt vörn sína, eða sama sem, og horfur hans hafa stórum batnað. Í tveimur málunum, eftir vígin við Knafahóla og víg Þorgeirs Otkelssonar, virðist honum — eftir því sem sögunni segist frá — sigur vís. Í málinu eftir Knafahólabardaga er sæzt, þá er Mörður, lögmaður mótstöðumanna Gunnars, hefir játað, að þeir Njáll hafi lög að mæla í vörn sinni, »þó at hart sé undir at búa«. (Nj. c. 66). Þriðja málið, eftir víg Þorgeirs Otkelssonar, fæst af að leggja í gerð, er bjargkviður hefir borið, að þeir nafnar, Þorgeir Otkelsson og Þorgeir Starkaðarson, hafi »farit með þann hug til fundar at vinna á Gunnari, ef þeir mætti« (Nj. c. 74). Þetta kallar Njáll »lögvörn« (ɔ: vörn samkvæmt lögum) og hótar að bera hana fram, »nema þeir legði til sætta«. Hér virðist Njáll hafa rétt að mæla, og ákvæði Grágásar um þessi efni höfð í huga og þau rétt skilin.[1]). Hér stóð Gunnar eins vel að vígi og unt var, samkvæmt Njálu Þeir nafnar áttu nú engra áverka að hefna, eins og átti sér stað, þá er setið var fyrir Gunnari við Knafahóla, og sæzt hafði verið á fyrri deilumál þeirra og fjörráð við hann. Eðlilegast virðist nú, að málið hefði farið til dóms, Gunn-

---

[1]) Grágás, Konungsbók, bls. 183—184, § 108.

ar sýknaður og óvinir hans fengið makleg málagjöld fyrir frumhlaupið, og á því máli er Finnur prófessor Jónsson[1]), er ver lögfræði Njálu. En í stað þess er sæzt á málið. En undarlegust eru þó úrslitin, því að þeir Gunnar og Kolskeggur skyldu, samkvæmt gerðadómi, fara utan »ok vera í braut þrjá vetr«.[2]) Gunnar fékk þessa sekt, auk fégjalds, fyrir sáttgirni sína, að því er skilja verður söguna, er góðsemin illa launuð sem æ áður á æfi hans.

Þess ber að gæta, að oft virðist hafa verið sæzt hér á mál í fornöld (Heusler, Das Strafr. § 25, § 43), sem eðlilegt var og viturlegt. Og hugsun Njáls hlýtur, samkvæmt sögunni að vera, að Gunnari sé öruggara að sættast. Hins vegar kostar Njála kapps um að sýna sáttfýsi Gunnars. »Sáttgjarn hefi ek verið jafnan«, lætur hún hann segja, þá er farið er fram á, að hann sættist á málið af vígi Otkels og Skamkels. Og ekkert er líklegra, en að þessi stefna hafi litkað alla frásögn af málum Gunnars. Vafalaust hefir Gunnar orðið sekur. Það hefir höf. ekki búið til, svo mjög sem hann er honum hliðhollur. En um tildrög sektar hans vitum vér ekkert víst. En sáttgirni Gunnars í seinustu sök hans er ótrúleg, eftir því sem Njála lýsir málavöxtum. Þorgeir Starkaðarson hafði þá þrívegis veitt honum aðför. Og þessi sáttfýsi Gunnars kemur einkum illa heim við sáttrof hans eftir á og það lundarfar, um að vilja heldur deyja en vægja, sem haugvísan segir. Hann gat vel farið utan án dóms til utanfarar, svo að óvinir hans »ætti við annan at deila fyrst«, eins og móðir hans kemst að orði. (Nj. c. 74).

Líkur lúta því þar að, að Gunnar hafi verið sekur gerr með öðrum hætti en sagan segir, og að hún hafi fegrað málstað hans og sektar-tilefni. Hér ber því að sama

---

[1]) Om Njála i Aarböger for nord. Oldkyndighed og Historie 1904, bls. 135.

[2]) „Det kan nu ikke nægtes, at denne afgörelse er meget paafaldende, og man kunde fristes til at tro, at sagen ikke havde været ganske som i sagaen fremstillet“, segir F. Jónsson s. st. bls. 135.

brunni sem áður: Flestu er snúið Gunnari til vegs og virðingar.

## VI.

Þótt erfitt sé og villugjarnt þar um dimman stíg, hefi eg farið yfir sögu Gunnars og reynt að nokkru að vinsa skálskap frá sannri eða sennilegri sögu af honum. Og eg þykist hafa leitt líkur að því, að greina verði milli hins raunsanna Gunnars og þess, er Njála sýnir með samúð og aðdáun, og margt sé þar skáldskapur um hann, er eg hefi ofurlítið leitað skýringa á. Sá Gunnar, er lifði, særði, vó og féll á 10. öld, hefir eflaust verið hin mesta hetja, vel búinn að íþróttum og líkamsatgervi, líklega glæsimenni mikið og átt einhverja hina glæsilegustu konu, er komið hefir á kvenfagra Ísland. Líklegt er, að margt hafi og verið siðlega vel um hann, og því hafi hann átt raungóðan vin, þar er Njáll var. Sagnir af þeirri vináttu eru, ef til vill, það gneistaflug, er kveikti í áskapaðri samúð stórskálds með dæmdum og vegnum atgervismanni. En hann hefir verið vígamaður og ekki laus við að beita ójöfnuði, að því er mér virðist ráða mega af ýmsum rökum, hefir neytt aflsmunar og ekki »farið að lögum«, er því var að skifta, sem sterkari mönnum hættir æ við. Máttarmeiri láta enn kné fylgja kviði í andlegum efnum, en hirða ekki um sannleik og réttan málstað.

Sá Gunnar, sem rís upp frá dauðum í Njálu og öðlast þar eilíft líf, hefir verið í hreinsunareldi. Sitthvað loðir þó við hann af breyskleika menskra manna. En söguhöf. hefir farið svo hljóðlega með brestina, að lesendur Njálu hafa fæstir orðið þeirra varir. Og það er efasamt, að söguritarinn hafi séð þá alla fyrir ofdýrkun á hetjunni. Dálæti hans á kempunni hefir spilt sögunni. Gunnar Njálu er enn meiri kappi en hann var í lífi sínu. Hann er að vísu vígamaður, en dansar nauðugur, því að hann er friðsemdin sjálf og sáttfýsin, sæmdarmaður, sem vill ekki vamm sitt vita. En eitt ójafnaðarverk vann hann, og það kom honum á kaldan klaka. Sú er yfir-

náttúrleg skýring falls hans og harma. Sveitungum hans leikur sumum öfund á ágætum hans og orðstír. Honum hefnist því fyrir yfirburði sína. Sú er eðlileg skýring vígs hans og ógæfu.

Það er hyggja mín, að einn hinn merkasti og göfgasti rithöfundur og snillingur Íslands hafi á þenna hátt að nokkru eytt og breytt brestum Gunnars og lagað hann til eftir hugsjónum annarrar menningar, trúar og tíðar.

Hvers virði er sá Gunnar, er Njála lýsir, oss nútíðarmönnum?

Í ritgerð »Um drengskap« í »Skírni« mótmælir Guðm. Finnbogason þeirri skoðun, að naumast sé nokkur brú milli menningar vorrar í fornöld og anda nútíðarinnar. Hann bendir á, að eðli manna birtist ekki svo mjög í því, hvað þeir telja skyldu sína og hverjar séu hugsjónir þeirra, er breytist »með öldunum«, heldur í hlýðni þeirra við skyldur og hugsjónir. Hér sé bandið milli vor og forfeðra vorra. Eg held, að þetta sé laukrétt. Því skiljum vér mannlýsingar í fornum skáldskap, að margt er líkt með oss og mönnum þeim, er þar eru leiddir oss fyrir hugskotssjónir. Sömu tegundir manna, með sama svip og lit sem nú, lifa þar og berjast. Sömu skaplestir, ástríður og mannkostir heyja enn orustu á víðum velli frammi fyrir þingheimi og í brjósti hvers manns og konu. Góður drengur, aðlaðandi snyrtimenni og ómannþýður einræningur voru líks eðlis þá og nú. Lesendur Njálu kannast við Gunnar af lífsreynslu sinni. Þeir unna honum, af því að í honum birtist holdgervi sumra mannkosta, er þeim æ þykir gott að finna á lífsleiðinni.

Kinck er fremur óhrifinn af Gunnari, kveður hann hetju fyrir börn og lítinn vitsmunamann (»hans intelligens var liten«). Hann verði altaf að leita ráða Njáls. En gjalda verður varhuga við að líta á slíkt með nútíðaraugum. Áður er vikið að því, að ráðleitanir og ráðlagningar hafi vafalaust tíðkast meira í fornöld en nú Gunnar hefir ofurlitla tilhneiging til íhygli, — samkvæmt Njálu. — Hann hugleiðir nokkuð vígaferli sín, sem er

honum þvert um skap. Vér nútíðarmenn skiljum það böl hans raunalega vel, þó að andstæður lífs vors hafi brugðið á sig öðru líki. En hitt er þó satt, að Gunnar er ekki einn þeirra manna, sem andleg hressing er að hitta. Hann er hvorki sjálfstæður né einkennilegur, ekki fremur en slík gljá- og glæsimenni einatt eru. Annað veldur vinsældum hans og hylli. Þokkagyðjurnar hafa blásið á hann blæ sínum. Hann er gæddur þeim fegurðarþokka, er laðar oss æ að sér, er skrautmenni og ljúfur í viðmóti. »Þeir voru blíðir við heimamenn sína, ok hafði ekki vaxit dramb þeirra«, segir um þá Kolskegg og Gunnar, er þeir komu úr utanför. »Hann var við alla menn léttr ok kátr ok sagði öllum slíkt er vildu«, þá er hann kom á alþingi. Með slíkum hugljúfum líður flestum vel, eins og þeim líður vel í fögru og blíðu veðri. Gunnar á Hlíðarenda fer líka enn sigurskildi glæsimensku og prúðmensku um konungsgarð og þingvöll. Hann hefir kvenhylli mikla, sem líkar hans á öllum öldum. Því lýsir Njála vel, er hún segir frá samtali Hildigunnar Starkaðardóttur um Gunnar við - bræður sína. Og vér skiljum, að þeim, er kynnast honum ekki, vaxi öfund á gengi hans og ástsæld.

En Gunnar er meira en ljúfmenni og skartmenni. Hann er vinur, einlægur og fölskvalaus, góðviljaður alvörumaður. »Þú ferr með spott ok háð, en þat er ekki við mitt skap«, segir hann við Sigmund frænda sinn. Og hann er hinn mesti kappi og fullhugi, er á hólm er komið, sem Kinck játar. Eg held því, að fullorðnu börnunum þyki lengi mikið til sumra kosta hans koma Hann er oss ímynd og dæmi góðs drengs á öllum öldum. Af mynd hans í Njálu má að nokkru kenna góðs manns eðli. Og enn er þörf atgeirs hans og arma. Í dyngju Hallgerðar er Njáll enn smánaður, þótt hann leysi hvers manns vandræði, er hans leitar. Enn finst oss til um Gunnar og geðstyrk hans, er hann kemur inn og breytir spotti spjátrunganna í ótta og blygðun. Og Skammkell býr enn á Hofi, í miðri breiðri bygð. Aldrei megum vér fagna

meira en þá, er Gunnar leggur gegnum hann atgeirnum góða, vegur hann upp á honum og kastar honum á höfuðið í leirgötu við Rangá.

*Sigurður Guðmundsson.*

# Eftirmáli.

Kafla úr ritgerð þessari um Gunnar á Hlíðarenda flutti eg á Stúdentafélagsfundi og öðru sinni fyrir alþýðufræðslu Stúdentafélagsins. Líkaði ýmsum illa, sumum stórilla. Það kom mér ekki á óvart. Ritsmíðar þessarar bíða því að líkindum óblíðar viðtökur, og skiftir það litlu. Hitt þykir mér lakara, að eg særi, ef til vill, með henni suma, er eg vildi sízt særa. En þeir eru fæstir meðal þeirra, er mest hafa stóryrðin um goðgá mína. En í ritsmíð þessari gat eg ekki farið eftir öðru en því, er mér virtist mála sannast eða líklegast. Það hefi eg gert eins samvizkusamlega og mér var unt. Og það vona eg, að menn sjái, ef þeir lesa pistil minn samvizkusamlega — en á slíku vill einatt verða misbrestur. Ritgerð mín hefði og átt lítið erindi í »Skírni«, ef hún hefði ekki gert annað en endurtaka almannadóma. Þessi orð mín má ekki skilja svo, sem eg þykist sjálfur hafa gert miklar uppgötvanir. Eg hefi — eins og lesendur sjá — langsamlega víðast stuðst við rannsóknir erlendra vísinda- og mentamanna, að svo miklu leyti sem eg hefi skilið skoðanir þeirra og skýringar og mér hafa virzt þær fara sanni eða líkindum næst.

Tvent var það einkum, er hneykslum olli: að eg talaði ekki virðulega um Gunnar á Hlíðarenda og leyfði mér að rengja fornsögur vorar.

Það er satt, að ég dáist ekki eins að Gunnari og þorri manna. Hann er ekki gallalaus, og hví á ekki að kannast við slíkt ! Vér getum unt honum fyrir því. Vér ættum að geta sameinað það að sjá bresti bræðra vorra og þykja vænt um þá. »Til er að eins ein tegund hugprýði í heimi,« segir frakkneskur afbragðshöfundur (Romain Rolland), »að sjá veröldina sem hún er og unna henni«.

Hjá því verður alls ekki komist að rengja fornsögur vorar. Ættartölum þeirra ber t. d. ósjaldan ekki saman. Voru þó ættartölur í röð þess, er einna fyrst var skrásett á landi hér. Við þær

lögðu forfeður vorir og hina mestu rækt. Hvað mun þá um önnur efni? Það er og móðgun við hina ágætustu höfunda sumra fornsagna vorra, t. d. Njálu, Laxdælu, Hrafnkelssögu, Bandamannasögu að skipa þeim á bekk með annála- og munnmælariturum. Það er þeim ódauðleg sæmd, að þeir, að kalla í svartnætti miðaldanna, sömdu sögur vorar að nokkuru með skáldlegri snild og skaparakrafti. Og þá fyrst dáumst vér að list þeirra, er vér gerum oss grein fyrir frumhugsunum þeirra (ideer) og hvaða tegund bókmenta þær verða að teljast til. Annars bið eg lesendurna að minnast þess, að eg held því ekki fram, að Njála sé skáldsaga í nútíðarmerkingu, heldur blendingur (sjá bls. 66 í síðasta hefti Skírnis), og að ég styðst þar m e s t við allan blæ hennar og frásöguaðferð.

Mikilsmetinn rithöfundur vor einu hefir sagt við mig á þessa leið: »Óáreiðanlega vissu söguritarar vorir, ef til vill, eftir þrjár aldir um sumt, er þeir skrifuðu um, en minna vitum vér, sex öldum síðar en þeir voru uppi«. En það er einmitt ráðgátan mikla, góður, hvað þeir vissu, og hvernig þeir fóru með það, sem þeir vissu.

Réttmætari þykir mér sú aðfinsla, er annar mætur maður hefir látið í ljós við mig, að eg hafi sumstaðar eytt ofmiklu rúmi til sannana auðsæju máli. En eg þóttist ekki geta sneitt hjá því sökum þess, hve ófróðir Íslendingar eru um Íslendingasögur.

Það er satt, að sumar skýringar í ritgerð þessari geta orkað tvímælis, hvort réttar séu, enda segi eg oft »líklega«, »eg held«, að sé »hugboð mitt« o. s. frv. Mér getur hafa — og hefir eflaust — skotist í einstökum atriðum. Eg vona samt, að grein mín veki menn til umhugsunar um sögur vorar. En hitt þykist eg vita eins vel og eg rita nú þessi orð við skrifborð mitt, að framtíðin sameinni þeim tveimur höfuðskoðunum, er eg hefi haldið fram í grein minni: að Njála hafi stækkað og siðfágað Gunnar, og að hún sé með skáldlegri list og skáldlegu ráði ritin.

Fel eg svo þessa litlu ritsmíð forlögum sínum og sanngjarnra manna dómi. *S. G.*

**Leiðrétting.** Á bls. 71, l. 1, í seinasta hefti Skírnis, er prentað »ljósta hana allir k i n n h e s t i«, les k i n n h e s t.

Bls. 81, l. 1: b o l l a l e g g i n g u n u m, les b o l l a l e g g i n g u m u m.

---

# Þau sem gleðina þrá...

(Comtesse *De Noailles*).

Þýðing undir franska Alexanderlaginu, tileinkuð *André Courmont*.

---

„Fuyez des mauvais sons le concours odieux:
Le vers le mieux rempli, la plus noble pensée
Ne peut plaire à l'esprit quand l'oreille est blessée".

*Boileau.*

Þau sem gleðina þrá umfram alt eru þau,
sem þá sorgin um leið verstar búsifjar býður:
Frægt eða falið sár er tætir hverja taug
þau bera hjartahreld, hvað sem láninu líður.
Hún ást, það unaðslyf, eina mannheimum
hún letur þetta fólk, áfjáða menn og meyjar
að bæla Sjafnarbál, leita burtu frá því
út um Sólheimasund og yztu Biðlandseyjar,
sem vegleg dúfan veil, hún Von er komin í....

Við sem þekkjum þau vel þessi hamslausu hjörtu,
þar sem heimurinn snýst, hvergi rekur sig á,
vitum það, ástin er umbergis fjarska smá:
Alt í kring, angan, söng, löndin fríð, loftin björtu
hillir upp, hverfur sýn, hulið svefnhúmi svörtu:
Munúðin óttasjúk magnar það töfradá....

Hver og ein skemtan sú er menn skeyt' ekki' að muna,
og fríð framandi lönd — í léttúð öll þau fló,
og vegleg borgin þar — virðist í tíðbrá funa,
og tær ilman í skóg — teiguð í skuggaró,
og vikivakasveim — á vötnum Suðurbygðar,
og rán, anganin sú, frjóvæn — það svikahró:
Alt eins, öll þessi boð — þar kennir kaupalygðar,
halda fram sí og æ fríðindum hennar Fró,
og af því hnígum við að fótum hennar Frygðar . . . .

En sjá jarðarbörn tvö þau sem verð' eins og eitt!
Hvað varðar þau um neitt, hvort ljúft er eða leitt?
Þau tvö vesalingshjú, er ástin saman sveigir,
anda með einum munn, hvort sig í hinu sér,
hugs' ekk' um blómabeð — höfgur sefinn þau hneigir,
né þá um Austurheim, hvar hún Paradís er,
né vært vatnið og bjart, er háan himin eygir,
né ljúf kvöldin og löng, er hún Von þögul þreyir,
heldur það lán, það eitt sem er alt: gleyma sér. . . . .

Geta gleymt! Graf' í þér ljóðheima lyndismeyra,
fær' í hjartað þitt inn öll himinljósin fríð,
fela til fulls í þér, þurf' ekki framar heyra
þann leyndarsöng, er ber að eyrum ár og síð,
breyt' okkar ástum í gríðar óminnisgeima,
svo að hljóð, angan, glit, þar híg' í gleymskudá,
hrinda burt öllu hér, helga sér munarheima,
gef' upp önd, and' í þér, dett' útaf, deyja, frjá! . . . .

*Gestur.*

---

# Um lífseigju dýra og manna.

## Er lífið ódrepandi?

Oft hefi eg síðan eg varð læknir furðað mig á, hve sumir eru lífseigir.

Sumum gengur erfiðlega að fæðast í þennan heim. En langtum fleiri eru þeir, sem eiga erfitt með að deyja. Karlæg gamalmenni eru stundum árunum saman að seiglast á móti sigð dauðans, svo að síðustu verða jafnvel þeirra nánustu leiðir á drættinum. Eg minnist í því sambandi gamansögu eftir Maupassant, sem gerist í Normandíi. Þar er siður að gefa sætt kaffi og lummur ættingjum og vinum, þegar einhver er nýskilinn við. Gömul, efnuð kerling var komin að andláti og virtist að eins eiga eftir nokkur andartök. Erfingjarnir buðu strax nágrönnunum, því lummurnar voru bakaðar og heitar af pönnunni. En gamla konan lifnaði við aftur, og skaut það öllum svo skelk í bringu, að lummurnar gleymdust, og kaffið kólnaði á könnunni.

Hér á landi þekkjum við sögu af mörgum gamalmennum, sem hafa átt í mesta stríði með að komast yfirum og það svo, að stungið hefir verið upp á þeim örþrifaráðum að hvolfa potti yfir vitin á þeim. Ekki skal eg samt fullyrða, hvort þeirra ráða hafi nokkurn tíma verið neytt í alvöru.

Og sé gamla fólkið lífseigt, þá er síður að furða sig á, þó menn í broddi lífsins eigi stundum bágt með að deyja. Við þekkjum það úr fornsögunum, hve sumir kapparnir voru þéttir fyrir og hve marga og mikla áverka

þurfti til að bana þeim. Er oft sorglegt að lesa um, hvernig margir níddust þar á einum og bættu sári við sár, unz kappinn féll — af mæði. Og svipaðar sögur kunna herlæknarnir að segja úr nútímastyrjöldinni. Kúlur þjóta gegnum líkamann þveran og nærri endilangan án þess að verða mönnum að fjörlesti. Menn eru skotnir gegnum maga og garnir, gegnum lifur og lungu, gegnum hjartað sjálft, já jafnvel gegnum höfuðið og heilann og komast þó lífs af. Er þetta ekki undrunarvert? Hér kemur reyndar mikið til greina, hve læknislistinni hefir fleygt fram í að græða og binda um sár manna; þó er það eins mikið að þakka því, hvað mannslíkaminn er traustlega gerður, og hve náttúran er nösk að koma í veg fyrir, að lífið slokni, þó á það blási.

Þá eru sjúklingarnir, sem þjást af langvinnum sjúkdómum. Það er ekki smáræðis tíma, sem það tekur fyrir suma þeirra að deyja. Og þegar vér kryfjum menn, sem dáið hafa úr einhverjum þessara illræmdu sjúkdóma eins og krabbameini, holdsveiki, tæringu o. fl., þá stórfurðar oss oftlega á því, að sjúklingarnir skuli ekki fyrir löngu vera dánir, því svo víðtækar eru skemdir ýmsra líffæra þeirra og það hinna þýðingarmestu, eins og lungnanna, hjartans, meltingarfæranna o. s. frv. Þarna hafa sjúklingarnir getað teygt fram lífið í langan tíma með bæklað og brisjað hjarta, eða maga og garnir alla vega étnar af sárum, samgrónar og tærðar, eða annað lungað burtgrafið og upphóstað, en að eins slitur af hinu — og þannig má halda lengi áfram.

Á hallæristímum kemur það oft fyrir, að börn og þó einkum fullorðnir þola sveltu alveg furðanlega lengi, eða draga fram lífið við sultarfæðu svo lengi, að allir hljóta að undrast. Um þess konar dæmi munum við eflaust fá nóg að heyra, þegar styrjöldinni miklu slotar. Og til eru menn, sem til að sýna sig og græða fé hafa æft sig í að þola sult í langan tíma. Merkustu dæmi þess var italskur trúður, Cetti að nafni. Hann svalt í 70 daga og neytti einskis matar nema drakk vatn. Vatnsfasta þolist sem

sé langtum betur en þurrafasta. Reynsla er fyrir því, að fullkominn sultur og þorsti í sameiningu þolist ekki lengur en í 10—12 daga, en oftast skemur.

Um það, hve vel menn þola kulda og vosbúð, eru margar misjafnar sögur. Dæmi eru til þess, að maður hefir þolað að liggja næringarlaus í fönn í 12 daga, en þá var hann líka orðinn aðframkominn og blóðhitinn kominn niður í 27° C. Hins vegar þolist hiti miklu síður. Jafnskjótt og hitinn fer dálítið upp úr 40°, er mesta hætta á ferðum og sjaldan, að menn lifi það af, ef blóðhitinn fer fram úr 42°.

Furðulegt er það, hve skurðlæknum nú á tímum tekst að skera burt marga og mikilvæga hluta líkamans án þess að til dauða dragi fyrir sjúklinginn.

Maður getur mörgu vanist og fundið það seinast með feldu og eðlilegt, og svo er um okkur lækna. En eg man það fyrir mitt leyti, hve eg varð forviða, er eg fyrst var að kynnast ýmsum skurðlækningum, sem því nær daglega fara fram á hinum stóru sjúkrahúsum erlendis. Eg varð hissa á að sjá, hve mikið mátti bjóða dauðlegum mönnum með hnífnum, og það sjúklingum, án þess að svifta þá lífi. T. d. mátti taka af manni fleiri limi í einu, báða fætur eða báða handleggi, eða handlegg og herðablað í einu. Og alt gréri á nokkrum vikum. Það mátti taka burt annað nýrað og jafnvel þvagblöðruna með, það mátti taka miltið, eða t. d. langan bút úr görnunum, já taka úr mönnum magann í heilu lagi. Og sjúklingarnir hrestust furðu fljótt og lifðu lengi eftir, stundum við góða heilsu, rétt eins og líkami þeirra saknaði svo sem ekkert þessara burtteknu líffæra, sem allir vita þó, að eru ekki í okkur sköpuð tilgangslaust, heldur til að gegna margbrotnum og mikilvægum lífstörfum. En þetta kennir okkur, að líf vort og líkami er dásamlegt furðuverk, og að náttúran er ráðagóð í að laga sig eftir ýmsum óhöppum og óreglu.

Þó mundi okkur sjálfsagt furða enn meira, hve maðurinn er lífseigur, ef við ættum enn kost á að horfa upp á, hvernig sakamenn voru stundum kvaldir til dauða

fyr á öldum. Sagan af því, hvernig[1]) morðingi Hinriks 4 Frakkakonungs var tekinn af lífi, gefur glögga en andstyggilega hugmynd jafnt um lífseigju mannsins og grimd manna.

Morðinginn Ravaillac var 32 ára gamall. Fyrst var hann píndur til sagna á píningarbekk, líkaminn teygður og stunginn með rýtingum hingað og þangað. Játaði hann þá brot sitt og iðraðist. Síðan voru bönd lögð á alla fjóra útlimi hans og fjórum hestum beitt fyrir, einum hesti fyrir hvern lim. Einn af klerkunum byrjaði þá á sálminum „Salve Regina“, en múgurinn sem horfði á æpti og kallaði: „Engar bænir fyrir fordæmdum — niður með Júdas!“ Því næst kleip böðullinn Ravaillac með rauðglóandi töngum alstaðar þar sem til var tekið í dómnum. Þá þrýsti hann inn í hægri hönd hans morðkutanum, sem hann hafði myrt kónginn með, hélt síðan hendinni yfir brennisteinsloga, þar til hún var brunnin af upp að úlnlið. Þessu næst helti hann sjóðandi olíu og biki, blönduðu vaxi og brennisteini, í sárið. Þar næst voru hestarnir keyrðir svipum og leið nú svo klukkustund, að þeir toguðu, en fengu þó ekki slitið manninn í sundur. Á meðan virtist Ravaillac vera með fullu ráði og hvað eftir annað fól hann önd sína guði og emjaði hástöfum. Einn af aðalsmönnunum, sem hafði eftirlit með aftökunni, tók eftir því, að einn hesturinn var að uppgefast. Hann fór því af baki, leysti hestinn frá og beitti sínum hesti fyrir í staðinn. Þetta dugði þó ekki heldur. Böðullinn varð síðast að grípa til hnífs til að skilja að líkamspartana og um leið þutu hestarnir sinn í hverja áttina með blóðuga bútana, en hinn æðistrylti múgur tætti þá síðan og murkaði enn meir í sundur.

Þess var áður getið, að það kemur fyrir að menn lifi það af, þó þeir séu skotnir í heilann, en það er þó því að eins, að kúlan komi af mjög löngu færi eða vopnið sé kraftlítið. En það, að venjulega hlýzt bráður bani af heilaskoti, er meira að kenna hinum snögga, ákafa þrýstingi, sem gagntekur heilann og mænuna, en af því að heilinn þoli ekki skemdina. Þetta mun nú ýmsum þykja kynlegt, því að flestum hefir verið kent, að heilinn sé bústaður sálarinnar, og skemmist hann, fari sálin og þá lífið um leið, en þetta er ekki alls kostar rétt; því lífið getur haldið áfram, þó hið æðra sálarlíf eða persónan fari, og enn fremur sést það við meinsemdir og sjúkdóma í

[1]) Sjá O. Bloch, Om Döden, Khb. 1903. II. bls. 237—238.

heilanum, að sálarlífið getur haldist nokkurn veginn í lagi, þó sumir heilapartar detti úr sögunni. Mikilsverð líffæri, eins og lungun og hjartað, geta starfað algjörlega óháð heilanum og viðhaldið lífi í líkamanum um langa stund. Þetta sést greinilega af tilraunum, sem gerðar hafa verið á dýrum. Stórheilinn hefir verið skorinn úr fuglum og ýmsum spendýrum, og þau halda lífi þrátt fyrir það, en skynjunin, vitið og viljinn tapast. Það verður að hafa vit fyrir þeim; þau hafa ekki hemil á hreyfingum sínum. Það verður að ýta þeim úr stað. Þá ganga þau eða fljúga þangað til eitthvað stöðvar þau. Og þau mundu svelta, ef matnum væri ekki otað að þeim, en þau geta melt og þau geta andað, af því að innýflataugakerfi þeirra er óskert og getur haldið áfram störfum. Andardrátturinn er okkur venjulega alveg ósjálfráður og heilinn þarf ekkert um hann að hugsa. Í mænukylfunni (medulla oblongata) er ofurlítill blettur, sem Flourens (ítalskur læknir) fann fyrstur manna. Ef þessi blettur er stunginn eða skaddaður, hættir óðara andardrátturinn. Í blettinum er með öðrum orðum stjórnarmiðstöð andardráttarhreyfinganna. Hins vegar eru í hjartanu sjálfu taugahnoðu, sem stjórna hreyfingum þess. Og niður eftir allri mænu eru stjórnarmiðstöðvar ýmsra vöðvahreyfinga. Af þessu skilst, að ýmsar lífshreyfingar geta átt sér stað, eftir að höfuðið er höggvið af bolnum. Þetta sjáum við þegar skorin er kind. Æðarnar halda áfram að spýta og dýrið getur spriklað um stund. Og greinilegar kemur þetta í ljós, þegar t. d. kálfur er skorinn snögglega; þá getur hann sprottið á fætur og gengið spölkorn. Og þegar haus er höggvinn af hana, getur haninn flogið talsverðan spöl til mikillar undrunar fyrir áhorfendur. Margar sögur eru sagðar, sem fara í svipaða átt, af mönnum, sem hafa verið hálshöggnir, en flestar eru þær bygðar á rangri athugun. Sú saga nær t. d. engri átt, sem sögð er af píslarvotti einum í Bologna á miðöldunum, að hann hafi tekið upp höfuð sitt og borið það spölkorn burtu, en síðar var honum reist kirkja til minningar, þar sem hann lét höf-

uðið niður. Bolurinn getur ekki hugsað eftir að höfuðið er farið. Það var fyrirgefanlegt, þó Jómsvíkingar[1]) ímynduðu sér að svo kynni að vera, því hugmyndin um bústað sálarinnar var þá á reiki. En alt fram á 19. öld hefir sú trú haldist, að meðvitund gæti haldist með höfðinu nokkra stund eftir afhöfðun.[2]) Aristóteles segir frá presti, sem hafði verið myrtur, að höfuð hans hafi sagt: »Carcidas hefir drepið mig«. Maður með því nafni var fundinn, og sannaðist að hann væri morðinginn. Aristóteles trúir þó þessu ekki fremur en frásögu Hómers um höfuð[3]) Dólons, sem á að hafa haldið áfram að mæla um leið og það fauk af bolnum. Sams konar sögur má finna bæði í Njálu og Laxdælu af Þorkeli Höllusyni og Auðgísl, sem töldu silfrið, »ok nefndi ellifu höfuðit, er af fauk bolnum«. Þetta eru alt tilhæfulitlar þjóðsögur, tilhæfan aðeins sú, að ef til vill hefir heyrst ymja í búknum út um barkann, líkt og kemur fyrir að hæns halda áfram garginu, eftir að höfuðið er höggvið, en hjá þeim verður það greinilegra, af því að raddfæri fuglanna liggja neðarlega í barkanum.

Um Maríu Stuart var sagt, að hún hefði hreyft varirnar eftir aftökuna, eins og til að halda áfram bæninni, sem hún var að biðja á undan. Og Charlotte Corday átti að hafa roðnað fyrir það, að böðullinn sýndi henni þá óvirðingu að slá á kinn hennar, eftir að höfuðið var höggvið af. Út af slíkum sögum og út af því að böðull-

---

[1]) Sjá Fornmannasögur 11. bindi, Khöfn 1828, bls. 149—150, þar sem sagt er frá því, þegar Þórkell leira er að höggva Jómsvíkinga:

Þá er þangat leiddr enn 7di ok spyrr Þorkell eftir vanda: „Hvern veg er þér um at deyja“? — „Ek hygg allgott til at deyja, en þú högg mik skjótt; ek held á týgilknífi, því at vér höfum átt oft um at ræða Jómsvíkingar, hvárt maðr vissi nokkvat ef hann væri allskjótt höggvinn þá er höfuðit væri af; en þat mun til merkis, at ek mun vísa fram knífinum, ef ek veit nokkut, ella mun hann niðr falla“. Þorkell höggr þann, ok fauk af höfuðit, en knífrinn féll niðr.

[2]) O. Bloch, Om Döden, Khöfn 1903, bls. 400—413.

[3]) Ilionskviða X. 457 v.

inn Sanson, sem stjórnaði fallöxinni við aftökurnar mörgu á stjórnarbyltingartímanum, þóttist oft hafa séð afhöggvin höfuð láta í ljósi sársaukamerki, fóru ýmsir læknar að rannsaka málið.

Óbótamaðurinn Lacenaire, sem var dæmdur til að hálshöggvast, hét lækni sínum, að hann skyldi gefa honum merki með því að depla augunum, ef hann vissi nokkuð af sér eftir að höfuðið fyki af bolnum. En hann gat ekkert merki gefið, fremur en Jómsvíkingurinn í sögunni.

Eigi að síður er það þó áreiðanlegt, að menn sem eru hálshöggnir geta líkt og dýrin hreyft bæði andlit og limu. Áreiðanlegar rannsóknir merkra lækna (Holmgren og Loye) hafa sýnt, að þetta kemur fyrir, en þó sjaldnar og minna áberandi enn hjá sumum dýrum. Varir kunna að hreyfast og augu að ranghvolfast, en þær hreyfingar eru að eins ósjálfráðir vöðvakippir (reflexhreyfingar). Þess konar kippir geta eins komið fyrir í andliti eins og hvervetna í líkamanum, þar sem vöðvar eru. En um meðvitund getur alls ekki verið að tala, því blóðrenslið frá heilanum verður svo snögt og mikið eftir höggið, að alt æðra sálarlíf hverfur.

En er nú maðurinn dauður, þó af sé höfuðið?

Persónan er horfin (jacet sine nomine truncus), en líf er þó enn í líkamanum. Það sýna hreyfingarnar. Það svífur ekki yfir mann alger dauði alt í einu, nema allur líkaminn eyðileggist á svipstundu. Sum líffæri deyja fyr enn önnur. Það er langt síðan menn tóku eftir því, að hjartað getur slegið og lifir lengur en önnur líffæri (cor ultimum moriens). Franski læknirinn Loye hefir séð það halda áfram hreyfingum heila klukkustund eftir andlátið. Og þannig er það venjulegt, að líkaminn deyr ekki allur í einu lagi, hver sem dauðaorsökin er, þó mjög sé misjafnt hve líffærin eru lífseig, og fer það eftir ýmsum atvikum.

Nýjustu rannsóknir hafa sýnt, að bæði menn og dýr eru langtum lífseigari en nokkurn hafði áður grunað. Má stundum halda líffærum nýdáinna manna sem dýra lifandi þó nokkurn tíma. Frumur úr hjartanu og taugafrumur

má geyma svo vikum skiftir. Um þetta hefi eg skrifað í Skírni 1914 (um lífsins elixír og hið lifandi hold), og leyfi mér að vísa til þess.

Þó fer fjarri því að æðri dýrin séu eins lífseig og sum lægri dýr, og mætti nefna mörg dæmi.

Allir þekkja ánamaðkinn. Það má skera hann í nokkra parta og hver bútur getur lifað að minsta kosti nokkurn tíma sem sjálfstæður maðkur. Sumir segja, að hann skríði saman, en það er bábilja. Hins vegar er mjög auðvelt að græða bútana saman með nokkrum saumsporum. Sjálfur hefi eg sannfært mig um, að það getur hepnast. Sárin gróa á 2—3 dögum.

Sum lægstu dýrin, eins og skólpdýrin (infusoria), má klippa sundur í marga parta og deyja þau ekki að heldur. Hver partur verður að nýju dýri.

Einkennilegast af öllu er þó, að sum dýr geta, líkt og sumar plöntur, þolað að gaddfrjósa í margra gráða frosti. Þau geta legið þannig mánuðum saman (ef til vill ótakmarkaðan tíma) og þó lifnað við þegar þíða kemur; að eins má þiðnunin ekki vera mjög snögg. Frostið heltekur svo öll líffæri, að engin lífsmörk eru sjáanleg, og í rauninni getur enginn sagt, að hér sé um annað að ræða en algerðan dauða. Sumar sniglategundir, froskar og sumir[1]) fiskar, hvað þá heldur ýms lægri dýr, þola að liggja gaddfrosin allan veturinn, en lifna við á vorin með fullum kröftum. Sum lægri dýr, eins og t. d. hjóldýrin, þola þornun á líkan hátt. Í sólskini og þurki þorna þau inn og verða að skrælþurru hismi, og finnast þá engin lífsmörk með þeim framar. En jafnskjótt og væta kemur, lifna þau við á ný eins og ekkert hefði í skorist.

Hvað er þá orðið af lífinu í þessu dvalaástandi dýranna? Er það ekki alveg horfið í bili? Svo sýnist vera. En er þá ekki hér að ræða um h o l d s i n s u p p r i s u?

---

[1]) Einhverstaðar hefi eg lesið, að menn séu farnir að hagnýta sér þetta þannig að frysta t. d. lifandi ála og senda þá frá Danmörku til markaðar á Englandi.

Það er svo að sjá sem frostið og þurkurinn valdi þeim breytingum í efnasamböndum þessara dýralíkama, að lífið sloknar. En hvernig kviknar aftur á skarinu?

Hefir máske þurkurinn og frostið rekið úr sambandi einhver efni eða efnasambönd, sem við ekki þekkjum?

Æðri dýrin með heitu blóði þola ekki að lífshreyfingarnar stöðvist eins algjörlega og nú var sagt um lægri dýrin. En sum þeirra þola þó að missa lífið að nokkru leyti, og geta öðlast það aftur eftir vissan tíma. Allir hafa heyrt um vetrardvala bjarndýrsins og annara dýra. Lífshreyfingarnar verða um tíma svo hægfara, að í fljótu bragði virðast dýrin liggja dauð. En við nánari rannsókn sést, að hér er að eins að ræða um hvarf hins æðra sálarlífs. Meðvitundin er farin, með því að heilafrumurnar eins og liggja í dvala, og hafast ekki að. En dauðamörk eru engin á frumunum; þær eru lifandi, en lífið er mjög hægfara, eins og hefði verið skrúfað niður á lampa lífsins.

Svipaður dvali er ekki óþektur í mannheimum heldur. Til eru menn, bæði á Austurlöndum (fakírar) og hér og hvar annarstaðar, sem geta fallið í dá svo djúpt, að engin lífsmörk finnast nema eftir vandlega athugun. Sálarlífið er horfið, en hið meðvitundarlausa næringarlíf eða frumulíf líkamans heldur áfram, þó hægfara sé, og eftir vissan tíma getur sálarlífið tekið aftur til starfa — vitundarljósið blossað upp á ný.

Frá því í fornöld hafa ýmsir vitrir menn í öllum löndum, hjá öllum þjóðum, gert sér þá hugmynd, að líkaminn sé gæddur lifandi sál a n d l e g s e ð l i s, sem tæki sér bústað í honum. Og andlegs eðlis mér klerkar kendu að sálin væri.

En þessi andlega sál hefir til skamms tíma yfirgengið vorn skilning Nú erum við hins vegar farnir að kynnast ýmis konar orku og efnum svo dásamlegs eðlis, að þau nálgast hugtakið a n d l e g t. Greinarmunurinn á efni og anda, efni og orku, er að verða reikandi. Sennilega eru

til mörg efni sem enn eru óþekt, og ef til vill eru sum þeirra enn þá dásamlegri en þau sem okkur nú finnast aðdáunarverðust. Það má vel vera, að til sé sál og sé úr slíkum efnum gjörð.

„Das sieht schon besser aus!
man sieht doch, wo und wie" —

segir lærisveinninn í »Faust«. —

Áður fyr töldu menn lífið farið um leið og hið æðra sálarlíf sloknar og maðurinn andast. Nú vitum við að lífið dvelur enn um hríð í líkamanum eftir andlátið. Sálin er víðfaðmari og margbrotnari en menn héldu áður; því áður kölluðu menn að eins æðri hluta lífsheildarinnar sál. En réttast mun að kalla alla lífsheildina sál og segja líf og sál eru eitt. En sálin í þeirri merkingu er ekki eins fljót að fara úr líkamanum og áður var haldið. Það er eins og hún haldi dauðahaldi í líkamann — eða líkaminn í hana. Og stundum er líkast því sem hún fari sárnauðug burtu — »harmandi forlög sín, er hún þarf að skilja við þroskann og æskuna«, eins og Hómer kemst að orði um sál Hektors.

Í öllum löndum, hjá öllum þjóðum, á öllum tímum hafa ýmsir — líka óljúgfróðir menn — sagst sjá svipi manna, bæði dáinna og sofandi. Mannleg augu geta ekki greint annað en það sem er efniskent. Ef svipir sjást, hljóta þeir að vera úr efnum gerðir.

Njáll lét segja sér þrisvar, áður en hann trúði því er honum þótti furðulegt.

Við höfum flestallir heyrt þetta oftar — miklu oftar en þrisvar og margt annað gott því til stuðnings. Og þó — erum við vantrúaðir, því Tómasareðlið er ríkt í okkur. En eg segi fyrir mitt leyti eins og Festus forðum við Pál: »Lítið vantar á —?«, og eg er óðfús til frekari fræðslu í þessum efnum. Því það væri sannarlega mikilsvert að vita það með vissu, að við lifum þótt við deyjum.

*Steingrímur Matthíasson.*

---

# Umhleypingar.

---

Í ástaleitir langar
eg lagði' í dögun ungur.
Hef þolað þorsta' og hungur
og þrammað veglaus fjöll.
Hef kannað sjafnarklungur
og kvennaveðrin öll.

Þá fyrstu hugði' eg fremsta.
Af fegurð vóðu hylji
mín ást og von og vilji.
Hún veitti alt með rausn.
En brá í él og bylji. —
Eg bað um hlé og lausn.

Eg sat með öðrum svanna
við sjafnarglóð og yndi.
Það eðli — ást og lyndi
var eins og hvikult haf,
með ölduelg og vindi,
sem enga hvíld mér gaf.

Mér féll ei hafsins faðmur;
því fór eg enn á stúfa:
Eg kaus mér lognið ljúfa
og lágan, væran hug. —
Fanst molla' og glötun grúfa
yfir geði mínu' og dug.

Eg hrepti svæsna hita
í hrundar blíðulundi.
Við sátum sveitt á fundi
og sint var lítt um hóf. —
Þeim eldum skamt eg undi,
og ástin stóðst ei próf.

Eg bjó við harðar brúnir,
mér bauðst sá stríði haddur;
til eiðs og ásta kvaddur
af ís í strengdum kjól.
Mér ægir enn sá gaddur;
þar átti' eg hvergi skjól.

Í mörgu kærleikskoti
eg kunni gisting illa.
Og hálfleiks vafs er villa,
sem verður engum happ,
né gjöf til friðarfylla.
Og furða' er hvað eg slapp.

Eg bý við prúðar bjarkir
á blómafrjóum völlum,
við sól í áttum öllum
og ástarhvelin heið. —
Á slysa' og fenjafjöllum
hef fundið rétta leið.

*Jakob Thorarensen.*

---

# Erasmus frá Rotterdam.

Eftir *Magnús Jónsson*, dócent.

---

## I.

Nú um 400 ára afmæli siðbótarinnar, mætti líta á ýmislegt, sem er henni nátengt, þótt eigi sé það beinlínis talið til hennar. Á hverri stórri sýningu eru margar »hliðarsýningar«, sem gaman er að sjá um leið, og svo er það og um stórbyltingar mannkynssögunnar. Hér skal brugðið upp einni slíkri hliðarsýningu, enda þótt einnig megi skoða hana sem sjálfstæðan viðburð. En það er sá þáttur mannkynssögunnar, sem leikinn var af Erasmusi frá Rotterdam.

Erasmus frá Rotterdam er eins og kóróna eða hátindur þeirrar voldugu andans hreyfingar, sem kölluð er ýmist Renaissance (endurlífgunarstefna) eða Humanismus (mannúðarstefna). Mannkynssagan greinir eigi frá annari stórfenglegri eða glæsilegri hræringu. Náði hún um flest lönd álfunnar og var mjög margvísleg. Upprunnin var hún á Ítalíu á 14. öld. Þegar fram í sótti gerðust ýmsir forkólfar hennar skeytingarlitlir um trúmálin og þóttu eigi hvítir sauðir innan kirkjunnar. En undir lok 15. aldarinnar tekur hún að færast nær kirkjunni. Er höfuðból hennar þá flutt orðið norður yfir Alpafjöll, til germönsku þjóðanna. En þótt húmanistarnir yrðu vinsamlegri í garð kirkjunnar og trúarinnar, þá voru þeir þó alla stund værugjarnir og hæglátir um trúmálið. Hjá þeim var vöknuð löngun eftir siðbót, en hún átti að vera í alt öðrum anda en siðbót Lúthers varð. Húmanistarnir, með

Erasmus í broddi fylkingar vildu siðbæta kaþólsku kirkjuna. Meðan þeir héldu að Lúther stefndi og að því marki fylgdu þeir honum nálega sem einn maður. En þegar Lúther gerðist óhlýðinn kirkjunni og klýfur lönd og þjóðir frá henni og stofnar nýja kirkju, þá er flestum húmanistunum nóg boðið.

Andlega lífið síðast á miðöldunum var ákaflega sundurleitt og skamt andstæðanna milli. Þá voru lægri klerkar fávísir og fullir hleypidóma, og betlimunkarnir svæsnir. En þá voru líka hámentaðir menn, sem töluðu latínu og grísku eins og móðurmál sitt. Þá voru umbótaprédikarar svo svæsnir, eins og þeir vildu hrópa eld og brennistein af himnum yfir gerspilta jörðina. Og þá voru páfar og kardínálar svo léttúðugir og skeytingarlausir um alt heilagt, að firn mega þykja. Einhver allra bezti leiðarsteinninn um allar þessar vandrötuðu leiðir er Erasmus frá Rotterdam. Til er ógrynni af bréfum hans um alla hluti og hugmyndir, sem uppi voru. Eru bréf hans alveg óvenju skemtileg, bæði sökum þess hve vel þau lýsa tíðarandanum, og þó eigi síður sökum hins, hve meistaralega þau eru rituð. Á yfirborðinu er oftast sárbeittur kuti háðsins, en undir ræður þungur alvöru- og áhuga-straumurinn. Og þau eru rituð af manni, er stóð á hátindi lærdóms og listfengi þess tíma, og er þá mikið sagt. Tilgangurinn er sá, að gefa hér lítið sýnishorn þessa.

Erasmus er fæddur í Rotterdam árið 1466 eða 1467. Ættarnafn hans var Gerrard, dregið af sögninni gieren = þrá. Seinna meir var svo nafn hans eftir tízkunni sett á latínu, og varð þá Desiderius, og á grísku Erasmus, og það festist við hann. Upphaflega átti hann að verða söngvari, því að hann hafði óvenju skæra barnsrödd. En þegar á átti að herða var hann frábitinn söngnum, og var hann þá setur í skóla. Þar fékk hann í fyrsta sinn blóð latínunnar á tunguna, og færði sér það óspart í nyt. Lærði hann Terentius utanbókar og töluvert í Horatiusi. Þá var hann 13 ára, er hann lauk þessu fyrsta skólanámi. En

skömmu síðar dóu foreldrar hans bæði. Þeir voru tveir bræðurnir, Pétur var eldri og Erasmus yngri.

Þeim voru nú settir þrír forráðamenn. Einn þeirra dó skömmu síðar. Annar skeytti þeim ekkert, svo að sá þriðji fékk öll ráðin. Sá var skólameistari og var lítið prúðmenni. Hann eyddi fyrst reitum þeirra, og vildi svo losna við allar frekari áhyggjur af þeim, með því að keyra þá í klaustur.

Vér eigum skýra frásögu um þetta alt, í bréfi, sem Erasmus skrifaði löngu seinna á páfagarð. Þá var hann orðinn fulltíða og heimsfrægur maður. Er bréf þetta þrungið af heift til munkanna fyrir ofbeldi þeirra við unglinga þá, er þeir vilja ná í klaustur. Bræðrunum var þvert um geð að fara í klaustrið, og hófst nú þrautatími fyrir Erasmus, 14 ára gamlan pilt, með alla á móti sér. Voru þeir ýmist undir ógnunum um helvíti og kvalirnar ef þeir þverskölluðust, eða þá fagurgala um himnaríkissælu klaustralífsins. Honum var lofað nógum bókum í klaustrinu, og það dró hann fastast. Öll byrðin lenti á Erasmusi, því að Pétur var ístöðulaus og brást þegar verst gegndi. Erasmus segir að hann hafi verið engu betri maður en Júdas frá Kariot, og það hafi verið versti skaðinn, að hann hafi ekki fetað í fótspor Júdasar út í æsar, og hengt sig.

Þannig þraukaði hann í 2 ár, og er það undraverð seigla. Kemur hér þegar fram það, sem ávalt var skýrasta og fegursta einkenni Erasmusar: frelsisást hans. Hún hélt 14 ára gömlum piltinum uppi einum í baráttunni gegn þessu fádæma ofurefli. Og hún hélt honum alla æfi frá því að verða undirlægja og verkfæri annara. Hann neitaði hvað eftir annað hylli og peningum þjóðhöfðingja, til þess að ganga þeim ekki um of á hönd. Hann neitaði embættum kirkjunnar, jafnvel kardínálatign af sömu ástæðum. Og þó kvartaði hann manna mest um fjárþröng og var sólginn í frægð. En frelsið var dýrmætast.

Lútherskir sagnaritarar hafa yfirleitt ekki látið Erasmus njóta sannmælis, af því að hann gat ekki fylgt Lúther.

Hann hefir verið sakaður um tvíveðrungshátt og fals. Satt er það, að hann var lengi á báðum áttum. En hver getur á svipstundu áttað sig á slíkum stórbyltingum? Og hann fór ávalt eftir beztu sannfæringu, en var ófús að taka stökk út í myrkrið. Skifti þeirra Lúthers og Erasmusar hlutu að fara eins og raun varð á, eftir öllu eðli beggja. Erasmus vildi umbætur á kirkjunni, en enga uppreisn. Hann lýsti sjálfur muninum meistaralega, þegar menn báru honum á brýn, að hann hefði orpið því eggi, sem Lúther ungaði út. »Nei«, sagði hann, »í mínu eggi var hæna, en Lúther ungaði út bardaga-hana«. Og í einu af bréfum sínum segir hann: »Hvenær sem eg fæ að sjá Lúther aftur standa á kletti (kaþólsku) kirkjunnar, þá skal eg berjast við hans hlið«. Á því valt.

Eftir tveggja ára þauf hopaði Erasmus loks stig af stigi inn í klaustrið. Þyngslin voru of mikil fyrir barnsherðarnar. Hann var í klaustrinu í 6 ár. Alt brást honum. Hann fekk engar bækur. Hann þoldi ekki fösturnar. Hann kvaldist af því að horfa á ruddaskap og ólifnað munkanna.

Hjálpin kom frá biskupinum í Cambray. Hann fekk páfaleyfi til þess að taka Erasmus til sín fyrir ritara. Þó var hann munkur eftir sem áður. Og lausnin úr klaustrinu átti að vera um stundarsakir að eins. En hún varð þó æfilöng.

## II.

En nú verðum vér að láta niður falla þráðinn í sögu Erasmusar. Annars yrði þetta heil bók, en ekki stutt grein og sýnishorn. Saga hans er full af umskiftum. Hann var næstum því á sífeldu flakki, bæ úr bæ og land úr landi. Næstum eini leiðarsteinninn eru bréf hans. En framan af æfi hans eru þau ódagsett og flest einnig óárfærð.

Hann komst að mentabrunninum mikla, Parísar-háskóla, og bæði lærði og kendi. Meðal lærisveina hans var Mountjoy lávarður, enskur, sem varð ein mesta hjálpar-

hella Erasmusar í peningasökum. En peningasakirnar voru jafnan mesta áhyggjuefni hans, eins og margra lista- og vísindamanna fyr og síðar. Hann þurfti mikla peninga, en hafði þá oftast litla.

Það var að undirlagi Mountjoys lávarðs, að Erasmus fór fyrstu ferð sína til Englands. Það var árið 1497, og var hann þá þrítugur að aldri. Varð það eitt hið afdrifamesta spor fyrir hann, því að þar komst hann í hóp stórgáfaðra manna, sem voru mjög andlega skyldir honum, svo sem voru þeir Colet, Warham, Thomas More o. fl. Höfðu þeir, og einkum Colet, djúptæk áhrif á Erasmus, og drógu hann nær kirkjunni og guðfræðinni. Þeir voru á hans reki, ungir að aldri, en urðu síðar, svo sem kunnugt er, mestir áhrifamenn og valdahæstir á Englandi. Sagan segir, að þeir More og Erasmus hafi hizt og talast við um stund, án þess að hvor vissi um hinn, hver hann var. Hefir talið vísast komið víða við, og hvorugur komið að tómum kofum hjá hinum, því að eftir nokkra stund segir Erasmus alt í einu: »Þú ert annaðhvort More eða enginn«! Og More svaraði undir eins: »Og þú ert annaðhvort Erasmus eða fjandinn sjálfur«!

Eftir nokkurra ára dvöl á Englandi hélt Erasmus aftur til Parísar, og skömmu síðar gefur hann út bók þá, er fyrst bar nafn hans út um alla álfuna á svipstundu og kom nafni hans á hvers manns varir. »Adagia« hét hún — spakmæli, forn og ný. Og nú hefst starfsemi hans fyrir alvöru, barátta fyrir endurbótum á kirkjunni, eins konar ný-guðfræði þeirra tíma. Beitir hann vopnum sínum sérstaklega í tvær áttir, móti munkafarganinu og háspekingunum og guðfræði þeirra, og er hann alveg þindarlaus í háði sínu um þá. Hann skrifar t. d. um munkana:

»Þegar munkarnir tala um hlýðni, gera þeir það með þeim hætti, að vandlega sé dregin fjöður yfir hlýðnina við guð. Kóngar eiga að hlýða páfanum. Prestar eiga að hlýða biskupunum. Munkarnir ábótunum. Oft ber það nú við, að ábóti er fylliraftur. Hann gefur svo undirtyllum sínum skipun í hlýðninnar nafni. Og um hvað er svo sú skipun? Um siðferði? Nei. Um drykkjuskap

Nei. Um ósannsögli? Nei, og aftur nei. Hún er um það, að munkar megi ekki læra grísku. Þeim er stranglega bannað að auðga anda sinn. Þeir mega drekka. Þeir mega elta skækjur. Þeir mega ljúga og bölva eins og hjarta þeirra girnist. Þeir þurfa aldrei að líta í heilaga ritningu. Það gerir ekkert til. Ekkert af þessu kemur í bága við munkaheitið. En ef þeir óhlýðnast boði asnans, sem yfir þá er settur, þá skal gengið næst lífi þeirra«.

Í bréfi til eins af lærisveinum sínum, er Grey hét, ræðst hann á háspekingana (scótistana)[1]) með sárbeittu háði:

»Svo djúpt er eg sokkinn niður í að lesa Scótus, að sjálfur Stentór gæti ekki vakið mig. »Vakið þig!« segir þú, »fyrst þú ert að skrifa, hlýtur þú að vera vakandi«. Góði vinur! Þá þekkir þú ekki guðfræðis-svefninn. Þú getur skrifað bréf upp úr þeim svefni. Þú getur heimsótt skækjur og drukkið þig fullan upp úr honum. Lengi vel hélt eg, að sagan um Epimenides væri lygasaga. Nú veit eg betur. Epimenides varð hundgamall. Og þegar hann loksins dó, var húðin á honum alþakin leyndardómsfullum rúnum. Sagt er, að hún sé geymd í Parísarborg, í háskólanum, þessari féhirzlu scótista guðfræðinnar, og þar er hún í engu minni hávegum höfð en sibyllubækurnar voru í Rómaborg. Epimenides var scótisti, eða máske var hann Scótus sjálfur. Hann ruddi úr sér svo mikilli dulspeki, að af því að hann var ekki spámaður, þá skildi hann sjálfur ekkert orð í henni. En þegar prófessorarnir stranda í rökleiðslum sínum, þá sækja þeir allan vísdóm til húðarinnar. En enginn má líta á húðina fyrri en hann hefir í 15 ár grafist niður í guðfræðina. Ef yngri menn dirfast að gera það, verða þeir slegnir steinblindu.

Einu sinni fór Epimenides út að ganga. Því að jafnvel scótistar ganga einstakasinnum úti. Hann viltist og lenti í helli einum. Þar virtist honum gott næði til heilabrota. Hann settist niður, nagaði á sér neglurnar og velti í huga sér hvílíkleikum, hvaðlegleikum og hringsönnunum. Loks fór hann að dotta, og á því gekk í 47 ár. En hepnismaður var Epimenides, að hann skyldi þó vakna á endanum. Flestir guðfræðingar vakna aldrei. En nú var heimurinn orðinn annar, þegar hann vaknaði. Hellismunninn

[1]) Svo nefndust þeir háspekingar, er fylgdu kenningum Dúns Scótusar, en hann var einn af nafntoguðustu lærifeðrum háspekinnar (d. 1304).

var mosavaxinn. Landslagið, bærinn, göturnar, húsin, fólkið, fötin, tungumálið — alt var breytt. Svo öðfluga breytist þessi heimur. En allan tímann var hann að dreyma — dreyma scótista guðfræði og ekkert annað. Scótus var Epimenides endurvakinn — og hugsaðu þér nú hann Erasmus, kunningja þinn, sitja yfir ólukkans skræðunum hans, geispandi, með hnyklaðar brýr og starandi út í bláinn. — Þeir segja, að skáld og listamenn séu útilokaðir frá scótista vísdóminum. Menn verða fyrst að gleyma öllu öðru. Ódáinsdrykk fegurðarinnar verða þeir að kasta upp. Eg er nú að reyna það. Eg tala ljóta latínu. Eg forðast smellnar setningar. Aldrei geri eg að gamni mínu. Og eg held líka, að mér sé að miða í áttina. Smátt og smátt kemst Erasmus í þeirra hóp. Og þegar þú sér mig næst, verður hann gamli kunningi þinn ekki lengur til. Þú mátt ekki misskilja mig. Eg ber virðingu fyrir guðfræðinni sjálfri. Eg á að eins við þennan óskapnað, sem menn kalla guðfræði á vorum dögum, og guðfræðinganna, sem hafa þá mygluðustu hausa, sljóustu skynsemi, óskaplegustu kenningar, ruddalegustu framkomu, saurugasta líferni, skammarlegasta munnsöfnuð og mórauðustu samvizkur allra þeirra manna, sem eg hefi hitt á þessari jörð.«

Svona lét Erasmus svipuna dynja. Og það var ekki furða þótt einhver emjaði. En þó var þetta byrjunin að eins. Frh.

---

# Ritfregnir.

---

**Island. Strejflys over land og Folk.** Udgivet af Dansk Islandsk Samfund. Med 27 Illustrationer. Kbh. 1917.

Bókin ber nafn með rentu. Hún er leiftur yfir land og þjóð. Byrjar með fallegu kveðjukvæði eftir Gunnar Gunnarsson — leifturmyndir af landinu vetur, vor og sumar. Þá koma greinar eftir Åge Meyer Benedictsen: Inngangur. Íslenzkir lífshættir: 1. Samgöngur. 2. Bændur og sveitir. 3. Framfarir í atvinnuvegum. 4. Fiskiveiðar. 5. Verzlun og bæjalíf. Viðauki. — Åge Meyer Benedictsen er snjall rithöfundur. Það er furðumikill fróðleikur um land og þjóð, sem hér er saman kominn á einum 70 blaðsíðum — um náttúru landsins, fegurð þess á lofti, láði og legi, en einnig um ógnir þess og erfiðleika, um kjör þau, er mótað hafa þjóðina að fornu og nýju, um ástæðurnar til misbrestanna á sambúð Íslendinga og Dana, um lifnaðarhætti þjóðarinnar og atvinnu á landi og sjó, um framfarir síðustu áratuga á ýmsum sviðum. — Höf. er sannfróður. Hann talar ekki út í bláinn. Hann hefir hagskýrslurnar á takteinum til að sanna mál sitt, og hann kann að gera tölurnar talandi og skemtilegar. Alt er séð með glöggu gestsauga hins víðförla manns, þess er »sá borgir og þekti skaplyndi margra manna«. Hann kann að leiða lesandann þangað, sem útsýni er, og bregða þar leiftri yfir það, sem hann ætlar að sýna. Hann kann að rekja í stuttu máli þræði fortíðarinnar inn í nútíðina, án þess að þreyta lesandann með nöfnum, sem hann þekkir ekki. Alstaðar andar bróðurhug að landi og þjóð. Og frásögnin er svo léttstíg og skemtileg, að hún dregur lesandann ósjálfrátt með sér. Tilgangur höf. er sá að fræða landa sína um land vort og þjóð og eyða þannig þeim misskilningi, sem verstur er Þrándur í Götu góðrar samvinnu Dana og Íslendinga. Er það ekki hans sök, ef sá tilgangur næst ekki. Hygg eg, að hver Íslendingur hefði ánægju

og gagn af að lesa þessar greinar, svo margt er þar skarplega athugað og vel sagt.

Þá eru tvær greinar eftir Arne Möller prest. Hann hefir áður skrifað margt vel um nýjustu bókmentir vorar í dönsk tímarit, einkum um það sem birzt hefir á dönsku. — Fyrri greinin heitir »Sang og Sind« — ljóð og lund. Reynir höf. þar í fám dráttum að sýna, hvernig skaplyndi þjóðar vorrar speglist í ljóðum hennar — hvernig þjóðernistilfinningin dafnaði af minningunni um forna frægð og andófi við aðra þjóð, unz hún hafði náð fullu víðfeðmi í þjóðhátíðarljóðum Matthíasar; hvernig skáld vor hafa litið á land sitt, með dæmum úr ljóðum Bjarna, Jónasar, Gröndals, Matthíasar og Jónasar Guðlaugssonar; hvernig Sigrúnarljóð eru einstök meðal ástarkvæða og hvernig djúpsæ mannþekking, skarpur skilningur á séreðli annara manna komi fram í beztu erfiljóðum vorum, fegurst í kvæði Bjarna um Odd Hjaltalín. Alt eru þetta að eins leiftur yfir mikið efni, en góð það sem þau ná.

Hin greinin heitir »Kristenliv og Folkelighed« — alþýðlegur kristindómur Er þar fyrst allangt mál um tvo höfuðskörunga kirkju vorrar á seinni öldum, Jón biskup Vídalín og Hallgrím Pétursson. Hefir naumast verið jafnvel ritað um þá af Íslendingum sjálfum, og er oss það ekki vansalaust. Höf. telur Vídalínspostillu ekki að eins fremsta í þeirri röð í íslenzkum bókmentum, heldur og einhverja hina einkennilegustu bók þeirrar tegundar á Norðurlöndum. Þykir honum meistara Jóni bregða í ætt spámanna Ísraels, ber hann saman við Jesper Brochmand með Dönum og segir, að munurinn á þeim sé þjóðernismunur Dana og Íslendinga. Aftur þykir honum meistari Jón skyldari Kingo, hvort sem keltneskt blóð veldur eða ekki. Dáist hann mjög að mannþekkingu hans, er hann telur íslenzkt einkenni.

Þó er aðdáun hans enn meiri fyrir Hallgrími: »Hann er röksamur sem sögurnar, djúpúðugur sem Edda, raunvís sem Hávamál og þýður sem þjóðvísa. Og það er þessi fjórhljómur, er ómar svo blítt í sálmum hans til hjartna landa hans«. Vel er það og til fundið, er höf. minnir á dauða Þormóðar Kolbrúnarskálds, er hann talar um það, hvernig Hallgrímur býður dauðann velkominn í sálminum »Alt eins og blomstrið eina«. — Í síðari hluta greinar sinnar talar höf. svo um trúarlíf Íslendinga nú á dögum, um guðfræðiskensluna við háskólann, kjör íslenzkra presta, nýjustu trúarhreyfingarnar og sálmakveðskapinn.

Próf. Finnur Jónsson skrifar um andleg sambönd Íslendinga

við önnur lönd og þó aðallega við Danmörku á síðari öldum. Gefur hann nokkurt yfirlit yfir vísinda- og skáldskaparstörf þeirra Íslendinga, er á síðustu öldum stunduðu nám og vísindi í Danmörku eða veittu menningarstraumum þaðan heim til Íslands, svo og þýðingar erlendra rita og ljóða. Að endingu drepur hann á áhrif fornbókmenta vorra á danskar bókmentir. Við eina setningu hins heiðraða höf. langar mig til að gera litla athugasemd. Hann segir um þýðingar Jóns Þorlákssonar á Kopstocks Messías og Miltons Paradísarmissi, að þær séu nú alveg ólesandi (»og er nu ganske ulæselige«). Má vera, að það sé satt um Klopstock. Hann hefi eg ekki reynt að lesa síðan eg var barn, og þótti þá þurmeti. En um Paradísarmissi er þetta áreiðanlega ofmælt.

Eg held, að þeir sem tala um endurreisn íslenzkrar tungu, ættu að byrja á Paradísarmissi. Málið á þeirri þýðingu er víðast svo yndislega frjótt, máttugt og þýtt, að eg kemst við í hvert skifti, er eg tek þá bók. Hér er eitt erindi af handahófi um Adam forföður vorn:

Honum hér fyri
var harðla nóg
efni blundbrygða,
ef í blaði þaut,
ok lágt látandi
lækjar buldr,
árhýru blæblak
ok á blómkvisti
fagrhljóða fugl,
er fyrstr gól.

Mikið má vera, ef Sveinbjörn Egilsson og snillingarnir sem af honum lærðu hafa ekki fundið, að þjóðskáldið Jón Þorláksson — »hafði engils tungu« — eins og Pétur prófastur kvað — og lært af honum. Það væri vel rannsóknarvert, hvaða áhrif málið á Paradísarmissi hafði á þá, sem á eftir komu.

Bókin endar á lítilli og ljúfri draumsögu eftir Jóhann Sigurjónsson. Hún heitir »Tvær systur«. Það eru Ísland og Danmörk, er birtast honum í líki tveggja systra.

Eftir er að geta þess, að bókina prýða 27 ágætlega vandaðar og vel valdar myndir af íslenzkri náttúru, mönnum og mannvirkjum.

Það er öll ástæða fyrir oss Íslendinga að fagna starfsemi þessa félags, er byrjar með því að gefa út þessa bók, sem er stórþakkaverð, og heldur síðan áfram eins og getið verður hér á eftir, en gerir auk þess margt annað, er miðar að góðu samlyndi bræðraþjóðanna, Dana og Íslendinga.

G. F.

**Alfred J. Råvad: Íslenzk húsgerðarlist. Islandsk Arkitektur.** Kbh. 1918. Dansk-islandsk Samfunds Smaaskrifter Nr. 1.

Höfundur bæklings þessa er danskur húsgerðarfræðingur, sem lengi hefir dvalið í Ameríku og verið hér hálft eða heilt ár hjá Thor Jensen útgerðarmanni, bróður sínum. Hann er einkennilegur maður, vel að sér í sinni list, margfróður og mikill hugsjónamaður, mjer liggur við að segja, hugmyndaauðugt skáld. Hann hefir ritað margt um Ísland, Færeyjar, Grænland og Vesturheimseyjarnar dönsku, sem eitt sinn voru, hélt því að vísu fastlega fram, að Danmörk ætti að halda sem fastast í þessi lönd, en jafnframt sýna þeim allan sóma, því þau væru þýðingarmikil framtíðarlönd, sem mættu verða Danmörku til mikils sóma og stuðnings. Eru skoðanir hans ólíkar flestra annara, einkennilega frjálslyndar og víðsýnar í mörgum greinum, þó sumstaðar sýnist mér fremur tala skáld en stjórnmálamaður. Má nefna sem dæmi, að hann hefir gert uppdrátt að höfuðstað á Grænlandi, sem vel mætti sæma myndarlegu kóngsríki. Í Reykjavík telur hann að götubreiddin megi ekki vera minni í aðalgötum en 20—30 m. og að Öskjuhlíð væri hæfileg þungamiðja fyrir bæinn, sem vaxi smámsaman suður yfir allan Fossvog og alt land er nær liggur. Uppi á Öskjuhlíðarhæðinni vill hann að rísi upp stórar og sterklegar skrautbyggingar, sem gnæfi eins og nokkurskonar Akropolis yfir framtíðarinnar stóra auðuga bæ, höfuðstað Íslands, sem verði í tölu fegurstu borganna í álfunni. Það er enginn kotungabragur á slíkum hugsjónum, enginn snefill af gömlu dönsku lítilsvirðingunni á landi voru og þjóð. Er það undarlegt tímanna tákn, að stórtækasti fjármálamaður vor og sá maðurinn, sem hugsar framtíð landsins stærsta og glæsilegasta, skuli báðir vera Danir að ætt og uppruna og bræður í tilbót.

Eg hefi sjaldan hlakkað meira til að sjá bók en þetta litla kver. Jeg hafði heyrt þess getið. Það var um vandasamt viðfangsefni, sem eg og aðrir hafa oft rætt um, nefnilega að hve miklu leyti væri auðið og hyggilegt, að halda gamla þjóðlega bæjastílnum á nýju húsunum, sem vér byggjum. Allir finna sárt til þess, að nýju steinhúsin standa flest langt að baki gömlu bæjanna frá listarinnar sjónarmiði, ern aðfluttur varningur, sem ekki á hér allskostar við, hafa ekki samskonar rætur í landi voru og þjóðlífi og gömlu bæirnir, sem sprotnir voru upp úr íslenzka jarðveginum og margra alda reynslu. Jeg gat trúað höfundinum til þess flestum öðrum framar, að ryðja hér nýja braut.

Kverið var mér hálfgerð vonbrigði að því leyti, að það var svo

lítið, — einar 8 bls. íslenzki textinn, — og uppdrættina hafði eg séð áður. Og þó er öllu málinu hreyft og glöggar tillögur gerðar, sýndur uppdráttur af stóru íbúðarhúsi með bæjarstíl og lítilli sveitakirkju. Vissulega er hér mikið sagt í fám orðum þrátt fyrir alt.

Höfundurinn heldur því hiklaust fram, að »til sé á Íslandi fortíðarfræ, er þjóðleg byggingarlist geti gróið upp af. Bæði í grunnmynd og hinu ytra sniði torfkirkjunnar og hins gamla íslenzka bæjar eru fyrirmyndir, gotneska uppruna og eðlis, er sem bezt má nota við ætlunarverk og byggingar í framtíðinni. Hinir þykku traustu hliðveggir og sundurgreindu gaflar með hvössum þökum eru ágætur grundvöllur til að reisa á fyrirmyndir til bygginga með þjóðlegu sniði og í samræmi við landslagið«. . . . . »En það lítur út sem trúin á, að þetta sé mögulegt, sé ekki vakin«.

Vissulega er þetta hverju orði sannara. Fræin eru til, sem þjóðleg byggingarlist gæti sprottið af, og engu lakari en gömlu byggingarnar norsku, sem slyngir húsagerðarfræðingar hafa yngt svo glæsilega upp á Holmenkollen. Vér höfum séð þetta — en fulla trú á, að mögulegt væri, eða öllu heldur hyggilegt, að endurreisa gamla bæjastílinn, hafa fáir haft.

Uppdrættir höfundarins sýna bezt hvað fyrir honum vakir. Eg geri ráð fyrir, að flestir lesendur Skírnis hafi séð þá. B æ r i n n (Ráðsmannsíbúð) er stóreflishús til þess að gera, á að gizka 30 × 10 m. (mælikvarði ekki prentaður). Allir veggir eru úr steini nema mestur hluti framhliðar. Þar eru þrjú falleg háreist bæjarþil úr timbri, en greind sundur með breiðum múrræmum, sem svara til þykku bæjarhúsaveggjanna. Er miðhluta hússins með miðþilinu skotið lítið eitt fram.[1]) Frá þiljunum ganga svo þök aftur að aðalþakinu, sem liggur eftir endilöngu húsi, og lítur út eins og stórt baðstofuþak að baki frambýsanna, eða þiljaþakanna, sem ekki eru annað en »kvistir« á einu stóru húsi. Byggingin ber algerlega sama svip og fallegur bær, og minnir þó á enskar nútízkubyggingar í sveitum. Mér þykir hún fögur og viðkunnanleg á að sjá og bera það með sér, að hún er gerð af smekkvísum manni, sem vel er að sér í sinni list. Mér skilst þó, að aðalþakið sé mun lægra en þiljaþökin og efast um að það færi jafnvel og ef það væri jafnhátt. Uppdrátturinn er áreiðanlega umhugsunarefni fyrir hvern mann, sem vill endurreisa gamla þjóðlega bæjastílinn.

En þó ekkert væri nema gott að segja um útlit hússins og svip þess, þá er það engan veginn víst, að oss henti alls kostar að

[1]) Þetta virðist mér koma hálfgert í bága við bæjasniðið.

byggja á svipaðan hátt í sveitum. Hér er um ýms grundvallaratriði að ræða, sem eg skal stuttlega drepa á.

Eg vil fyrst nefna stærðina. Á meðal-sveitaheimili hér eru 6—7 (6,47) heimilismenn. Hve stórt þarf íbúðarhús að vera fyrir þetta fólk. Minstu sveitahúsin eru 7,5 × 7,5 m að meðaltali, ekki stærri en $7^1/_2$ × tæpl. 9 m og má telja þetta sæmil. húsrúm fyrir ekki fleiri menn (húsin venjul. með kjallara og portbygð). Þiljaröðin kemst ekki fyrir á svo litlum húsum, og efnin banna að byggja stærra en þörfin krefur, enda óhyggilegt frá hagfræðissjónarmiði.

Þá er annað meginatriði: Grundvöllur allrar húsagerðar fyrir alþýðu manna er ekki listin, svipur hússins og útlit, heldur verkfræðiskunnátta (teknik). Vér þurfum fyrst og fremst að geta valið hentugustu byggingaefni á hverjum stað, bygt úr þeim hlýja, trausta, vatnshelda veggi, góð gólf og góð þök, helzt alt eldtraust. Alt þarf þetta að vera endingargott og — last not least — svo ódýrt sem auðið er, því fæstir hafa efni aflögum. Undantekningar eru að eins efnamennirnir.

Gömlu bæirnir eru augljóst dæmi þessa. Þeir spruttu upp á eymdaröldum meðan ekki var kostur á öðru byggingarefni en torfi, timbri af mjög skornum skamti, sem þó varð alt að vera baggatækt, litlu sem engu járni. Af þessum vanefnum bygðu menn bæina, gerðu mörg hús og smá (skilrúmsveggir úr torfi), sem svöruðu til baggatæku spýtnanna, og þökin brött, til þess að verjast lekanum, því ekki var næfrunum til að dreifa, sem Norðmenn lögðu undir torfið. Risið og gaflarnir fengu þannig sjálfkrafa einskonar gotneskt snið. Á þykku torfveggina var oft erfitt að setja glugga. Þeir báru illa birtu og djúpa gluggatóftin fyltist af snjó á vetrum. Þeir voru þá settir á þekjuna og gaflar gerðir úr timbri fyrir þá. Þannig urðu þilin að líkindum til. Það var byggingarefnið, sem mótaði bæina og gaf þeim alt snið auk veðráttu landsins. Reynslan kendi mönnum að fara hyggilega með það eftir öllum ástæðum, og hér fór sem oftast, að hyggileg og náttúrleg hagnýting byggingaefnisins skapaði eðlilegt og snoturt útlit. Kuldinn og eldsneytisleysið réði innra skipulaginu, myndaði húsþrengslin og setti að lokum 2 menn í hverja sæng í einu íveru- og svefnherbergi, baðstofunni.

Hálfgerð skrælingjamenning var þetta alt, en þó góð og gild menning eftir því sem allar ástæður voru.

Svo breytast allar ástæður á skömmum tíma. Verzlunin flytur nægan við, járn, sement o. fl. Vér lærum að kljúfa grjót og höggva það til, steypa steinsteypu og nota járn í hana, eigum nú kost á alt öðrum byggingarefnum, gersamlega ólíkum torfinu.

Afleiðing þessa er í mínum augum sú, að hvað sem öllu öðru líður þurfum vér nú að læra að hagnýta þessi nýju efni og nýju þekkingu sem bezt, finna hversu vér getum bezt og ódýrast bygt úr þeim traust, hlý, heilnæm, endingargóð og eldtraust hús. Ef bæjastíllinn getur samrýmst öllu þessu, þá er að endurreisa hann í nýrri og betri mynd, ef ekki, þá á að skoða hann sem úreldan forngrip eða nota hann að eins þar sem bygt er úr torfi, svo framarlega sem efnamenn nota hann ekki til skrauts.

En hvernig samrýmist þá gamli bæjastíllinn og nýju byggingaefnin? Vér sjáum það á uppdrætti Råvads.

Engum getur dulist það, að margbrotni stóri þakflöturinn með bustunum og sundunum er stærri, dýrari og varasamari (leki) en óbrotnara þak, heldur ekki, að húsrúmið verður miklu minna á þennan hátt en með óbrotnara lagi.

Bæjalagið er þá dýrara, rúmminna, kaldara og lekahættara en óbrotnari húsgerð.

Ókostir eru þetta alt, þó minna vegi þeir fyrir efnamenn. Það er líka mikið gefandi fyrir útlitið.

Annað atriði er framhlið hússins og þilin. Hliðin er að mestu úr tré, að nokkru úr steini.

Ef það er óhyggilegt af oss að byggja úr timbri, og svo mun víðast vera á þessu skóglausa landi, þá eru þessi stóru þil athugaverð. Þau verða bæði eldfim og endingarlítil.

Þá er ekki laust við, að erfitt sé að búa vel um gættirnar, þar sem timbur og steinn mætist. Vér höfum langa reynslu í því efni. Ef til vill gæti það komið til tals, að gera þilin úr sléttaðri steinsteypu og er þó hætt við, að þau mistu þá mikið af sínum eðlilega, fallega svip, yrðu óeðlileg stæling.

Þá eru múrræmurnar milli þiljanna og til beggja enda, sem svara til torfveggjanna.

Mér virðist það athugavert, að þær líkja eftir gömlu veggjunum án þess að vera milliveggir. Útlitið eitt skapar þær en engin innri nauðsyn. Þessir þykku milliveggir, sem engir milliveggir eru, verða því hálfgerð, óeðlileg stæling á gömlu bæjunum.

Að öllu athuguðu get eg því ekki sannfærst um, að hyggilegt

væri, að taka upp gamla bæjastílinn á nýju steinhúsunum. Það skyldi þá vera á stærstu jörðunum, sem efnamenn eiga, er ekki þurfa að horfa í skildinginn. Öðru máli gegnir um torfbyggingar. Þar á hann betur við, þó margt hafi breyzt, einnig þar.

Því miður verðum vér líklega að fara þá torsóttu, erfiðu leið, að finna nýtt eðlilegt húsasnið, sem svari að öllu vel til byggingaefnanna nýju.

Og listinni verður hvorki ofaukið fyrir því né henni gert lægra undir höfði. Henni er að eins fengið erfiðara verkefni. En sú töfrakona er hún, að alt getur hún gert fagurt, hvort sem það er fátæklegt eða ríkmannlegt, hvort sem það er marmari eða »járnbeton«. Og hún getur gert fleira þjóðlegt en bæjastílinn!

Líklega eru sum fegurðarfræin, sem húsagerðarlist vor sprettur upp af, falin í smekklegustu járnbetonhúsum nútímans.

Enn eru þau að vísu í algerðri bernsku, og byggingarlistin hefir enn ekki fengið föstátök á þessu kynlega, nýja byggingaefni. Þó gægist út sérlega einkennileg og sviphrein fegurð á sumum sölum og loftum í járnbetonbyggingunum. Það eru ekki lengur sundurgreindir stöðugir steinar, sem tala sínu gamla, fagra máli. Samfeld og samskeytalaus steinstorkan eltir átakslínur, vefur sig utan um óslítandi járnið, lipur, léttfær og stælt eins og glettið nútíðarbarn, sem vildi stríða öllum góðum og gömlum byggingafræðingum og raska grafarró Ruskins sáluga.

Eg veit, að hinn háttv. höf. muni svara því, að húsin hér verði of smávaxin.

---

Annar uppdráttur er af lítilli sveitakirkju. Mér sýnist hann bæði fagur og viðkunnanlegur, alt skipulag auk þess hentugt. Kirkjan er turnlaus, en í turnsins stað kemur fallegur klukkustöpull yfir sáluhliði, beint fram undan kyrkjudyrum. Er það álit höf., að turn með spíru, á svo lítilli kirkju, geti ekki samrýmst við kröfur listarinnar. Þetta mun rétt vera. Kirkjan er í torfkirkjusniði, með þykkjum veggjum úr grjóti og timburþiljum á göflum. Eg held, að hér sé að ræða um góða fyrirmynd, sem geti komið mönnum að bezta gagni. Og ódýr er slík kirkja. Væri og biskup landsins, fengi og fullkominn uppdrátt hjá höfundinum og greiddi fyrir því, að slíkar kirkjur yrði bygðar í smáum sveitasóknum.

Eg vil að eins leyfa mér, að gera tvær athugasemdir. Kirkjugangurinn er einskonar skúti[1] meðfram hliðinni, en rennur saman við aðalhúsið, sem er háreistara. Fer þetta vel að innan?

---

[1]) *Skute* er fornt nafn í Noregi á „skúr", auðsjáanlega sama orðið og skúti.

Ofn er við annan vegg kirkjunnar og reykháfurinn inni í veggnum. Verður ekki erfitt að fá góðan súg í þennan reykháf, og fer hann vel að utan?

Höf. endar rit sitt á þessum orðum: »Þær teikningar, sem hér eru sýndar, eru svo að segja ekki annað en fyrsta tilraun, og eru sprotnar af þeirri virðingu og ást, sem hið fagra, skrúðgræna fjallaland þar norðurfrá vekur hjá hverjum dönskum manni, sem nokkuð þekkir til hins andlega lífs þess, svo sem það reyndist að fornu og sýnir sig enn í dag. Vonandi er, að aðrir og yngri sálarkraftar í landinu sjálfu haldi áfram þessari stefnu, bjargi því sem gott er og gamalt frá glötun, og auki nýrri menning í andlega þróun Íslands«.

Eg efast ekki um, að þessi fögru, vingjarnlegu orð verði að áhrínsorðum. Það fara þar fleiri á eftir, sem höf. hefir svo drengilega riðið á vaðið. Hann hefir gefið ágæta fyrirmynd af sveitakirkju. Hann á miklar þakkir skilið fyrir bókina og félagið fyrir að hafa gefið hana út.

G. H.

**Jón Helgason: Fra Islands Dæmringstid.** — Dansk Isl. Samfunds Smaaskifter, nr. 2; 120 bls. 8vo.

Það hefir atvikast svo, og til þess liggja án efa fullgildar ástæður, að áhugi íslenzkra fræðimanna og sagnameistara hefir beinst nálega einvörðungu að einu tímabili í sögu landsins, söguöldinni eða gullöld landsins. Þar hafa fjöldamargir sigrar verið unnir hin síðari árin, og jarðvegurinn er tekinn að plægjast þar sæmilega, þó að margt sé vissulega óunnið enn. En afleiðing þess hefir verið sú, að síðari aldir Íslandssögunnar hafa orðið mjög útundan. Má næstum því segja, að yfir þeim hafi hvílt rökkurmóða hálfdimmunnar, og fyrst hafi verið sköpuð skilyrði til frekari rannsóknar jafnótt og dr. Jón Þorkelsson ekur fram hinu þunga hlassi fornbréfasafnsins fet fyrir fet.

Um sögu 16. og 17. aldar mætti með nokkrum sanni segja, að eðlilegt sé, að Íslendinga fýsi lítt að grafast niður í þá hörmunga tölu, þegar útlend áþján og innlent dáðleysi og óáran sýnast taka höndum saman og þjóðin sökkur dýpst í volæði og eymd. Og þó þarf að lesa þetta sem annað. En þegar 18. öldin kemur, má með sanni segja, að upprenni eitt fegursta tímabil sögu landsins. Ekki er það svo að skilja, að þá sé alt í blóma og skartí vafið, heldur er það af því, að þá er tekið að berjast gegn bölinu. Því hefir verið líkt við afturelding til nýs dags. »Dagrenning«

heitir ein bók um það tímabil. Og nú kemur hér önnur, sem heitir »Fra Islands Dæmringstid«, og merkir það nálega hið sama. En eg vil líkja því við vortíma. Það er eitthvað svo mikið af rosalegum vorblæ yfir öllu. Veturinn ríkir enn. En það er hafin óttaleg uppreisn gegn veldi hans, drepandi uppreisn. Klakinn verður að froðu og snjórinn að mauki. Það er þetta, sem gamla fólkið kallaði »vermisteininn« í jörðinni, sem eyðileggur veldi vetrarins, þegar vorið kemur, þó að alt sýnist vera vetrarríki á yfirborðinu. Og svo sendir forsjónin vorboðana. Guð einn veit hvaðan þeir koma. En þeir koma eitthvað sunnan úr uppsprettu sumarsins hver eftir annan, og enginn ræður við. Þeir koma af því, að »fylling tímans« er komin.

Um þessa vortíma og þessa vorboða er bókin, sem hér er um að ræða.

Bók þessi er 4 fyrirlestrar, sem höfundur hennar, dr. Jón Helgason, biskup Íslands, hélt sumarið 1916. Hann var þá prófessor hér við háskólann, og þá boð frá sambandi danskra lýðháskóla og landbúnaðarskóla um að koma til Danmerkur og halda þar fyrirlestra um íslenzkt efni á námskeiði einu miklu í Dalum. Valdi hann sér þá þetta hugðnæma efni. Og nú hefir Dansk-Islandsk Samfund gefið fyrirlestrana út í bókarformi.

Höfundur grípur fyrst niður á miðri 18. öldinni og lýsir með fáum orðum, en mjög skarplega eymdarhag þjóðarinnar þá og rekur tildrög þessa hörmungarástands. Og svo snýr hann sér að fyrsta vorboðanum. Eggert Ólafssyni, hrópandi röddinni á eyðimörkinni. Nálega engin mynd finst mér standa í öllu meiri geisla»gloriu« en mynd Eggerts Ólafssonar, og höf. hefir meistaralega tekist að draga þessa mynd upp. Ef til vill er það fegursti og snjallasti kafli bókarinnar. Það er einhver æfintýra móða yfir allri sögu Eggerts, sem höfundinum hefir tekist að ná, og það er ekki nema eins og fult samræmi í því, að hann skyldi hverfa af sjónarsviðinu, ekki eiginlega deyja, heldur bara hverfa, svo að menn ætluðu lengi vel ekki að trúa því, að hann væri farinn og kæmi ekki aftur. Þar með endar 1. kafli.

Svo er næsti kafli um Skúla landfógeta. Hann er Jökulsáin, sem boðar vorið með því að spyrna fram heljarfjöllum af fönnum og klaka og þeyta öllu til sjávar. Þessi kafli er nálega allur um viðskifti hans við einokunarverzlunina. En það er eins og efnið verði ofmikið í einn fyrirlestur, svo að þungi persónunnar finnist ekki fyllilega. Naumast verður það gefið höfundinum að sök. En

— Frakklands, Rússlands, Englands og Þýzkalands. Það er það landið, þar sem heimilislífið er sterkast, og götulífið sæmilegast. Ungir menn og ungar stúlkur sjást þar aldrei ganga saman eða liggja í hálfgerðum faðmlögum, eins og á voru puritanska Englandi. Menn leika sér ekki að eldinum — opinberlega að minsta kosti. Silakepps-ást enska verkamannalýðsins er auðsjáanlega ekki við hæfi franska blóðsins, sem rennur hraðara í æðunum. Frakkar eru einmitt nógu suðrænir til þess að draga ekki ástalíf sitt til sýnis fram í dagsljósið. Sérstakur skóli franskra skáldsöguhöfunda hefir skapað þetta álit á Frakklandi, með ýktum sögum úr Parísarlífinu. Hvernig sem lífi þeirra Frakka, sem í borgum búa, er farið, þá eru þeir engan veginn fulltrúar þeirra miljóna Frakka, sem ekki búa í borgum. Og séu frönsku konurnar légères (léttúðugar), eins og eg hefi heyrt franskan mann komast að orði, þá eru þær heimsins beztu mæður, og trana ekki »léttúð« sinni klunnalega fram. Sagt er að margir heimilis-sorgarleikir muni koma fram, þegar stríðinu lýkur. Ef svo fer, þá verða þeir ekki leiknir á Frakklandi einu, og í samanburði við hina, sem sýna þá trúmensku, er gætt hefir verið öll þessi voðaár, verða þeir sárfáir. Til að skilja rétt siðgæði Frakka, hygg eg að vér verðum aftur að minnast hinnar almennu niðurstöðu, er vér komumst að um skaplyndi þeirra — að höfuð og hjarta skiftast þar skjótt á um völdin, sem gerir það að verkum, að þeir lenda hvorki í öfgum púritana né hófleysis, heldur halda eins konar jafnvægi.

Frakkland mun koma breytt út úr þessu stríði, og þó að öllum líkindum minna breytt en nokkurt annað land. Eins konar sjálfsnægja, er mjög einkendi franskt líf, mun hverfa. Eg býst við að Frakkland opni dyrnar, verði umburðarlyndara við annara smekk og hugsjónir, og það, sem er of þröngt og rígbundið í frönskum skoðunarhætti, mildist. Frakkar munu græða á því að draga úr sinni amour propre (sjálfsást) — sem að vísu er æskilegur eiginleiki, þegar hún er ekki um skör fram.

Jafnvel París hefir opnað hjarta sitt ögn síðan stríðið hófst; og hjarta Parísar er lokað, hart og óþolinmótt gagnvart útlendingum. Vér tókum eftir því á spítalanum, að hve nær sem Parísarbúi kom þar, þá fylgdi honum annað andrúmsloft og hann stýrði dansinum, hljótt eða hávært. Einn var þar sem Aimé hét; hörund hans var eins og á barni, hann var hraðmæltur og talaði lágt og rumdi ögn í honum, og þegar hann fór frá okkur, var hann orðinn sá, sem alt snerist um. Þar var annar hjá okkur, ungur

maður, rauðhærður; þegar hann var brott í leyfi, var sem spítalinn væri allur annar, svo mikill friður var þar. Synir Parísar eru sérstakur kynflokkur, alveg eins og Lundúnabúar eru það. Eg get ekki sagt, að eg botni í þeim; þeir eru gerðir úr fjaðurmögnuðu efni, eins og gúmmíhnettir. Og Parísarkonurnar! Guð forði mér frá að segja, að eg þekki þær. Þær eru lokuð bók. Jafnvel Parísarbúar eru nú samt umburðarlyndari við oss, hina þumbaldalegu Englendinga, en þeir voru fyrir stríðið; má vera, að þeir hafi séð, að hafa mátti nokkurt óvænt gagn af oss. Og, vel á minst: Það er sagt, að í þeim héruðum, sem brezku herirnir hafast við, þá ímyndi sumir Frakkar sér, að vér séum komnir til að setjast þar að. Það er þó geysi-hláleg hugmynd! Og hve ömurlegu ljósi hún bregður yfir söguna, yfir tortryggnina, sem komin er upp á milli þjóðanna, á ófeilnina, sem breytni manna hefir gróðursett djúpt í mannlegum hjörtum. Nei! Væri það hugsanlegt, að brezka stjórnin færi þannig að ráði sínu, þá mundu íbúar Bretlands fara úr landi, ganga í lið með Frökkum og hjálpa þeim til að reka bölvaða ágengnisseggina úr landi!

En vér rákum oss hvergi á þessa skringilegu trú. Á öllu þessu svæði Frakklands, sem troðfult er þessum einkennilegu verum, enskum körlum og konum, fengum vér alstaðar aðdáanlegar viðtökur, er gengu oss til hjarta. Ekki í eitt einasta skifti alla þessa löngu vetrarmánuði heyrðum vér óvinsamlegt orð; vér mættum hvergi neinu öðru en sannri kurteisi og alúð. »Loðinkinnar« og bændur, dyraverðir og embættismenn, hefðarfrúr, læknar, þjónar, búðarfólk var ávalt nærgætið, vingjarnlegt og lét sér hugarhaldið um, að vér værum sem heima hjá oss. Jafnvel hundarnir buðu oss velkomna! Lítill, svartur hálf-pommernskur hundur kom óboðinn og settist að hjá okkur á spítalanum. Við kölluðum hann Aristides. En þegar hann var með okkur á gönguferðum, mættum við stundum hóp af krökkum sem kölluðu: »Pom-pom! Voilà Pom-pom!« og fóru með hann. Áður en nóttin datt á, var hann æfinlega kominn til okkar aftur með sundurnagað band eða reim dinglandi um hálsinn. Honum leiddust krakkarnir hræðilega. Vér fólum hann í hendur »loðinkinnanna« okkar kvöldið dapra, sem vér urðum að kveðja, taka í síðasta sinn í allar þessar vingjarnlegu hendur, og yfirgefa hin vinalegu andlit. Vagninn flutti oss brott gegnum litla þorpið, eftir dalnum milli aspanna, sem voru að byrja að fá vorlit á greinarnar, en skjórinn flaug yfir veginn ofan á fljótsbakkann.

Frakkland geymir hjartað vel í brjósti sér og ber það ekki utanklæða. En Frakkland opnaði hjarta sitt einu sinni og lét oss sjá gullið, sem þar er geymt.

Og svo fórum vér frá Frakklandi einn rigningardag, og skildum þar eftir hjartað hálft. *Guðm. Finnbogason* þýddi.

---

# VIÐ DÝFLIN.

Ef í lið þitt brestur bráður flótti,
bittu skó þinn, far að öllu rótt!
Hvert skal flýja? Hvað má nokkur ótti?
Hælislaust, og bráðum komin nótt —
»Til Íslands
eg kemst ekki í kveld«,
sagði Þorsteinn.

Seytján fóru. Sextán féllu í stríði,
suð'rí Dýflin eltu bana sinn —
afkomst hann, sá eini, er ekki flýði
án þess fyrst að binda skóinn sinn —
»Til Íslands
eg kemst ekki í kveld«,
sagði Þorsteinn.

Þó að depri djarfsýn víga-blinda,
drenginn þann mun hugstór kannast við,
sem ei skirrist skóinn sinn að binda
skammarlaust, þó flýi annað lið —
»Til Íslands
eg kemst ekki í kveld«,
sagði Þorsteinn.

Til þess lands er drjúgan veg að vinna
von þín ung sem kjölnum stýrði frá
komið babb í bátinn allra hinna.
Bittu skóinn! Hvað mun liggja á
»Til Íslands
eg kemst ekki í kveld«,
sagði Þorsteinn.

*Stephan G. Stephansson.*

---

# Frá målstreitu Norðmanna.

Það er kunnugt, að Norðmenn nú um langan tíma hafa veri illa staddir með rit- og menningarmál sitt. Það eru nefnilega tv ritmál í landinu: hið svo nefnda ríkismál, er upphaflega var danska, en nú hefir breyzt allmikið vegna áhrifa frá talmálinu, einkum talmáli borganna; í því eru eins og kunnugt er allmörg sérnorsk orð og orðatiltæki, og á seinni tímum hafa menn enn fremur tekið upp p, t, k í staðinn fyrir b, d (ɔ: ð), g í orðum svo sem: t a p e (f. tabe), b i t e (f. bide ɔ: bíta), u k e (f. uge) o. m. fl.; og í tali er það altaf borið fram á norskan hátt með »orðalögunum« (Tonelag) norsku. Hitt ritmálið er hið svo nefnda landsmál, sem Ívar Aasen bjó til á sínum tíma á grundvelli norsku mállýzknanna, einkum þeirra, sem talaðar eru á suðvesturströnd Noregs. Er það a l vesturnorrænt mál, eins konar beygingasnauð íslenzka.

Rimman á milli þessara tveggja ritmála hefir oft og tíðum verið afarsnörp. Ríkismálið á reyndar langflesta fylgismenn, og flest skáld Norðmanna og vísindamenn hafa ritað á það mál. En hins vegar eru landsmálsmennirnir, þó færri séu, afarötulir, og hefir þeim orðið talsvert ágengt. Þessi tungnaklofning hefir eins og gefur að skilja haft hinn mesta glundroða í för með sér, einkum í skólunum, þar sem annaðhvort (í lægri skólunum) á um þessi tvö mál að v e l j a, eða (í lærdómsdeildum mentaskólanna) á að læra b æ ð i málin.

Nú eru — sem betur fer — nokkrar horfur á því, að Norðmenn geti komist út úr þessum kröggum. Nefnd, sem Stórþingið 1913 kaus til þess að íhuga, hvort ekki væri hægt að láta málin nálgast hvort annað með því að bæta stafsetning þeirra, hefir nú komið með álit sitt, og konungsúrskurður 21. des. 1917 hefir fyrirskipað réttritunarreglur samkvæmt uppástungum nefndarinnar. — Nefndin — þeir Hjalmar Falk (formaður), Ívar Alnæs, Maríus Hægstad, Knut Liestøl og Didrik Arup Seip — hefir þó ekki

haldið sér við að bæta stafsetninguna eina, heldur hefir einnig stungið upp á ýmsum breytingum í orðmyndum og beygingum. En það hefir orðið til þess, að hún hefir ekki séð sér fært annað en að setja upp 4 (fjögur!) mál: 1. ríkismál með bættri stafsetningu; 2. ríkismál með bættri stafsetningu og með ýmsum orðmyndum og beygingarendingum úr talmálinu, sem hingað til hafa ekki verið leyfðar í skólunum, þó þær hafi stundum sést á prenti; 3. landsmál (nýnorska) með bættri stafsetningu; 4. landsmál með bættri stafsetningu og með ýmsum orðmyndum og beygingarendingum, sem hafa meiri útbreiðslu en þær, sem hingað til hafa verið mest tíðkaðar á prenti.

Það á að vera kjörfrelsi um þessi fjögur mál, sem á að nota í skólum, kirkjum, embættisskrifstofum o. s. frv.

Helztu breytingarnar í stafsetningu ríkismálsins eru þessar: 1. rita skal å í stað aa (einnig í landsmálinu); 2. rita skal e í stað æ í flestum tilfellum, þar sem hljóðið er stutt; 3. ekki skal rita d, þar sem ekkert d var í fornmálinu: kalle (ekki kalde), fant (ekki fandt); 4. tvöföldun samhljóða í niðurlagi orða eftir stutt sérhljóð: opp, bratt, fikk; 5. Hinn afturskeytti greinir fleirtölu skal alstaðar hafa myndina -ene: gutt-ene, en gutter.

En þá er leyft að taka upp ýmsar talmálsmyndir, svo sem myndir með tvíhljóðum: grein (í stað gren), heim (í stað hjem), fløite (í stað flöte, eða flöde), graut (í stað gröt eða gröd); enn fremur margar einstakar myndir svo sem glømme (í stað glemme), etter (í stað efter), golv (í stað gulv), kirne (í stað kjerne) o. s. frv. Það er leyft að taka upp afturskeytta kvenkynsgreininn á -a, sem er svo algengur um alt Austurland Noregs, einnig í talmáli borgarbúa: kjerringa (=kerlingin), kua (=kýrin), enga (=engin), gryta (=potturinn), en án greinis: kjerring, ku, eng, gryte.

Í stafsetningu landsmálsins eru einnig nokkrar breytingar, þó ekki eins margar og í ríkismálinu, svo sem að rita t í hvorugkyni afturskeytta greinisins: huset (ekki: huse); og eins og í ríkismálinu á -r að falla niður í fleirtölu með afturskeyttum greini: hestane, skriftene, klokkone, en hestar, skrifter, klokkor, án greinis.

Í landsmáli með leyfðum breytingum er greinirinn í kvenkyni eintölu og hvorugkyni fleirtölu altaf -a (einnig í hinni sterku beygingu); fleirtala kvenkynsorða endar eins og í ríkismálinu altaf á

-er: skrifter, klokker. Lýsingarorð, hluttaksorð og fornöfn fá enga sérstaka ending í kvenkyni, nema liten, eigen, ingen, nokon, annan, min, din, sin og hin, í kvenkyni: lita, eiga, inga, noka, anna, mi, di, sí og hi. — Nafnháttur skal enda á -e (ekki a). Margar austnorskar myndir eru teknar upp í stað vestnorsku myndanna, svo sem bort, sommar, okse í stað burt, sumar, ukse; je og vi í stað eg og me (=við); da, over í stað då, yver; har, får, går, står í stað hev, fær, geng, stend; fått, stått í stað fenge(n), stade(n), o. s. frv.

Sem dæmi skal hér tekinn upp lítill kafli úr sýnishornum álitsskjalsins í öllum fjórum málum; mun hann betur skýra það, sem sagt er hér að ofan, þar sem fljótt hefir orðið að fara yfir sögu. Er hann úr æfintýrinu um bóndann, sem átti að búverka. (Mannen som skulde stelle (stella) heime (hjemme).

Ríkismál I:

Tidlig om morgenen tok kjerringen ljåen på akslen og gikk i engen og skulde slå, og mannen skulde da til å stelle i huset. Først vilde han til å kjerne smør, men da han hadde kjernet en stund, blev han tørst og gikk ned i kjelleren for å tappe øl. Mens han holdt på å tappe i ølbollen, fikk han høre at grisen hadde kommet inn i stuen. Han la i vei med tappen i neven opp igjennem kjellertrappen som aller snarest og skulde se efter grisen, så den ikke veltet kjernen; men da hann fikk se at grisen alt hadde veltet kjernen, og stod og smattet på fløten som rant utover gulvet, blev han så flyende sint, at han rent glemte øltønnen og drog efter grisen det beste hann vant. Han tok den igjen i døren og gav den et dugelig spark, så den blev liggende på flekken. Nå kom han i hug at han gikk med tappen i handa; men da han kom ned i kjelleren, var øltønnen tom.

Ríkismál II:

Tidlig[1]) om morgenen tok kjerringa ljåen på aksla og gikk i enga og skulde slå, og mannen skulde da til å stella i huset. Først vilde han til å kinne smør; men da han hadde kinna e (eða: ei) stund, blei han tørst og gikk ned i kjelleren for å tappe øl. Mens han holdt på å tappe i ølbollen, fikk hann høre at grisen hadde kommet inn i stua. Han la i vei med tappen i neven opp igjennom kjellertrappa som aller snarest

[1]) Gleiðletrað hér.

og skulde se efter grisen så han ikke velta kinna; men da han fik se at grisen alt hadde velta kinna, og stod og smatta på fløiten som rant utover golvet, blei han så flygende sint, at han reint glømte øltønna, og drog etter grisen det beste han vann. Han tok'n igjen (att) i døra og gav'n et dugelig spark, så han blei liggende på flekken. Nå kom han i hug at han gikk med tappen i handa; men da han kom ned i kjelleren, var øltønna tom.

Landsmál II:

Tidleg[1]) om morgonen tok kjerringa ljåen på aksla og gjekk i enga og skulde slå, og mannen skulde da til å stelle i huset. Fyrst vilde han til å kinne smør; men da han hadde kinna ei stund, blei han tyrst og gjekk ned i kjellaren for å tappe øl. Med' han heldt på å tappe i ølbollen, fekk han høre at grisen hadde komme inn i stua. Han la i veg med tappen i neven opp igjennom kjellartrappa som aller snarast og skulde sjå etter grisen så han ikkje velta kinna; men da han fekk sjå at grisen alt hadde velta kinna, og stod og smatta på fløyten som rann utover golvet, blei han så flygande sint, at han reint glømte øltønna, og drog etter grisen det beste han vann. Han tok'n att (igjen) i døra og gav'n eit dugeleg spark, så han vart (blei) liggjande på flekken. Nå kom han i hug at han gjekk med tappen i handa; men da han kom ned i kjellaren, var øltønna tom.

Landsmál I:

Tidleg om morgonen tok kjerringi ljåen på aksli og gjekk i engi og skulde slå, og mannen skulde då til å stella i huset. Fyrst vilde hann til å kinna smør, men då han hadde kinna ei stund, vart han tyrst og gjekk ned i kjellaren for å tappa øl. Med' han heldt på å tappa i ølbollen, fekk hann høyra, at grisen hadde kome inn i stova. Han la i veg med tappen i neven upp igjenom kjellartrappi som aller snarast og skulde sjå etter grisen, so han ikkje velte kinna; men då han fekk sjå, at grisen alt hadde velt kinna, og stod og smatta på fløyten som rann utyver golvet, vart han so fljugande sint at han reint gløymde øltunna og drog etter grisen det beste han vann. Han tok han att i døri og gav han eit dugeleg spark, so han vart liggjande på flekken. No kom han

---

[1]) Gleiðletrað hér.

i hug at han gjekk med tappen i handi; men då han kom ned i kjellaren, var øltunna tom.

---

2. og 3. sýnishorn eru, eins og menn sjá, hvort öðru mjög nálægt. Vildu ríkismálssinnar og landsmálssinnar taka upp þessar tvær málmyndir, væri alls ekki loku fyrir það skotið, að ríkismálið og landsmálið myndu að lokum renna saman í eitt mál.

Vitanlega myndi glundroðinn ekki hverfa fyrst um sinn, öllu heldur fara vaxandi um tíma, og myndi hann helzt koma niður á aumingja skólabörnunum. En þetta er víst eina leiðin; enda er ástandið nú alls ekki svo að um tvö óskift mál sé að ræða. Bæði málin eru nú þegar skift og mjög á reiki.

En hver sem úrslitin kynni nú að verða, er málfélagsskap Dana og Norðmanna slitið fyrir fult og alt með þessum konungsúrskurði. En geti hann orðið til þess að koma á föstu skipulagi í máli Norðmanna, getum við hinir Norðurlandabúar ekki annað en óskað þeim til hamingju. Og ætli það væri ekki betra fyrir dönskuna, að skýr merki séu dregin milli málanna, fyrst félagsskapurinn getur ekki haldist[1]).

*Holger Wiehe.*

---

[1]) Síðan þetta var skrifað, hafa komið ýms mótmæli frá ýmsum mönnum, einkum ríkismálssinnum, er finnast þessar umbætur helzti frekgengar. *H. W.*

# Ritfregnir.

---

**Íslenzkur sagnaskáldskapur.** — Ekki fyrir alls löngu stóð grein í Kristeligt Dagblad, þar sem sagt var fullum fetum, að íslenzkar bókmentir gætu ekki þrifist, nema Íslendingar rituðu á dönsku og nytu stuðnings Dana! — Nú liggja til þess svör þessi: Íslendingar, er semja öll rit sín á dönsku og ekki jafnframt semja eða þýða þau á íslenzku, eru danskir rithöfundar, dönsk skáld, jafnvel þó þeir séu fæddir »úti á Íslandi«, og ritverk þeirra eru eign danskra bókmenta. Ef Íslendingar semdu allir eða þá flestir rit sín á dönsku, myndi ekki lengur vera hægt að tala um íslenzkar bókmentir.

En sem betur fer er ekki svo. Íslendingar í Kaupmannahöfn, er yrkja á dönsku, þýða (eða láta þýða) flest skáldrit sín á íslenzku, og langflest íslenzk skáld semja skáldrit sín á íslenzku. Íslenzkar bókmentir þrífast ágætlega, og er það meira að segja mikill gróður í þeim sem stendur. Það er nú reyndar engin furða, þótt þeir, sem þekkja ekki til, eigi ilt með að skilja hið bókmentalega ástand með eins lítilli þjóð og Íslendingar eru. Sá, sem kunnugur er ástæðunum, verður þó að dást að því, hve miklu góðu þessi þjóð getur afkastað bæði í skáldskap og vísindum — án stuðnings að utan. Vitaskuld eru íslenzkar bókmentir höfundum sínum engar gullnámur, þó bækur séu hér yfirleitt dýrari en annarstaðar. En það sýnir því meir hugsæi og andlegan þroska íslenzkra höfunda og lesenda, að það skuli samt vera hægt að koma eins mörgum bókum á markaðinn.

Mest kveður sem stendur að sagnaskáldskapnum í bókmentum Íslendinga. Þar sem áður voru eintóm ljóðmæli, kemur nú á hverju ári ein skáldsagan eftir annari, og ekki eingöngu frumsamdar sögur, heldur líka ekki allfáar þýðingar.

Nú í sumar hafa þegar komið út fjórar sögur, sem eru allar merkilegar, og von kvað vera á fleirum í haust.

Fyrst er frægan að telja **Einar H. Kvaran.** Sú var tíðin, er Einars Hjörleifssonar var getið fyrir e i n a sögu: **Vonir,** er var samin og kom út 1888. En 8 ár liðu, áður en ný saga eftir hann var prentuð. Var það **Brúin,** er birtist í E i m r e i ð i n n i 1896 (en því miður aldrei hefir komið út oftar). En þaðan af hefir hann gefið út hverja söguna á fætur annari og hverja annari betri. Með »Sálin vaknar« komst skáldið á hærra stig en nokkurn tíma áður. Þar náði hann fullum tökum á listreglum sagnaskáldskaparins einnig í stærri sögu, en í smásögum sínum hafði hann lengi verið meistari að því, er til orðfæris og samsetningar kemur. Þegar um V o n i r gat G e o r g B r a n d e s farið þessum orðum: »framsetningin er sígild, engu orði of aukið og ekkert orð, sem hittir ekki«. Ummæli þessi mætti einnig hafa um flestar smásögur skáldsins og um »S á l i n v a k n a r«. Í þessari sögu birtist okkur einnig göfugt hugarfar skáldsins, sem reyndar hafði oft vottað fyrir áður, en nú varð öllum deginum ljósara, hvaða álit sem menn svo höfðu á trú hans.

**Sambýli,** s a g a (Reykjavík 1918. Útg. Þorsteinn Gíslason) jafnast fyllilega við S á l i n v a k n a r; og er hún þessari sögu að mörgu leyti skyld. Einnig hún er saga sálarþróunar. F r ú F i n n d a l er hin mesta gæðakona, saklaus og barnsleg og henni er ant um alla þá, sem bágt eiga; en þó er hún fráhverf ágætum manni, sem elskar hana, skilur eigi, að hann er andlegur bróðir hennar og henni ætlaður, — eingöngu sökum þess að hún h e l d u r, að hann sé valdur að dauða barns hennar. Hún á eftir að læra að fyrirgefa. Óbeit hennar á þessum manni er að miklu leyti misskilningur. Hann er ekki eins sekur og hún heldur. Reyndar kemur hann of seint til þess að bjarga barni hennar — hann er læknir, — en að hann kemur of seint, er mest öðrum að kenna og að nokkru leyti augnabliks hugsunarleysi. Kalinn til hans er henni og mjög óeðlilegur, og oftar en einu sinni stendur hún sjálfa sig að því að hugsa hlýlegar til hans en henni finst við eiga. Hún skilur ekki, að hun lokar sig úti frá s a m b ý l i, sem henni er eðlilegast. En henni lærist það smámsaman, þangað til augu hennar opnast að fullu, og »hún fær það, sem hún hefir aldrei leitað að«.

J ó s a f a t J ó a k i m s s o n aftur á moti er ekki góður maður, hann er hinn versti braskari og bragðarefur og jafnframt hrotti að hugarfari. Gefur hann sig allan við því að græða fé, telur það aðalmark lífsins, enda svífst hann einskis til að ná takmarki sínu í hvert skifti. Og þó hefir hann betri mann að geyma. Í æsku

hans börðust góðar og illar vættir um völdin í sál hans, en ung saklaus stúlka, sem hann unni, gat bælt niður hinar ógöfugu fýstir hans um tíma. Fráfall hennar sviftir hann alveg trúnni á hið góða í tilverunni, en samt verður hann að fylla líf sitt einhverju, og fégirndin gagntekur hann svo, að hann lokar sig úti frá sambýli við aðra menn og verður fyrirlitinn og hataður. Einn ljósdepill er þó í þessu tímabili lífs hans, og er það ást hans á frú Rannveigu, ást, sem er reyndar alleigingjörn, en þó sönn og innileg. Hans betri maður er að skjótast upp úr syndafeninu, en h ú n vill hann ekki, og hann verður enn þá djöfullegri, jafnvel gegn henni. En á dánarbeði hans skýzt loksins endurminningin um æskuvinu hans, sem hann er alveg búinn að gleyma, upp úr hug hans og bjargar honum frá sambýlinu við drauginn, sem hefir elt hann gegnum alt lífið. Það er hér eins og segir í S á l i n v a k n a r: »... mennirnir eru ekki vondir .... en heimurinn hleður utan á þá alla vega litri rangindaskel, af því að þeir gæta sín ekki fyrir eigingirninni«. Nú dettur skelin af honum. Hann sér, að hann er einstæðingur, yfirgefinn af öllum. Þá skilst honum loksins sín meginvilla, sú að hann hafi tekið sig út úr, ekki skoðað sig í sambýli, samvinnu við aðra, við allan heiminn. Og hann sér, að það er af því, að »mennirnir hafa mist sjónar á þessu mikla lögmáli allsherjar-sambýlisins, að veröldin stendur nú í björtu báli« — sagan gerist á þessum síðustu og verstu tímum — og að hann er sjálfur »skipbrotsmaður á strönd eilífðarinnar«. Og upp úr sál hans stígur »andvarpið forna, sem altaf verður nýtt: Guð, vertu mér syndugum líknsamur«. Hefir höfundurinn komist einna lengst í sálkönnun í lýsingunni á þessum manni. Fróðlegt væri annars að bera hann saman við svipaðar sögupersónur í fyrri skáldritum Einars Kvarans svo sem Þ o r b j ö r n í O f u r e f l i - G u l l, og L é n h a r ð f ó g e t a í leikritinu með því nafni.

Þá er nú þróunarsaga G r í m u gömlu þvottakerlingar engu síðri. Hún er hin mesta kjaftakerling, kvenskass og ræfill — á yfirborðinu, lítur jafnvel á sjálfa sig sem ræfil. En frú Finndal tekst að reisa hana við, gefa henni virðing þá fyrir sjálfri sér, sem hana vantar og stendur henni svo mjög fyrir þrifum í andlegu tilliti. Innri maður hennar er göfugur. Þó hún steli, er það eingöngu í þágu annara bágstaddra, og hún elskar son sinn, sjómanninn unga, er ver öllum gróða sínum til að kaupa kofann handa henni móður sinni. Hún lifir einungis til þess að fórna sjálfri sér fyrir yngri son sinn, vitskerta Láfa. Hún er ekki svo afleitur

mannkannari og hefir því miklar mætur á lækninum, og á frú Finndal fær hún svo mikið dálæti, þegar hún kynnist henni nógu vel, að menn fara að kalla hana »hundinn hennar frú Finndal«. Hún sér líka, að frú Finndal og læknirinn hæfa hvort öðru, og gerir sitt ýtrasta til þess, að þau nái saman. Jósafat hatar hún. Og er henni vorkunn. Hún þekkir fantaskap hans, enda fer hann mjög svo þrælslega með hana, tekur kofann af henni og heldur samt því fé, sem sonur hennar er búinn að borga í hann, af því að hún getur ekki goldið síðustu afborgunina á réttum gjalddaga. En hún sigrast einnig á þessari ástríðu. Þegar vitskerti Láfi hennar hefir kveikt í húsi Jósafats í óljósu hefndarskyni, leggur Gríma líf sitt í sölurnar og bjargar Jósafat úr eldinum. Hún er orðin að göfugri kvenhetju.

Gunnsteinn læknir Gunnarsson er varla eins hugðnæm persóna og hinar. Hjá honum er engin þróun. Hann er í öllu mótsetning Jósafats, góður og ráðvandur maður, enda er hann hvers manns hugljúfi. Hann er einnig duglegur og vandlátur í læknisstörfum sínum, og hann er ungur og fríður og ókvæntur maður, svo engin furða er, þó að hann hafi einna mesta aðsókn af öllum læknum bæjarins. Hann er hamingjumaður í öllu, og það er eins og alt falli honum til fóta. Hann býr í húsi Jósafats, þar sem einnig frú Finndal sezt að. Hann kannast ekki við hana, því hún kom aldrei inn í sjúkrarherbergið, þegar hann var sóttur til barns hennar og kom of seint — og síðan hefir hún tekið sér ættarnafn og dvalið nokkur ár erlendis. En hún kannast við hann, og eins og fyr var sagt, sýnir hún honum allmikinn kala. Hann skilur ekki, hvers vegna hún er honum fráhverf, en samt rennir hann grun í rétta samhengið og kemst um síðir að því. Hann fær bráðum mikla ást á frúnni, sem er bæði fríð og ung og góð, og þó undarlegt megi heita, þar sem hún er honum þetta fráhverf, þykist hann samt fullviss um, að úr þessu muni rætast. Og hamingjan bregðst honum heldur ekki í þetta skifti. Á útreið, sem frú Finndal er boðin í af Jósafat, dettur hún af baki og meiðist töluvert. Læknirinn, sem er með í skemtiferðinni, kemur henni heim, fær að annast um hana, og hugur hennar mýkist smámsaman, þangað til henni verður ljós fúlmenska Jósafats. Hún hefir aldrei ætlað sér að giftast honum, enda er hún honum næsta frábrugðin að eðlisfari og hefir óbeit á öllu hans braski. En hann hefir sýnt henni mikla hugulsemi, og þess vegna þykist hún verða að sýna honum vinsemd og velvild. Hún gengur jafnvel svo langt að fela

honum forræði fjár síns. En þegar hún nú sér, hvernig hann fer með kerlingartetrið hana Grímu, og að hann ver fé sínu, á sama hátt sem öðru fé, til þess að féflétta aðra og græða óhófsamlega, opnast augu hennar til fulls, og hún fer til Gunnsteins að leita aðstoðar hans. Og hann verður henni mikil hjálparhella bæði gegn Jósafat og líka á annan hátt. Hann bjargar henni sjálfri, syni hennar og vinstúlku úr brunanum, og kemur hann fram hér sem hin mesta hetja.

Saga þessi er þannig ein prédikun út af boðorði Jóhannesar postula: »Þér elskaðir, elskum hver annan«. Við eigum allir að lifa í sambýli. Við getum meira að segja ekki, þótt við vildum, slitið okkur úr sambandinu við aðra. Og þetta samband, þetta sambýli nær út yfir gröf og dauða. Gunnsteini finst hann sjálfur standa í sambandi við æðri völd; það eru þau, sem gefa honum þessa öruggu vissu. En hann er dulur og minnist ekki á þetta við nokkurn mann. — Við dánarbeð Jósafats stendur draugurinn, sem einatt hefir elt hann, og ógnar honum með, að hann verði í sambýli við sig hinu megin, eins og hann hefir hingað til verið í lífinu. — Og Sigurður litli, sonur frú Finndal, sem hefir megna óbeit á Jósafat (eins og títt er um börn, að þau hafi ósjálfráða óbeit á sumum mönnum), en aftur á móti hefir hið mesta dálæti á lækninum, lifir í sífeldu sambýli við Lilla bróður sinn, sem er »fyrir handan tjaldið«. Þessi dularfullu fyrirbrigði, sem hafa sést í seinustu bókum skáldsins, hneyksla suma menn. En það er engin ástæða til að hneykslast. Þetta er trú skáldsins, sem er eins og önnur trú. Ekki rýrir Ásatrúin listagildi eddukvæðanna, né Múhameðstrú listagildi »þúsund og einnar nætur«. Og skáldið heldur engan veginn trú sinni að okkur, því hann segir ekki frá neinu, sem hefir ekki oft og einatt komið fyrir og hver maður getur skýrt eftir vild.

Og jafnframt er sagan prédikun á móti eigingirninni, sem skáldinu finst, að komi svo átakanlega í ljós í braski því, sem einkennir einkum þessa síðustu og verstu tíma — einnig hér. Höfundurinn lætur Jósafat lýsa þessari brallara- og gróðagirnisstefnu — óbeinlínis svo sem skáldi sæmir — með því að v e r j a hana gegn mótbárum frú Finndal. Jósafat segir m. a.: Ef menn fengju ekki fé fyrir hyggindin, vitið, þá græddu þeir aldrei neitt . . . . . Viljið þér þá engan gróða, frú Finndal? Allur gróði er fenginn með því að hafa af öðrum . . . . . Það er alt rangfengið, ef þér viljið leggja á það einhvern himneskan mælikvarða. . . . . Hvernig

farið þér annars að lifa af efnunum, sem þér hafið fengið eftir manninn yðar? Hvernig haldið þér, að þau séu undir komin? Hann byrjaði bláfátækur eins og eg. Hann dó auðugur maður. Hvernig haldið þér, að hann hafi fengið efnin? . . . . . Hann fekk þau með því að kaupa alla hluti svo ódýrt og selja alla hluti svo dýrt, sem honum var unt . . . . Hann fekk þau með því að sjúga alt af dálítið meira en yður mundi finnast, að honum hafi borið, út úr hverjum manni, sem hann átti viðskifti við«.

Hefir skáldið hér gripið á kýlinu, »tekið vandamál til umræðu«, sem reyndar mun erfitt úr að leysa, nema mönnunum lærist að lifa í sambýli hverir við aðra, eins og Einar Kvaran hugsar sér það. Nokkuð mætti þó gera að því að stemma stigu fyrir braskinu eða takmarka það með lögum (sbr. kenningar Henry George), og engin efi er á því, að eitthvað mun gert til að bæta úr þessu misrétti að ófriðnum loknum.

Sambýli er tímabær bók, bók með göfugum hugsjónum, bók með boðskap til okkar allra. Hafi skáldið beztu þökk fyrir hana.

Að nokkru leyti er lík stefna í sögunni Jón á Vatnsenda eftir Sigurð Heiðdal, sem fór svo laglega á stað með Stiklur í fyrra vor. Jón á Vatnsenda er í sagnasafni (eða kafli úr sagnaflokki?), er höfundurinn kallar **Hræður** (Rvík. 1918 Félagið »Hlynur«). Hún er um tvo menn, sem sýnast og líka þykjast vera andstæðingar, þá Jón bónda á Vatnsenda og síra Einar á Stóruvöllum. Það er líka töluverður munur á þeim. Jón er framfaramaður mikill og hefir komið á mörgum umbótum á jörð sinni og búi og er alt af að viða að sér nýjum og nýjum verkfærum og öðrum áhöldum. Altaf er hann á undan öðrum, enda er hann oddviti í sveitinni. Þetta vekur talsverðan úlfaþyt í sveitinni. Margir eru íheldnir og líta tortrygnisaugum á þessi fyrirtæki hans, skoða þau hégóma einn, og halda að Jón muni einhvern tíma kafna í skuldasúpunni, því að kostnaðarsöm eru þau. Aðrir öfunda hann og þola honum illa að vera höfði hærri en allur lýður. Hann gengur einnig á undan á andans sviðum; hann er sjálfur mentaður og víðlesinn og gengst fyrir að breiða út kunnáttu og mentun meðal sveitarmanna. Hann stofnar m. a. lestrarfélag og safnar mörgum mönnum í það, og þegar dofnar yfir því, stofnar hann glímufélag, sundfélag, söngfélag. En mentun hans hefir gert hann að fríhyggjumanni og fráhverfan kirkjunni. Finnur hann þar helzti mikið af kreddum, er standa hollri þróun mannkynsins fyrir

þrifum, og hræsni. Engin furða, þó þeim lendi saman Jóni og séra Einari.

Presturinn er ungur og vandlátur klerkur, nýkominn í brauðið, og ætlar sér að vekja söfnuðinn úr deyfðinni, er hvílir yfir honum í kirkjumálum og trúmálum. Í því efni geta kenningar Jóns ekki verið honum nema Þrándur í götu. Og presturinn mætir samt nógu mikilli mótstöðu í baráttu sinni við gamlar óvenjur og ósiði. Honum er vorkunn, þó hann ráði ekki við gamla saurlífismanninn Hallgrím með tveimur frillunum. En heldur ekki í öðrum málum verður honum mikið ágengt; hann er of grunnhygginn og auðtrúa, er enginn mannþekkjari, og auk þess fer hann alt of geyst. Hann ræðst allóþyrmilega á dans unga fólksins í lestrarfélagi Jóns, og þó er hann eiginlega enginn oftrúarmaður og heldur ekki sérlega fastheldinn við gamlar kreddur, getur t. d. vel slakað eitthvað á helvítiskenningunni.

Gallinn er sá, að þessir tveir menn, sem hvorugur vill nema það, sem gott er, eru andstæðingar. Þeir ættu að vera samherjar. Misklíð þeirra hvílir á misskilningi einum. Jón er meira kristinn en hann þykist vera, og ofsinn og mótstaðan blinda augu prestsins. Í raun og veru laðast þeir hvor að öðrum undir niðri. Alt hefði ef til vill farið vel með þeim á endanum, hefðu ekki verið menn til í sveitinni, sem þurftu á þessari misklíð að halda til þess að koma sínu fram. Þessir menn, einkum Hallgrímur á Bergi og Jón ráðsmaður, eru vinir hvorugra og reyna að eins að koma sundrungu á stað. Og þeim tekst það vonum framar. Undirróður þeirra kemur fullum fjandskap á stað í milli þeirra; Jón hefir þungað stúlku á prestssetrinu, Margrétu að nafni, en vill komast undan skyldum sínum og mútar öðrum manni til þess að ganga við faðerninu, og jafnframt tekst honum að sannfæra síra Einar um sakleysi sitt. Margrét hefir — sumpart af hræðslu við prestinn — leitað á náðir Jóns á Vatnsenda. Jón tekur málstað hennar gegn ráðsmanninum, en prestur málstað Jóns ráðmanns. Og kemur nú svo, að Jón fær það álit á síra Einari, að hann sé mikill níðingur og hræsnari, en prestur heldur, að Jóni gangi að eins til hatur til sín og góðra siða, og álítur hann sér mestan Þránd í götu í helztu áhugamálum sínum. Reyndar dofnar smámsaman nokkuð yfir þessum fjandskap; þeir mætast jafnvel eftir nokkurn tíma til samvinnu á ýmsum sviðum, en mikill kali helzt þó með þeim um mörg ár. En börn þeirra, sonur Jóns og dóttir síra Einars, draga sig saman og trúlofast á laun; þora ekki að láta þetta uppskátt

við feður sína. Smámsaman breytist nú hugarfar prests, lund hans mýkist — þó fyrst eftir megnar efasemdir og hugarkvalir, sem koma sálu hans í mikið uppnám. Hann kemst að þeirri niðurstöðu, að Hallgrímur, sem dáinn er í syndum sínum, sé »líklega einhversstaðar á öræfunum í guðsríki. — Í guðsríki? — Já. Í guðsríki. — Alt var auðvitað í guðsríki«. Og þó hefir hann komist að undirferli hans og Jóns ráðmanns við sig.

Bruni — einkar vel lýst — á prestssetrinu verður til þess að sætta Jón á Vatnsenda og síra Einar. Jón kemur á síðustu stund og bjargar prestsdætrum og fær sjálfur töluverð brunasár. Einnig presturinn hefir skaðbrenst nokkuð, og verður þeim nú báðum komið fyrir í þinghúsi hreppsins, og þar »bræða þeir sig saman í bælunum«. Misskilningurinn hverfur. Jón er betur kristinn en flestir, sem telja sig kristna, og fer líka að skilja betur, að hann hefir verið helzti ranglátur í garð kirkjunnar og prestanna, og presturinn kannast við að hafa verið of fljótfær og ógætinn í mörgu. Undir niðri hafa þeir altaf verið vinir, og munurinn á þeim er ekki eins mikill og sýnist: » . . . að innanverðu erum við furðu líkir«, segir prestur. »Já, og það hefðum við átt að sjá fyr, síra Einar«.

Fleira þarf ekki að taka fram til þess að sýna, að það er mikill skyldleiki með andanum í þessari bók og andanum í Sambýli og öðrum skálditum Einars Kvarans. »Ef nokkrir menn eru í raun og veru vondir«, segir síra Einar, og er það eins og Álfhildur frá Sálin vaknar væri hér komin sjálf og talaði. Enda væri nú ekki sérlega merkilegt, þó yngra skáldið hefði orðið fyrir einhverjum áhrifum frá eldri starfsbróður sínum. En Jón frá Vatnsenda er þó engin stæling, heldur sjálfstætt frumrit; enda sýndi Sigurður Heiðdal sjálfstæðar skáldsagnagáfur þegar í Stiklum, einkum í gamansögunni Halastjörnunni, þar sem kom fram gamansemi, sem annars er svo sjaldgæf í íslenzkum bókmentum. Ætti skáldið að leggja meiri rækt við þann ritnátt. Íslenzkar bókmentir eru helzti alvöruþrungnar, og þó að íslenzkir höfundar bregði alloft fyrir sig allnöpru háði, er gamansemi (humor) afarsjaldgæf. En alvara og gaman eiga vel saman; ekki hégómi og innantómt glt, en meinlaust gaman, sem jafnframt lýsir samúð höfundarins með persónum sínum.

Sigurður Heiðdal er ekki eins mikill listamaður og Einar Kvaran, en þó er hann furðu langt kominn. Mál hans er lipurt og tilgerðarlaust, alt orðfærið eðlilegt, mannlýsingar góðar og öll samsetning sögunnar góð og skipuleg. Skal það sérstaklega tekið

fram, hve vel það tekst höfundinum að segja óhlutdrægnislega frá. Fá báðir aðalmenn yfirleitt að njóta sín, án þess að hallað sé á skoðanir annars hvors.

Eg hef notað orðið prédikun í sambandi við bækur þær, er eg nú nefndi. En það er ekki svo að skilja, að hér sé um nokkurn væminn prestavaðal að ræða eða fortalnamærð. Það er talað og rökrætt allmikið í þessum bókum, en þó ekki svo að það spilli listagildi þeirra. Skoðanir höfundanna koma glögglega í ljós, en óbeinlínis; öllu er komið fyrir á eðlilegan hátt samkvæmt öllum listreglum. Samræðurnar verða engan veginn þreytandi, þvert á móti eru þær skemtilegar aflestrar, og fjörlausa kafla er hvergi að finna, nema ef til vill í fyrstu köflum »Jóns á Vatnsenda«.

Jóni Trausta — öðru mesta sagnaskáldi Íslendinga nú orðið — hefir stundum verið borið á brýn, að honum væri nokkuð gjarnt á það að láta persónur sínar prédika helzti til mikið. Það er nokkuð til í því. Skáldið ber svo mikið í brjósti sér, að honum verður stundum á að halda skoðunum sínum svo fast að lesendunum, að orðfæri og listagildi bóka hans rýrist við það. List Jóns Trausta er heldur ekki falin í djúptækri sálarþekkingu, í skarpheyrn, heldur í skarpskygni. Hann sér betur en hann heyrir, enda er hann gæddur allmiklum hæfileikum til myndalistarinnar. Margar persónur í sögum (einkum sveitasögum) hans standa með skýrum dráttum fyrir hugskotssjónum lesandans löngu eftir lesturinn. Jóni Trausta lætur einkum að lýsa einkennilegum og mikilfenglegum mönnum, sem eru gæddir einbeittum vilja eða hafa skoðanir, er þykja frábrugðnar skoðunum lýðsins, eða þá einkennilegum ræflum, er lifa á skuggahlið tilverunnar. Að sumu leyti er Jón Trausti eins konar íslenzkur Charles Dickens — mutatis mutandis.

**Bessi Gamli**, gamansaga úr Reykjavík (Rvík 1918. Útg. Þorsteinn Gíslason) afneitar ekki uppruna sínum. Hér er prédikað enn þá meira en í fyrnefndum bókum og víða beinlínis, öll framsetningin miklu hugrænni. Það ber jafnvel meira á þessum einkunnum í þessari sögu en í fyrri bókum höfundarins. Þar sem nú þetta alt er alment talinn ókostur á skáldsögu, skyldu menn halda, að þessi saga væri lélegasta bók höfundarins. En svo er þó eigi. Jón Trausti kallar bókina gamansögu, en saga í eiginlegri merkingu orðsins er hún ekki. Höfundurinn hefir ekki skeytt um að semja reglulega sögu í þetta skifti, hefir óskað að hafa frjálsar hendur. En hann hefir notað söguformið, af því að það lætur honum bezt; enda myndi hrein hugvekja eða blaðagreinir

ekki hrífa eins og saga. Það ber því ekki að dæma þessa bók sem sögu eða að bera henni á brýn hitt og þetta, sem á miður vel við í reglulegri sögu. Annað mál er að mér lízt betur á fleiri önnur ritverk skáldsins. Skal eg þar til nefna söguna Sýður á keipum (í »Tvær gamlar sögur«), sem bæði að því, er til orðfærisins og mannlýsinganna kemur, ef til vill er bezta saga skáldsins, og hið gullfallega kvæði Konan í Hvanndalabjörgum (í Iðunni 1917), og vildi eg heldur kjósa fleiri þess konar sögur og kvæði frá hans hendi. En samt er Bessi gamli allmerkileg bók. Tekur höfundurinn alvarleg mál til umræðu og lýsir ágætlega ýmsum viðburðum og mönnum.

Bókin er aðallega ádeila, árás á lítt hugsaðar umbótarstefnur, svo sem jafnaðarkenningar jafnaðarmenskunnar. Í grein Bessa gamla »Upp með dalina, niður með fjöllin« er dregið dár að þessari kenningu, sem er líka mjög svo heimskuleg. Frelsi og bróðerni; það er alt annað. Þau eiga reyndar oft erfitt uppdráttar, en þó ber að keppa að þessum hugsjónum. En jöfnuður út í yztu æsar er óeðlilegur og lítt eftirsóknarverður. Í þessari grein er allnapurt háð og kímni, sem verður þó stundum of áþreifanleg. Það er enn fremur ráðist á atvinnu-pólitikina, ónýti stjórnmálamanna, lélega blaðamensku, agaleysi barna og bannlögin og ólöghlýðnina við þau o. m. a. Bessi heldur fram öflugu einveldi og öðrum íhaldsskoðunum. En þó að hann segi margt gott og eftirtektavert, þá er mér þó nokkur efi á því, hvort það sé eiginlega íhaldssemi, sem vantar á þessu landi, jafnvel þó menn hér stundum fari nokkuð geyst og ógætilega á sumum sviðum.

Sá, sem segir frá, er ungur háskólagenginn maður, sem í Kaupmannahöfn hefir verið snortinn nokkuð af jafnaðarmenskunni og hefir nú tekið við ritstjórn jafnaðarmannablaðs í Reykjavík. Hann verður þó bráðum hálfleiður á þessu starfi, sér tómleikann í því öllu og öllum dutlingum lýðsins; vill þó ekki kannast við það við vin sinn Björn Sigvaldason, sem einatt er að stríða honum sakir þessarar stöðu hans. Hann þolir þó Birni þetta, einkum af því að hann ann systur hans, enda er Jón í raun og veru ágætur maður. Björn kemur honum í kynni við Bessa gamla, móðurbróður sinn, og hugur hans og skoðanir breytast smámsaman fyrir háð og fortölur gamla mannsins. Áður hefir hann þó litið alt öðrum augum á karlinn, skoðað hann sem argasta andstæðing sinn. En í veizlunni á skipinu fær hann nýtt álit á honum, og sagan endar með, að hann lætur af ritstjórn og kvænist Sigríði Sigvaldadóttur,

systurdóttur hans, og verður fyrstur manna aðnjótandi ferðastyrks úr sjóð, sem Bessi gamli gefur landinu eftir sinn dag.

Þessi Bessi er merkilegur maður og einkennilegur. Hefir margt drifið á daga hans. Hann er mjög lærður maður og víðförull og nafnkunnur bæði utan lands og innan. Hann skrifar margar lærðar ritgerðir á ýms mál, en líka um »framfarabrauk« og »frelsisgaspur«. Vitaskuld afla þessi skrif honum megnrar óvildar allmargra manna heima, sem skilja hvorki skoðanir hans né tilkomu í vísindalegu tilliti. En hann kærir sig ekkert um það; hann er nógu auðugur til að vera ekki háður neinum. Aftur á móti er mörgum alþýðumönnum skemt með þessum skrifum. Hann er einrænn og sérlundaður og ómannblendinn; hins vegar er hann mesti fjárhyggjumaður, verður meðeigandi og meðstjórnandi í botnvörpungafélagi og stórgræðir á þessu. Í raun og veru er hann framfaramaður; íhaldsamur er hann að eins í stjórnmálum, heldur, að það sé bezt, að einn ráði eða fáeinir duglegir og vill leggja þingið niður. Og víst er það, að mannkynið verður að finna betra stjórnarfyrirkomulag en meirihluta-fyrirkomulag það, sem nú er uppi. Að taka upp einveldið aftur myndi þó varla óskaráð. Það var oft og tíðum mesti gallagripur, en myndi nú enn fremur reynast alveg ófullnægjandi í okkar samsettu mannfélögum. En sennilega er þetta heldur ekki skoðun höfundarins sjálfs, enda þótt Bessi virðist yfirleitt tala fyrir munn hans. Bessi er aðalpersóna sögunnar, og er sagan aðallega ræður hans, og það, sem Björn segir, er bergmál af skoðunum hans. En það, sem bezt er við karlinn, er föðurlandsást hans og áhugi á velferð þess, sem hann sýnir m. a. með því að gefa Íslandi eigur sínar eftir sinn dag. Þó hefir lýsingin á Bessa ekki tekist vel. Er hann of samsettur, til þess að sálarþekking höfundarins ráði við hann.

Önnur persóna, sem kemur allmikið við söguna, er S o k k i, kostuleg skopmynd. Mesti sæmdarkarl, en ekki gáfaður, og hefir hann tekist miklu betur, er meira að segja jafnvel einfaldur í meira lagi. Þrátt fyrir það — eða öllu heldur einmitt af þeirri ástæðu — þjáist hann af einhverri stjórnmálaástríðu. Er sískrifandi í blöðin, gefir út smákver um landsins gagn og nauðsynjar, býður sig fram við hverjar kosningar, en fellur alt af. Þá eltir hann þingmennina til Reykjavíkur og sezt að á Alþingi sem eins konar auka-þingmaður og hlustar á allar ræðurnar. Hann heldur, að það nægi til að vera þingmaður að vera meðalmaður og gera sama sem flestir, og er sú skoðun eigi óalgeng.

Hefir höfundurinn hér skapað nýjan »politisk kandestøber« (Vefara með tólf kónga viti), sem flestir menn kannast við. Sumpart hefir höfundurinn haft sérstaka »lifandi fyrirmynd«. Sokki verður á endanum ritstjóri »Alþýðublaðsins«, sem um leið verður málgagn bænda.

Ágætar eru einnig lýsingarnar á samsætinu í skipinu, á ýmsum mönnum, sem bregður fyrir þar, á ræðunum, sem haldnar eru þar, á ofdrykkjunni, á áfengisinnsmygluninni o. fl.

Axel Thorsteinsson er hugsæismaður eins og fyrnefndir höfundar, en bjartsýnn er hann eigi eins og Einar Kvaran og Sigurður Heiðdal, jafnvel ekki eins og Jón Trausti, sem er reyndar stundum nokkuð efunargjarn að því er til sums kemur, sem alment er álitið gott og blessað, en þó er alls ekki bölsýnn. Þó er Axel Thorsteinsson eiginlega ekki svartsýnn, heldur öllu fremur angurvær. Það hvílir angurværðablær yfir flestum sögum hans. Það er líka annað einkenni á þessum höfundi. Hann er ekki að eins hugsæismaður, hann er líka nokkuð rómantiskur. Það stendur í sambandi við það, að hann er meira ljóðskáld en hinir, þó að honum hafi hingað til tekist betur að semja sögur en að yrkja kvæði. Það er eins og eitthvað óverulegt, en yndislegt og aðlaðandi við sögur þessa skálds.

**Börn dalanna**, Nokkrir söguþættir I—II (Rvík. 1918 Bókaverzlun Ársæls Árnasonar), marka mikla framför í ritstarfi skáldsins. Hér eru tvær sögur, sem þó standa í nokkru sambandi hvor við aðra, gerast í sömu sveit og á sama tíma.

Þegar Högni litli dó (þáttur úr sögu fólksins á Sólbakka) er lítil, látlaus saga um lítinn gáfaðan dreng, sem dreymir um að verða duglegur smiður eins og faðir hans og gleðja foreldra sína og systkin með að búa til ýms smíði og gefa þeim. En draumarnir fá voveiflegan enda. Litli drengurinn ofkælist í þokunni, meðan hann er að sitja hjá, og deyr úr brjósthimnubólgu. Er hann öllum harmdauði. Sagan er bæði átakanleg og gullfalleg. Einkum er snotur lýsingin á kvíða og dapurleika heimamanna, meðan Högni liggur veikur. Náttúrulýsingar eru yndisfagrar.

Hin sagan heitir Neisti — og kemur Sólbakkafólkið nokkuð við hana. Neisti er nafn á hesti, sem verður til þess að færa tvö ungmenni saman. Það vill þó svo til — til allrar ógæfu —, að þau eru hálfsystkin, og þau verða að skilja.

Ástríður á Fosstúni er gift Högna, en hefir áður elskað Gunnar í Svartárkoti, og Böðvar er sonur þeirra og ekki Högna. Hún

hefir ekki þorað að giftast Gunnari af því, að hann er fátækur, og gerir bæði hann og sjálfa sig óhamingjusöm. Högni er kaldur og rólyndur, en góður maður og gerir henni alt til geðs, og Böðvari er hann hinn bezti faðir, enda veit Böðvar ekki betur, en að hann sé það. Ástríður hefir ekkert sagt honum af þessu, er einatt að draga það á langinn, þvert á móti ráðum bónda síns. Gunnar hefir kvænst Ingibjörgu, og hafa þau eignast eina dóttur: Unni. Hjónabandið er mjög óhamingjusamt. Skuggar fortíðarinnar skyggja á það. Gunnar getur aldrei gleymt Ástríði, og Ingibjörg, sem ann Gunnari, þjáist af afbrýði; en Unnur er þeim báðum ástfólgin.

Þau Ástríður hafa reynt að koma í veg fyrir, að þau hálfsystin, Böðvar og Unnur, finnist og kynnist. En forlögin vilja það öðruvísi. Neisti, hesturinn sem Högni hefir keypt handa Böðvari, strýkur til átthaga sinna einn góðan veðurdag, og Böðvar fer sjálfur að Svartárkoti að sækja hann og kynnist þar með Unni. Þau Gunnar og Ingibjörg farast í jarðskjálfta, og Unnur flytur sig til Sólbakka-fólksins. Þau Böðvar finnast nú á laun og trúlofast á laun. En þegar foreldrar Böðvars fá veður af því, verður Ástríður að segja honum hið sanna, nú er engin undankoma lengur. Böðvar örvilnast, en Unnur vill ekki sleppa honum. »Það getur ekki verið vilji guðs, Böðvar«, segir hún, »að uppræta ástina úr brjóstum okkar. Heldurðu, að hann hafi tendrað hreina, heita og falslausa ást í brjóstum okkar, til þess að láta afbrot annara ræta hana upp?« En Böðvar þorir ekki að kvongast henni, þó hún ögri honum með heigulsnafninu. Það er heldur ekki auðséð, hvernig hægt yrði að framkvæma slíkt hjónaband. Lögin banna það, og það er að búast við því, að þau Högni og Ástríður hefðu ekki þagað. Böðvar fer út í heiminn til þess að deyfa sorg sína, hann er orðinn bölsýnismaður og hefir mist trúna á guð. Og Unnur situr eftir.

Það er hrygðarsaga og ekki alveg ný í íslenzkum bókmentum (sbr. »Upp við fossa« eftir Þorgils gjallanda). Hið eina nýja er það, að Unnur vill giftast Böðvari þrátt fyrir alt. Það, sem gefur sögu þessari sitt gildi, er yndisblær sá, sem hvílir yfir henni, yfir þeim mörgu fögru náttúrulýsingum, yfir lýsingunni á samdrætti þeirra Böðvars o. s. frv.

Mannlýsingar eru og flestar ágætar. Einkum þykir mér mikið til Högna koma. Böðvar segir um hann, er hann veit, að hann er ekki faðir hans: »Eg ann honum sem föður. Hann verður aldrei annað í mínum augum. Eg mun alt af kalla hann föðurnafninu.« — Unni er einnig vel lýst. Hún er barn náttúrunnar, saklaus og

látlaus. Þegar hún óvart sér Böðvar nakinn á sundi í Svartá og á hlaupi með fram henni, kemur henni ekkert ljótt í huga, og hún verður ekki sérlega feimin. Enda segir Gunnar við hana: »Þú þarft ekki að hugsa, Unnur mín, að það sé neitt ljótt í því, þótt þú hafir séð hann nakinn. Það er ekkert óhreint við það. Ef um eitthvað óhreint er að ræða, þá er það frá okkur sjálfum. Þá er sál okkar ekki hrein, hugsunarhátturinn spiltur. Fagur líkami er hið allra fegursta af öllu því fagra, sem guð hefir skapað.« Nokkuð ófimlega komist að orði. — Hefir skáldið lesið »Gertrude Coldbjörnsen« eftir Erik Skram (6. k.), þar sem hugsunin er fimlegar orðuð?

Annars er eitthvað í sögu þessari, sem helzt minnir á sumar sögur Björnstjerne Björnson, nema að norska skáldið notar sterkari liti og skýrari strik. Axel Thorsteinsson er linari. En bæði er blærinn í Neista mjög svipuð þeim, sem er á sögum Björnson, og minna lyndiseinkunnir ýmsra persóna einnig á ýmsar persónur í sögum norska skáldsins.

Axel Thorsteinsson er nú kominn í skáldasessinn. Mikils má vænta af honum — ef Ísland fær hann aftur úr heljargreipum.

**Gunnar Gunnarsson Smaa Historier.** Ny Samling. (Gyldendalske Boghandel 1918). Um Gunnar Gunnarsson er það að segja, að hann getur naumast lengur talist íslenzkur höfundur. Það er ekki það eitt, að hann skrifar sögur sínar á dönsku og verður að láta aðra þýða þær á íslenzku. Andinn í sögum hans er yfirleitt ekki íslenzkur. Það er svo margt, sem kemur Íslendingum, og þeim sem þekkja til þeirra, eitthvað svo kynlega fyrir sjónir. Það getur nú reyndar verið, að sumt af því, sem menn hér (í Reykjavík og víðar) kannast ekki almennilega við, sé austfirzkt, eins og Sigurður Guðmundsson magister hefir bent á. En með því er ekki alt skýrt. Í þessum smásögum get eg ekki fundið neitt, sem gæti ekki eins vel verið danskt, að nöfnunum undanskildum. Er það þess vegna að höfundurinn notar íslenzkar nafnamyndir? Þykja mér þær nokkuð óþægilegar í danskri bók og auk þess óhentugar.[1]) Ef við breytum mannanöfnum og staðarnöfnum, verður afarlítið íslenzkt eftir. Getur verið, að lyndiseinkunnir skip-

---

[1]) Danir geta fæstir borið rétt fram önnur eins nöfn og Runki, Sæmundur, Sigmundur, Jón, Snóksdal, Hafliði; munu eflaust segja Rúnki, Sæmúndúr, Sígmúndúr, Jön, Snukksdal, Hafflídí. Það nær heldur engri átt að nota þágufallið Hamri í danskri bók.

